# SNORRA-EDDA

ÁSAMT

# SKÁLDU

OG

## ÞARMEÐ FYLGJANDI RITGJÖRÐUM.

EPTIR GÖMLUM SKINNBÓKUM

ÚTGEFIN AF

R. KR. RASK.

PRÓFESSÓR OG ÖÐRUM BÓKAVÖRÐ KAUPMANNAHAFNAR HÁSKÓLA.

STOCKHÓLMI 1818,

PRENTUÐ Í HINNI ELMÉNSKU PRENTSMIÐJU.

# Hávelbornum

## Hra Greifa

# JAKOB De-la-GARDIE,

General-Majór, Kaptein-Löjtnanti vid Kóngligrar Hátignar Líf-Drabanta-Fylkíng, Kóngligu orðunnar Skattmeistara, Kommandör af Norðrstjörnuorðunni, Riddara af Karls 13:da og Sverðsorðunni.

Yðar nafnfrægu forfeðr hafa tvisvar skeinkt Svíaríki þá gömlu bókfellseddu at Uppsölum, sem hèr meðal annarra er lögð til grundvallar, og Yðar Hávelborinheit sjálf í þriðja stað hafið auðsýnt mèr óþecktum og útlendum svo mikla og dýr-

mæta velvild, að þessi útgáfa mundi annars aldrei útkomið. Þèr munuð þarfyrir vissuliga með velþóknun sjá Eddu nú á prent útgeingna, og fyrirgefa þó eg dirfist að prýða hana með yðar háa nafni, svo sem til at mæla fram með minni veiku viðleitni.

Stockhólmi þann 13. Febr. 1818.

Auðmjúkligast,

R. Rask.

## TIL LESENDANNA.

Svo er mart og mikið um Eddu ritað, og ecki sízt um þessa svo kölluðu Snorra-Eddu, að mèr er harla lítið eptirskilið þarum að tala, því óþarfi lízt mèr að rekja hèr allar ransóknir þeirra Schlötzers og Ihra, Adelúngs og Nýerúps s. fl. um þetta þrætuepli lærðra manna, eigna èg mèr og einúngis það að hafa orðið fyrstr til að leiða sjálfan textann í ljós óskertan og óbreyttan eptir gömlum kálfskinnsbókum. Samt get èg ecki svo fleygt Eddu minni út í heiminn, at èg segi ecki fáein orð um hennar ásigkomulag, um mína forgaungumenn og um mitt egið áform og starf við þessa útgáfu.

Það er þá fyrst at Snorra-edda er augsjáanliga samantekin af mörgum rithöfundum. Hafi Snorri raunar átt nockurn þátt i henni þá þykir mèr líkast, að hann hafi eptir sig látið nockurskonar uppkast af *Gylfaginníngu*, enn ecki endzt til at gefa það út sjálfr. Þetta uppkast hefir þá flækzt í ættinni, og hefir hvörr bætt við af sínum forða eðr af gömlum brotum án þess þó að nefna sig, svo að nú er nærri ómöguligt að greina ámilli þeirra, og eigna sèrhvörjum það er hann í raun og veru á. Höfundr Gylfaginníngar þykir mèr hafa ætlað að útlista guðafræði fornmanna að svo miklu leiti sem siðsemi leyfði. Sá sem ritaði *Bragaræður* hefir ætlað að bæta því við, sem honum hefir þótt vanta, og eigi bundizt að inna klám þat allt, sem hinn fyrsti höfundr sneiddi hjá. Þetta er Snorra-edda eginliga svo kölluð.

Enn af því hèr var einnig sagt frá uppruna skáldskaparins, og hin forna guðafræði yfirhöfuð,

eptir það kristnin var lögtekin, einúngis vegna skáldskaparins var álitin þolandi og verð að þeckja; þá hefir komið þriðja eiganda í hug, að þessi guðafræðibók (Edda) væri ágætr stofn undir skáldskaparfræði, og leitazt við að búa til þvílíka, og aukið þar við enn fleiri goðasögum og kappa, þeirra er skáldin hafa helzt umqveðit. Þetta er *Skálda* sannkölluð, segir þar fyrst frá orðtökum, síðan frá bragarháttum skáldanna, og meina ég Snorri sé að öllu leiti hlutlaus í henni, sumpart vegna þess Bragaræður, sem hann varla hefir getað skrifað, eru ámilli, og hinsvegar af því innihaldid er mikils til of klámfeingið og illa útlistað, sundrgreiníngin og spurníngarnar einnig miklu smásmugligri og hégómligri, og orðfærið miklu miðr vandað, enn von væri af enum viðfræga höfundi Heimskrínglu. Enn seinni partinn, sem geingr í gegnum hans egin qvæði, hefir hann ómöguliga getað skrifað sjálfr, að mér virðist.

Fjórði maðr, Olafr Þórðarson hvítaskáld, þykir hafa verit hræddr mjög að þessi heiðni, er í Skáldu og sérílagi Eddu er innifalin, kynni að trubla nockurn í trûnni, og þar fyrir bætt við *formála* og *eptirmálum*, hann þykir einnig hafa smeygt inn *því um Tróju*, og má-vera hann egi líka töluvert af málslistar-ritunum; þó munu fleiri efalaust eiga þátt í þeim; því á einum stað er vísað til ritgjörðar *Olafs*, sem hann mundi eigi sjálfr hafa gjört með þeim orðum.

Þannig þykir Snorra-edda undirkomin, og sannast hér orðsqviðrinn, því fleiri steikarar þess verri matr; því víst er hvorki guðafræðin né skáldskaparfræðin vel af hendi leyst, enn málslistin þó einna verst. Samt er þat til málsbótar Eddu vorri, að þessi er sú allra fyrsta tilraun á norrænu í öllum þremr vísindum; enn flest frumsmíð stendr til umbóta. Það mælir einnig fram með henni, að hûn er það einasta nærri því, sem við höfum

frá fornöldinni um öll þessi efni: án hennar mundum vèr þeckja lítið til trúarbragða forfeðranna, og án hennar mundi þeirra qveðskapr að miklu leiti eilífliga hulinn fyrir oss. Sæmundar edda er víst ágæt, og ecki ætla èg að jafna þessari við hana, enn hûn er safn af sundrlausum qvæðum um stöku atburði, og höndla varla 15 eginliga um goðin, enda hefir aungu skáldinu til hugar komið að útlista þau in heiðnu trúarbrögðin öll; án Snorraeddu mundum vèr þarfyrir varla þeckja nöfnin á öllum goðum og gyðjum. Enn um skáldskapinn er eckert annað alls af fornmönnum uppteiknað, og mundi án Skáldu uppruni og eginlig merkíng ótal kenninga og heita fyrir laungu töpuð, eins og nafn og lögun margra bragarhátta; enn án þessarar þeckíngar aptr mundi eðli og byggíng þess eingilsaxneska og fornþýzka skáldskapar að líkindum aldrei fundizt hafa. Jón Olafsson lærði frá Svefneyjum lýsti honum fyrst í verðlaunaritinu 1786 um forna skáldskapinn á Norðrlöndum; og var hann þó óþecktr í Einglandi og Þýzkalandi 30 árum seinna, þó skömm sê. Ritgerðirnar um málslistarefnin eru merkiligar vegna innar náqvæmligu aðgreiníngar hljóðanna og vegna höfundarins viðleitni að snua öllum málslistarorðum, þó honum hafi opt mistekizt, af því hann hefir fylgt látínunni blint, og ecki þeckt vel eðli sinnar egin túngu, t. d. þar sem hann kallar *verbum* orð, enn *vocabulum* sögn, sem ætti heldr að vera þvert ámóti.

Svo ófullkomin sem þessi Edda þannig vissuliga er, svo er hûn aungu at síðr dýrmæt og ómissandi, og þótti vel vert að hûn yrði öll útgefin á prent. Þetta hefi èg leitazt við að gera eptir megni; þær Eddubækr og hjálparmeðöl, sem èg þartil hefi þeckt og notað, eru helzt þessi eptirfylgjandi.

1) Kóngs-edda (*K.* Codex Regius), sem fannst

á Dana konúngs bókahirzlu, enn sagt er að nú sè töpuð. Til allrar lucku var þó núverandi Jústizráð og Assessór Isleifr Einarsson áðr búinn að taka mjög náqvæma uppskrift af henni, sem Skúli heitinn Thorlacíus Jústizráð átti, og lèði mèr til uppskriftar, þegar eg gat fyrir honum, að èg ætlaði að gefa hana út. Eptir þessari uppskrift minni er þessi útgáfa prentuð; því Kóngsedda var allra Eddubóka ágætust, þeirra sem þecktar eru, fyrir rèttritunar, niðrröðunar og margra annarra hluta sakir. Enn þar vantaði ritgjörðirnar um málslistina og stycki framan af formálanum.

2) Orms-edda (*O.* Codex Vormianus) á bókfelli, finnst enn í handritasafni Arna-Magnússonar nefndarinnar í Kaupmannahöfn, af henni eignadist èg ágæta uppskrift á Islandi, sem Sra. Gunnar Pálsson hefir átt og skrifað í sínar athugasemdir (*Gunn. P.*) híngað og þángað, enn Sra. Eggert á Ballará gaf mèr hana. Ur henni hefi èg tekit málslistarritin, og það sem vantaði í formálann; enn Rígsmál, sem einnig fannst hèr, enn ecki þótti eiga við þessa Eddu, hefi èg innfært í Sæmundareddu ámeðal goðaqvæðanna í fyrri parti.

3) Uppsala-edda (*U.* sá De-la-Gardieski Códex), á bókfelli finnst í bókasafni háskolans að Uppsölum. Þar skoðuðum við Prófessór Nyerúp hana náqvæmliga 1812 á ferðum ockar; enn um jólaleitið 1816 skrifaði èg upp Gylfaginníng úr henni; af hinu hefi èg brúkað 3 uppskriftir: eina af Sótberg, tilheyrandi Uppsala bóka safni, falliga skrifaða enn hvörgi nærri náqvæmliga, aðra eptir Sótbergs af *J. A. Stecháu*, og ena þriðju af íslenzkum manni eptir sjálfri skinnbókinni, báðar þessar tilheyrandi bókahirzlu Svíakonúngs í Stockhólmi. Sumir lærðir menn hafa álitið Uppsala-eddu fyrir höfundarins egit frumrit; enn mèr virðist þvertámóti auðsèð að hûn er allra

þriggja

þriggja ýngst, og nockurskonar ágrip af hinum. Ræð eg það a) af því hûn hefir margar yfirskriftir, sem hinar sleppa, enn hefðu þær verið í upprunaritinu, hefði vissuliga einginn slept þeim síðan, allrasízt sá sem annars leingdi mál og sögu allvíða; t. d. bls. 13 ath. 6, bls. 19 ath. 5 og víða annarsstaðar. b) Er það allvíða er skrifarinn hefir ecki skilið höfundarins meiníng, sèrílagi hefir hann hörmuliga afbakað vísurnar, t. d. bls. 13 fyrir tvær seinustu hendíngarnar:

Verþr öll va ly
v. einn ok h.?

og bls. 24 efst: örlög manna
Frigg hygg ek at þau viti
þviat henni sjálfgi segir

sem er mesta vitleysa, og víst mun sá hafa betr skilið, er fyrst kom með þær til sönnunar síns máls. c) Hefir hann stytt sjálfan textann ofmikit sumstaðar, svo at meiníngin verðr eingin elligar raung; t. d. bls. 20 l. 15. »*Þat vatn er svá heilagt at allir er þar koma ero svá hvítir*« o. s. fr. og bls. 52 l. 24. »*eða hvárt vakir þú Þór? Hann lézt vera nývaknaðr. Nú ætlar þórr at slá hann 3 sinn, reiðir upp hamarinn af aullo afli ok lýstr á þunnvánganna*« o. s. fr. d) Án margs annars sem er augljósliga misskilið og rángt, og sem sá fyrsti höfundr ómöguliga gat skrifað. Annars er rèttritunin dáindis góð, og bókin vissuligu gömul og merkilig.

4) Sparvenfeldts-edda (*S. Sp.*), sem Kgligr Sekretèri Hammarsköld hefir lýst í því svenska ársriti Iðun. Hûn er á bókfelli, með setletri og meðallagi bundin, enn mjög ný og lítt merkilig, þykir hûn helzt löguð eptir Kóngseddu, þó hûn hafi töluverðan orðamun híngað og þángað, og sèrílagi vísurnar hörmuliga misskildar og rángsnúnar. Rèttritunin er og hèr ein sú lakasta, sem eg hefi fund-

ið í nockurri ísl. bók; titillinn t. d. er hèr á blaðsíðu fyrir sig, og hljóðar þannig. »Hier byrjar þä bök, er edda Heiter, sem er Grundvöllur Og Understada allra þeirra kennijngar-Nafnna Sierhuors hlutar, er Tijdkast i Noræenum Skaalldskap.« Hûn hefir allan Háttalykil, enn eckert af málslistarritunum, eins og Kóngse. Fyrir aptan stendr: Explicit MCDLXI.

M. H. B. S. S. S.

enn sú ártala er opinberliga raung. Bókin öll þykir með einni hendi skrifuð.

5) Ný umsteypt Edda og Skálda í fjögrablaðaformi á pappír, án efa tilbúin af íslenzkum manni í Svíaríki, á kápunni stendr »Gudmund Olai« (því hefi èg kallað hana *G.*) Hûn er sèrílagi tekin úr Uppsala-e. Þó er opt bætt við einu og öðru, einkanliga yfirskriftum. I Bragaræður eru innfærðar allar dæmisögur úr Skáldu, eins og á útgáfu Resens, enn í Skáldu er kenníngum og ókendum heitum samansteypt, svo at fyrst teljast öll heiti Oðins, sem skrifarinn hefir getað upptínt, þarnæst koma vísurnar útaf fyrir sig til dæmis þar uppá o. s. fr. Ameðal þeirra er einnig innsmeygt flestum vísum úr ritgjörðinni um fígúrur í ræðunni. Þarnæst kemr ágripið af málslistarritunum eptir *U.*, og þaráeptir Háttalykill, sem lyktar með 56 erindi »framkló boðnar roðna« eins og *U.* Með G. fylgir og Sæmundaredda í öðru bandi.

6) Stockhólms-edda (*St.*) á pappír í arkarformi inniheldr bæði Snorra- og Sæmundar-eddu, sú fyrrnefnda stendr fremst, og þykir vera hreinskrifuð eptir Guðmundar-e. Þó er með seinni hendi viðbætt því sem vantaði í Háttalykil eptir Sparvenfeldts-e. Við Sæmundar-eddu er sumstaðar látínsk, sumstaðar svensk útleggíng, og mun þetta sú bók, sem kölluð er Cod. Svecus í Hafnarútgáfunni af Sæmundar-eddu.

7) N:r 38 Islandica í arkarformi, ný uppskrift

gerð af íslenzkum manni, inniheldr fyrst brot af Bjarnarsögu Hitdælakappa m. m. Þarnæst Eddu með eptirfylgiandi fyrirsögn: »Hèr byrjar sjálfa Snorra-eddu, svâ sem ec hefi hana styzta sèt, þó af þeim gömlu skrifaða, svâ sem hennar form, inntak eða afdráttr af þeirri sem stærri og fyllri er« byrjar með »Almáttigr guð skapaði« o. s. fr.

8) N:r 10 Islandica í fjögrablf. gamalt og illa skrifað qver, sem inniheldr a) Björns-Jónssonar á Skarðsá samtak um Runir b) Snorra-eddu, sem hèr byrjar þannig »Hvad er Edda? Edda er ein íþrótt af forndictudum fródra manna dæmesögum« o. s. fr.

9) N:r 5, 2. í áttablf. Þykir koma mjög saman við Resens útgáfu, og byrjar þannig: »Edda er íþrótt ein af forndiktudum o. s. fr. Framan fyrir stendr: Þetta kverkorn á eg Gudmundr Bjarnarson, hvörtt ad eg hefe mier tilbued ad Skálhollte Anno 1654. 14 Dec. Aptan við finnst Völuspá og seinast stendr: *Stephanus Jacobi Spodsbjergio-Langlan-danus.* Allar þessar (4—9) tilheyra Bókahirzlu Svíakonúngs, og hefi èg mjög lítt notað þær 3 síðust nefndu af því þær eru svo nýar, enn minn tilgángr var að gefa Eddu eins og höfundirnir hafa viljað, eðr svo nálægt því sem möguligt.

10) Enn verðr að geta þess að á bókasafni Arna Magnússonar nefndarinnar finnst Eddubrot á bókfelli (Nr. 748 í 4:ra-blf.), sem eg hefi ecki brúkað við þessa útgáfu.

11) Hefir Jón Olafsson frá Grunnavík gjört merkiliga uppskrift af Orms-e. og bætt þar við öllum orðamun úr *K.* Þaraðauki hefir hann tilbúið lat. útlegging og útskíring yfir Snorra-eddu (eptir *O.* og *K.*) í 5 bindum í arkarformi, finnst þetta allt á turni í Kaupmannahöfn. Víst mun hèr geta feingizt hjálp í einum og öðrum vandræðum, enn mèr

hefir það verk þótt ógnarligra enn svo að eg gæti nockurntíma ráðizt í að lesa það.

A ferðum mínum í Islandi fann eg pilt í Hrútafirði, sem sagðist eiga Eddu (eðr Skáldu) mjög ödruvísi enn annars, og lofaði fyrir aftalaða silfurpenínga að senda mèr til Hafnar uppskrift af því helzta, sem í henni var sèreiginligt, af því hann hafði hana ecki þá við höndina: einnig prest fyrir vestan (í Hvammi ef rètt man), er sagðist vita mann þar nálægt, sem ætti mjög svo gamla Eddubók, enn sem hann mætti ecki nefna, af því eigandinn vildi einganveginn missa hana; samt sem áðr lofaði hann að gefa mèr uppskrift þaraf, enn eg skyldi senda honum þarfyrir þá í Höfn prentuðu Sæmundareddu alla, svo og mína egin Snorraeddu þá búin yrði. Af þessu hvorutveggja hefir eckert síðan mèr til handa komið; eg get því ecki heldr um það dæmt, enn hefi þó viljað nefna það hèr, ef einhvörjum öðrum mentavin kynni betr að takast.

Að lýsa enum gömlu handaritum og Snorraeddu ásigkomulagi náqvæmligar væri hèr óþarfi, fyrst það er áðr af lærðum mönnum svo vel af hendi leyst: tel eg til þess *Ihres Bref til Lagerbring rörande den Isländska Eddan*, sem er útlagt á þýzku og innfært í *Schlötzers Isländische Litteratur und Geschichte*, *Ihres Bref om Edda*, sem er svar uppá Schlötzers mótmæli; innfært í *Troils Bref rörande en Resa til Island* 1772 og sèrílagi *Nýerups* ritgerð um Eddu í Skandinaviska fèlagsins ritum, samt *P. E. Müllers* og *F. Magnússonar* smárit um Eddu og ina fornu guðafræði og skáldskap, eins og fleiri önnur helzt stríðsrit um Eddu, sem hèr yrði oflángt og tilgángslaust að telja.

Eptir er enn þá að nefna þá, sem fyrr enn eg hafa feingizt við að útgefa Snorra-eddu, er þar fyrstr *J. Resen*, sem leiddi í ljós sína útgafu með útleggíngu

á lát. og dönsku í fjögrablf. 1665 í Kaupmannahöfn. Um hana segir Schlötzer að hûn sè ágætt munstur, hvörnin maðr egi ecki að gefa út bók, þar er laung tileinkun og formáli um hina grizku heimspeki o. þessh. enn textinn framm-úr öllu lagi illa prentaðr med ꝏ̊, ꝍ̊, fyrir á, ó, o. s. fr. Skáldu er hèr öldúngis umsteypt, sögurnar samanfluttar, enn kenníngar og ókend heiti í stafrofsröð og fleströllum vísum slept svo og öllu því um bragarháttuna, og málslistina. Svo aum sem þessi útgáfa er, svo er þó *Jóhans Göranssonar* Edduútgáfa (Uppsölum 1754 í 4:rablf.) hálfu verri; Hèr er fyrst hrínglandi vitlaus formáli á svensku, sem t. d. sannar »að Edda sè samansett og skrifuð þegar Móyses gamli var á dögum« (bls. 32.). Af textanum finnst hèr einúngis Gylfaginníng, tekin úr *U.* enn af því útgefarinn gat ecki lesið böndin í skinnbókinni, er varla sú lína, sem ecki sè einhvör málleysa á, t. d. á fyrstu línu: Bok þessi heiter Edda *henna* hever *sam*setta o. s. fr. Hvorki get eg heldr hrósað hans lát. nè svensku útleggíngu, af því hann hefir svo optliga misskilið textann.

Miklu betr hefir það tekizt *Mallet* með aðstoð ens nafnkenda Jóns Eiríkssonar að þýða Eddu (eptir Resens útgáfu) á frönsku í hans *Introduction à l'histoire de Dannemarc* 1756. Dável hefir einnig *Percy* snúit þessari útleggíngu á ensku í hans *Northern Antiqvities* 1770. og bætt þar framan við ágætu ritkorni um mismun þeirra gotnesku og keltisku þjóða. Á þýzku útlagði hana *J. Schimmelmann* með mesta trúarvíngli 1777. Einnig polnesk (polsk) útleggíng af Eddu qva' vera útkomin 1807.

A dönsku útlögðum við *Nýerúp* hana á ný, 1808. Eptir þessari útkom fyrst svensk þýðíng af *J. Adlerbeth* 1811 (á ný upplagt 1816) síðan þýzk af *Rühs* með viðrauka af fleirum sögum úr Skáldu og kátligum inngángi, sem olli laungu penna-

stríði og snörpu ámeðal þeirra Rühs og Grimma í Kassel samt þeirra Hammarskölds í Stockhólmi. Ætlaði Próf. Rühs þar að sýna 1) að sú hin forna guðafræði, sem Eddur vorar innihalda, hafi aldrei verið alþýðligr átrúnaðr á Norðrlöndum, heldr trýðu forfeðr vorir einúngis á jólasveina, drauga, nikur o. þessh. enn hitt sè uppdiktað af iðjulausum múkum og skáldum á Islandi. 2) Og enn í annan stað að sá inn forni norræni skáldskapr hafi aldrei verið tíðkaðr fyrir utan Island, enn Islendíngar hafi lært hann hjá Eingilsöxum og bætt þarvið ýmisligri smeckleysu og rugli af egin forða. Mína meiníngu hèrum hefi eg í formálanum við þá Eingilsaxnesku málslist á dönsku (Stockhólmi 1817) í ljósi látið.

Hvað þessari útgáfu viðkemr þá hefir minn ásetníngr þarmeð verið að komast sem næst höfundanna eigin ritum, hefi eg þartil varið æði miklu ómaki og tíma, og sèrílagi náqvæmliga geingit ígegnum þau 3 elztu handarit; þó hefi eg einnig af þeim slept því sem mèr þótti allsendis vitlaust og því sem einúngis viðkemr rèttritun. Rèttritan Orms-eddu sèst nægiliga af málslistarritunum, er þar eru með sömu stafasetníngu sem Edda og Skálda sjálfar, enn ecki eptir reglum höfundarins; rèttritan Uppsala-eddu sèst af þeim töluverða orðamun, sem híngað og þángað er innfærdr úr henni. I textanum hefi eg fylgt Kóngs-eddu, og ecki umbreytt hennar rèttritun í neinu nema því að eg hefi sett uppyfir þar sem vantaði; eg hefi og allstaðar notad *av* fyrir *ö*, enn *au* fyrir þartilheyrandi tvíhljóð. Einnig hefi èg náqvæmliga aðgreint *ú* og *v*, svo og *í* og *j* eptir bls. 128. Um þetta síðasta var eg tvíráðr í upphafi, enn það er mjög svo nauðsynligt til að sýna framburð nafnanna, að sönnu hefði eg átt að hafa sömu reglu allt frá byrjun, enn þess var þá ecki kostr, og þótti mèr þó betra seint enn aldrei. Til þess bókin yrði

svo frí frá prentvillum sem möguligt hefi eg optast nær lesið 4 eða 5 stundum 6 prófarkir; af því sem prentað varð ámeðan eg dvaldist í Stockhólmi, það er allt að bls. 320. Hafi mèr samt yfirsèzt meira, enn eg hefi síðan orðit var við, þá bið eg að góðfús lesari virði viljann og færi það til hægra vegar. Mundi það mikilliga hvetja mig til at útgefa útskíríng mína yfir alla Snorra-eddu sèrílagi vísurnar, ásamt með nockurnegin fullkominni orðabók yfir norræna skáldskapar málið, sem eg hefi leingi haft í hyggju.



## INNTAK.

*Snorra-edda svo-köllud.*



*Skálda.*



*Málslistarrit.*





# EDDA
# SNORRA STURLUSONAR.

## *FORMÁLI.* [1])

1. Almáttigr guð skapaði í upphafi himin ok iörð ok alla þá luti er þeim fylgia, ok síðarst menn tvâ, er ættir eru frá komnar Adam ok Evo, [ok fiölgaðiz þeirra kynslóð, ok dreyfðiz um hæim allan [2]). Enn er fram liðu stundir þá úiafnaðiz mannfólkið, voru sumir góðir ok rètt-trúaðir, enn miklu fleiri sneruz þá eptir girndum heimsins, ok úræktu guðs boðorð [ok fyrir þí drekti guð heiminum í sióvargángi, ok öllum kykvendum heimsins nema þeim er í örkinni voru með Nóa [3]). Eptir Nóaflóð lifðu 8 menn, þeir



1) *J Kóngseddu vanta nokkur blöd framan af formálanum: tekr hún fyrst til í midri ættartölu Odins, med:* er vèr köllum Skiöld, hannz sun Biaf" *o. s. fr. þángat til hefi èg fylgt Ormseddu sem kemr hinni mikid nærri í því er eptir er; hún hefir aungvan titil nè fyrirsögn alls, heldr byriar med:* Almáttigr gud *o. s. fr. Uppsalaedda hefir þessa fyrirsögn:* "Bók þessi heitir Edda, hana hevir samansetta Snorri Sturluson eptir þeim hætti sem hèr er skipat, en fyrst frá Asum ok Ymi, þar næst skáldskaparmál ok heiti margra hluta, sídaz háttatal er Snorri hevir ort um Hákon kónúng ok Skúla hertuga." *Er þetta eins og allar hinar fyrirsagnir í Upps. opinberliga med sömu hendi skrifad og bókin siálf, en med rauda bleki.*

) og dreifdust ætter þeirra og kynslód, umm heim allann. *S.* ok dreifþuz ættirnar um heiminn síþan *U.*

3) Fyrir þat var drekt heiminnm nema þeim er med Nóa voru í avrkinni *U. og er þat vída er hún þannig fellir út stöku ord og klausur eda kemr þeim ödruvísi fyrir, sem oflángt yrdi hèr ad greina, þegar ekki þykir máli skipta.*

er heiminn bygðu, ok komu frá þeim ættir: ok varð enn sem fyrr, at þá er fiölmenntiz oc bygðiz veröldin, þá var þat allr fiöldi mannfólksins, er elskaði ágirni fiár ok metnaðar, en afræktuz guðs hlýðni: ok svâ mikit giörðiz at því at þeir villdu æigi nefna guð; [en hverr mundi þá frásegia sonum þeirra frá guðs stórmerkium [1])? Svá kom at þeir týndu guðs nafni, ok víðaz um veröldina fanz æigi sá maðr, er dæili kunni á skapara sínum, en æigi at siðr veitti guð þeim iarðlegar giptir, fé ok sælu, er þeir skyldu við vera í heiminum, miðlaði hann ok spektina svâ at þeir skildu alla iarðlega luti, ok allar greinir þær er siá mátti loptzins ok iarðarinnar. [þat hugsuðu þeir ok undruðuz, hví þat mundi gegna [2]), er iörðin ok dýrin ok fuglarner höfðu saman eðli í sumum lutum, ok þó úlik at hætti. Þat var æitt eðli at [3]) iörðin var grafen í hám fialltindum ok spratt þar vatn upp, ok þurfti þar æigi lengra at grava til vaz en í diúpum dölum; svâ er ok dýr ok fuglar at iamlángt er til bloðs í höfði ok fótum. Önnur náttúra er sú iarðar at á hveriu ári vex [á iörðunni gras ok blóm [4]), ok á sama ári fellr þat allt ok fölnar; svâ ok dýr ok fuglar at (þeim) vex hár ok fiaðrar ok fellr af á hveriu ári. Þat er hin þriðia náttúra iarðar,

---

1) *fellir S. út.*

2) Þat undrudust þeir hvöriu þad Munnde Gegna. *S.*

3) þegar *S.*

4) á henni blóm og alldin. *S.*

þá er hon er opnuð ok gravin, þá grær gras á þeirri molldu er efzt er á iörðunni. Biörg ok steina þýddu þeir móti tönnum ok beinum kvikenda. Af þessu skildu þeir svâ at iörðin væri kvik, ok hefði lif med nokkurum hætti, [ok vissu þeir at hon var furðuligha gömul að alldartali ok máttug í eðli [1]). Hon fæddi öll kykvendi ok hon æignaðiz allt þat er dó, fyrir þá sök gáfu þeir henni nafn, ok töldu ætt sína til hennar. Þat sama spurðu þeir af gömlum frændum sínum, at, síðan er talin voru mörg hundrut vetra, var gángr himintúngla úiafn, áttu sum lengra gáng en sum. Af þilikum lutum grunaði þá, at nokkur mundi vera stiórnari himintúnglanna, sá er stilla mundi gáng þeirra at vilia sínum siálfs, ok mundi sá vera ríkr ok máttugr, ok þess væntu þeir, ef hann réð fyrir höfutskepnunum, at hann mundi ok fyrri verit hafa enn himintúnglin, ok þat sá þeir ef hann ræðr gáng himintúngla, at hann mun ráða skini sólar ok dögg himins ok ávexti iarðarennar, [er þar fylgir; ok slíkt sama [2]) vindum lopzens ok þir með stormi sióvarens. Þat vissu þeir æigi [hvar ríki hans var, enn því trúðu þeir at hann réð öllum lutum á iörðu ok í lopti, himins ok himintúnglanna, sióvar ok veðranna [3]). Enn til þess at helldr

---

1) *þessu sleppir U, en byriar aptr:* er hon fæddi *o. s fr.*

2) *þessu sleppir S.*

3) hvat fyrir kóng hann var, Enn trúdu þó hann Mundi víst Einhvör vera og til þess *o. s. fr. S.* hverr hann var en því trúþo þeir at hann ræþr öllum *o. s. fr. U.*

mætti frá segia eðr í minni festa, þá gáfu þeir nöfn með siálfum sèr, ok hefir þessi átrúnaðr á marga lund bræyzt svâ sem þióðirnar skiptuz ok túngurnar greinduz.

2. I elli sinni skiptir Nóe heiminum með sonum sínum: ætlaði hann Cham vestrhálfu, en Japhteth norðrhálfu, en Sem suðrhálfu með þeirri parteran, sem síðarr greinir í þriðiúngaskipti heimsins. I þann tíma [sem synir þessara manna voru í verölldinni [1]) þá öflgaðiz þegar ágirni til fiár ok mannmetnaðar; af því at þá kenduz þær margar listir, sem áðr höfðu ekki fundnar verit, ok hóf sik hverr eptir sinni íþrótt; ok svâ lángt færðu þeir framm sinn metnat, at þeir Affricani, komnir af Cham, heriuðu í þann luta veralldar, sem bygði afspríngr Sems frændr þeirra. Ok sem þeir höfðu þá yfirunnit, þótti þeim sèr æigi nægiaz heimrenn, ok smiðuðu æinn stöpul með tigl ok griót [2]), þann er þeir ætluðu at vinna skylldi til himins, á þeim velli er kallaz Senniár [3]). Ok þá er þetta smiði var svâ mikit vorðit, at þat tók upp or veðrum, ok [æigi höfðu þeir at minni fýsi til at hallda framm smiðinni, ok sem guð sèr, hversu þeirra ofsi gæisar hátt; þá sier hann at hann verðr með æinhveriu niðr at slá. Ok sá sami guð sem allz er

1) *þessu sleppir* S.

2) med Tígulgriót. *S.*

3) Synear *S.*

volldugr ok allt þeirra verk mátti á æinu augabragði niðr slá, en þá siálfa láta verða að dupti, þá villdi hann þó helldr með þi eyða þeirra fyrirætlan, at þeir mætti viðkennaz sinn litilleik, með þi at æingi [1]) þeirra skilldi hvat annarr talaði, ok þi vissi æingi þeirra hvat hverr bauð öðrum, ok braut þat annarr niðr sem annarr villdi uppreisa; þar til er þeir stridduz á siálfir, ok með þi æiddiz öll þeirra fyrirætlan í upptekinni stöpulsmið. Ok sá er fremztr var hèt Zoroastres, hann hló fyrr en grèt er hann kom í verölldina, enn forsmiðir voru 2 ok 70, ok svâ margar túngur hafa sidan dreifz umm verölldina [eptir þi sem risarnir skiptuz siðan til landa ok þióðirnar fiölguðuz. I þessum sama stað var giör æin hin ágiætazta borg, ok dregit af nafni stöpulsins ok kölluð Babilon [2]), ok sem túngnaskiptið var orðit, þá fiölguðuz svâ nöfnin mannanna ok annarra luta, ok siá sami Zoroastres hafði mörg nöfn; ok þó at hann undirstæði at hans ofsi væri lægðr af sagðri smið, þá færði hann sik þó framm til veralldligs metnaðar, ok lèt taka sik til konúngs yfir mörgum þióðum Assiriorum; af honum hófz skurðgoða villa. ok sem hann var blótaðr, var hann kallaðr Baal, þann köllum vèr Bel. Hann hafði ok mörg önnur nöfn, enn sem nöfnin fiölguðuz, þá týndiz með þvi sannleikrinn, ok af fyrstu villu þá blótaði hverr maðr

---

1) Þá havfdu þeir eigi Minne fysn Smídinu framm at hallda, þá lægde Gud þeirra Ofsa í þann Máta ad Einginn *o. s. fr. S.*

2) *þessu slappir S.*

eptirkomandi sinn formeistara, dýr eða fugla, loptin[1]) ok himintúnglin ok ímisliga dauðlega luti, þar til er þessi villa gèkk um allan heim, ok svâ vandlegha týndu þeir sannleiknum, at æingi vissi skapara sinn utan þæir æiner menn, sem töluðu ebreska túngu, [þá sem gèkk fyrir stöpulsmíðina, ok þó týndu þeir æigi líkamligum giptum er þeim voru veittar, ok þí skildu þeir alla luti (með) iarðligri skilníngu at þeim var æigi gefen andleg spekten, svâ skildu þeir at aller lutir væri smiðaðir af nokkuru efni [2]).

3. Verölldin var greind í þriár hálfur: frá suðri vestr ok inn að Miðiarðarsiá, sá lutr var kallaðr Affrika, enn hinn syðri lutr þeirrar deylldar er hæitr ok brunninn af sólu. Annar lutr frá vestri ok til norðrs ok inn til hafsins, er sá kallaðr Evrópa eða Enea: hinn neyrðri lutr er þar kalldr, svâ at æigi vex gras ok æigi má byggia. Frá norðri ok um austr hálfur allt til suðrs, þat er kallat Asía. I þeim luta veralldar er öll fegrð ok prýði ok æign iarðar-avaxtar, gull ok gimsteinar, þar er ok miðverölldin; ok svâ sem þar er iörðin fegri ok betri kostum en í öðrum stöðum, svâ var ok mannfólkið þar mest tignat af öllum giptum: spektinni ok aflinu, fegrðinni ok allri kunnostu.

1) lopttsinns *S.*

2) *þessu sleppir S. en U. hefir af allri greininni eingöngis nidurlagid, er þar hliódar þannig:* en allt skilþo þeir iarþliga, þvíat: eigi höfðu þeir andliga gipt, ok trúþo at allt væri af nockuro efni skapat eda smiþat. *þridia greinin hefir hèr þá fyrirsögn* Hverso greind er verölldin í þriá stadi.

4. [Nær miðri verölldinni var giört þat hús ok herbergi er ágiætaz hefir giört verið er kölloð var Trója [1], [þar sem vèr köllum Tyrkland. þessi staðr var miklu meiri giörr enn aðrir, ok með meira hagleik á marga lund með kostnaði ok föngum er þar voru [2]. þar voru 12 konúngdómar ok æinn yfirkonúngr, ok lágu mörg þioðlönd til hvers konúngdóms: þar voru í borginni 12 höfuttúngur *). þessir [3]) höfðíngiar hafa verið umfram alla menn þá er verið hafa í verölldu um alla manndómlega luti, [leikr þat síz á tvímæli hverr fræðimaðr sem frá þeim hefir sagt, ok af því at aller formenn norðrhálfunnar telia þángat sínar ættir [4]), ok setia þá í guðatölu alla sem formenn voru staðarens, einkannliga svâ sem siálfan Príamum setia þeir fyrir Voðen [5]): má þat æigi undarligt kalla, þvíat Príamus var kominn af Satúrnó þeim sem, norðrhálfan trúði lángan tíma siálfan guð verit hafa.

5. þessi Satúrnus vóx upp í æy þeirri í Grikklandzhafi er Krít heitir, hann var meiri ok sterkari ok fróðari enn aðrir menn, svâ bar vitrleikr hans af öllum mönnum sem aðrar náttúrugiafir: hann fann ok margar listir þær, sem ádr höfðu æigi fundnar verit: hann var ok svâ mikill á þá iþrótt er phitons andalist heitir, at hann vissi fyrir úorðna luti: hann

---

1) þar var sett Rómaborg er vèr kavllum Tróiu *U.*

2) *þessu sleppa S. og U.* *) *Heldr vildi èg:* höfdíngiar.

3) *U, sleppir þessu öllu, sem eptir er af 4:du. greininni svo og 5, 6, 7. og 8:du gr. giörsamliga.*

4) og til þeirra telia allir formenn Nordrhálfunnar Sínar ættir *S,*

5) eda Odinn *lætir S. inni.*

fann ok rauða þann i iörðu, er hann blès af gull, ok af þesshàttar lutum varð hann skiótt rikr. Hann sagði ok fyrir árferð ok marga aðra læynda luti, ok af sliku ok mörgu öðru tóku þeir hann til höfðingia yfir æyna; ok sem hann hafði litla hríð henni stýrt, þá var þar skiótt nóg allrahanda árgiæzka. Þar gèkk ok æingi penningr nema gullpenningr, svâ var þat nógt. Ok þó at hallæri væri í öðrum löndum, þá kom þar alldri úáran; mátti af þí þángat sækia alla þá luti sem þeir þurfti at hafa; ok af þessu ok mörgu öðru ósýnilegu [1]) kraptaláni er hann hafði, trúðu þeir hann guð vera (ok af þessu hófz önnur villa millum Krítarmanna ok Macedoniorum, svâ sem hin fyrri meðal Assiriorum ok Challdeis af Zoroastre [2]) ok er Satúrnus finnr hversu mikinn stýrk fólkit þykkiz af honum hafa, þá kallaz hann guð vera ok segiz stiórnari himins ok allra luta.

6. Einn tíma fór hann skipi til Grikklandz; þvíat þar var konúngsdóttir sú er hann hafði hugh á. Hann fèkk með því náð henni, at æinn dagh sem hon var úti með þiónostukonum sínum, þá brá hann á sik líki graðúngs æins, ok lá fyrir henni í skóginum, ok svâ fagr at gullzlitr var á hveriu hári: oc sem konúngsdóttir sier (hann), þá klappaði hon um granarnar; hann sprettr upp ok brá af sèr graðúngslíki, ok tók hana

1) óseigiannligu S.

2) *vantar í* S.

hana í fáng sier, ok bar hana til skips, ok flytr heim í Krít. At þessu finnr Júnó kona hans; hann brá henni í kvígu líki, ok sendi hana austr í Elfarkvíslær, ok lèt hennar gæyma þræl þann er Argulus hèt, þar var hon 12 mánaði áðr hann skipaði aptr. Marga luti giörði hann þessum líka eðr undarligri. Hann átti þriá syni: hèt æinn Júpíter, annar Neptúnus, þriði Plútus. Þeir voru allir atgiörfis menn hinir mestu, ok var Júpíter lángt fyrir þeim: hann var striðsmaðr ok vann mörg konúngaríki, hann var ok listugr sem faðir hans, ok brá á sik ýmissa dýra líki, ok með því kom hann mörgu framm, því sem manndóminum er úmöguligt at giöra; ok af slíku ok öðru hrædduz hann allar þióðer, því er Júpíter settr fyrir Þór, svá sem allar úvættir hrædduz hann.

7. Satúrnus lèt uppgiöra í Krít tvær borgir ok 70, ok sem hann þikkiz fullkominn í ríki sínu, þá skiptir hann þí með sonum sínum, sem hann setti sik [1]) fyrir guð, ok skipaði hann Júpíter himinríki en Neptúnó iarðríki [2]) en Plútó helvíti, ok þótti honum sá lutr ókiörligaztr; ok þí gaf hann honum hund sinn, þann er hann kallaði Serberum, til þess at gæyma helvítis. Þenna Serberum segia Grikkir Erkúlum hafa dregit or helvíti ok á iarðríki. Ok þó at Satúrnus hefði skipt Júpíter himin-ríki, þá girntiz hann æigi at síðr at

2

1) ok *S. en betr þætti mèr þad ord í burtu.*

2) siáfarríki *Resen.*

eignaz iarðríki, ok heriar nú uppá ríki föður síns, ok svâ segiz, at han lèti taka hann ok gellda, ok fyrir slík stórvirki segir hann sik guð vera; ok þat segia Macedonii at hann lèti taka sköpin, ok kasta út á sióenn, [ok því trúðu þeir lánga æfi, at [1]) þaraf hefði vorðit kona, þá kölluðu þeir Venerem, ok settu hana í guðatölu; ok því er Venus alla æfi síðan kölluð ástargyðia, at þeir trúðu, at hon mætti þýða allra hiörtu til ástar karla ok kvenna. Sem Satúrnus var gelldr af Júpiter syni sínum, þá flýði hann austan or Krít ok híngat í Italía; þar bygðu þá þessháttar þióðir, sem ekki erfiðaðu, ok lifðu við akarn ok við grös ok lágu í hellum eðr iarðholum: ok sem Satúrnus kom þar, þá skipti hann nöfnum ok kallaði sik Niörð, sakir þess at hann hugði at Júpiter son hans mundi þá síðr frètta hann upp. Hann kendi þar fyrstr manna at plægia ok planta vingarða: þar var góð iörð ok hrá, ok giörðiz þar skiótt ár mikit, tóku þeir hann til höfðíngia, ok svâ æignaðiz hann öll þessháttar ríki, [ok lèt giöra þar margar borgir [2]).

8. Júpiter son hans átti marga syni þá sem ættir eru frá [komnar: hans son var Dardanus, hans son Herikon, hans son Tros, hans son Ilus, hans son Lamedon, faðir Príami höfutkonúngs [3]). Príamus átti marga syni, einn af þeim var Ektor, er ágiætaztr hefir ver-

1) *sleppir S.*

2) *vantar i S.*

3) frá honum var hinn Siètti madr höfutkóngr Tróiu borgar. *S.*

nanna í veröllldu at afli ok vexti ok atgiörfi manndómleghum listum riddarligrar slektar, innz skrifat, þá er Grikkir ok allr styrkr norðr- k austrhálfu börðuz við Tróiomenn, þá hefði ldri sigraðir vorðit, nema Grikkir hefði heitið n, [ok gèngu svâ frèttir, at ekki mannligt eðli þá sigra, nema þeir yrði sviknir af siálfs sins ium, sem síðan giörðiz [1]). Ok af þeirra frægð eptirkomandi menn sèr þeirra virðingarnöfn, æinkannlega svâ sem Rómveriar er ágiætaztir nn hafa verit at mörgum hlutum eptir þeirra daga, svâ segiz at þá er Róma var algiör, at Rómver- ir venduðu [2]) sinum siðum ok lögmáli, sem næst máttu þeir komast, eptir þi sem Tróiumenn höfðu haft forfeðr þeirra. Ok svâ mikill kraptr fylgði þess- um mönnum, at mörgum ölldrum síðarr, þá er Pomp- eius æinn höfðingi Rómveria heriaði i austrhálfuna; flýði utan Oðinn or Asia ok hingat í Norðrhálfuna, ok þá gaf hann sèr ok sinum mönnum þeirra nöfn, ok kallaði Príamum hafa heitið Oðin, en drottning hans Frigg: ok af þi tók ríkið síðan nafn, ok kallaðiz Frigia þar sem borgin stóð. [3]) Ok hvârt er Oðinn sagði þat til metnaðar við sik, eða þat hafi svâ verit með skipti túngnanna; þá hafa þó margir fræðimenn haft þat fyrir sannenda sögn, ok þat var lengi æfi

---

1) ok þeir hefdi sviknir verit af siálfs sins mönnum *S.*

2) Rómveriar er ágiætastir menn hafa verit Epttir þeirra daga veru-dutu *S.*

3) *S. sleppir því er eptir er af þessari grein og allri 9:du gr.*

eptir, at hverr sem mikill höfðingi var tók sèr þar dæmi eptir.

9. Einn konúngr í Tróio hèt Munon eða Mennon, hann átti dóttur höfuðkonúngs Priamí, sú hèt Tróan [1]), þau áttu son, sá hèt Tror, þann köllum (vèr) Þór. [Hann var at uppfæzlu í Tracía með þeim hertoga, er nefndr er Loricus. Enn er hann var 10 vetra, þá tók hann við vâpnum föður síns; svâ var hann fagr álitum, er hann kom með öðrum mönnom, sem þá er Filsbæin er grafit í eik, hár hans er fegra en gull [2]). Þá er hann var 12 vetra hafði hann fullt afl, þá lypti hann af iörðu biarnstökum öllum senn [3]), ok þá drap hann Loricus hertoga fóstra sinn ok konu hans Lora eða Glora, ok æignaði sèr ríkit Tracía, þat köllum vèr Þrúðheim. Þá fór hann víða um lönd ok kannaði hæimshálfur], ok sigraði æinnsamann alla berserki ok alla risa ok æinn hinn mesta dreka ok mörg dýr. I norðrhálfu heims fann hann spákonu þá er Sibil hèt, er vèr köllum Sif, ok fèkk hennar. Eingi kann segia ætt Sifiar, [hon var allra kvenna fegrst, hár hennar var sem gull [4]), þeirra son var Loride, er líkr var feðr sínum, hans son var Henrede [5]), hans son Víngeþór, hans son Víngener, hans Móda, hans son Magi, hans son Cesph-

1) dóttur Príamus kóngs- Tróiam *U.*

2) *Þessu sleppir U.*

3) *U rèttara*: 10 biarnstökum senn. *Hún fellir og út þad er eptir kemr alltad merkinu.*

4) *vantar í U.*

5) *U. fellir út* Henrede.

eth [1]), hans son Bedvig, hans son Atra er vèr köllum Annan, hans son Itrmann, hans son Heremód [2]), hans son Skialldunn *) er vèr köllum Skiöld, hannz sun Biaf [3]) er vèr köllum Biar [4]), hannz sun Jat, hannz sun Guðólfr [5]), hannz sun Fiarleif [6]) er vèr köllum Friþleif, hann átti þann son er nefndr er Vóþinn, þann kavllum vèr Oþinn. [Hann var ágætr maðr af speki oc allri atgervi. Kona hann hèt Frigiða er vèr kavllum Frigg [7]).

10. Oþin hafþi spádóm oc svâ kona hannz, oc af þeim vísindum fann hann þat, at nafn hannz mundi uppi vera haft í norðrhálfu heimsins, oc tignat umfram alla konúnga. Firir þá savk fýstiz hann at byria ferþ sína af Tyrklandi, oc hafþi með sèr mikinn fiölþa liðs, únga menn oc gamla, karla oc konor, oc havfþo með sèr marga gersimliga luti. Enn hvar sem þeir fóru ifir lavnd þá var ágæti mikit frá þeim sagt, svâ at þeir þótto líkari goþum en mönnum. Oc þeir gefa ei stað ferþinni, fyrr en þeir koma norðr í þat land, er nú er kallat Saxland; þar dvalþiz Oþinn lángar hriþir [8]), oc eignaz viþa þat land [9]).

1) Sefsmeg *U.*

2) Eremód *U.* *) *Hér tekr Kóngsedda vid.*

3) *kannske rángsnúid af* Sciaf *eingilsax.* Sceaf.

4) *U. kallar hann*: Bavr.

5) *Hér bætir U. inni*: hans son Finnr.

6) *U. hefir hèr*: Frialafr *og strax eptir* Vodden.

7) *Þvi sleppir U. en hefir hèr þessa fyrirsögn.* Frá því er Oþin kom á nordrlöud.  8) lánga hríd *O og S.*

9) og Ríktte þar um lánnga hríd ok giördist þar fkiótt Gódur fridur og árgiæska Nóg og unndradist lanndzfólckit þetta krapttalán *bætir S. vid.*

Þar setr Oþinn til landzgæzlu 3 sonu sína: er einn nefndr Veggdegg [1]), hann var ríkr konúngr oc réð firir Austr-saxalandi. [Hannz sonr var Vitr[illegible], hannz synir voru þeir Ritta [2]) faþir Heingez oc [illegible] faþir Svebdegg er vær kavllum Svipdag [3]). Annar sonr Oþinns hèt Beldegg er vèr kavllum Balldr, hann átti þat land er nú heitir Vestfal. [Hannz son var Brand, hannz son Frioþigar er vèr kavllum Fróþa. Hannz son var Freóvit [4]), hannz son Yvigg, hannz son Gevis er vèr kavllum Gave [5]). Enn þriþi son Oþinns er nefndr Siggi [6]), hannz son Verir [7]). Þeir lángfeðgar réðu þar firi, er nú er kallat Frakland, oc er þaðan sú ætt komin, er kavllut er Vavlsúngar. Frá avllum þessum eru stórar ættir komnar ok margar.

11. Þá byriaþi Oþinn ferþ sína norþr, oc kom í þat land er þeir kavlluþo Reiðgotaland, oc eignaþiz í því landi allt þat er hann vildi: hann setti þar til landa son sinn er Skiölldr hèt, hannz son hèt Friþleif: þaðan er sú ætt komin er Skiöllldúngar heita, þat eru Dana-konúngar; oc þat heitir nú Jótland er þá var kallat Reiðgotaland. [8])

---

1) Vegdreg *U.* Vegdeg *S.*

2) Picta fadir Heingestz *O.*

3) *U. sleppir þessu frá merkinu.*

4) Freovin *O.*

5) Geire er v. k. Gare *S. enn öllu þessu frá merkinu sleppir U.*

6) Sigi *O. U. S.*

7) Rerir *O.* Jerer *S. kannskè rèttast væri: Velsi eda Völsi sem getid er i því eingilsaxneska Skiöldungakvædi* 13,121. *U. segir svo frá hönum:* Rerir fadir Völsúngs er Völsúngar eru frákomnir.

8) *Hèr hefir U. nyia fyrirsögn:* Frá því er Oþinn kom í Sviþiód

... r þat fór hann norþr þar sem nú heitir Sví... ...r var sá konúngr er Gylfi er nefndr. Enn ... spyrr til ferþa þeirra Asía-manna, er Æs... kallaþir, fór hann móti þeim, oc bauð [at ... skylldi slíkt valld hafa í hannz ríki sem hann siálfr [1]). Oc sá timi fylgþi ferþ þeirra, at ...em þeir dvavlduz í lavndum, þá var þar ár oc góþr; oc trúþu allir at þeir væri þess ráþandi. Þat ...ismenn at þeir voru úlíkir avþrum mavnnum, þeim ...eir havfþu sèt, at fegrþ oc at viti. Þar þótti ...ni fagrir landzkostir, oc kaus sèr þar borgarstað er heita Sigtúnir [2]); skipar hann þar havfþíngium, oc þá líking sem verit hafþi í Tróio, setti 12 havfuð...enn í staþinum at dæma landzlavg, ok svâ skipaþi hann rèttum avllum, sem fyrr havfþu verit í Tróio, oc Tyrkir voro vanir.

Eptir þat fór hann norþr þar til er siár tók viþ honum, sá er þeir hugþu at lægi um avll lavnd, oc setti þar son sinn til ríkis er nú heitir Noregr. Sá er Sæmíngr kallaðr, oc telia þar Noregs konúngar sinar ættir til hannz, oc svâ jarlar oc aþrir ríkismenn, svâ sem segir í Háleygiatali. Enn Oþinn hafþi meþ sèr þann son sinn er Yngvi er nefndr, er konúngr var í Svíþióþu, oc eru frá havnum komnar þær

ok gaf sonum sínum ríki.

1) þeim í sitt ríki *U*,

2) heita Sigtún *O. S.* heitir Sigtún *U. Hèr smeygir O. inn*: Þat var af hans nafni, ok gaf sèr konúngdóm ok kalladiz Niördr ok þí finnz þat skrifat í frædibókum at Niördr hafi heitid hinn fyrsti

ættir er Ynglingar eru kallaþir. Þeir Æsir tóku sér qvânfaung þar innanlandz, en sumir sonum sínum, oc urþu þessar ættir fiölmennar; [svâ at umb Saxland oc allt þaþan um norðrhálvor dreifþiz svâ, at þeirra túnga Asía-manna var eigin túnga um ævll þessi lavnd. Oc þat þickiaz menn skynia mega af því at skrifuð eru lángfeðga navfn þeirra, at þau navfn hafa fylgt þessi túngu; oc þeir Æsir hafa haft túnguna norþr hingat i heim: i Noreg oc i Sviþióð, i Danmörk oc i Saxland. [Oc i Englandi eru forn landzheiti eþa staþa heiti þau er skilia má, at af annarri túngu eru gefin enn þessi. [1])

Svíakonúngr; er þat til þess at Odinn hefir þar verid göfgaztr ok skipadi þar *o. s. fr.*

1) umSaxl. ok um Norþrhálfona. þeirra túnga ein gèck um þessi lönd, ok þat skilia menn at þeir hava norþr hingat haft túnguna í Nor. ok Dan. Svíþ. ok Saxland. *U.*

GYLF-

# GYLFAGINNÍNG [1]).

1. Gylfi konúngr rèð þar lavndum er nú heitir 1.
Svíþióð. Frá honum er þat sagt, at hann gaf einni farandi konu at launum skemtunar sinnar eitt plógsland í ríki sínu, þat er 4 avxn drægi upp dag oc nótt. En sú kona var ein af Asa ætt; hon er nefnd *Gefiun*, hon tók 4 avxn norþan or Jötunheimum, en þat voru synir jötuns oc hennar, oc setti þá firir plóg: en plógrinn gèck svâ hart oc diúpt, at upp læysti landit; oc drógu uxnin þat land út á hafit oc vestr, oc námu staþar í sundi navkqvoro. Þar setti Gefiún landit, oc gaf nafn, oc kallaþi Sælund. Oc þar sem landit hafþi uppgengit, varþ eptir vatn, þat er nú lavgrinn kallaþr í Svíþióð. Oc liggia svâ víkr í leginum sem nes í Sælundi. Svâ segir Bragi skáld gamli:

Gefiun dró frá Gylfa
glavð diúpravþul avþla,
svâ at af renni-ravknum
rauk, Danmarkar auka:
báru avxn oc átta
enni-túngl, þar er gèngu
firir vineyiar víðri
valrauf, fiögur havfuð [2]).

2. Gylfi konúngr var maþr vitr [oc fiölkunnigr, 2.
hann undraþiz þat miök er Asa fólk var svâ kunnigt,



[1]) Hèr hefr Gylvaginníng frá því er Gylfi sótti heim Alfavþr í Asgarþ med fiölkungi ok frá villo Asa ok frá spurnínge Gylva. *U. En K. og O. hafa aungva fyrirsögn, ekki heldr S. hér. St. og R. bæta vid*: ödru nafni Hárslygi.

[2]) *U. sleppir allri þessari fyrstu grein, en hinar hafa hana allar. S. smeygir hèr inn þessari yfirskrift*: Hèr hefr Gylfaginníng.

at [1]) allir lutir gèngu at vilia þeirra. Þat hugsaþi hann hvârt þat mundi vera af eþli siálfra þeirra, eþa mundi því valda goðmavgn þau er þeir blótuþu. Hann byriaþi ferþ sína til Ásgarþz, oc fór með laun, oc brá á sic gamals mannz líki, oc duldiz svâ. En Æsir voru því vísari at þeir havfþu spádom, oc sá þeir ferþ hannz fyrr en hann kom, oc gerþu í móti honum siónhverfíngar. En er hann kom inn í borgina, þá sá hann þar háfa havll, svâ at varla mátti hann siá ifir hana, þak hennar var lagt gylltum skiölldum svâ sem spánþak. Svâ segir Þioðólfr enn hvinverski [2]) at Valhavll var skiölldum þavkt.

A baki lètu blíkia Svafnis [3]) salnæfrar
(barþir voru grióti) seggir hyggiandi.

Gylfi sá mann í hallardurunum, oc lèc at handsavxum, oc hafþi 7 senn á lopti: sá spurþi hann fyrr at nafni, hann nefndiz *Gángleri* oc kominn af refilstigum [4]), oc beiddiz at sækia til náttstaþar, oc spurþi hverr havllina ætti. Hann svarar at þat var konúngr þeirra, "en fylgia má ec þèr at siá hann, skaltu þá siálfr spyria hann nafns. Oc sneriz sá maþr firir havnum inn í havllina, en hann gèck eptir, oc þegar laukst hurþin á hæla havnum. Þar sá hann mavrg gólf oc margt fólk, sumt með leikum, sumir drucku, sumir með vâpnum oc bavrþuz: þá litaþiz hann umb, oc þótti margir lutir útrúligir þeir er han sá, þá mælti hann. [5])

---

[1]) ok hugsaþi þat er allir lyþir lofuþo þá ok *U.*
[2]) *I Sn. H. hárf.* 19. *er þetta eignad Hornklofa.*
[3]) Svolnis *U.* Suofners *S.* [4]) rifils stigum *U.* [5]) Háfam. 1.

Gáttir allar [1])
áþr gángi fram
um skygnaz skyli;
þvíat óvíst er at vita
hvar óvinir sitia
á fleti firir.

Hann sá 3 hásæti, oc hvert upp frá avþru, oc sátu 3 menn sinn í hveriu. Þá spurþi hann hvert nafn havfþíngia þeirra væri. Sá svarar er hann leiddi inn, at sá er í enu nezta hásæti sat var konúngr, oc heitir *Hár*, en þar næst er heitir *Jafnhár*, en sá ofarst er *Þriði* heitir [2]). Þá spyrr Hár komandann hvat fleira er eyrindi hannz, en heimill er matr oc dryckr honum sem àvllum þar í Háva havll. Hann segir at fyrst vill hann spyria, ef nokqvorr er fróþr maþr inni. Hár segir at hann komi ei heill út, nema hann sè fróþari,

"oc stattu fram
meþan þú fregn
sitia skal sá er segir.

3. Gángleri [3]) hóf svà mál sitt. Hverr er æztr
eþa ellztr allra goþa? Hár segir. Sá heitir *Allfavðr* 3.
at voru máli, en í Asgarþi enum forna átti hann 12
nöfn: eitt er Allfavðr [4]), annat er Herran eþa Herian,
3. er Nikarr eþa Hnikarr [5]), 4. er Nikuz eþa Hnikuðr,
5. Fiölnir, 6. Oske, 7. Omi, 8. Bifliþi eþa Biflindi, 9.
Sviðorr [6]), 10. Sviþrir, 11. Viðrir, 12. Jalg eþa Jálkr.
Þá spyrr Gángleri. Hvar er sá guð? eþa hvat má hann? eþa hvat hefir hann unnit framaverka? Hár segir: lifir hann of allar alldir, oc stiórnar avllu riki

---

1) Skatnar allir *U.* 2) er heitir þriði Hár *St.*
3) *U. hefir* þá *yfirskrift*: Frá spurnínge Gánglera. *En S.* Allda rök.
4) Alfödr *O. og U. og S.* 5) Nikadr *U.*
6) Sviþarr *K.* Sviþurr *U.* Suidur *S.*

sínu, oc ræðr avllum lutum stórum oc smám. Þá mællti Jafnhár [1]): hann smíþaþi himin oc iörð oc loptin oc alla eign þeirra. Þá mælti Þriþi: hitt er mest er hann gerþi manninn, oc gaf havnum avnd þá er lifa skal oc alldri týnaz, þótt lícaminn fúni at moldu eþa brenni at avsku: oc skulo allir menn lifa þeir er rètt eru siþaðir, oc vera með havnum siálfum þar sem heitir Gimle eþa Vingólf. En vândir menn fara til Heliar oc þaþan í Niflhel, þat er niðr í en níunda heim. Þá mælti Gángleri: hvat hafþiz hann áðr at en himin oc iörð væri ger? Þá svarar Hár: þá var hann með hrímþussum.

4. Gángleri mællti: hvat var upphaf? eþa hversu hófsc? eþa hvat vàr áðr? Hár svarar. Svâ sem segir í Völuspá:

Ar var alda [2])
þat er ecki var:
vara sandr nè sær
nè svalar unnir,
iörð fannz ei [3])
nè upp-himin;
gap var ginnúnga
en gras ecki [4]).

Þá mælti Jafnhár. Fyrr var þat mörgum avldum en iörð var skavput er Niflheimr var gerr, oc í havnum miþium liggr bruðr sá er Hvergelmir heitir, oc þaþan af falla þær ár er svâ heita: Svavl, Gunnþra [5]), Fiörm [6]), Fimbul, þul [7]), Sliðr oc Hriþ, Sylgr oc Ylgr, Við, Leiptr [8]), Giöll er næst helgrindum. Þá mællti Þriþi [9]), Fyrst var þó sá heimr í suðrhálfu

1) *Þannig skrifa O. og U. S. og St. en K. hefir endast* Hár.
2) *Þannig O. og U. en K. hefir* halda.
3) æfa *O.* 4) hvergi *U.*
5) Kvöl, Gundro *U.* 6) Form *K. en* Fiörm *U. og O.*
7) Fimbulþul *U.* 8) Vidleiptr *U.*
9) *Hèr hefir U. Þá fyrirsögn:* Hèr segir frá Mulspelleheimi ok frá Surti.

er Muspell heitir, hann er liós oc heitr svât hann er logandi oc brennandi; er hann oc ófærr þeim er þar eru útlendir, oc ei eigu þar óþul. [Sá er Surtr nefndr, er þar sitr á landzenda til landvarnar [1]), hann hefir loganda sverþ, oc í enda veralldar mun hann fara oc heria, oc sigra öll goþin, oc brenna allan heim meþ eldi. Svâ segir í Völupá:

Surtr ferr sunnan
meþ sviga leifi [2]),
skínn af sverþi
sól valtíva:
griótbiörg gnata
en gífr rata [3]),
troþa halir helveg
en himin klofnar.

5. Gángleri mælti. Hversu skipaþiz áþr en ættirnar yrþi eþa aukaþiz mannfólkit? Þá mælti Hár [4]). Ar þær sem kallaðar eru Elivâgar þá er þær voru svâ lángt komnar frá uppsprettunni, at eitrqvikia sú er þar fylgþi [5]) harðnadi, svâ sem sindr þat er renn or eldinum; þá varþ þat ís: oc þá er sá ís gaf staþar oc rann ei, þá heldi yfir þannig úr þat [6]) er af stóð eitrinu, oc fraus at hrími, oc ióc hrímit hvert yfir annat allt í ginnúnga-gap. Þá mælti Jafnhár. Ginnúnga-gap þat er vissi til norðrs ættar fylltiz með þúnga oc haufugleic íss oc hrims, oc inn ifrá úr oc gustr; enn hinn syðri lutr ginnúnga-gaps lèttiz móti gneistum oc síum þeim er flugu or Muspellzheimi. Þá mælti Þriþi. Svâ sem kallt stóð af Nifl-

1) Surtr ræþr þar fyrir ok sitr á heims enda *U.*
2) lævi *O.* 3) guþar hrata *U.*
4) *U. smeygir hèr inn þessari yfirskrift*: Hèr segir er goþin sköpuþu Ymi iötun
5) Æitrkvika sú er þeim fylgdi *O.*
6) þ*annig O.* en þat *K. S.* ok þat *U.*

heimi, oc allir lutir grímmir, svâ var þat er vissi námunda Muspelli heitt oc lióst. En ginnúnga-gap var svâ hlætt [1]) sem lopt vinðlaust, oc þá er mætti hríminu blær hitans; svâ at bráðnaþi oc draup, oc af þeim kviku-dropum kviknaþi með krapti þess er til sendi hitann, oc varþ mannz líkinndi, oc var sá nefndr *Ymir*, en Hrímþussar kalla hann Avrgelmi, oc eru þaþan komnar ætter Hrímþussa; svâ sem segir í Vavluspâ hinni skavmmu [2]):

Eru vavlur allar
frá Viðólfi [3]),
vitkar allir [4])
frá Vilmeiþi,
[en seið-berendr
frá Svarthavfþa [5]),
allir iötnar
frá Ymi komnir.

[En hèr segir svâ Vafþrúþnir iötun. Þá spurþi Gángleri.

Hvaþan Avrgelmir kom
meþ iötna sonum
fyrst enn fróþi iötun? [6])
þá er or Elivâgum
stukko eitr-dropar
[oc óx unnz or varþ iötun.
þar eru orar ætttir
komnar allar saman,
því er þat æ allt til atalt [7]).

Þá mælti Gángleri. Hvernig óxu ættir saman þaþan? eþa skapaþiz svâ at fleiri menn urþu? eþa trúir

1) lètt *O. U. og St.* er mættiz hrimin oc blær hitans K.
2) *Þad eru Hyndlulióđ, siá þetta kvædi í Sæmundar eddu* 31. *erindi.*
3) Vittólfi *eda* Victólfi *U.* 4) vettir allar *U.*
5) *sleppir U.*
6) *Þetta er Oþins spurning og Vafþrúdnirs svar í Sæmundared. Vafþr.* 30, 31. *O. sleppir úti þeim ordum.* þá spurdi Gángleri, *en U. sleppir því öllu saman, og hefir ístadinn:* Ok enn segir svâ at: or elivâgom *o. s. fr.*
7) ok vöxtr vindz ok varþ iötunn or, þær einar ættir koma saman *U. En O. eptir* iötun: þar orar ættir komu allar saman; því er þat allt atalt.

þú þann guð er nú sagþir þú frá? þá svarar Hár: firir öngan mun iátum vér hann guð; hann var illr oc allir hannz ættmenn, þá kavllum vèr Hrímþursa: oc svâ er sagt, þá er hann svaf fèck hann sveita [1]), þa óx undir vinstri havnd havnum maþr oc kona, oc annarr fótr hannz gat son viþ avþrum, en þaþan af komu ættir, [þat eru Hrímþursar, hinn gamli hrímþurs hann kavllum vær Ymi [2]).

6. þá mælti Gángleri. Hvar bygþi Ymir? eþa viþ
hvat lifþi hann [3])? Næst var þat þá er hrímit draup, 5.
at þar varþ af kýr sú er *Auðhumla* hèt, en 4
miólkár runnu or spenum hennar, oc fæddi hon
ými. þá mælti Gángleri: viþ hvat fæddiz kýrin?
Hár segir: hon sleikti hrímsteina er saltir voru, oc
hinn fyrsta dag, er hon sleikti steinana, kom or
steininum at qveldi mannz hár, annan dag mannz
havfuð, þriþia dag var þar allr maþr: sá er nefndr
Buri [4]), hann var fagr álitum, mikill oc mattugr,
hann gat son þann er Börr hèt. Hann fèck þeirrar
konu er Besla [5]) hèt, dóttir Bölþorns iötuns, oc fengu
þau 3 sonu: hèt einn Oðinn, annarr Vili, 3:i Ve [6]);
oc þat er mín trúa at sá Oðinn oc hannz bræðr
munu vera stýranda [7]) himins oc iarþar; [þat ætlum
vèr at hann muni svâ heita; svâ heitir sá maþr er
vèr vitum mestan oc ágæztan, oc vel megu þeir hann
láta svâ heita.

---

1) sæda *S.* 2) *sleppir U.*
3) *U. smeygir hèr inn*: Hár svarar *og þarsptir þeirri miög svo mádu fyrirsögn*; Frá því er skavpt var kyrin Audumla. *Sp. hefir einúngis*: Asakyn. 4) Bori *O.* 5) Bestla *O.* er átti Beyzlo *U.*
6) þ*annig O. U. S.* Ygg *K.* 7) styrandi *allar hinar.*

7. Þá mælti Gángleri. Hvat varþ þá um þeirra
sætt? eþa hvârir voru ríkari? Þá svarar Hár [1]):
6. synir Börs drápu Ymi iötun; en er hann fèll þá
lióp svâ mikit blóð or sárum hannz, at með því drekþa
þeir allri ætt hrímþursa, nema einn komz undan
með sínu hyski, þann kalla iötnar Bergelmi, hann
fór upp á lúðr sinn oc kona hannz oc hèllz þar, oc
eru af þeim komnar hrímþursa ættir, svâ sem hèr
segir.

Örofi vetra
áðr væri iörð sköpuð
þá var Bergelmir borinn

þat ec fyrst of-man
er sá hinn fróþi iötun
á var lúðr of-lagiþr.

8. Þá svarar Gángleri. Hvat höfþuz þá at Börs [2]) synir, ef þú trúir at þeir sè Guð? Hár segir: eigi er þar lítit af at segia; þeir tóku Ymi oc fluttu í mitt ginnúngagap, oc gerþu af honum iörþina: af blóþi hannz sæinn oc vötnin, iörþin var giör af holdinu, en biörgin af beinunum, griót oc urþir gerþu þeir af tavnnum oc iöxlom, oc af þeim beinum er brotin voru. Þá mælti Jafn-hár. Af því blóþi er or sárum rann oc laust fór, þar af gerþu þeir siá þann er þeir [gerþu, oc festu saman iörþina [3]), oc lavgþu þann siá í hríng utan um hana, oc mun þat flestum manni úfæra þikkia at komaz þar yfir. Þá mælti Þriþi. Tóku þeir oc haus hannz oc gerþu

1) *U. hefir í stadin fyrir allt þetta eptir merkit:* ok þar er sá eptir Heran, er vèr vitum nú mestan vera. Frá því er synir Börs sköpudu himin ok iörþ. Synir Burs drápu *o. s. fr.*
2) Burs *U. Sp.*
3) girdu ok festu jördina *í St. en U. hefir einúngis:* er þeir festu iörþina í.

þar af himin, oc settu hann upp ifir iörþina meþ 4 skautum; under hvert horn settu þeir dverg, þeir heita svâ: Austri, Vestri, Norþri, Suþri; þá tóku þeir síur oc gneista þá er lausir fóru, oc kastat hafþi or Muspellz heimi, oc settu á [miþian ginnúnga [1]) himin bæði ofan oc neþan, til at lýsa himin oc iörð; þeir gáfu staþ [2]) avllum elldingum, [sumum á himni, sumar fóru lausar undir himni, oc settu þó þeim stað oc skavpuþu gaungu þeim. Svâ er sagt í fornum vísindum, at [3]) þaþan af voru dægr greind oc áratal, svâ sem segir í Vavluspá.

Sól þat nè vissi
hvar hon sali átti,
máni þat nè vissi
hvat hann megins átti,
stiörnur þat nè vissu
hvar þær staþi áttu.

[Svâ var áþr en þetta væri of iörð [4]). Þá mælti Gángleri: [þetta eru mikil tíþindi er nú heyri èc, furþu mikil smíð er þat oc hagliga gert. Hvernig var iörþin háttuð? Þá svarer Hár: hon er krínglótt utan [5]), oc þar utan um liggr hinn diúpi siár, oc með þeirri siávarstravnþu gáfu þeir lavnd til bygþar iötna ættum; en firi innan á iörþunni gerþu þeir borg umhverfis heim firir ófriþi iötna, en til þeirrar borgar havfþu þeir brár Ymis iötuns, oc kavlluþu þá borg Miðgarð. Þeir tóku oc heila hannz, oc kavstuþu í lopt, oc gerþu af skýin, svâ sem hèr segir [6]).

---

1) *sleppir O. en U. hefir*: í mitt Ginnúnga gap ovan ok neþan á himninum at lysa iörþina *o. s. fr.*
2) *þannig O.* stadi *U. Sp.* staþar *K.* 3) *sleppir U.*
4) *O. og St. sleppa úti*: of iörd, *en U. sleppir því öllu.*
5) Mikil merki ero þetta ok mikil smíþ! Hár svarar krínglótt er iörþ *U. St.* 6) *Sœmundared. Grímn.* 40. *erindi.*

Or Ymis holdi
var iörþ of-skavput,
en or sveita siár;
biörg or beinum,
baþmr or hári,
en or hausi himinn.

En or hannz brám
gerþu blíþ regin
miþgarþ manna sonum:
en or hannz heila
voro þau hin harþmóþgu
ský avll of-skavput.

9. [þá mælti Gángleri: mikit þótti mèr þeir þá hafa snúit til leiþar, er iörþ oc himinn var gert, oc sól oc himintúngl voru sett, oc skipt dægrum: en hvaþan komu mennirnir þeir er heim byggia? þá svarar Hár 1):
7. þá er þeir Börs synir gèngu meþ sævar stravndu, fundu þeir trè tvav, oc tóku upp trèin, sköpuþu af menn: gaf hinn fyrsti avnd oc lif, annar vit oc hræríng, þriþi ásiónu, málit oc heyrn oc sión: gáfu þeim klæþi oc navfn: hèt karlmaþrinn *Askr*, en konan *Embla*, oc óloz þaþan af mannkindin, þeim er bygþin 2) var gefin undir miþgarþi. þar næst gerþu þeir sèr borg í miþium heimi er kallat er *Asgarþr*, [þat kavllum vèr Tróia 3). þar bygþu guþin oc ættir þeirra, oc gerþuz þa an af mavrg tíþindi oc greinir bæþi á iörþunni oc í lopti, þar er einn staþr er er *Hliþsciálf* heitir, oc þá er Oþinn settiz þar í hásæti, þá sá hann of alla heima oc hvers mannz athæfi, oc vissi alla luti þá er hann sá. Kona hannz hèt Frigg Fiörgvins-dóttir, oc af þeirra ætt er sú

1) *I stadinn fyrir þetta hefir U. þá fyrirsögn*: Frá sköpun Asks ok Emblo.

2) *þannig einnin S. en*: ólz þadan mannkindin *sú* er bygdin *O.* óx þadan af m. er *U.*

3) þat kallaz Tróia *O.* *en U. sleppir úti þessu, og kemst þannin ad ordi*: Síþan gerþo þeir í miþium heimi Asgarþ, þar bygdi Oþinn ok ættir þeirra, er várar ættir eru frá komnir (*þannig*). Enn segir Hár; þar er einn staþr *o. s. fr.*

kynslóð komin er vèr kavllum Asa ættir, er bygt hafa Asgarð hinn forna oc þau ríki er þar liggia til, oc er þat allt goðkunnig ætt. Oc firir því má hann heita Allfavðr, at hann er faþir allra guþanna [oc manna oc allz þess, er af havnum oc hannz krapti var fullgert [1]). Jörþin var dóttir hannz oc kona hannz, af henni gerþi hann inn fyrsta soninn, en þat er Asaþórr; [havnum fylgþi afl oc sterkleikr, þaraf sigrar hann avll kvikqvendi [2]).

— — —

10. *Nörvi* eþa Narfi hèt iötun, er bygþi í
Jötunheimum [3]), hann átti dóttur er *Nótt* hèt, hon 8.
var svavrt oc davck sem hon átti ætt til, hon var
gipt þeim manni er Naglfari hèt, þeirra son hèt
*Auðr* [4]), því næst var hon gipt þeim er Annarr [5])
hèt, Jörð hèt þeirra dóttir. [Síþarst átti hana Dell-
íngr, var hann Asaættar [6]), var þeirra son *Dagr*,
var hann liós oc fagr eptir faþerni sínu. Þá tóc
Allfavðr Nótt oc Dag son hennar, oc gaf þeim 2
hesta oc 2 kerrur, oc setti þau uppá himin, at þau
skulo ríþa á hverium 2 dægrum umhverfis iörþina.
Ríþr nótt fyrri þeim hesti er kallaðr er Hrímfaxi,
oc at morni hverium davggvir hann iörþina af mel-
dropum sínum. Sá hestr er dagr á heitir Skinfaxi,
oc lýsir allt lopt oc iörþina af faxi hannz.

1) *O. sleppir* havnum oc, *en U.* *því öllu.*
2) *sleppir U. en hefir* þ*ar eptir miög máda fyrirsögn, sem kann ske á ad vera*: Frá Nora iötni.
3) fyrst iötunheima *U.* 4) þannig *O. S. St. en* Udr *K.*
5) Anar *O.* Onar *S. U. St.*
6) haua átti Döglíngr. *U.* hana átti Derlíngr *St.*

11. [Þá mælti Gángleri: hversu stýrir hann gáng
9. sólar oc túngls? Hár segir. Sá maþr er nefndr *Mundilföri* [1]) er átti tvav bavrn: þau voru svâ favgr oc fríþ, at hann kallaþi annat *Mána* en dóttur sína *Sól*, oc gipti hana þeim manni er Glenr [2]) hèt; en guðin reidduz þessu ofdrambi, oc tóku þau syskin oc settu upp á himin: lètu Sól keyra þá hesta er drógu kerru sólarinnar, þeirrar er guðin havfþu skapat til at lýsa heimana, af þeirri sío er flaug or Muspellz heimi. [Þeir hestar heita svâ: Arvakr oc Alsviðr, en undir bógum hestanna settu guþin tvâ vindbelgi at kæla þá, en í sumum fræþum er þat kallat ísarncol [3]). Máni [stýrir gaungu túngls oc ræðr nýium oc niþum, hann [4]) tóc 2 bavrn af iörþunni er svâ hètu: Bil oc Hiúki [5]), er þau gèngu frá brunni þeim er Byrgir [6]) heitir, oc báru á avxlum sèr sá, er heitir Sægr, en staungin Simul. Viðfinnr er nefndr faþir þeirra, þessi bavrn fylgia Mána svâ sem siá má af iörþu.

12. Þá mælti Gángleri: skiótt ferr sólin, oc nær svâ sem hon sè hrædd, [oc eigi mundi hon þá meirr hvata gaungunni at hon hræddiz bana sinn [7]). Þá
10. svarar Hár: [eigi er þat undarligt at hon fari ákafliga [8]); nær gengr sá er hana sækir [9]), [oc öngan útveg á hon nema renna undan. Þá mælti Gángleri: hverr er sá er henni gerir þann ómaka? Hár segir: þat eru 2 *úlfar*, oc heitir sá er eptir henni ferr Sköll;

---

1) Mundilfari *O. St.* Mundilferi *S. U. Hún sleppir einnig þessu frá merkinu.* 2) Glornir *U. St.*
3) *sleppir U.* 4) *sleppir U.* 5) Hviki *St.* 6) Bygvir *U.*
7) *sleppir U.* 8) *sleppir U.* 9) *leiþir U.*

hann hræðiz hon, oc hann mun taka hana; en sá heitir Hati Hróðvitnis son er firir henni leypr, oc vill hann taka túnglit, oc svâ mun verþa [1]). Þá mælti Gángleri: hver er ætt úlfanna? Hár segir: Gýgr ein býr firir austan miþgarð í þeim skógi er iárnviðr heitir, í þeim skógi byggia þær travllkonur er iárnviðiur heita. En gamla gýgr fæþir at sonum marga iötna, oc allir í vargs líkium, oc þaþan [af eru komnir þessir úlfar, oc svâ er sagt at af ættinni verþr sá einn mátkaztr, er kallaðr er Mánagarmr: hann fylliz með fiörvi allra þeirra manna er deyia [2]), oc hann gleypir túngl, oc stavckvir bló þi himin oc lopt avll, þaþan týnir sól skini sínu, oc vindar eru þá ókyrrir oc gnýa hèþan oc handan. Svâ segir í Völuspá.

Austr býr en alldna [3])
í iárnviþi,
oc fæþir þar
Fenris kindir:
verþr or þeim avllum
einna nockurr [4])
túngls tiúgari [5])
í tröllz hami.

Fylliz fiörvi
feigra manna,
rýðr ragna siavt
rauþum dreyra:
svavrt verþa sólskin
of sumur eptir,
veþr avll vâlund
vituð èr enn eþa hvat? ]

13. Þá mælti Gángleri: Hver er leið til himins af iörþu [6])? Þá svarar Hár, oc hló við: eigi er nú fróðlega spurt; er þér ei sagt þat at guþin gerþu 11.

1) Ulfar tveir gera þat: Skoll ok Hatti Hróþvitnisson. Þá m. Gángl. *o. s. fr. U.*
2) kom Mánagarmr, hann fylltiz med fiörvi feigra manna *U.*
3) arma *U.* 4) íma nockur *U.* 5) tregari *U.*
6) Hèr segir frá Bifravst *sneygir U. inn.*

brú til himins af iörþu, oc heitir *Bif-ravst*, hana muntu sèt hafa, kann vera at þat kallir þú regnboga. Hon er með 3 litum oc miöc sterk, oc ger með list oc kunnáttu meiri enn aðrar smíþir [1]): oc svâ sem hon er sterk þá mun hon brotna, þá er Muspellz megir fara at ríþa hana, oc svima hestar þeirra ifir stórar ár, [svâ koma þeir fram [2]). Þá mælti Gángleri, eigi þótti mèr goþin gera af trúnaþi brúna, er hon scal brotna mega, er þau megu gera sem þau vilia. Þá mælti Hár: eigi eru goþin hallmælis verð firir þessa smíð, góð brú er Bifravst, en engi lutr er sá í þessum heimi er sèr megi treystaz, þá er Muspellz synir heria [3]).

— — —

14. Þá mælti Gángleri. Hvat hafþiz Allfavðr at
12. þá er gerr var Asgarðr? Hár mælti: í upphafi setti hann stiórnarmenn, oc beiddi þá at dæma meþ sèr örlavg manna, [oc ráþa um skipun borgarinnar; þat [4]) var þar sem heitir *Iþa völlr* í miðri borginni. Var þat hit fyrsta þeirra verk at gera hof, þat er sæti þeirra standa í, 12 avnnor en hásætit þat er Allfavðr á, þat hús er bezt gert á iörþu oc mest: allt er þat utan oc innan svâ sem gull eitt, í þem stað kalla menn Glaþsheim [5]). Annan sal gerþu þeir, þar var Havrgr [6]) er gyðiurnar áttu, oc var hann allfagr,

1) *St. sm. inn*: þat er rauþt siest í Boganum, er Elldur brennandi; uppá Himin mundu gánga bergrisar væri öllum fært er fara vilia.
2) *sleppir O.* svâ koma þeir fram ferþinni *U.*
3) *Þessar fiórar greinir: 10, 11, 12 og 13. eru audsiáanliga brot af ödrum höfundi, og trubla samheingid um Asgard.*
4) ok ráþadómrana *U.* 5) Gladheim *U.* 6) er hörgr var *U.*

þat hús kalla menn Vingólf [1]). Þar næst gerþu þeir þat at þeir lavgþu afla [2]), oc þar til gerþu þeir hamar oc taung oc steðia, oc þaðan af avll tól avnnur, oc því næst smíþuðu þeir málm oc stein oc trè, oc svâ gnógliga þann málm er gull heitir, at avll búsgavgn [3]) havfþo þeir af gulli, oc er sú avld kavllut gullaldr: áðr en spiltiz af tilqvâmu kvenn-
anna, þær er komu [4]) or Jötunheimum. Þar næst 13.
settuz guþin upp í sæti sín, oc rèttu dóma sína, oc minntuz hvaþan dvergar hefþu qviknat í moldunni oc niðri í iörþunni svâ sem maðkar í holdi. Dvergarnir havfþu skipaz [5]) fyrst, oc tekit qviknan í holdi Ymis, oc voru þá maðkar. En af atqvæþi guþanna urþu þeir vitandi mannvitz, oc havfþu mannz líki, oc búa þó í iörþu oc í steinum. Moðsognir [6]) var dvergr [7]) oc annarr Durinn, svâ segir í Völuspá.

Þá gèngu regin avll
á rökstóla
ginnheilug goþ
oc of þat gettuz:
at [8]) skyldi derga
drótt of-skepia [9])
or brími blóþgo
oc or Bláins leggium [10]).
Þar mannlíkun
mörg of gerþuz,
dvergar í iörþu
sem Durinn sagþi [11])

Oc þessi segir hon navfn þeirra dverganna [12]).

1) Vindgólf *S.* Vindglóþ *U.* 2) afl *U.*

3) *O. U. sm. inn*: ok öll reidigögn. 4) þær komu *O. S. U. St.*

5) skapaz *U.* 6) Módsognir *S.* (Mjödsognir?) 7) æztr *O. U.*

8) hverr *O. U.* 9) um-spekia *U.*

10) *Svo les O. og mun þat rètt*; *en*: Blám sleggium *K. S. U.* og blám leggium *St. Völus. Res.*

11) sem Dyrinn kendi *U.*

12) *O. sleppir úti* dverganna, *en U.* ok segir þeim nöfn þeirra.

Nýi, Niþi.
Norþri, Suþri,
Austri, Vestri,
Alþiófr [1]), Dvalinn,
Nár [2]) Náinn,
Nipíngr, Dáinn,
Bifurr, Bafurr [3]),
Bavmbavrr [4]) Nori,
Ori, Onarr [5]),
Oinn, Moðvitnir [6])
Vigr [7]) oc Gandálfr
Vindálfr, Þorinn,
Fili, Kili,
Fundinn, Vali.
Þrór, Þróinn [8]),
Þeckr [9]), Litr, Vitr,
Nýr, Nýraþr,
Reckr, Ráðsviðr.

En þessir eru oc dvergar, oc búa í steinum, en enir fyrri í moldu.

Draupnir [10]), Dólgþvari,
Havrr [11]), Hugstari,
Hleðiólfr [12]), Glóinn,
Dori; Ori [13]),
Dúfr, Andvari,
Hepti, Fili [14]),
Hárr, Síarr [15]).

En þessir komu frá Svarins havgi til Avrvánga á Jóruvavllu, oc eru komnir þaþan Lovarr [16]), þessi eru navfn þeirra.

Skirfir, Virfir [17]),
Skafiðr, Ai,
Alfr, Ingi [13]),
Eikinskialldi [19]),
Falr, Fro ti,
Fiþr, Ginnarr [20]).

15. Þá

1) Þ*annig O. U. S. en K. hefir* Alþiólfr.
2) *U. sl.* Nár *og þykist hafa*: Nani, Niningr, Dani.
3) Bavorr *O.* Bivorr, Bavr *U.* 4) Bomburr *O.* Bambavr *U.*
5) Þ*annig O.* Orr, Annar *U. en K. S. fella út* Ori.
6) Módvitnir. *S.* Ai, Miödv. *O.* Onni, Miöþvitnir *U.*
7) Viggr *U.* 8) Þiór, Þorinn *U.* 9) *U. fellir út* Þeckr.
10) Dramir *U.* Draumar *St.* 11) Hár *U.* Hagn *St.* (Hagr?)
12) Hleiþólfr *U.* 13) Dóri, Ori *S.* 14) Heftifili *O.* Heptifili *U.*
15) Svíarr *O.* Hár segir *U.*
16) ok er þadann kominn lofar *U. O.*
17) Þannig *O. U. St.* Skirpir, Virpir *K.* 18) Yngvi *U.*
19) *svo hefir O.* Eikinskialli *U.* Eikin, Skialldi *K.*
20) Ginar *U. S.*

15. Þá mælti Gángleri [1]). Hvar er havfuðstaðrinn eþa helgistaþrinn goþanna? Hár svarar: þat er at 14
aski *Yggdrasils*, þar skulo guþin eiga dóma sína hvern dag. Þá mælti Gángleri: hvat er at segia frá þeim stað? Þá segir Jafnhár: askrinn er allra treá mestr oc bestr: limar hannz dreifaz ifir heim allan, oc standa yfir himni, þriár rætr trèsins halda því upp, oc standa afar breitt. Ein er með Asum, en avnnur með Hrímþussum, þar sem forþum var ginnúngagap; en þriþia stendr ifir Niflheim: oc undir þeirri rót er Hvergelmir, en Níðhavggr gnagar neþan rótna. En undir þeirri rót er til Hrímþursa horfir þar er Mímisbrunnr, er spekð oc mannvit er í-fólgit, oc heitir sá Mímir er á brunninn; hann er fullr af vísindum, firir því at hann dreckr or brunninum af horninu Giallarhorni. Þar kom Allfavðr oc beiddiz eins dryckiar af brunninum, [en hann fèck ei fyrr [2]) en hann lagþi auga sitt at veþi [3]). Svâ segir í Vavluspá.

Allt veit ec Oþin
hvar þú auga [4]) falt:
í þeim enum mæra [5])
Mímis-brunni;
dreckr miöð [6]) Mímir
morgun hverian
af veþi [7]) Valfavðrs
vituð þèr en eþa hvat?

Þriðia rót asksins stendr á himni, oc undir þeirri rót er brunnr sá er miöc er heilagr, er heitir



1) *U. sm. inn*: Hèr segir frá Helgistad goþanna . . . . .
2) *sleppir U.* 3) í ved *U.*
4) *þannig O. U.* á auga *K. S.*
5) í hinum mæra *O.* úr þeim e. m. *K.*
6) *þannig O. U.* mod *K.* 7) *þannig O. U.* veiþi *K.* vidi *S.*

Urþar-brunnr; þar eigu guþin dómstað sinn: hvern dag ríþa Æsir þángat upp um Bifravst, hon heitir oc Ásbrú. Hestar Asanna heita svâ: Sleipnir er baztr, hann á Óþinn, hann hefir átta fætr; annar er Glaðr, þriði Gyllir, fjórði Gler [1]), fimti Skeiðbrímir, sètti Silfrintoppr [2]), sjöundi Sinir, áttundi Gils [3]), níundi Falhófnir [4]), tíundi Gulltoppr, Lèttfeti ellefti, Baldrs hestr var brendr með havnum, en Þór gengr til dómsins, oc veðr ár þær, er svâ heita [5]).

Kavrmt oc Avrmt
oc Kerlaugar tvær
þær skal Þórr vaþa
dag hvern,
er hann dæma scal
at aski Yggdrasils;
þvíat Ásbrú
brenn avll loga,
heilug vavin hlóa [6]).

Þá mælti Gángleri: brenn elldr yfir Bifravst? Hár svarar: þat er þú sèr rautt í boganum er elldr brennandi: uppá himin mundu gánga [hrimþursar oc [7]) bergrisar, ef avllum væri fært á Bifravst, þeim er fara vilia.

15. Margir staðir eru á himni fagrir, oc er þar allt guðleg vörn [8]) firir: þar stendr salr einn fagr undir askinum viþ brunninn, oc or þeim sal koma 3. mæyjar þær er svâ heita: Urþr, Verþandi, Skulld. Þessar meyiar skapa mavnnum alldr, þær kavllum vær *nornir*. En eru fleiri nornir, þær er koma til hvers mannz er borinn er, at skapa alldr, oc eru þessar

1) Glenr *O. en U. sl.* þ*ví nafni úti.* 2) Silfrtoppr *K. S.*
3) Gisl *O.* 4) Falofnir *U.* Fálhófnir *S.*
5) *Siá Grímn. 29. erindi í Sæm. Eddu.*
6) flóa *U.* 7) *sl. O. og U.*
8) þ*annig O.* eru þar allt gudleg vautn *K.* er þ. a. g. vernd *S. U.*

goðkunnigar [1]), en aðrar álfaættar, en enar þriðiu dvergaættar. Svâ sem hèr segir:

Sundr-bornar miöc
hygg ec [2]) at nornir sè,
eigot þær ætt saman;
sumar eru áskunnar [3]),
sumar eru álfkunnar [4]),
sumar dætr Dvalins.

þá mælti Gángleri. Ef nornir ráþa orlavgum manna, þá skipta þær geysi úiafnt, er sumir hafa gott líf oc rikuligt, en sumir hafa lítit lèn eþa lof, sumir lángt lif sumir skamt. Hár svarar: góþar nornir oc vel ættaðar skapa góðan alldr, en þeir menn er firir úskavpum verþa, þá vallda því illar nornir.

16. þá mælti Gángleri. Hvat er fleira at segia stórmerkia frá askinum? Hár segir: mart er þar af at segia [5]). Avrn einn sitr í limum asksins, oc er hann margs vitandi; en í milli augna havnum sitr haukr sá er heitir Veþrfavlnir [6]). Ikorni sá er heitir Ratatöskr [7]) renn upp oc niðr eptir askinum, oc ber avfundarorð milli arnarins oc Niðhavggs. Enn 4 hirtir renna í limum asksins oc bíta barr; þeir heita svâ: Dáinn [8]), Dvalinn, Dunneir, Duraþrór [9]). En svâ margir ormar eru í Hvergelmi med Niðhavgg, at engi túnga má telia. Svâ segir hèr [10]).

---

1) godkyndar *U.*
2) Segi ek *O.*
3) áskungar *O.* áskyndar *U.*
4) álfkungar *O.* álfkyndar *U.*
5) *U. sm. inn*: Frá aski Yggdrasils.
6) Vedrlaufnir *U.*
7) Ratakostr *S. U.*
8) Danin *U.*
9) Dunæyrr, Dyraþrór *O.* Dyneyr, Dyraþrór *U.*
10) *í Sæm. Eddu Grímn. 35. erindi.*

Askr Yggdrasils
drýgir [1]) erfiþi
meira en menn viti:
hiörtr bítr ofan,
en á hliþu [2]) fúnar,
skerþir Níðhavggr neþan.

Svâ er enn sagt [3]).

Ormar fleiri liggia
und aski Yggdrasils,
en þat ofhyggi hverr ósviðra apa
Góinn oc Móinn
þeir 'ro Grafvitnis synir [4]),
Grábakr oc Gráfiavlluðr [5]),
Ofnir oc Svafnir
hygg ec at æ myni
meiðs qvistum [6]) má.

Enn er þat sagt at nornir þær, er byggia við Urþar brunn, taka hvern dag vatn í brunninum oc með aurinn þann er liggr um brunninn, oc ausa upp yfir askinn, til þess at ei skyli limar hanns trèna eþa fúna. En þat vatn er svâ heilagt, at allir lutir þeir sem þar koma í brunninn, verþa svâ hvitir sem hinna sú er skiall heitir, er innan liggr viþ eggskurn [7]). Svâ sem hèr segir:

Ask veit ec ausinn [8])
heitir Yggdrasils [9])
hár baþmr [10]) heilagr
hvíta aure
þaþan koma davggvar
er [11]) í dali falla
stendr hann æ yfir grunn [12])
Urþar brunni.

Sú davgg er þaþan af fellr á iörþina, þat kalla menn hunángs-fall, oc þar af fæþaz býflugur [13]). Fuglar 2 fædaz í Urþar brunni, þeir heita Svanir, oc af þeim fuglum hefir komit þat fuglakyn er svâ heitir [14]).

17. Þá mælti Gángleri. Mikil tiðindi kann þú at segia af himnum: hvat er þar fleira havfuðstaða

1) eykur *S.* 2) hliþum *U.* 3) Grímn. 34. 4) liþar *U.*
5) *Þetta hefi èg sett í stadinn fyrir* Grafvavlludr *K. O.* Gráfavlludr *S.* Grafvöllduþr *U.*
6) kostum *S. U.* 7) eggskurmsl *U.* 8) standa *S. U. Völ.* 19.
9) Yggdrasill *O. U. S.* 10) hátt borinn *S.* hár borinn *U.*
11) þærs *O.* þær *U.* 12) grænn *O. S.* grein *U.* 13) blyflugar *K.*
14) *U. sm. inn:* Hèr segir frá . . . . . . *en ecki* "11 Dämesagan" *sem Jóh. Jörundarson hefir sett í stadinn af egin ramleik.*

en at Urþar-brunni? Hár svarar. Margir staþir eru þar göfugligir: sá er einn staðr þar er kallat er Alfheimr, þar byggvir fólk þat er Ljósálfar heita, en Davckálfar búa niðri í iörþu, oc eru þeir úlíkir þeim sýnum, en miklu úlíkari reyndum. Liósálfar eru fegri en sól sýnum, en Davckálfar eru svartari en bik. Þar er einn [1]) sá staþr, er Breiþablik er kallat, oc engi er þar fegri staþr. Þar er oc sá er Glitnir heitir, oc eru veggir hannz oc steðr [2]) oc stólpar af rauþu gulli, en þak hannz af silfri [3]). Þar er enn sá staðr er Himinbiörg heita, sá stendr á himins enda við brúarsporð, þar er Bifravst kemr til himins. Þar er enn mikill staðr er Valaskiálf heitir, [þann stað á Oþinn [4]), þann gerþu guðin oc þavku skíru silfri; oc þar er Hliðskiálfin í þessum sal, þat hásæti er svâ heitir, oc þá er Allfavðr sitr í því sæti, þá sèr hann of allan heim. A sunnanverþum himins-enda [5]) er sá salr er allra er fegrstr oc biartari en sólin, er Gimle heitir; hann skal standa þá er bæþi himin oc iörð [hefir fariz [6]), oc byggia þann stað goþir menn oc rèttlátir of allar alldir. Svâ segir í Völuspá.

Sal veit ec standa
sólo fegra
gulle betra [7])
á Gimle [hám [8])
þar [9]) skulo dyggvar
dróttir byggia
oc of alldr daga]
yndis nióta.

[Þá mælti Gángleri. Hvat gætir þess staðar þá er

1) enn *O.* ok *U.*
2) stedr allar *O. U.* ok stoder af raudu gulli *S.*
3) gulli *U.* 4) *sl. U.* 5) heimsenda *U.* 6) fyrirfaraz *U.*
7) þaktan *O. U.* þakinn *S.* 8) *vantar í öllum.* 9) þann *O.*

Surta [1]) logi brennir himin oc iörð? Hár segir: [2]) svâ er sagt at annarr himin sè suðr oc upp frá þessum himni, oc heitir sá himin Andlángr [3]) en hinn þriþi himin sè enn upp frá þeim, oc heitir sá Víðbláinn [4]), oc á þeim himni hyggium vèr þenna stað vera, en Liósálfar einir hyggium vèr at nú byggvi þá staði.

— — —

18. Þá mælti Gángleri. Hvaþan kemr *vindr?* hann er sterkr svâ at hann hrærir stór havf, [oc hann æsir elld, en svâ sterkr sem hann er þá má ei siá hann, því er hann undarlega skapaþr [5]). Þá
13. svarar Hár: þat kann ec vel segia þèr; á norþanverþum himins enda [6]) sitr iötun sá er Hræsvelgr heitir, hann hefir arnar ham; en er hann beinir flug, þá standa vindar undan vængum honum. Hèr segir svâ 7).

Hræsvelgr heitir,
er sitr á himins enda,
iötunn í arnar ham:
af hanns vængum
kveða vind koma
alla menn yfir.

19. Þá mælti Gángleri. Hvi skilr svâ mikit at *sumar* skal vera heitt en *vetr* kalldr? Hár svarar.

———

1) Svartta *S.* Svarta *U.*

2) *St. smeygir hèr inn*: Hár svarar: þeim staþ grandar ei er Svarta logi brennir himin oc jorþ. *En þetta þykist skrifarinn Olafr Helgason siálfr hafa smídad úr því sem finnst í Resens útgáfu* : þeim Stad grandar ei er svarta Loge brenner Himen og Jörd. *Sem Sra. Magnús Olafsson, er segist at hafa tilbúid Resens Eddu, ad öllum líkindum hefir siálfr sett í stadin fyrir*: þá mælti Gángl. Hvad (*eda* Hver) gætir þess stadar þá er Surta logi brennir himin ok jörd, *til þess at hiálpa vid textanum, er annars hángir miög ílla saman. En mèr þykir líkara at Hár hafi ekki verid vidlátinn at svara þessari spurningu; edr at þetta hafi yfirsèzt höfundinum eins og margt annad, og lízt mèr ecki á ad umbreyta því sem öllum gömlum skinnbókum kemr saman um.*

3) sá heimr Viþbláinn *U.* 4) avndlángr *U.*

5) ok færir undur Mikil af sèr *S.* því hann er undarl. skap. *O.*

6) heims enda *S.* 7) í *Sæmundaredd* Vafþr. 37.

Eigi mundi svâ fróþr maþr spyria, því at þetta vitu allir at segia; en ef þú ert einn orþinn svâ fávis, at ei hefir þetta heyrt, þá vil ec þó þat vel virþa, at heldr spyrir þú eitt sinn ófróþliga, en þú gángir lengr duliðr þess er skyllt er at vita.
Svasuðr heitir sá er faþir Sumars er, oc er hann 17.
sællífr, svâ at af hannz heiti er þat kallat svaslegt er blítt er. En faþir vetrar er ýmist kallaðr Vindlóni [1]) eðr Vindsvalr, hann er Vasaþar son, oc voru þeir áttúngar grimmir oc svalbrióstaþir [2]), oc hefir vetr þeirra skaplyndi [3]).

— — —

20. Þá mælti Gángleri [4]). Hverir eru *Æsir* þeir er mavnnum er skyllt at trúa á? Hár svarar. Tolf 18.
eru Æsir guðkunnigir. Þá mælti Jafnhár. Eigi eru Asyniurnar úhelgari, oc ei megu þær minna. Þá mælti Þriþi. *Oþinn* er æztr oc ellztr Asanna; hann ræðr avllum lutum, oc svâ sem avnnur guþin eru máttug, þá þióna honum avll svâ sem bavrn favðr. En Frigg er kona hannz, oc veit hon avrlavg manna þótt hon segi ei spár. Svâ sem hèr [5]) er sagt, at Oþinn mælti siálfr við þann As er Loki heitir.

1) Vindlióni *O.* 2) Grymnir ok Svalbrióstadur *S.*
3) *U. og St. fella út þá 18. og 19. grein, er þykist vera sèrligt brot, kannske af sama brunni ausid og hitt um Nörva jötun (10.— 13. grein), ad minnsta kosti er ordatiltækid hèr miög svo líkt þeirri 13. grein; þó gæti þetta skiliżt svo, ad sami madr hefdi fært inn bædi brotin, og brúkad þarvid sín egin ord, þótt brotin siálf hafi verid af ólíkum uppruna. Hitt er lióst at þessar tvær greinir trubla samheingid öldúngis, og þeirra innihald líkist hvorki því undanfarna nè eptirfylgiandi; en frá höfudstödum á himni og Liósálfum (í 17. gr.) er allnáttúrligr yfirgángr til Asanna, er mönnum er skylt at trúa á (í 20. grein).*
4) Hèr segir frá nöfnum Oþins ok ríki *U.*
5) *Sæmundaredd. Ægisdr. 48. 29. erindi, en þad sèst af sam-*

Ærr ertu Loki [1])
oc örviti,
hví nè legskaþu Loki [2]):
avrlög Frigg
hygg ec at avll viti,
þótt hon siálfgi segi.

Oþinn heitir Allfavðr [3]), því at hann er faþir allra goþa: hann heitir oc Valfavðr, því at hannz óskasynir eru allir þeir er í val falla, þeim skipàr hann Valhavll oc Vingólf, oc heita þeir þá einheriar. Hann heitir oc Hánga-guð oc Hapta-guð [4]), Farma-guð, oc enn hefir hann nefnz á fleire vega, þá er hann var kominn til Geirröþar konúngs [5]).

Heitumzc Grímr,
oc Gángráðr [6])
Herian, Hiálmberi,
þeckr, þriþi,
þuðr, Uðr [7]),
Helblindi, Hár,
Saðr, Svipall,
Sann-getall,
Herteitr, Hnikarr,
Bileygr, Báleygr,
Bavlverkr, Fiölnir,
Grímnir, Glapsviðr, (Fiölsviðr [8]).
Síðhavttr, Síðskeggr,
Sigfavðr, Hnikuðr,
Allfavðr, Atriðr, (Farmatýr [9])
Oski, Omi,
Jafnhár, Biflindi [10])
Gavndler [11]), Harbarðr,
Sviðurr, Sviðrir,
Jálkr, Kialarr, Viþurr,
þrór, Yggr, þundr [12]),
Vakr, Skilvíngr,
Vafuðr, Hroptatýr [13]).
Gautr, (Veratýr [14]).

---

*heinginu þar, ad þader Freya sem segir þetta.*

1) Ærr ertu nú orþinn *U.*

2) lezkattu *O. rèttara.* hví floptir þú loptr? *U.*

3) Alfaþir *U.* 4) Happa gud *U.*

5) *Grimn. 45. erindi. o. flg. Höfundrinn hefir einúngis talid upp nöfnin, og ekki gefid um þau ord sem fylla upp bragarháttinn, þó hefir hann fylgt rödinni, og getr madr þareptir endrbætt erindin í Grímnismálum; því hefi eg skipt nöfnunum í stökur og fráskilid þau, er trubla bragarháttinn.*

6) Gánglari *O.* Gángleri *U.* Gángari *K. S. hvaraf èg hefi gjört Gángrádr, sem Odin kallast í Vafþr.*

7) Þudrudr *O. og U.* 8) *fellir U. út.* 9) *fellir S. út.*

10) Blindi *K. S.* 11) Gelldnir *U.*

12) *Þessar þriár línur eru samandregnar úr ymsum erindum, því vantar hèr hliódstafi.*

13) Yggr — Hroptatyr *vanta í U.*

14) *Þetta nafn, sem er tekid úr Grimn. 3. setr K. framfyrir* Gautr,

Þá mælti Gángleri. Geysi mavrg heiti hafi þèr gefit honum, oc þat veit trúa mín at þetta mun vera mikill fróþleikr, sá er hèr kann skyn oc dæmi hverir atburþir hafa orþit sèr til hvers þessa nafns. Þá svarar Hár. Mikil skynseme er at rifia vandlega þat, en þó er þèr þat skiótaz at segia, at flest heiti hafa verit gefin af þeim atburðum, at svâ margar [sem eru greinir túngnanna [1]) í veröldunni, þá þickiaz allar þióðir þurfa at breyta nafni hannz til sinnar túngu til ákallz oc bæna firir [2]) siálfum sèr, en sumir atburþir til þessa heita hafa gerzt í ferþum hannz, er þat fært í frásagnir, oc muntu eigi mega fróþr maþr heita, ef þú skalt ei kunna segia frá þeim stórtíþindum.

21. Þá mælti Gángleri. Hver eru navfn annarra [3])
Asanna? [eþa hvat hafaz þeir at [4])? eþa hvat hafa
þeir gert til frama [5])? Hár svarar: *Þórr* er þeirra 19.
framaztr, sá er kallaðr Asaþórr eþa Ökuþór; hann
er sterkaztr allra guðanna oc manna. Hann á þar
ríki er Þrúðvángar heita [6]), en havll hannz heitir
Bilskirnir: í þeim sal eru 5 hundrut gólfa oc fiórir
tígir, þat er hús mest svâ at menn hafa gert [7]).
Svâ segir í Grímnismálum.

Fimm hundrut gólfa
oc of fiórum tavgum [8])

---

*og er líkast at* Hroptatyr *hafi minnt Höfundinn á þad, en O. setr þad eptir, og svo trublast midr erindit. U. hefir svo:* Gautr, Jalkr, Veratyr, *en S.* Hvedrúngi, Gautr, Veratyr.

1) túngur sem gánga *O.* 2) bænaferlis *U.* bænaferlis fyrir *S.*

3) goþanna eþı *sm. U. inn.* 4) *sleppir U. úti.*

5) *U. sm. inn*: Hèr segir frá Þór ok ríki hanns

6) Þrúdvángr heitir *U. S.* 7) hafi giört *O.* vitì *U.*

8) ok um 40 *O.* ok fióra tugo *U.*

svá hygg ec Bilskirni með bugum [1]):
ranna þeirra
er ec ræfr [2]) vita
míns veit ec mest magar.

Þór á hafra tvá er svá heita: Tanngnióstr oc Tanngrisnir, oc reið [þá er hann ekr í [3]), en hafrarnir draga reiðna; því er hann kallaðr Ávkuþórr. Hann á oc þriá kostgripi: einn þeirra er hamarrinn Miöllnir, er hrímþursar oc bergrisar kenna, þá er hann kemr á lopt, oc er þat ei undarligt; hann hefir lamit margan haus á feðrum eþa frændum þeirra. Annan grip á hann beztan megingiarþar, oc er hann spennir þeim um sic, þá vex honum ásmegn hálfu. En þriþia lut á hann þann er mikill gripr er í, þat eru Járnglófar [4]), þeirra má hann ei missa viþ hamars skaptit. En engi er svá fróþr at telia kunni avll stórvirki hannz, en segia kann ec þér svá mavrg tíþindi frá honum, at dveliaz munu stundirnar [5]) áðr en sagt er allt þat er ec veit.

22. Þá mælti Gángleri. Spyria vil ec tíþinda
20. af fleiri Asunum. Hár segir. Annarr son Oþins er *Balldr*, oc er frá honum gott at segia; hann er beztr, oc hann lofa allir. Hann er svá fagr álitum oc biartr svá at lýsir af honum, oc eitt gras er svá hvítt at iafnat er til Balldrs brár, þat er allra grasa hvítast; oc þar eptir mát-þu marka hannz fegurð, bæði á hári oc líki, hann er vitraztr Asanna oc fegrzt-tal-

1) bogum *U.* 2) rept *O.*
3) þórr ekr í reiþinni þá er hann fer í Jötunheima *U.*
4) iárngreipr *U.* 5) mun dagr *U. S.*

aðr [1]) oc líknsamaztr. En sú náttúra fylgir honum at engi má halldaz [2]) dómr hannz. Hann býr þar sem heitir Breiðablik, þat er á himni; í þeim stað má ecki vera óhreint; svâ sem hèr [3]) segir:

Breiþablik heita
þar er Baldr hefir
sèr of gerva sali,
í því landi
er ec liggia veit
fæsta feikn-stafi.

23. Hinn þriþi As er sá er kallaðr er *Njörðr*, 21.
hann býr á himni þar sem heitir Nóatún. Hann ræðr firir gaungu vinds, oc stillir siá oc elld; á hann skal heita til sæfara oc til veiþa. Hann er svâ auðigr oc fèsæll, at hann má gefa þeim auð landa eþa lausafiár, er á hann heita til þess [4]). Hann var uppfæddr í Vanaheimum, en Vanir gisluþu hann goþunum, oc tóku í mót at Asagislingu þann er Hænir heitir: hann varð at sætt með Goþunum oc Vönum. Niörðr á þá konu er Skaði heitir, dóttir þiaza iötuns. Skaði vill hafa bústað þann er átt hafþi faþir hennar, þat er á fiöllum nokqvorum, þar sem heitir þrymheimr [5]); en Niörðr vill vera nær sæ: þau sættuz á þat, at þau skylldu vera níu nætr í þrumheimi, en þá þriár at Nóatúnum [6]). En er Niörðr kom aptr til Nóatúna af fiallinu, þá qvað hann þetta.

Leiþ erumc fiöll
varca ec lengi [7])
nætr einar níu:
úlfa þytr
mèr þótti illr vera
hiá söngvi svana.

---

1) þ*annig O. U. St.* fegrztr talidr *K.*
2) hallaz *O. St. en teingdar-ordid* Enn þ*ykist útheimta einhvörn ókost.* 3) *Grímnism.* 12. *erindi.*
4) Eigi er Niördr Asa ættar *sm. O. U. inn.* 5) þrúþheimr *U. St.*
6) þ*annig O. U.* níu vetr í þr. en þá adra 9 at Nóat. *K.* níu nætur í þr. e. þ. adrar níu í Nóat. *S.* níu nætur upp á fiöllunum, enn þá þriár í Nóatúnum *St.*
7) á *bætir O. vid.* varkaþa ek lengi hiá *U.*

Þá qvað Skaði þetta.

Sofa ec nè mátta [1])
sæfar beþium á
fugls iarmi firir:
sá mik vekr
er af víþi kemr
morgun hverian már.

Þá fór Skaði upp á fiallit, oc bygþi í Þrymheimi [2]), oc ferr hon miöc á skíþum oc með boga, oc skýtr dýr: hon heitir ayndurguð eþa ayndurdís. Svâ er sagt [3]).

Þrymheimr [4]) heitir,
er Þiazi bió [5])
sá hinn ámátki iötun;
en nú Skaði byggvir,
skír brúðr guþa,
fornar tóptir favðr.

24. Niörðr í Nóatúnum gat síþan tvö bavrn:
22. hèt sonr Freyr, en dóttir Freyia, þau voru favgr álitum oc máttug. *Freyr* er hinn ágætazti af Asum, hann ræðr firir regni oc scini sólar, oc þar með ávexti iarþar, oc á hann er gott at heita til árs oc friþar: hann ræðr oc fèsælu manna. En Freyia er ágætuz af Asyniurn: hon á þann bæ á himni er Fólkvángar heita [6]): oc hvar sem hon ríðr til vígs, þá á hon hálfan val en hálfan Oþinn, svâ sem hèr [7]) segir.

Fólkvángr heitir
en þar Freyia ræðr
sessa kostum í sal;
hálfan val hon kýss,
á hverian dag
en hálfan Oþin á.

Salr hennar Sessrýmnir [8]) hann er mikill oc fagr. En er hon ferr þá ecr hon köttum tveimr, oc sitr

1) *Þannig O.* Sofa ec máttac *K.* ek máki *U.*
2) á Þrúþheimi *U. St.* 3) *Grimnism.* 11. *erindi.*
4) Þrúþheimr *U. St.*
5) Þar nú Þiazi byr *U. auk annara penna villna, hún hefir og þá fyirsögn fyrir næstu grein*: Fra Frey.
6) Fólkvángr heitir *O. S.* 7) *Grimn.* 14. *erindi.*
8) Sessvarnir heitir ok salr hennar *U.* Salr hennar heitir Sessrymnir *S.*

í reið. Hon er náqvæmuz mavnnum til áheita: oc af hennar nafni er þat tignarnafn, er ríkiskonur eru kallaðar freyior [1]). Henni líkaþi vel mansaungr, á hana er gott at heita til ásta.

25. Þá mælti Gángleri. Miklir þickia mèr þessir firir sèr Æsirnir; oc ei er undarligt at mikill kraptr fylgi yðr, er þèr skolut kunna skyn goþanna, oc vita hvert biðia skal hverrar bænarinnar. Eþa eru fleiri enn goþin? Hár svarar [2]). Sá er enn Ás er *Týr* 23.
heitir. Hann er diarfaztr oc bezt hugaðr, oc hann ræðr miöc sigri í orostum; á hann er gott at heita hreystimavnnum. Þat er orðtak at sá er tý-hraustr, er umfram er aðra menn, oc ecki setz firir [3]). Hann var oc vitr svâ at þat er mælt, at sá er tý-spakr er vitr er. Þat er eitt marc um diarfleic hannz: þá er Æsir lockuðu Fenris-úlf til þess at leggia fiötrinn á hann Gleipni; þá trúþi hann þeim ei, at þeir mundu leysa hann, fyrr en þeir lögþu honum at veþi hönd Týrs í munn hannz. En þá er Æsir vildu ei leysa hann, þá beit hann havndina af, þar er nú heitir úlfliðr; oc er hann einhendr, oc ecki kallaðr sættir manna.

26. *Bragi* heitir einn, hann er ágætr at speki 24.
oc mest at málsnild oc orðfimi: hann kann mest af skáldskap, oc af honum er bragr kallaðr skáldskapr, oc af hannz nafni er sá kallaðr bragr [4]) karla eþa

1) frúr *O.*

2) *Hèr hefir U. lánga máða fyrirsögn; en ecki:* "15 Dämesagan", *sem Jör. hefir prenta látið.*

3) siez fyrir *O.* 4) bragarmaþr *U.*

qvenna, er orðsnilld hefir framarr en aðrir kona eþa karlmaþr. Kona hannz er Iþunn, hon varðveitir í eski sínu epli, þau er goþin skulo á-bita þá er þau eldaz, oc verþa þá allir úngir, oc svâ mun vera allt til ragnaravckrs. þá mælti Gángleri. Allmikit þycki mèr goþin eiga undir gæzlu eþa trúnaþi Iþunnar. þá mælti Hár oc hló við: nær lagþi þat úfæru einu sinni; kunna mun ec þar af at segia, en þú skalt nú fyrst heyra navfn Asanna fleire.

27. *Heimdallr* heitir einn, hann er kallaðr hvíti
25. Ás, hann er mikill oc heilagr, hann báru at syni meyiar níu [1]), oc allar systr, hann heitir oc Hallinskíþi [2]) oc Gullintanni, tennr hannz vöru af gulli, hestr hannz heitir Gulltoppr. Hann býr þar er heitir Himinbiörg viþ Bifraust: hann er vavrðr goþa, oc sitr þar við himins enda [3]) at gæta brúarinnar fírir bergrisum, þarf hann minna svefn en fugl, hann sèr iafnt nótt sem dag hundrat rasta frá sèr, hann heyrir oc þat er gras vex á jörþu eþa ull á sauþum oc allt þat er hærra lætr: hann hefir lúðr þann er Giallar horn heitir, oc heyrir blástr hannz í alla heima. [Heimdallar sverð er kallat havfut [4]). Hèr er svâ sagt [5]).

Himinbiörg heita
en þar Heimdall
qveða valda veum:
þar vörðr goþa dreckr
í væru ranni,
glaðr hinn góða miöð.

Oc enn segir hann siálfr í Heimdallar galldri:

Níu em ec mæþra mavgr
níu em ec systra sonr.

1) í senn *sm. S. inn.*
2) Hiálmskíþi *U.*
3) heims enda *U.*
4) *fellir U. út.*
5) *Grimn. 13. erindi.*

28. *Havðr* heitir einn Assinn, hann er blindr: 26.
ærit er hann styrkr, en viþa mundu goþin at þenna As þyrfti ei at nefna, því at hannz handa verk munu lengi vera havið at minnum meþ goþum oc mavnnum.

29. *Vîþarr* heitir einn, hinn þavgli Ás: hann hefir skó þiokkvan [1]. Hann er sterkr næst því sem Þórr er, af honom hafa goþin mikit traust í allar þrautir.

30. *Ali* eþa *Vali* heitir einn, sonr Oþins oc Rindar, hann er diarfr í orostum oc miöc happskeytr [2].

31. *Ullr* [3]) heitir einn, sonr Sifiar, stiúpsonr Þórs, hann er bogmaðr svá góðr oc skiðfærr, svá at engi má við hann keppaz. Hann er fagr álitum, oc hefir hermannz atgervi, á hann er gott at heita í einvígi.

32. *Forseti* heitir sonr Balldrs og Navnnu Neps [4]) dóttur. Hann á þann sal á himni er Glitnir heitir: en allir er til hannz koma með sakarvandræþi, þá fara allir sáttir á braut, sá er dómstaðr beztr með guþum oc mavnnum: svâ segir hèr [5]).

Glitnir heitir salr
hann er gulli studdr
oc silfri þaktr it sama:
en þar Forseti byggir
flestan dag [6]),
oc svæfir allar sakar [7]).

---

1) *Þessa málysku hafa Svíar enn, og segia* tjock *fyrir* þyckr.
2) hagskeytr *U.*
3) *Þannig O. U. en K. S. hafa hèr* Ulli *sem ecki á vel vid eignarendínguna* Ullar.
4) Nefs *S. U.* 5) *Grimn. 15 erindi.*
6) *Þannig O. St. og Sæmundareddu*; flestum dag *sem málfrædin ekki leyfir K. S.*
7) Hèr segir frá Loka *smeygir U. inn.*

33. Sá er enn taldr með Asum; er sumir kalla
27. rógbera Asanna oc frumqveþa flærþanna oc vömm allra goþa oc manna, sá er nefndr *Loki* eþa Loptr, son Farbauta iötuns, móþir hannz er Laufey eþa Nál, bræðr hannz eru þeir Býleistr [1]) oc Helblindi [2]). Loki er friþr oc fagr sýnum, illr í skaplyndi, miöc fiölbreytinn at háttum: hann haþi þá speki umfram aðra menn, er slægð [3]) heitir, oc vælar til allra luta: hann kom Asum iafnan í fullt vandræþi, oc opt leysti hann þá með vælræþum. Kona hannz heitir Sygin [4]), sonr þeirra Nari [5]) eþa Narvi.

34. Enn átti Loki fleiri bavrn, Angrboþa hèt gýgr í Jötunheimum, viþ henni gat Loki þriú bavrn: eitt var *Fenris-úlfr*, annat Jörmungandr [6]), þat er *Miðgarþz-ormr*, þriþia er *Hel.* En er goþin vissu til at þessi 3 systkin fædduz upp í Jötunheimum, oc guþin röktu til spádóma, at af syskinum þessum mundi þeim mikit mein oc óhapp standa, oc þótti avllum mikils illz af væni fyrst af móþerni oc enn verra af faþerni, þá sendi Allfavðr til guþin, at taka bavrnin oc færa sèr. Oc er þau komu til hannz, þá kastaði hann orminum í enn diúpa sæ, er liggr um avll lavnd, oc óx sá ormr svâ, at hann liggr í miðiu hafinu of avll lavnd, oc bítr í sporð sèr. Hel kastaþi hann í Niflheim, oc gaf henni vald yfir 9 heimum, at

1) Byleiptr *U.*

2) þannig *O. S. U.* Heldblindi *K.*

3) þannig *O. S.* stægd *K. sem þykist vera penna villa.*

4) Sigun *U.* lygin eda Sigunn. *S.*

5) Nóri *S.* 6) Jörmungandr *S.*

at hon skipti avllum vistum með þeim er til hennar voru sendir, en þat eru sóttdauþir menn oc ellidauþir. Hon á þar mikla bólstaði, oc eru garþar hennar forkunnar háfir, oc grindur stórar. Eliuðnir heitir salr hennar, húngr diskr hennar, sultr knífr hennar, Gánglati þrællin, Gánglavt ambátt, fallanda forat [1]) þreskavldr hennar er inngengr, kavr sæing, blíkianda bavl ársali hennar [2]). Hon er blá hálf en hálf með havrundar lit, því er hon auðkend, oc heldr gnúpleit oc grimleg [3]).

Ulfinn fæddu Æsir heima, oc hafþi Týr einn diarfleik til at gánga at úlfnum, oc gefa honum mat. En er guþin sá hversu mikit hann óx hvern dag, oc allar spár savgþu at hann mundi vera lagþr til skaða þeim; þá fengu Æsir þat ráð at þeir gerþu fiötur allsterkan, er þeir kavlluþu læþíng [4]), oc báru hann til úlfsins, oc báðu hann reyna afl sitt viþ fiötrinn: en úlfinum þótti sèr þat ecki ofrefli, oc lèt þá fara með sem þeir vildu; it fyrsta sinn er úlfrinn spyrndi viþ, brotnaþi sá fiöturr, svâ leystiz hann or læþíngi. Því næst gerþu Æsirnir annan fiötr hálfu sterkara, er þeir kölluþu dróma, oc báðu enn úlfinn reyna þann fiötr, oc tavldu hann verþa mundu ágætan miöc at afli, ef slík stórsmíþi mætti eigi hallda honum. En úlfrinn hugsaþi at þessi fiöturr var sterkr miöc, oc þat með 29.



1) *þannig O.* fora *K.* fallanda forad grind, þolmóþnir þreskölldr *o. s. fr. U.*
2) ársalr hennar eþa tialld *U.* 3) Frá Fenris-úlfi ok Asum *U.*
4) *þannig O. U.* levþing *K. allstadar sem hann nefniss.*

at honum hafþi afl vaxit síþan er hann braut læþíng, kom þat í hug at hann mundi verþa at leggia sic í hættu, ef hann skyldi frægr verþa, oc lèt leggia á sic fiötrinn: oc er Æsir tavlduz búnir, þá hristi úlfrinn sic, spyrndi við, oc laust fiötrinum á iörþina, svâ at fiærri flugu brotin; svâ drap hann sic or dróma. Þat er síþan haft firir orðtak at leysi or læþíngi, eþa drepi or dróma, þá er einn hverr lutr er ákaflega sóttr. Eptir þat óttuðuz Æsirnir at þeir mundu ei fá bundit úlfinn; þá sendi Allfavðr (svein) þann er Skirnir er nefndr, sendimaþr Freys, ofan í Svartálfaheim til dverga nockra, oc lèt gera fiötr þann er Gleipnir [1]) heitir. Hann var giör af 6 lutum: af dyn kattarins, oc af skeggi konunnar, oc af rótum biargsins, oc af sinom biarnarins, oc af anda fisksins, oc fogls hráka; oc þóttu vitir ei áðr þessi tíþinde, þá máttu nú finna skiótt hèr savnn dæme, at ei er logit at þèr: sèt munt þú hafa at konan hefir eigi skegg, oc engi dynr verþr af hlaupi kattarins, oc ei eru rætr undir biarginu, oc þat veit trúa mín at iafnsatt er þat allt, er ec hefe sagt þèr, þótt þeir sè sumir lutir er þú mátt ei reyna. Þá mælti Gángleri: þetta má ec at vísu skilia at satt er, þessa luti má ec siá, er þú hefir nú til dæma tekit: en hvernig varþ, fiöturrinn smíðaþr? Hár svarar: þat kann ec þèr vel segia; fiöturrinn varð slèttr oc blautr sem silkiræma, en svâ traustr oc sterkr sem nú skalltu heyra. Þá er fiöturrinn var færðr Asunum þavckuþu þeir vel

1) Gleifnir *C.*

sendimanni sitt eyrindi; þá fóru Æsirnir út í vatn þat er Amsvartner [1]) heitir, í hólm þann er Lýngvi er kallaðr, oc kavlluþu með sèr úlfinn, sýndu honum silkibandit, oc báþu hann slíta, oc qvoþu vera nökqvoro traustara en likindi þætti á-vera firir digrleiks sakar, oc seldi hverr avðrum, oc treysti með handa afli, oc slitnaþi ei; en þó qvoþu þeir úlfinn slíta mundo. Þá svarar úlfrinn. Svâ lítz mèr á þenna dregil, sem önga frægð munac af-lióta, þótt ec slíta í sundr svâ miótt band, en ef þat er gert með list oc væl, þótt þat sýniz lítit, þá kemr þat band ei á mína fætr. Þá savgþo Æsirnir at hann mundi skiótt sundrslíta miótt silkiband, er hann hafþi fyrr brotit stóra iárnfiötra," en ef þú fær ei þetta band slitit, þá muntu ecki hræþa mega goþin, enda skulum vèr þá leysa þik [2]). Ulfrinn svarar. Ef þèr bindit mic svâ at ec fæc ei leyst mik, þá skollit þèr svâ [3]) at mèr mun seint verþa at taka af yðr hiálp; úfúss em ec at láta þetta band á mik leggia. En heldr en þèr frýit mèr hugar, þá leggi einn hverr havnd sína í munn mèr at veþi at þetta sè falslaust gert. En hverr Asanna sá til annars, oc þótti nú vera tvav vandræþi, vildi engi sína havnd framselia, fyrr en Týr lèt fram havnd sína hægri, oc leggr í munn úlfinum. En er úlfrinn spyrnir, þá harðnaþi bandit, oc því harþara er hann brautz um því skarp-

---

1) Amsvarnir *U*.
2) ecki hrætt fá guþin skulu vèr þá leysa þik *U*.
3) þá munu þèr svâ ætla *O*. þá skil eg Mier muni Seinnt ad taka *o. s. fr. S.* skil ek at ek muni seint taka áf ydr lausn; em ek úfús at láta þat band á mína leggi. *U*.

ara var bandit: þá hlógo allir nema Týr, hann lèt havnd sína. Þá er Æsirnir sá at úlfrinn var bundinn at fullu, þá tóku þeir festina er or var fióturinn, er Gelgia heitir, oc drógu hana gavgnum hellu mikla, sú heitir Gióll, oc festu helluna lángt í iörþ niðr: þá tóku þeir mikinn stein oc skutu enn lengra í iörþina, sá heitir Þviti [1]), oc höfþu þann stein firir festarhælinn. Úlfrinn gapþi ákaflega, oc fèkz um miöc, oc vildi bíta þá, þeir skutu í munn honum sverþi nokqvoro: nema hiöltin viþ neþra góme en efra góme blóðrefillinn, þat er góm-sparre hannz. Hann greniar illiliga, oc slefa renn or munni hannz, þat er á sú er Von [2]) heitir, þar liggr hann til ragnaravckrs. Þá mælti Gángleri. Furþu illa barna eign gat Loki, en avll þessi systkin eru mikil firir sèr. En firi hví drápu Æsir eigi úlfinn, er þeim er illz von af honum? Hár svarar. Svâ mikils virþu goþin ve sín oc griðastaði, at ei vildu þau saurga þá með blóþe úlfsins, þótt svâ segi spárnar at hann muni verþa at bana Oþni.

35. Þá mælti Gángleri. Hveriar eru *Asyniurnar*?
30. Hár svarar: *Frigg* er æzt, hon á þann bæ er Fensalir heita, oc er hann allvegligr. Avnnur er *Saga*, hon býr á Savkqvabeck, oc er þat mikill staðr. Þriþia er *Eir*, hon er læknir beztr. Fjórþa er *Gefiun*, hon er mær, henni þióna þær er meyiar andaz. Fimta er *Fulla*, hon er enn mær, oc ferr lausbár, oc gullband um havfut; hon berr eski Friggiar, oc gætir

---

1) Þríti *S.* 2) Vön *S.* Vam *U.*

skóklæþa hennar, oc veit launráð með henni. *Freyia* er tignuz með Frigg, hon giptiz þeim manni er Oðr heitir: dóttir þeirra heitir Hnoss [1]), hon er svâ favgr, at af hennar nafni eru hnossir kallaðar þat er fagurt er oc gersimligt. Oðr fór í braut lángar leiþir, en Freyia grætr eptir, en tár hennar er gull rautt. Freyia á mörg nöfn; en sú er savk til þess, at hon gaf sèr ýmis heiti, er hon fór með úkunnum þióðum at leita Oðs: hon heitir Mardavll oc Hörn [2]), Gefn, Syr. Freyia átti brísinga men. Hon er kavllut Vanadís. Sjöunda *Siöfn* [3]), hon gætir [4]) miöc til at snúa hugum manna til ásta qvenna oc karla; af hennar nafni er elskuginn kallaðr siafni. Attunda *Lofn*, hon er svâ mild oc góð til áheita, at hon fær leyfi af Alfavðr eþa Frigg til manna samgángs qvenna oc karla, þótt áðr sè bannat eþa þvertekit; firir því er af hennar nafni lof kallat, [oc svâ þat er lofat er [5]) miöc af mavnnum. Níunda *Vör* [6]), hon lýþir á eiþa manna

1) Hon giptiz þeim manni er Oer hèt *sem U. bætir inní þykist vera penna-villa tilkomin af því undanfarna.* 2) Hæn *U.*
3) Siofn *og strax* siofni *um elskugann. U.* 4) gerir *U. S.*
5) ok svâ þat at hún er lofut *O. en U. sleppir allri klausunni.*
6) *K. hefir hèr:* IX. Var, hon lyþir á. e. m. . . . . h. oc þeim er brigþa. X. Vaur, hon er vitr *o. s. fr. og O. í sama máta:* IX. Var, hon hlydir . . . . . . X. Vör hon er vitr *o. s. fr. En* Var, *sem kvennkent nafn þykist á móti málsins edli, er aldrei hefir* a *fyrir hliódstaf í kvennkynsheitum. Þar ad auki verdr þannig ein gydia afgángs, sem hvorgi annarstadar nefnist, og sem trublar rödina hèr; því af fyrirfarandi greinum sèst ad tólf voru hásæti ása auk Alfödurs hásætis, og tólf voru Æsir auk Odins siálfs; en hèr verda þá þrettán Asyniur auk Friggiar, sem aldrei getr stadizt. S. setr aungvar tölur vid nöfnin. U. og St. ecki heldr; þessar sleppa þar ad auki ordinu* hon *á seinni stadnum, og þannig verdr allt lióst og rètt. Því hefi èg fylgt þeim burtkastad* X. *ámilli* brigþa *og* Vör, *og umbreyt tölunum vid eptirfylgiandi nöfnin svo at* Syn *verdr hin* 10. *í stadin fyrir* 11. *og* Gná *hin* 13. *í stadinn fyrir* 14. *O. hefir XV. sem er pennavilla.*

oc einkamál, er veita sín á milli konur oc karlar; því heita þau mál varar: hon hefnir oc þeim er brigþa. Vör er vitr oc spurul, svâ at engi lut má hana leyna; þat er orðtak, at kona verði vavr [þess er hon verþr vís [1]). Tiunda *Syn*, hon gætir dura í havllinni, oc lýkr firi þeim er ei skolu inngánga: oc hon er sett til varnar á þíngum, firir þau mál er hon vill ósanna [2]); því er þat orðtak, at syn sè firir sett, þá er hann neitar. Ellefta *Hlín*, hon er sett til gæzlu yfir þeim mavnnum, er Frigg vill forða viþ háska nokqvorum; þaðan er þat orðtak at sá er forþaz hleinir [3]). Tólfta *Snotra*, hon er vitr oc látprúð, af henar heiti er kallat snotr kona eþa karlmaþr [sá er vitr maðr er [4]). Þrettánda. *Gná*, hana sendir Frigg í ýmsa heima at eyrindum sínum. Hon á þann hest er renn lopt oc lavg, er heitir Hófvarpnir. Þat var eitt sinn er hon reið, at Vanir nokqvorir sá reið hennar í loptinu, þá mælti einn [5]).

Hvat þar flýgr?
hvat þar ferr,
eþa at lopti líðr?

Hon svarar:

Nè ec flýg,
þó ec fer [6])
oc at lopti líðr [7]):
á Hófvarpni [8])
þeim er Hamskerpir [9])
gat við Garðrófu [10]).

---

1) *sleppir U.* 2) hann vill úsanna *O.* madr vill ósanna *U.*
3) hlynir *S.* 4) sá er hoflátr er *O. en U. sl. þessu.*
5) Vanr nockurr sá hana ok ferþ hennar, er hún reiþ *í* loptino; hann mælti *U.*
6) ferk. *U.* 7) þó ek at lopti líþ *U.*
8) *þan. O. U.* Hófhvarpni *K.*
9) Hattstrykr *U.* Hamskerpnir *S.*
10) Gardyöru *U.*

Af Gnár nafni er svâ kallat, at þat gnæfi er hátt ferr. Sól oc Bil eru taldar með Asynium, [en sagt er fyrr frá eðli þeirra [1]).

36. Enn eru þær aðrar er þióna skulo í Val- 31.
havll, bera dryckiu oc gæta borðbúnaðar oc avlgagna. Svâ eru þær nefndar i Grímnismálum.

Hrist oc Mist vil ec
at mèr horn beri,
Skeggiöld [2]) oc Skavgul:
Hilldr oc þrúðr,
Hlöck oc Herfiötur [3]),
Gavll oc Geirahavð,
Randgríð [4]) oc Ráðgríð
oc Reginleif:
þær bera einherium avl.

þessar heita *Valkyriur*; þær sendir Oþin til hverrar orosto: þær kiósa feigð á menn, oc ráþa sigri. Guðr oc Rota [5]) oc norn en ýngzta, er Skulld heitir, ríþa iafnan at kiósa val, oc ráþa vígum. Jörð móþir þórs oc Rindr móþir Vala eru taldar með Asynium.

— — —

37. Gýmir hèt maðr en kona hannz Avrboða, 32.
hon var bergrisa ættar: dóttir þeirra er *Gerðr*, er allra qvenna er fegrst. þat var einn dag er Freyr hafþi gengit í Hliðskiálf, oc sá of heima alla; en er hann leit í norðr ætt, þá sá hann á einum bæ mikit hús oc fagrt, [oc til þess húss gèck kona, oc er hon tók upp höndum, oc lauk [6]) hurð firir sèr; þá lýsti af höndum hennar bæþi í lopt oc á lavg, oc allir heimar birtuz af henni [7]): oc svâ hefndi havnum þat

1) *sleppir U.* 2) Skeggölld. *U.* 3) Herfiötra *U. S.*
4) Ranngrid *O.* Randgríþr ok Ráþgríþr *U.*
5) Rósta *U.* Rotta *S.* 6) lauk upp *S.*
7) ok þar gèck kona út ok lysti af hári hennar bædi lopt ok lög *U.*

mikla mikillæte, er hann hafþi setz í þat helga sæte, at hann gèck í braut fullr af harmi. [Oc er hann kom heim, mælti hann ecki, hvârki svaf hann nè drack, engi þorþi oc kresia hann orþa. Þá lèt Niörðr kalla til sín Skirni skósvein Freys, oc bað hann gánga til Freys, oc beiþa hann orþa, oc spyria hverium hann væri svâ reiðr, at hann mælti ecki við menn. En Skírnir qvez gánga mundu oc ei fús, oc qvað illra svara vera vân af honum. En er hann kom til Freys, þá spurði hann hví Freyr var svâ hnipinn, oc mælti ecki við menn. Þá svarar Freyr, oc sagþi at hann hafþi sèt konu fagra, oc firir hennar sakar var hann svâ harmsfullr, at ei mundi hann lengi lifa ef hann skylldi ei ná henni; oc nú skaltu fara, oc biðia hennar mèr til handa, oc hafa hana heim hingat, hvârt er faþir hennar vill eþa ei, oc scal ec þat vel launa þèr. Þá svarar Skirnir, sagþi svâ at hann skal fara sendiferþ, en Freyr skal fá havnum sverð sitt; þat er svâ gott sverð at siálft vázc; en Freyr lèt ei þat til-skorta, oc gaf havnum sverðit. Þá fór Skirnir, oc bað havnum konunnar, oc fèck heitit hennar, oc nío nóttum síþarr skylldi hon þar koma er Barey [1]) heitir, oc gánga þá at brullaupinu með Frey. En er Skirnir sagþi Frey sitt eyrindi, þá qvað hann þetta [2]).

Laung er nótt,
laung er avnnur,
hve mega ec þreyia þriár?
opt mèr mánaðr
minni þótti
en siá hálf hý-nótt [3]).

Þessi savk er til er Freyr var svâ vâpnlaus, er

1) Barræy *O.* 2) Skirnisför 42. *í S. Eddu.*
3) en sie hálf hin nótt *S.*

hann barþiz viþ Belia [1], oc drap hann með hiartarhorni. Þá mælti Gángleri. Undr mikit, er þvílikr havfðíngi sem Freyr er, vildi gefa sverþ, svâ at hann átti ei annat iafn gott; geysi mikit mein var havnum þat, þá er hann barþiz við þann en Beli heitir, þat veit trúa min at þeirrar giafar mundi hann þá iðraz. Þá svarar Hár. Lítit mark var þá at, er þeir Beli hittuz, drepa mátti Freyr hann med hendi sinni; verþa mun þat, er Freyr [2]) mun þickia verr viðkoma, er hann missir sverþzins, þá er Muspellz synir fara at heria [3]).

— — —

38. Þá mælti Gángleri [4]). Þat segir þú at allir þeir menn, er í orosto hafa fallit frá upphafi heims, 33.
eru nú komnir til Oþins í Valhavll: hvat hefir hann at fá þeim *at vistum?* ec hugþa at þar skylldi vera allmikit fiölmenni. Þá svarar Hár. Satt er þat er þú segir, allmikit fiölmenni er þar; en miklu fleira

1) Bela *O. S.* 2) Frey *O.*
3) *Allt þetta frá merkinu hefir U. miklu styttra*: Ok ecki svaf hann. Er hann kom heim, oc þeir Skirnir hittuz, þá fór Skirnir att hitta Gerþi ok kom saman ástum þeirra. Hann fèck Skirni í hendr sverþ sitt: enn hann hafþi þá ecki sverþ er þeir Beli hittuz, en drepa mátti hann Bela meþ hnefa sínum. En verra er honum þat þá, er hann missir sverzins, er Muspellz megir heria, ok hann berst viþ þá. *Þessi dæmisaga þykist vera sèreginligt brot eins og þau tvö ádrumgètnu; hefir hún til þess öll sömu merki: byriar an spurningar af Gánglera, hefir lángar hugvekiur af honum í nidrlaginu, og trublar samheingid, sem er audsiáanliga svo varid, at í 36. gr. þegar Hár nefnir Valkyriurnar, getr hann einnig Valhallar og bordgagna þar; þetta gefr Gánglera tilefni (í 38. gr.) o. flg. ad spyria um dryck einheria og annad ásigkomulag Valhallar. En audsèd er einnig hvad skrifaranum hefir gengid til ad færa inn hèr þetta brot, nefnl. ad Gerdar er ekki getid medal Asynia: en ekki hefir hann hugleidt, ad hún ómöguliga gæti talizt med Asynium, sem skylt er ad trúa á; þar ed hún var jötna ættar, eins og Skadi, sem ekki heldr hèr er getid.*
4) Frá vist ok dryck med Asum. *smeygir U. inn.*

skal enn verþa, oc mun þó oflítit þickia, þá er úlfrinn kemr. En aldri er svâ mikill mannfiölldi í Valhavll, at ei má þeim endaz flesk galltar þess er Særímnir heitir: hann er soþinn hvern dag, oc heill at aptni. En þessi spyrníng er nú spyrr þú, þicki mèr líkara at fáir muni svâ vísir vera, at hèr kunni satt af at segia. Andhrímnir heitir steikarinn, en Eldhrímnir ketillinn. Svâ er hèr sagt [1].

Andhrímnir lætr
Eldhrímni
Sæhrímni soþinn:
fleska bazt,
en þat fáir vitu
viþ hvat einheriar alaz.

Þá mælti Gángleri. Hvârt hefir Oþinn þat sama
34. borðhald sem einheriar? Hár svarar: þá vist er á hannz borðe stendr gefr hann tveim úlfum er hann á, er svâ heita: Geri oc Freki, oc önga vist þarf hann, vín er honum bæþi dryckr oc matr; svâ segir hèr [2].

Gera oc Freka
seðr gunntamiðr
hróðigr Heria-föðr:
en við vín eitt
vâpn-gavfigr
Oþinn æ lifir.

Hrafnar tveir sitia á avxlum honum, oc segia í eyro honum avll tíþindi, þau er þeir siá eþa heyra; þeir heita svâ: Huginn oc Muninn. Þá sendir hann í dagan at fliúgia um allan heim, oc koma þeir aptr at davgurþarmáli, þar af verþr hann margra tíþinda vís; því kalla menn hann Hrafna-guð. Svâ sem sagt er [3].

Huginn oc Muninn
fliúgia hverian dag
Jórmungrund ifir:
óumc [4]) ec Hugin
at hann aptr nè kome,
þo siámc ec meirr at Munin [5]).

---

1) Grímn. 18. 2) Grímn. 19. 3) Grímn. 20.
4) óumz *O.* unz *U.* 5) þó siámz meirr um Munin *O. U.*

39. Þá mælti Gángleri. Hvat hafa einheriar *at dryck* þat er þeim endiz iafn gnóglega sem vistin? eða er þar vatn druckit? Þá svarar Hár. Undarlega spur þú nú, at Allfavðr mun bióþa til sín konúngum eþa jörlum eþa avðrum ríkismönnum, oc muni gefa þeim vatn at drecka, oc þat veit trúa mín at margr kemr sá til Valhallar, er dýrt mundi þickiaz kaupa vatzdryckinn, ef ei væri betra fagnaþar þángat at vitia, sá er áþr þolir sár oc sviþa til banans. Annat kann
ec þér þaðan at segia. Geit sú er Heiðrún heitir 35.
stendr uppi á Valhöll, oc bítr barr af limum très þess er miöc er nafnfrægt, er Lèraðr [1]) heitir, en or spenum hennar rennr miöðr [2]) sá, er hon fyllir skaptker hvern dag, þat er svâ mikit at allir einheriar verþa fulldrucknir af. Þá mælti Gángleri: þat er þeim geysi haglig geit; forkunnar góðr viþr mun þat vera, er hon bítr af. Þá mælti Hár. Enn er meira mark at of hiörtinn Eikþyrni [3]), er stendr á Valhöll, oc bítr af limum þess très, en af hornum verþr svâ mikill dropi at niðr kemr í Hvergelmi, en þaðan af falla ár þær er svâ heita: Síð, Við, Sekinn, Ekinn, Svöl, Gunnþró [4]), Fiörm [5]), Fimbulþul [6]), Gipul, Göpul, Gömul, Geirvimul; þessar falla um Asabygþir. Þessar eru enn nefndar: Þyn, Vin, Þöll, Böll [7]), Gráð, Gunnþráinn [8]), Nyt, Navt, Navnn, Hrönn, Vína, Vegsvinn [9]), Þióðnuma [10]).

---

1) Lerads *U.* lieradz *S.* 2) miólk *U.* 3) Eirþyrni *K. S.* Takþyrni *U.* 4) Gundra *S.* 5) Fiorn *O.* 6) Fimbul, þul *O.* 7) Höll *O. U.* 8) Gnnnþorin *O.* 9) Vog, Svinn *K* Veg, Svinn *O.* *en Sæm. Edda Grimn. 28. synir ad þad eigi ad vera ein á* Vegsvinn.
10) *U. segir so frá þessum ám:* Sid, Víd, Sækin, Ækin, Svöll,

40. Þá mælti Gángleri: þetta eru undarlig tíþinde er nú sagþir þú, geysi mikit hús mun *Valhavll* vera, allþraungt mun þar opt vera firir durum? Þá svarar Hár. Hvi spyrr þú eigi þess hversu margar dyrr eru á Valhavll, eþa hversu stórar? Ef þú heyrir þat sagt, þá muntu segia at hitt er undarligt, ef eigi má gánga út oc in hverr er vill. En þat er með sannu at segia, at eigi er þraungra at skipa hana, en gánga í hana. Hèr máttu heyra í Grímnismálum (23):

Fimm hundrut dura
oc of fiórum tavgum
svâ hygg ec á Valhöllu vera:
átta hundröð einheria
gánga senn or einum durum,
þá er þeir fara við vitni at vega.

41. Þá mælti Gángleri: allmikill mannfiöldi er í Valhavll, [svâ nióta [1]) trú minnar at allmikill havfþíngi er Oþinn, er hann stýrir svâ miklum her [2]), eþa hvat er *skemtun einherianna*, þá er þeir drecka ei? Hár svarar. Hvern dag þá er þeir hafa klæz, þá hervæþa þeir sik, oc gánga út í garþinn oc beriaz, oc fellir hverr annan [3]): þat er leikr þeirra. Oc er liðr at davgvrþarmáli, þá ríþa þeir heim til Valhallar, oc setiaz til druckiu. Svâ sem hèr segir [4]):

---

Gundro, Fiörm, Fimbulþul, Gipul, Giöful, Gömul, Geirumul, þ. f. u. A. þessar eru enn nefndar: Fyri, Vinþöll, Höll, Gundro, Navtt, Reytt, Navnn, Hravnn, Vína, Veglun, þióþnuma. *I fiórdu greininni nefnast einnig 12 ár, er falla úr Hvergelmi, hafa 5 af þeim þar önnur nöfn, þar ad auki er þar Fimbulþul, adgreind í tvær; en þó þetta se án efa rángt, hefi eg þó ekki viliad umbreyta því, þar ed talan verdr annars ekki full, en þad er audsèd at skrifarinn hefir ætlad ad nefna tólf.*

1) ek *sm. O. inn.*

2) *U. sleppir þessu frá merkinu.*

3) *þannig O. U. S.* fellr hverr á annan *K.*

4) Vafþrúdn. 41. erindi.

Allir einheriar
Oþins túnum í
havggvaz hverian dag:
val þeir kiósa
oc ríþa vígi frá,
sitia meirr um sáttir saman.

[En satt er þat er sú sagþir, mikill er Oþinn firir sèr: mörg dæmi finnaz til þess. Svâ er hèr sagt í orþum siálfra Asanna [1]).

Askr Yggdrasils
hann er æztr viþa,
en Skíðblaðnir skipa:
Oþin Asa,
enn ióa Sleipnir;
Bifröst brúa,
en Bragi skálda;
Hábrók hauka;
en hunda Garmr [2]).

42. Þá mælti Gángleri. Hverr á þann hest *Sleipni?* eþa hvat er frá honum at segia [3])? Hár svarar. Eigi kanntu deile á Sleipni, oc ei veiztu atburþi af hveriu hann kom, en þat mun þèr þickia frásagnar vert. Þat var snimma í öndverþa bygð goþanna, þá er goþin havfþu sett Miðgarð oc gert Valhavll, þá kom þar smiðr nokqvorr, oc bauð at gera 36.
þeim borg á þrim misserum, svâ góþa at trú oc avrugg væri firir bergrisum oc hrímþursum, þótt þeir komi inn um Miðgarð. En hann mælti sèr þat til kaups, at hann skylldi eignaz Freyio, oc hafa vildi hann sól oc mána. Þá gèngu Æsirnir á tal, oc rèþu ráþum sínum, oc var þat kaup gert við smiþinn at hann skylldi eignaz þat, er hann mælti til, ef hann

1) *Istadinn fyrir þetta sm. U. hèrinn dæmisögunni um uppruna vindarins* (*gr.* 18.). *Styrkir þad mína meiníng, ad* 18 *og* 19 *gr. sè brot fyrir sig. En eptir* 37 *erindi úr Vafþr. hefir U.* "ok enn segir" *þá fylgir*: Askr Yggdrasils *o. s. fr. Grimn.* 43.
2) *Þannig O. U. S.* Gramr. *K.*
3) Frá því er Loki gat Sleipni vid Svaþilfera. *sm. U. inn, hún styttir einnig ordatiltækid í þessari dæmisögu; en þó kemr nidr í sama stad.*

fengi gert borgina á einum vetri: enn hinn fyrsta sumars dag ef nokqvorr lutr væri úgiörr af borginni, þá skylldi hann af kaupinu; skylldi hann af öngum manni lið þiggia til verksins. Oc er þeir savgþu hónum þessa kosti, þá beiddiz hann at þeir skyldu lofa, at hann hefþi lið af hesti sínum, er Svaþilföri [1]) hèt: en því rèþ Loki, er þat var til-lagt við hann. Hann tók til hinn fyrsta vetrar dag at gera borgina: en of nætr dró hann til griót á hestinum: en þat þótti Asunum mikit undr hversu stór biörg sá hestr dró, oc hálfu meira þrekvirki gerþi hestrinn enn smiþrinn: en at kaupi þeirra voru sterk vitni oc mörg særi; firir því at iötninum þótti ecki trygt at vera með Asum griþalaust, ef Þórr qvæmi heim; en þá var hann farinn í Austrveg at beria travll. En er á-leið vetrinn, þá sóttiz miöc borgargerþin, oc var hon svâ há oc sterk, at ei mátti á þat leita. En þá er 3 dagar voru til sumars, þá var komit miöc at borghliþi. Þá settuz guðin á dómstóla sína oc leituþu ráþa, oc spurþi hverr annan, hverr því hefþi ráþit at gipta Freyiu í Jötunheima, eþa spilla loptinu oc himninum svâ, at taka þaþan sól oc túngl, oc gefa iötnum: en þat kom ásamt með avllum, at þessu mundi ráþit hafa sá, er flestu illu ræðr, Loki Laufeyiar son, oc qváþu hann verþan illz dauþa, ef ei hitti hann ráð til at smiðrinn væri af kaupinu, oc veittu Loka atgöngu. En er hann varþ hræddr, þá svarþi hann eiþa: at hann skyldi svâ til-haga, at smiðrinn skylldi

1) Svadilfari *O.* Svadilferi *S. U. svo og seinna allstadar sem hann nefnist.*

af kaupinu, hvat sem hann kostaþi til. Oc it sama qveld er smiðrinn ók út eptir griótinu með hestinn Svaþilföra; þá lióp or skógi nokqvorum merr at hestinum, oc hrein viþ. En er hestrinn kendi hvat hrossi [1]) þetta var, þá æddiz hann, oc sleit sundr reipin, oc lióp til merarinnar, en hon undan til skógar, oc smiðrinn eptir oc vill taka hestinn, en þessi ross laupa alla nótt, oc dvelzt smiþin þá nótt: oc eftir um daginn varþ ecki svâ smíþat sem fyrr hafþi orþit. Oc þá er Smiþrin sèr at ei mun lokit verþa verkinu, þá færiz hann í iötunmóþ. En er Æsirnir sá þat til viss at þar var bergrisi kominn, þá varþ ei þyrmt eiðunum, oc kavlluþu þeir á þór: oc iafnskiótt kom hann, oc því næst fór á lopt hamarrinn Miöllnir, galt þá smíþarkaupit oc ei sól oc túngl, helldr syniaði hann honum at byggva í Jötunheimum, oc laust þat hit fyrsta havgg er hausinn brotnaþi í smán mola, oc sendi hann niðr undir Niflhel. En Loki hafþi þá ferþ haft til Svaþilföra, at nokqvoru síþar bar hann fyl, þat var grátt, oc hafþi 8 fætr, oc er sá hestr beztr með goðum oc mavnnum. Svâ segir í Völuspá.

þá gèngu regin avll
á rökstóla
ginnheilug goþ
oc of þat gettuz:
hverr hefþi lopt allt
læfi [2]) blandit,
eþa ætt iötuns
Oðs mey [3]) gefna?

Agènguz eiþar
orð oc sære,
mál avll meginlig,
er á meþal fóru:
þórr einn þat vann [4]);
þrúnginn móþi,
hann sialdan sitr
er hann slíkt of fregn.

---

1) hvat rossa *O. S.* hvart rossit var *U.*
2) levi *U.* 3) Oskmey *U.* 4) vâ *O. U.*

43. Þá mælti Gángleri. Hvat er at segia frá *Skíðblaðni*, er hann er beztr skipa? hvârt er ecki skip iafn gott sem hann er, eþa iafn mikit? Hár
37. svarar. Skíðblaðnir er beztr skipanna oc með mestum hagleik gerr, en Naglfar [1]) er mest skip, þat er á Muspell. Dvergar nokqvorir synir Ivalda gerþu Skíðblaðni, oc gáfu Frey skipit: hann er svâ mikill at allir æsir megu skipa hann með vâpnum oc herbúnaði, oc hefir hann byr þegar er segl er dregit, hvert er fara skal. En þá er ei scal fara með hann á sæ, þá er hann gerr af svâ mörgum lutum oc með svâ mikilli list, at hann má vefia saman sem dúk oc hafa í púng sínum.

44. Þá mælti Gángleri. Gott skip er Skíðblaðnir, en allmikil fiölkýngi mun við vera havfð, áðr svâ fái gert [2]). Hvârt hefir Þórr hvergi svâ farit, at hann hafi hitt firir sèr svâ rikt eþa ramt, at honum hafi ofrefli í-verit firir afls sakar eþa fiölkýngi? Þá mælti Hár. Fár maðr vættir mic at frá því kunni at segia, en margt hefir honum harðfært þótt; en þótt svâ hafi verit, at nokqvorr lutr hafi svâ verit ramr eþa sterkr, at Þór hafi ei sigr fengit á-unnit: þá er eigi skyllt at segia frá, firir því at mörg dæmi eru til þess, oc því eru allir skylldir at trúa, at Þórr er mátkaztr. Þá mælti Gángleri. Svâ litz mèr sem þess lutar mun ec yðr spurt hafa, er engi er tilfærr at segia. Þá mælti Jafnhár. Heyrt höfum vèr sagt frá þeim atburþ-

1) *þannig O.* Naglfari *K. S.* en Naglfari er mestr *U.*
2) *Hèr hefir U. miög svo máda fyrirsögn.*

atburþum, er oss þickia útrúligir at sannir muni vera, en hèr mun siá sitia nær, er vita mun savnn tíþindi af at segia, oc muntu því trúa at hann mun ei liúga nú it fyrsta sinn, er aldri lavg [1]) fyrr. Þá mælti Gángleri. Hèr mun ec standa oc hlýþa, ef nokqvorr orlausln fæ þessa máls; en at avðrum kosti kalla èc yðr vera yfirkomna, ef þèr kunnit ei at segia þat er ec spyr. [Þá mælti Þriði. Auðsýnt er nú at hann vill þessi tíþindi vita, þótt oss þicki ei fagrt at segia, en þèr er at þegia [2]). Þat er upp- 38.
haf þessa máls, at Ökuþórr fór með hafra sína oc reið, oc með honum sá ás er Loki er kallaðr; koma þeir at qveldi til eins búanda, oc fá þar náttstað. En um qveldit tók Þórr hafra sína oc skar báða, eptir þat voru þeir flegnir oc bornir til ketils; en er soþit var, þá settiz Þórr til náttverþar oc þeir lagsmenn. Þórr bauð til matar með sèr búandanum oc oc konu hannz oc börnum þeirra: sonr búa hèt *Þiálfi* en *Ravsqva* dóttir. Þá lagþi Þórr hafrstökurnar utar frá eldinum, oc mælti at búandi oc heimamenn hannz skyldu kasta á hafrstökurnar beinunum. Þiálfi son búanda hèllt á lærlegg hafrsins, oc spretti á knífi sínum oc braut til mergiar. Þórr dvaldiz þar of nóttina; en í óttu firir dag stóð hann upp oc klæddi sik, tók hamarinn Miöllni oc brá upp, oc vígþi hafrstavkurnar, stóþu þa upp hafrarnir, oc var þá annarr halltr eptra fæti. Þat fann Þórr, oc



1) ló *U.*
2) Hár segir. Hèr hevr sögu Þórs ok Utgarþaloka *U.*

talþi at búandinn eþa hannz hión mundi ei skynsamlega hafa farit með beinum hafursins, kennir hann at brotinn var lærleggrinn. Eigi þarf lángt frá því at segia, vita megu þat allir hversu hræddr búandinn mundi vera, er hann sá at Þórr lèt síga brýnnar ofan firir augun, en þat er sá augnanna þá hugþiz hann falla mundu firir sióninni einni samt: hann herþi hendurnar at hamarskaptinu, svâ at hvítnuþu knúarnir. En búandinn gerþi sem vân var, at avll hiúnin kavlluþu ákaflega, baþu sèr friþar, buþu at firir-qvæmi allt þat er þau áttu. En er hann sá hræzlu þeirra, þá gèck af honum móþrinn, oc sefaþiz hann, oc tók af þeim í sætt börn þeirra Þiálfa oc Rösku, oc gerþuz þau þá skylldir þiónustumenn Þors, oc fylgia þau hönum iàfnan síþan.

45. Lèt hann þar eptir hafra, oc byriaþi ferðina austr í Jötunheima oc allt til hafsins, oc þá fór hann út ifir hafit þat it diúpa [1]), en er hann kom til landz, þá gèck hann upp oc með honum Loki oc Þiálfi oc Ravsqva. Þá er þau höfþu litla hriþ gengit, varþ firir þeim mörk stór; gèngu þau þann (dag) allan til myrks. Þiálfi var allra manna fóthvataztr, hann bar kýl Þórs, en til vista var ei gott. Þá er myrkt var orþit leituþu þeir sèr til náttstaþar, oc fundu firir sèr skála nokqvorn miöc mikinn, voru dyrr á enda oc iafnbreiþar skálanum, þar leituþu þeir sèr til náttbóls. En of miðia nótt varð landskiálfti mikill, gèck iörþin undir þeim skrykki-

1) ok svam yvir þat it diúpa haf *U.*

um [1]), oc skalf húsit; þá stóð Þórr upp oc hèt á lagsmenn sína, oc leituþuz firir, oc fundu afhús til hægri handar í miðium skálanum, oc gèngu þanneg; settiz Þórr í dyrrin, en avnnur þau voru innar frá honum, oc voru þau hrædd, en Þórr hèlt hamarskaptinu oc hugþi at veria sik; þá heyrþu þau ym mikinn oc gný. En er kom at dagan, þá gèck Þórr út, oc sèr hvar lá maðr skamt frá honum í skóginum, oc var sá ei lítill; hann svaf, oc hraut sterkliga: þá þóttiz Þórr skilia hvat látum verit hafþi of nóttina. Hann spennir sic megingiörþum, oc óx honum ásmegin: en í því vaknar sá maðr, oc stóð skiótt upp; en þá er sagt at Þór varþ bilt einu sinni at slá hann með hamrinum, oc spurþi hann at nafni, en sá nefndiz *Skrýmir* [2]), en ei þarf ec, sagþi hann, at spyria þic at nafni, kenni èc at þú ert Asaþórr, en hvârt hefir þú dregit á braut hanzka minn? Seildiz þá Skrýmir til, oc tók upp hanska sinn: sèr Þórr þá at þat hafþi hann haft of nottina firir skála, en afhúsit þat var þumlúngrinn hanzkans. Skrýmir spurþi ef Þór vildi hafa favruneyti hannz, en Þórr iátti því; þá tók Skrýmir oc leysti nestbagga sinn, oc bióz til at eta davgurð, en Þórr í avðrum stað, oc hannz fèlagar. Skrýmir bauð þá at þeir legþi [mavtuneyti sitt, en Þórr iátti því: þá batt Skrýmir nest þeirra allt í einn bagga, oc lagþi á bak sèr; hann gèck firir of daginn [3]), oc steig heldr stórum, en síþan at

---

1) skukkum *O.* skyckium *K. og U. en S.* skrickium. 2) Skrymnir *S.*
3) í einn staþ baggana ok legþi á bak sèr, ok svâ gerþo þeir, ok nú leggr Skrymir á bak sèr ok stígr *U.*

qveldi leitaði Skrýmir þeim náttstaþar undir eik nokqvorri mikilli. þá mælti Skrýmir til þórs at hann vill leggiaz niþr at sofna"en þèr takit nestbaggan oc búit til náttur þar yðr. því næst sofnar Skrýmir oc hraut fast, en þórr tóc nestbaggan oc skal leysa, en svâ er at segia, sem útrúligt mun þickia, at engi knút fèck hann leyst, oc engi álarendan hreyft svâ at þá væri lausari en áðr: oc er hann sèr at þetta verk má eigi nýtaz, þá varð hann reiðr; greip þá hamarrinn Miöllni tveim havndum, oc steig fram avðrum fæti at, þar er Skrýmir lá, oc lýstr í havfut havnum, en Skrýmir vaknar oc spyrr hvârt laufsblað nakqvart fèlli í havfut honum, eþa hvârt þeir hefþi þá mataz, oc sè búnir til rekna? þórr segir at þeir munu þá sofa gánga. Gánga þau þá undir aðra eik, er þat þèr satt at segia, at ecki var þá óttalaust at sofa. En at miðri nótt þá heyrir þórr at Skrýmir hrýtr oc sefr fast, svâ at dunar í skóginum: þá stendr hann upp oc gengr til hannz, reiðir hamarrinn títt oc hart, oc lýstr ofan á miðian hvirfil honum; hann kennir at hamars muðrinn savckr diúpt í havfuþit. En í því bili vaknar Skrýmir oc mælti: hvat er nú? fèll akarn [1]) nokqvot í havfut mèr? eþa hvat er títt um þik þórr? En þórr gèck aptr skyndilega, oc svarar at hann var þá nývaknaðr, sagþi at þá var miðnótt, oc enn væri mál at sofa. þá hugsaþi þórr þat, ef hann qvæmi svâ í fære at slá hann it þriþia havgg, at alldri skylldi hann siá sik

1) axkorn *U. S.*

síþan: liggr nú oc gætir, ef Skrýmir sofnaþi fast. En litlu firir dagan þá heyrir hann at Skrýmir mun sofnat hafa, stendr þá upp oc hleypr at honum, reiþir þá hamarinn af avllu afli, oc lýstr á þunnvángan þann er upp vissi; savkkr þá hamarrinn upp at skaptinu. En Skrýmir settiz upp, oc strauk of vángan oc mælti: hvárt munu foglar [1]) nokqvorir sitia í trènu yfir mèr? mic grunar er ec vaknaþa, at tros [2]) nokqvat af qvistunum fèlli í havfut mèr, hvârt vakir þú Þórr? Mál mun vera upp at standa oc klæþaz, en ecki eigut þèr nú lánga leið fram til borgarinnar, er kallat er Utgarðr [3]). Heyrt hefi èc at þèr hafit qvisat í milli yðvar, at ec væra ecki lítill maðr vexti, en siá skulut þèr þar stærri menn, ef þèr komit í Utgarð. Nú mun ec ráþa yðr heilræþi: látit þèr ei stórlega yfir yðr, ecki munu hirðmenn Utgarþa-Loka vel þola þvílikum kavgursveinum kavpryrþi; en at avðrum kosti hverfit aptr, oc þann ætla ec yðr betra af at taka. En ef þèr vilit framfara, þá stefnit þèr í austr, en ec á nú norðr leið til fialla þessa, er nú munut þèr siá mega. Tekr Skrýmir nestbaggan, oc kastar á bak sèr, oc snýr þvers á braut í skóginn frá þeim, oc er þess eigi getit at Æsirnir bæþi þá heila hittaz.

46. Þórr fór fram á leið oc þeir fèlagar, oc gèck 39.
fram til miðs dags: þá sá þeir borg standa á völlum nokqvorum, oc settu hnackan á bak sèr aptr, áðr

1) *Svo segia Sviar enn í dag fyrir* fuglar. 2) fiödr *U.*
3) er köllud er Utgardr *O. S.* er Miþgardr heitir *U. svo og seinna, þó kallast jotuninn Utgarþa-Loki. Lika þykist þad hèr lagfært seinna til* Utgardr.

þeir fengu sèt yfir upp. Gánga til borgarinnar, oc var grind firi borghliþinu, oc lokin aptr: þór gèck á grindina, oc fèck eigi upplokit, en er þeir þreyttu at komaz í borgina, þá smugu þeir milli spalanna, oc komu svâ inn: sá þá havll mikla, oc gèngu þannig, var hurþin opin, þá gengu þeir inn, oc sá þar marga menn á tvâ becki, oc flesta ærit stóra. því næst koma þeir firir konúnginn *Utgarþa-Loka*, oc kvödd-u hann, en hann leit seint til þeirra, oc glotti um tavnn oc mælti. Seint er um lángan veg at spyria tiþinda [1]), eþa er annan veg en ec hygg at þessi sveinstauli sè Ökoþórr? en meiri muntu vera en mèr lítz þú, eþa hvat íþrótta er þat er þèr felagar þickiz vera viþbúnir? engi skal hèr vera með oss, sá er ei kunni nockorskonar list eþa kunnandi um-fram flesta menn. þá segir sá er síþarst gèck, er Loki heitir: kann ec þá íþrótt, er ec em albúinn at reyna, at eingi er hèr sá inni, er skiótara skal eta mat sinn en ec. þá svarar Utgarþa-Loki: íþrótt er þat, ef þú efnir, oc freista skal þá þessar íþróttar. Kallaþi utar á beckinn, at sá er Logi heitir skal gánga á gólf fram, oc freista sín í móti Loka. þá var tekit trog eitt, oc borit inn á hallargólfit, oc fyllt af slátri: settiz Loki at avðrum enda, en Logi at öðrum, oc át hvârtveggi sem tíþaz oc mættuz í miðiu troginu; hafþi þá Loki etit slátr allt af bein-um, en Logi hafþi oc etit slátr allt oc beinin með oc svâ trogit, oc sýndiz nú avllum sem Loki hefþi

1) sönn tídindi at spyria *S. U.*

látit leikinn. Þá spyrr Utgarþa-Loki, hvat sá hinn 40.
úngi maðr kunni leika? En Þiálfi [1]) segir at hann
mun freista at renna skeið nokqvorr við einhvern,
þann er Utgarþa-Loki fær til; þá segir Utgarþa-Loki
at þetta er góð íþrótt, oc kallar þess meiri vân at
hann sè vel at ser búinn of skiótleik, ef hann skal
þessa iþrótt inna; en þó lætr hann skiótt þessa skulu
freista. Stendr þá upp Utgarþa-Loki oc gengr út,
oc var þar gott skeið at renna eptir slèttum velli.
Þá kallar Utgarþa-Loki til sín sveinstaula nokqvorn
er neindr er Hugi, oc bað hann renna í kavpp [2]) við
Þiálfa. Þá taka þeir it fyrsta skeið, oc er Hugi
því framarr at hann snýz aptr í móti honum at
skeiðsenda. Þá mælti Utgarþa-Loki: þurfa muntu,
Þiálfi! at leggia þic meirr fram, ef þú skalt vinna
leikinn; [en þó er þat satt at ecki hafa hèr komit
þeir menn er mèr þiekia fóthvatari en svâ [3]). Þá
taka þeir aptr annat skeið, oc þá er Hugi er kom-
inn til skeiðsenda: oc hann snýz aptr; þá var langt
kolfskot til Þialfa. Þá mælti Utgarþa-Loki. Vel
þicki mèr þit renna skeiðit; en eigi trúi èc honum
nú at hann vinni leikinn, en nú mun reyna er þeir
renna it 3. skeiðit. Þá taka þeir enn skeið; en er
Hugi er kominn til skeiðsenda, oc snýz aptr; oc er
Þialfi ei þá kominn á mitt skeiðit: þá segia allir at
reynt er um þenna leik. Þá spyrr Utgarþa-Loki 41.
[Þór hvat þeirra iþrótta mun vera, er hann muni

1) Þiálbi *S. svo og þar sem hann nefnist sidar.*
2) kapp *S. i eintilanum.*
3) en þó hava hèr komit ecki ófliótari menn *U.*

vilia birta firir þeim [1]), svâ miklar savgur sem menn hafa gert um stórvirki hannz. Þá mælti Þór, at hellzt vill hann taka til at þreyta dryckio við einhvern mann. Utgarþa-Loki segir at þat má vel vera, oc gengr í havllina oc kallar skutilsvein sinn, biðr at hann taki vítis horn, þat er hirðmenn eru vanir at drecka af. Því næst kemr fram skutilsveinn með horninu, oc fær Þór í havnd. Þá mælti Utgarþa-Loki: af horni þessu þyckir þá vel druckit ef í einum dryck gengr af, en sumir menn drecka af í tveim dryckium, en engi er svâ lítill dryckiumaðr at eigi gángi af í þrimr. Þórr lítr á hornit, oc sýniz ecki mikit, oc er þó heldr lángt, en hann er miöc þyrstr: tecr at drecka oc svelgr allstórum, oc hyggr at ei skal þurfa at lúta optarr at sinni í hornit. En er hann þraut eyrindit, oc hann laut or horninu, oc sèr hvat leið dryckinum, oc lítz honum svâ sem allítill munr mun vera, at nú sè lægra i horninu en áðr; þá mælti Utgarþa-Loki: vel er druckit, oc ei til mikit [2]), eigi mundac trúa, ef mèr væri sagt frá, at Asaþórr mundi ei meira dryck drecka, en þó veit ec at þú munt vilia drecka af í avðrum dryck. Þór svarar aungu, setr hornit á munn sèr, oc hyggr nú at hann skal drecka meira dryck, oc þreytir á dryckiuna sem honum vannz til eyrindi, oc sèr enn at stikillinn hornsins vill ecki upp svâ miöc sem honum líkar, oc er hann tóc hornit af munni sèr, lítz honum nú svâ sem minna hafi í-þorrit en í enu

1) Hvat íþrótt kanntu þór? muntu vera fyrir þeim; *U.*
2) enn ei þó til Mikils lofs *S.*

fyrra sinni, er nú gott berandi borð á horninu. Þá mælti Utgarþa-Loki: hvat er nú Þórr? muntu nú ei sparaz til eins dryckiar meira, en þèr mun hagr á-vera? Svâ lítz mèr, ef þú skalt nú drecka af horninu hinn þriþia dryckinn, sem þessi mun mestr ætlaðr; en ecki muntu mega hèr með oss heita svâ mikill maðr sem Æsir kalla þic, ef þú gerir eigi meira af þèr um aðra leika, en mèr lítz sem um þenna mun vera. Þá varð Þórr reiðr, setr hornit á munn sèr, oc dreckr sem ákafligaz má hann, oc þreytir sem lengzt á dryckinn [1]); en er hann sá í hornit, þá hafþi nú hellzt nockut munr á-fengiz: oc þá býðr hann upp hornit, oc vill ei drecka meira. Þá mælti Utgarþa-Loki: auðsèt er nú at máttr þinn er ecki svâ mikill sem vèr hugþum; en villtu freista um fleiri leika? siá má nú at ecki nýtir þú hèr af. Þórr svarar: freista má ec enn of nockura leika, en undarliga mundi mèr þikkia þá er ec var heima með Asum, ef þvílíkir dryckir væri svâ litlir kallaðir. En hvat leic vilit þèr nú bióþa mèr? Þá mælti Utgarþa-Loki: þat gera hèr úngir sveinar, er lítit mark mun at-þickia, at hefia upp af iörþu kavtt minn; en eigi mundag kunna at mæla þvílíkt viþ Asa-þór, ef ec hefþa ei sèt fyrr, at þú ert miklu minni firir þèr en ec hugþa. Því næst hlióp fram kavttr einn grár á hallargólfit oc helldr mikill; en Þórr gèck til, oc tóc hendi sinni niðr undir miðian qviþin, oc lypti upp, en kavttrinn baugþi kenginn [2]) svâ

1) *þannig O. S.* þrytr sem lengzt at dryckum *K.*
2) *þannig O. S. U.* hángit *K.*

sem Þórr rètti upp havndina; en er Þórr seildiz svâ lángt upp sem hann mátti lengzt, þá lètti kavttrinn einum fæti, oc fær Þórr ei framit þenna leik. Þá mælti Utgarþa-Loki. Svâ fór þessi leikr sem mik varþi: kavttrinn er helldr mikill, en Þór er lágr oc lítill hiá stórmenni því sem hèr er með oss. Þá mælti Þórr. Svâ lítinn sem þèr kallit mik, þá gángi nú til einnhverr oc fáiz við mic, nú em ec reiðr [1]). Þá svarar Utgarþa-Loki, oc litaz um á beckina, oc mælti: eigi sè ec þann mann hèr inni, er ei mun lítilræþi í-þyckia at fázt við þik; oc enn mælti hann: siám fyrst, kalli mèr híngat kerlínguna fóstro mína Elli, oc fáiz Þórr við hana ef hann vill, fellt hefir hon þá menn, er mèr hafa litiz ei ústerkligri en Þórr er. Því næst gèck, í havllina kerlíng ein gavmul: þá mælti Utgarþa-Loki at hon skal taka fáng við Asa-Þór. Ecki er lángt um at gera: svâ fór fáng þat, at því harðara er Þórr knúþiz at fánginu, því fastara stóð hon; þá tók kerlíng at leita til bragþa, oc varð Þórr þá laus á fótum, oc voru þær sviptingar allharþar, oc ei lengi áðr en Þór fèll à knè avðrum fæti. Þá gèck til Utgarþa-Loki, bað þau hætta fánginu, oc sagþi svâ, at Þórr mundi ei þurfa at bioða fleirum mavnnum fáng á hannz havll, var þá oc liþit á nott. Visaþi Utgarþa-Loki Þór oc þeim fèlavgum til sætis, oc dveliaz þar náttlángt í góþum fagnaþi.

47. En at morni þegar dagaþi stendr Þórr upp oc þeir fèlagar; klæþa sic, oc eru búnir braut at gánga: þá kom þar Utgarþa-Loki, oc lèt setia þeim

1) nú er ek em reiþr *U.*

borð, skorti þá ei góþan fagnat, mat oc dryck. En er þeir hafa mataz, þá snúaz þeir til ferþar. Utgarþa-Loki fylgir þeim út, gengr meþ þeim braut or borginni, en at skilnáþi mælti Utgarþa-Loki til Þórs, oc spyrr hvernig honum þickir ferð sín orþin? eþa hvârt hann hefir hitt ríkara mann nokqvorn en sic? Þórr svarar at eigi mun hann þat segia, at ei hafi hann mikla úsæmð farit í þeirra viðskiptum, en þó veit ec at þèr munut kalla mic lítinn mann firir mèr, oc unni èc því illa. Þá mælti Utgarþa-Loki. Nú scal segia þèr it sanna, er þú ert útkominn or borginni, at ef ec lifi oc megac ráþa, þá skáltu alldri optarr í hana koma: oc þat veit trúa mín at alldri hetþir þú í hana komit, ef ec hefþa vitat áðr, at þú hefþir svâ mikinn krapt með þèr, oc þú hefþir svâ nær haft oss mikilli úfæru. En siónhverfingar hefi èc gert þèr, svâ at fyrsta sinn, er ec fann þic á skóginum, kom ec til fundar við yðr; oc þá er þú skyldir leysa nestbaggan. Þá hafþac bundit með gresiárni [1]), en þú fant ei hvar upp skyldi lúka. En því næst laust þú mic með hamrinum þriú havgg, oc var it fyrsta minnzt, oc var þó svâ mikit at mèr mundi endaz til bana, ef á hefþi komit; en þar er þú sátt hiá havll minni setberg, oc þar sáttu ofan í þriá dali ferskeytta oc einn diúpaztan, þar voru hamarspor þín: setberginu brá ec firir havggin, en ei sátt þú þat. Svâ var oc of leikana, er þreyttut við hirðmenn mína, þá var þat it fyrsta er Loki gerþi; hann var miöc solltinn, oc át titt; en sá er

1) gressiárni O.

Logi hèt þat var villielldr oc brendi hann ei seinna slátrit en trogit. En er Þiálfi þreytti rásina við þann er Hugi hèt; þat var hugi minn, oc var Þiálfa ei vænt at þreyta skiótfæri hannz. En er þú drakt af horninu, oc þótti þèr seint líþa; en þat veit trúa mín at þá varð þat undr er ec munda eigi trúa at vera mætti; annarr endir hornsins var út í hafi, en þat sáttu ei, en nú er þú kemr til siávarins, þá muntu siá mega hvern þurð þú hefir druckit á sænum: þat eru nú fiörur kallaðar. Oc enn mælti hann. Eigi þótti mer hitt minna vera vert, er þú lyptir upp kettinum, oc þèr satt at segia, þá rædduz allir þeir er sá, er þú lyptir af iörþu einum fætinum, en sá kavttr var ei sem þèr sýndiz, þat var Miðgarþzormr, er liggr um lavnd avll, oc vannz havnum varlega lengþin til at iörþina tæki sporðr oc havfut, oc svâ lángt seildiz þú upp at skamt var þá til himins. En hitt var oc mikit undr um fángit [1]) er þú fèkz við Elli; firir því at eingi hefir sá orþit oc engi mun verþa, ef svâ gamall er at elli bíðr, at ei komi ellin öllum til fallz. Oc er nú þat satt at segia, at vær munum skiliaz, oc mun þá betr hvârratveggiu handar, at þèr komit ei optarr mic at hitta, ec mun enn annat sinn veria borg mîna með þvílíkum vælum eþa avðrum, svå at ecki valld munut þèr á mèr fá. En er Þórr heyrþi þessa tavlu, greip hann til hamarsins oc bregðr á lopt, en er hann skal fram reiþa, þá sèr hann þar hvergi Utgarþa-Loka oc þá

1) er þú stódt svâ leingi vid ok fèll eigi meirr en á knè ödrum fæ *bætir O inní.*

snýr hann aptr til borgarinnar, oc ætlaz þá firir at brióta borgina; þá sèr hann þar vavllu víþa oc fagra, en önga borg [1]). Snýr hann þá aptr oc ferr leið sína, til þess er hann kom aptr í þrúðvánga. En þat er satt at segia, at þá hafþi hann ráþit firir sèr at leita til, ef saman mætti bera fundi þeirra Miðgarþzorms, sem siþan varþ. Nú ætla èc engan kunna þèr sannara at segia af þessi ferð þórs.

48. þá mælti Gángleri. Almikill er firir sèr Utgarþa-Loki, en með vælum oc fiölkýngi ferr hann miöc, en þat má siá at hann er mikill firir sèr, at hann átti hirðmenn þá, er mikinn mátt hafa. En a hvârt hefir þórr ecki þessa hefnt? Hár svarar. Engi er þat úkunnigt, þótt ei sè fræþimenn, at þórr leiðrètti þessa ferðina er nú var sagt, oc dvaldiz ecki lengi heima áðr hann bióz svâ skyndiliga til ferþarinnar, at hann hafþi ei reið oc ei hafrana oc
ecki favruneyti. Gèck hann út of Miðgarð svâ sem 42.
úngr drengr, oc kom einn aptan at qveldi til iötuns nockurs, sá er Ymir [2]) nefndr. þórr dvaldiz þar at gistíngu of nóttina. En í dagan stóð Ymir upp, oc bióz at róa á sæ til fiskiar. En þórr spratt upp, oc var skiótt búinn, oc bað at Ymir skyldi hann láta róa á sæ með sèr, en Ymir segir at litil liðsemd mundi at honum vera, er hann var litill oc úngmenni eitt "oc mun þic kala, ef ec sit svâ lengi oc utarliga [3]) sem ec em vanr. En þórr sagþi at hann mundi róa

1) Hèr segir frá því er þórr fór at draga Midgarþzorminn *U.*
2) Eymir *U.* *einlægt*
3) á miþum *bætir U. inni.*

mega firir því frá landi, at ei var víst hvârt hann mundi fyrr beiþaz at róa utan, oc reiddiz þórr iötninum svâ, at þá var búit at hann mundi þegar láta hamarrinn skianna [1]) honum; en hann lèt þat viðberaz, því at hann hugþiz þá at reyna afl sitt í avðrum stað. Hann spurþi Ymi hvat þeir skylldu hafa at beitum, en Ymir bað hann fá sèr siálfan beitur. Þá sneriz þórr á braut þángat er hann sá avxnaflokk nokqvorn, er Ymir átti: hann tòc hinn mesta uxann er Himinbriótr [2]) hèt, oc sleit af havfuþit, oc fór með til siávar. Hafþi þá Ymir útskotit nökqvanum. Þór gèck á skipit, oc settiz í austr-rúm, tóc tvær árar oc reyri, oc þótti Ymi skriþr verþa af róðri hannz. Hýmir [3]) reri í hálsinum fram, oc sóttiz skiótt róðrinn; sagþi þá Hýmir at þeir voru komnir á þær vaztir, er hann var vanr at sitia, oc draga flata fiska: en þórr qvez vilia róa myklu lengra, oc tócu þeir enn snertiróðr, sagþi Ymir þá at þeir voru komnir svâ lángt út, at hætt var at sitia utar firir Miþgarþzormi, enn þórr qvezt mundú róa eina hríþ, oc svâ gerþi hann, enn Hýmir var þá allúkátr. En þá er þórr lagþi upp árarnar, greiddi hann til vað helldr sterkian, oc ei var aungullinn minni eþa úramligre, þar let þórr koma á aungulinn avxahavfuþit, oc kastaþi firir borð oc fór aungullinn til grunnz, oc er þá svâ satt at segia at engu minnr ginti þá þór Miðgarþzorm, en Utgarþa-Loki hafþi spottat þór, þá er hann hóf orminn upp á hendi

1) skella *O.* 2) Himinhriótr *O.* Himinriódr *S. V.* 3) Ymir *O. S.* *einlægt;*

sèr. Miðgarþzormr gein ifir oxahavfuþit, en aungullinn vâ í góminn orminum: en er ormrinn kenndi þess, brá hann við svâ hart, at báþir hnefar Þórs skullu út á bordinu [1]), en þá varð Þórr reiðr, oc færþiz í ásmegin; spyrndi við svâ fast, at hann lióp báþum fótum gögnum skipit, oc spyrndi við grunni, dró þá orminn upp at borþi. En þat má segia at engi hefir sá sèt ógurligar siónir, er ei mátti þat siá, er Þórr hvesti augun á orminn, en ormrinn starþi neþan í mót, oc blès eitrinu. Þá er sagt at iötuninn Hýmir gerþiz litverpr, favlnaþi oc ræddiz, er hann sá orminn, oc þat er særinn fèll út oc inn of nökqvan [2]): oc í því bili er Þórr greip hamarrinn, oc færþi á lopt; þá fálmaþi iötuninn til agnsaxinu, oc hió vað Þórs af borþi [3]), en ormrinn savkþiz í sæinn, en Þórr kastaþi hamrinum [eptir honum, oc segia menn at hann lysti af honum havfuþit viþ grunninum [4]), en ec hygg hitt vera þèr satt at segia, at Miðgarþzormr lifir enn, oc liggr í siá. En Þór reiddi til hnefan oc setti við eyra Ymi, svâ at hann steyptiz firir borð, oc sèr í iliar honum [5]), en Þórr óð til lanndz.

49. Þá mælti Gángleri: hafa nokqvorr meiri tíþindi orþit með ásunum? allmikit þrekvirki vann Þórr í þessi ferð. Hár svarar [6]). Vera mun at segia [7])

1) út af bordinu *O.* vid bordinu *S. U.*
2) fèll inn kolblár *S.* fèll inn nockot *U.*
3) á bordi *O.* viþ borþinu *U. S.* 4) hrönnunum *O.*
5) ok laust viþ eyra jötninum svâ at hann steyptiz at borþino, ok laust af honum havfoþit viþ hr . . . *U.*
6) Frá lifláti Balldrs ok för Hermóþs til Heliar *sm. U. inn.*
7) Verra mun vera at segia *S.*

frá þeim tíþindum er meira þótti vert Asunum. En
45. þat er upphaf þessar savgu at *Baldr* en góþa dreymdi drauma stóra oc hættliga um líf sitt. En er hann sagþi Asunum draumana. þá báru þeir saman ráð sín, oc var þat gert at beiða griþa Baldri firir allzkonar háska: oc Frigg tóc svardaga til þess at eyra skyldu Balldri elldr oc vatn, iárn oc allzkonar málmr, steinar, iörþin, viþirnir, sóttirnar, dýrin, fuglarnir, eitr, ormar [1]). En er þetta var gert oc vitat, þá var þat skemtun Balldrs oc Asanna at hann skylldi standa upp á þíngum, en allir aðrir skylldu sumir skióta á hann, sumir havggva til, sumir beria grióti. En hvat sem at var gert sakaði hann ecki, oc þótti þetta avllum mikill frami. En er þetta sá Loki Laufeyiarson, þa likaþi honum illa er Baldr sakaði ecki. Hann gèck til Fensalar til Friggiar, oc brá sèr í konu liki: þá spyrr Frigg, ef sú kona vissi hvat Æsir höfþuz at á þínginu. Hon sagþi at allir skutu at Balldri, oc þat at hann sakaþi ecki. Þá mælti Frigg. Eigi munu vâpn eþa viþir granda Balldri; eiþa hefi èc þegit af avllum þeim. Þá spyrr konan: hafa allir lutir eiþa unnit at eira Baldri? Þá svarar Frigg. Vex viþar-teinúngr einn firir austan [2]) Valhavll, sá er Mistilteinn kallaðr, sá þótti mèr úngr at krefia eiðsins. Því næst hvarf konan á braut; en Loki tóc Mistiltein, sleit upp oc gèck til þings. En Havðr stóð utarlega í mannhríng-inum,

1) eitrid, ormarnir *O.* fuglar nè eitrormar *U.* 2) vestan *O. U.*

inum, þvíat hann var blindr; þá mælti Loki við
hann: hví skýtr þú ecki at Baldri? Hann svarar:
þvíat ec sè ei hvar Baldr er, oc þat annat at ec
em vâpnlaus. Þá mælti Loki: gerþu þó í líkíng
annarra manna. oc veit Baldri sæmd sem aðrir menn;
ec mun vísa þèr til hvar hann stendr, skiót at honum
vendi þessum. Havðr tóc mistilteininn, oc skaut at
Baldri at tilvísun Loka: flaug skotit í gögnum hann,
oc fèll hann dauðr til iarþar, oc hefir þat mest óhapp
verit unnit með goþum oc mavnnum. Þá er Balldr
var fallinn, þá fèlluz avllum Asum orðtavk oc svâ
hendr at taka til hannz; oc sá hverr til annars, oc
voru allir með einum hug til þess er unnit hafþi
verkit: en engi mátti hefna, þar var svâ mikill griþa-
staðr. En þá er Æsirnir freistuþu at mæla, þá var
hitt þó fyrr at grátrinn kom upp, svâ at engi mátti
avðrum segia með orþunum frá sínum harmi. Enn
Oþinn bar þeim mun verst þenna skaþa, sem hann
kunni mesta skyn, hversu mikil aftaka oc missa As-
unum var í fráfalli Balldrs. En er goþin vitkuþuz,
þá mælti Frigg oc spurþi, hverr sá væri með Asum, 44.
er eignaz vildi allar ástir hennar oc hylli, "oc vili
hann ríþa á helveg, oc freista ef hann fái fundit
Balldr, oc bióþa Heliu útlausn, ef hon vill láta fara
Balldr, heim í Asgarð. En sá er nefndr Hermóþr
enn hvati sveinn Oþins, er til þeirrar farar varð: þá
var tekinn Sleipnir hestr Oþins, oc leiddr fram, oc
steig Hermóðr á þann hest, oc hleypti braut.

En Æsirnir tóku lík Balldrs oc fluttu til sævar; Hrínghorni hèt skip Balldurs; hann var allra skipa mestr, hann vildu goþin framsetia, oc gera þar á bálfavr Balldrs, en skipit gèck hvergi fram. Þá var sent i Iötunheima eptir gýgi þeirri er Hyrrockin [1]) hèt: en er hon kom, oc reið vargi, oc hafþi havggorm at taumum; þá lióp hún af hestinum, en Oþinn kallaþi til berserki fióra at gæta hestzins, oc fengu þeir ei haldit nema þeir felldi hann, þá gèck Hyrrockin á framstafn navkqvans, oc hratt fram í fyrsta viðbragþi, svâ at elldr hraut or hlunnunum oc lavnd avll skulfu. Þá var Þórr reiðr oc greip hamarrinn, oc mundi þá brióta havfut hennar, áðr en goþin avll báðu henni friþar. Þá var borit út á skipit lík Balldrs, oc er þat sá kona hannz Nanna Neps dóttir, þá sprack hon af harmi oc dó, var hon borin á bálit, oc slegit í elldi; þá stóð Þórr at, oc vígþi bálit með Miöllni, en firir fótum hannz rann dvergr nockurr, sá er Litr nefndr, en Þórr spyrndi fæti sínum á hann, oc hratt honum í eldinn, oc brann hann. En þessa brennu sótti margskonar þióð, fyrst at segia frá Oþni, at með honum fór Frigg oc valkyriur oc hrafnar hannz, en Freyr ók í kerru með gelti þeim er Gullinbursti heitir eþa Sliðrugtanni [2]), en Heimdallr reið hesti þeim er Gulltoppr heitir, en Freyia kavttum sínum. Þar kömr oc mikit fólc Hrímþursa oc Bergrisar. Oþinn lagþi á bálit gullríng þann er Draupnir heitir, honum fylgþi síþan sú náttúra, at hina níundu hveria nótt drupu af honum

1) Hyrrokin *O. U.* Hyrokin *S.* 2) Sligrutanni *U.*

8 gullríngar iafnhavfgir. Hestr Balldrs var leiddr á bálit með avllu reiði.

En þat er at segia frá Hermóþi, at hann reið níu nætr davckva dala oc diúpa, svâ at hann sá ecki, fyrr en hann kom til árinnar Giallar, [oc reið á giallarbrúna. Hon er þavkt lýsigulli [1]). Móðguðr er nefnd mær sú er gætir brúarinnar, hon spurþi hann at nafni eþa ætt, oc sagþi at hinn fyrra dag riþu um brúna 5 fylki dauþra manna [2]," en eigi dynr brúin minnr [3]) undir einum þèr, oc ei hefir þú lit dauþra manna: hví ríðr þú hèr á helveg? Hann svarar; at ec skal ríða til Heliar at leita Balldrs, eþa hvârt hefir þú nakqvat sèt Balldr á helvegi? En hon sagþi at Balldr hafþi þar riþit um giallarbrú "en niðr oc norðr liggr helvegr. Þá reið Hermóþr þar til er hann kom at helgrindum; þá stè hann af hestinum oc gyrði hann fast, steig upp oc keyrþi hann sporum, en hestrinn hlióp svâ hart ifir grindina, at hann kom hvergi nær. Þá reið Hermóðr heim til hallarinnar, oc steig af hesti, gèck inn í havllina, sá þar sitia í avndugi Balldr bróþur sinn, oc dvaldiz Hermóðr þar um nóttina. En at morni þá beiddiz Hermóþr af Heliu, at Balldr skylldi ríþa heim með honum, oc sagþi hversu mikill grátr var með Asum. En Hel sagþi, at þat skylldi svâ reyna, hvârt Baldr var svâ ástsæll sem sagt er "oc ef allir lutir í heiminum kykvir oc dauþir gráta hann; þá skal hann fara til Asa aptr, en haldaz með Heliu

1) oc á gulli hladna brú *U.* 2) reiþ Balldr hèr med 500 manna *U.*
3) þannig *O. U. S.* iafnmiöc *K.*

ef nakqvarr mælir við, eþa vill ei gráta. þá stóð Hermóþr upp, en Baldr leiþir hann út or havllinni, oc tóc hrínginn Draupni, oc sendi Oðni til minia, en Nanna sendi Frigg ripti [1]) oc enn fleiri giafar, Fullo fíngrgull. þá reið Hermóðr aptr leið sína, oc kom í Asgarð, oc sagþi avll tíþindi þau er hann hafþi sèt oc heyrt.

því næst sendu Æsir um allan heim erindreka,
45. at biðia at Balldr væri grátinn or heliu, allir gerþu þat: menniruir oc kykvendin oc iörþin oc steinarnir oc trè oc allr málmr; svâ sem þú munt sèt hafa at þessir lutir gráta, þá er þeir koma or frosti oc í hita. þá er sendimenn fóru heim, oc höfþu vel rekit sin eyrindi; finna þeir í helli nokqvorum, hvar gýgr sat, hon nefndiz þavck [2]); þeir biðia hana gráta Baldr or heliu, hon svarar:

þavck mun gráta
þurrum tárum
Baldrs bálfarar:
kyks nè dauðs [naufka èc
kalls sonar [3]);
haldi [4]) Hel því er hefir!

[En þess geta menn, at þar hafi verit Loki Laufeyiar son, er flest hefir íllt gert með Asum.

50. þá mælti Gángleri. Allmiklu kom Loki á leið, er hann olli fyrst því er Baldr var veginn, oc svâ því er hann varþ ei leystr frá heliu, eþa hvârt varþ honum þessa nakqvat hefnt? Hár svarar: goldit var honum þetta svâ at hann mun lengi kennaz. þá
46. er guþin voru orþin honum svâ reið sem von var, hliòp hann á braut [5]), oc fal sic í fialli nokqvoro;

1) nisti *S.* falld *U.* 2) þavkt *U.* þöckt *S.*
3) *þannig O.* kalldsonar *K. en U. sleppir úti þessu frá merkinu.*
4) *þannig O. U.* hafi *K.*
5) þar var Loki raunar, þá er goþin visso þat voru þau reid Loka *U.*

gerþi þar hús oc 4 dyrr, at hann mátti siá or húsinu í allar áttir. En opt um daga brá hann sèr í laxliki, oc falz þá þar sem heitir Franángrs fors, þá hugsaþi hann firir sèr, hveria væl Æsir mundu til finna, at taka hann í forsinum. En er hann sat í húsinu tóc hann lín oc garn, oc reið á mösqva [1]) svâ sem net er siþan, en eldr brann firir honum. þá sá hann at Æsir áttu skamt til hannz, oc hafþi Oþinn sèt or Hliþskiálfinni hvar hann var: hann hlióp þegar upp oc út í ána, oc kastaþi netinu fram á eldinn. En er Æsir koma til hússins, þá gèck sá fyrst inn, er allra var vitraztr er Kvásir heitir: oc er hann sá á eldinum favlskann er netit hafþi brunnit, þá skildi hann at þat mundi væl vera til at taka fiska, oc sagþi Asunum. því næst tóku þeir oc gerþu sèr net, eptir því sem þeir sá á favlska, at Loki hafþi gert; oc er búit var netit, þá fara Æsir til árinnar, oc kasta neti í forsinn, hèllt þórr enda avðrum [2]), oc avðrum hèldu allir Æsir, oc drógu netit. En Loki fór firir, oc legz niðr í milli steina tveggia, drógu þeir netit ifir hann, oc kenndu at kykt var firir. Oc fara í annat sinn upp til forsins, oc kasta út netinu, oc binda við svâ þúngt at ei skyli undir mega fara. Ferr þá Loki firir netinu; en er hann sèr at skamt var til sævar, þá hleypr hann upp ifir þinulinn, oc rennir upp í forsinn. Nú sá Æsirnir hvar hann fór: fara enn upp til forsins, oc

1) tok hann língarn ok reid á rækna *O.* ræksna *S.*
2) ödrum netzhálsi *U.*

skipta liþinu í tvâ staði, en þórr veðr þá eptir miðri ánni, oc fara svâ til sævar. En er Loki sèr tvâ kosti: var þat lífsháski at hlaupa á sæinn, en hitt var annar at hlaupa enn ifir netit; oc þat gerþi hann, hlióp sem snaraz ifir netþinulinn. þórr greip eptir honum, oc tóc um hann, oc rendi hann í hendi honum, svâ at staðar nat [1]) höndin við sporþin, oc er
47. firir þá savk laxinn aptrmiór. Nú var Loki tekinn griþalaus, oc farit með hann í helli nokqvorn. þá tóku þeir þriár hellur oc settu á egg [2]), oc lustu rauf á hellunni hverri. þá voru teknir synir Loka Vali oc Nari [3]) eþa Narfi; brugþu Æsir Vala í vargs liki, oc reif hann Narfa bróþur sinn: þá tóku Æsir þarma hannz, oc bundu Loka með yfir þá þriá steina, einn undir herþum, annar undir lendum, þriði undir knèsbótum, oc urþu þau bavnd at iárni. þá tóc Skaþi eitrorm oc festi upp ifir hann svâ at eitrit skyldi driúpa or orminum í andlit honum: en Sigyn kona hannz stendr hiá honum, oc heldr möndlaugu undir eitrdropa; en þá er full er mundlaugin, þá gengr hon oc slær út eitrinu, en meðan drýpr eitrit í andlit honum, þá kippiz hann svâ hart við, at iörþ avll skelfr, þat kallit þèr landskiálfta. þar liggr hann í bavndum til ragnaravckurs.

51. þá mælti Gángleri [4]). Hver tíþindi eru at segia frá um ragnaravckr? þess hefi èc eigi fyrr
48. heyrt getit. Hár svarar. Mikil tiþindi eru þaðan

1) nam *O.* 2) enda *U.* 3) Nári *S.*
4) Frá fimbulvetri ok Ragnaravkri *U.*

at segiā oc mörg: þau en fyrstu at vetr sá kemr er kallaðr er fimbulvetr; þá drífr snær or avllum ættum, frost eru þá mikil, oc vindar hvassir, ecki nýtr sólar, þeir vetr fara þrír saman, oc ecki sumar milli. En áðr gánga svâ aðrir þrír vetr, at þá eru um alla veröld orostur miklar, þá drepaz bræðr firir ágirni sakar, oc engi þyrmir favðr eþa syni í manndrápum oc sifiasliti. Svâ segir í Völuspá.

Bræðr munu beriaz
oc at bavnum verþaz [1])
munu systr úngar [2])
sifium spilla:
hart er með havldum,
hórdómr mikill,
skeggiölld [3]) skálmöld,
skildir klofnir,
vindavld vargöld
áðr [4]) veröld steypiz.

þá verþr þat er mikil tiþindi þickia, at úlfrinn gleypir sólina, oc þickir mönnum þat mikit mein: þá tekr annar úlfrinn túnglit, oc gerir sá oc mikit úgagn: stiörnurnar hverfa af himninum. þá er oc þat til tiþinda, at svâ skelfr iörð avll oc biörg, at viþir losna or iörþu upp, en biörgin hrynia, en fiötrar allir oc bavnd brotna oc slitna: þá verþr Fenris-úlfr laus: þá geysiz hafit á lavndin, firir því at þá snýz Miþgarþzormr í iötunmóð, oc sækir upp á landit: þá verþr oc þat at Naglfar [5]) losnar, skip þat er svâ heitir, þat er gert af nöglum dauðra manna; oc er þat firir því varnanar vert, ef maðr deyr með óskornum nöglum, at sá maþr eykr mikit efni til skipsins Naglfars, er goþin oc menn vildi seint at gert yrþi; en í þessum sæfargáng flýtr Naglfar;

1) verda *O. U.* 2) *hinar* systrúngar. 3) Skeggölld *S.*
4) undz *U.* 5) Naglfari *S.* Naglfaræ *U.*

Hrymr heitir iötun er stýrir Naglfara, Fenris-úlfr ferr með gapanda munn, oc er hinn efri kiöptr við himni, en hinn neðri við iörþu, gapa mundi hann meira ef rúm væri til, eldar brenna or augum hannz oc nösum. Miðgarþz-ormr blæss svâ eitrinu, at hann dreifir lopt avll oc lög, oc er hann allógurligr, oc er hann á aðra hliþ úlfinum. I þessum gný klofnar himininn, oc ríþa þaðan Muspellz synir: Surtr riðr fyrst, oc firir honum oc eptir bæþi eldr brennandi; sverþ hannz er gott miöc, af því skín biartara, en af sólu, en er þeir ríþa Bifravst, þá brotnar hon sem fyrr er sagt. Muspellz megir sækia fram á þingvöll er Vígriðr heitir [1]), þar kemr oc þá Fenris-úlfr oc Miðgarðz-ormr, þar er oc þá Loki kominn oc Hrymr oc með honum allir Hrímþursar, en Loka fylgia allir Heliar sinnar, en Muspellz synir hafa einir sèr [2]) fylking, er sú biört miöc. Völlrinn Vígriðr [3]) er 100 rasta víðr á hvern veg.

En er þessi tiþindi verþa, þá stendr upp Heimdallr, oc blæs ákaflega í Giallarhorn, oc vekr upp avll guþin, oc eiga þau þíng saman. Þá riðr Oþin til Mímis brunnz, oc tekr ráð af Mími firir sèr oc sínu liþi, þá skelfr askr Yggdrasils, oc engi lutr er þá óttalaus á himni eþa iörþu. Æsir hervæþa sik, oc allir einheriar, oc sækia fram á völluna: ríþr fyrstr Oþinn með gullhiálm oc fagra bryniu oc geir sinn, er Gúngnir [4]) heitir; stefnir hann móti Fenris-úlf,

---

1) ríþa á völlinn Vigriþin *U.* 2) *þannig O. U.* yfir sèr *K. S.*
3) Vigriþinn *U.* 4) *þannig O. U. en K. og S. hafa* Gugnir.

en Þórr fram á aðra hlið honum, oc má hann ecki luga honum; því at hann hefir fullt fáng at beriaz við Miðgarþzorm. Freyr berst móti Surti, oc verðr harðr samgangr áðr Freyr fellr, þat verþr hannz bani er hann missir þess hinnz góþa sverþs, er hann gaf Skirni. Þá er oc laus orþin hundrinn Garmr, er bundinn er firir Gnípa helli [1]), hann er hit mesta forat, hann á víg móti Tý; oc verþr hvârr avðrum at skaða. Þórr berr banaorð af Miðgarþzormi, oc stígr þaðan braut níu fet; þá fellr hann dauþr til iarþar firir eitri því, er ormrinn blæss á hann. Ulfrinn gleypir Oþinn, verþr þat hannz bani: en þegar eptir snýz fram Viþar, oc stígr öðrum fæti í neðra keypt úlfsins, á þeim fæti hefir hann þann skó, er allan aldr hefir verit til-samnat, þat eru biórar, þeir er menn sníþa or skóm sínum firir tám eþa hæl, því skal þeim biórum braut kasta sá maðr, er at því vill hyggia, at koma Asunum at liði; annari hendi tekr hann enn efra keypt úlfsins, oc rífr sundr gin hannz, oc verþr þat úlfsins bani. Loki á orostu við Heimdall, oc verþr hvârr annars bani. Því næst slýngr Surtr eldi yfir iörþina, oc brennir allan heim. Svâ er sagt í Völuspá.

Hátt blæss Heimdallr
horn er á lopti,
mælir Oþinn
við Míms [2]) havfut:
skelfr Yggdrasils
askr standandi,
ymr it aldna trè,
en iötun losnar [3]).
Hvat er með Asum?
hvat er með Alfum [4])?

---

1) Gnípalundi *U.* 2) Mímis *U.* 3) Æsir eru á þíngi *U.*
4) hvat med Asynium? *U.*

ſymr allr Jötunheimr,
Æsir 'ro á þíngi [1]),
stynia dvergar
firir steindurum
vegbergs [2]) vísir.
Vituð èr enn eða hvat?

Hrymr ecr austan,
hefiz lind firir;
snýz Jórmungandr
í iötun-móþi,
ormr knýr unnir,
en ari hlackar [3]),
slítr nái Niðfavlr [4]);
Naglfar losnar.

Kiöll ferr austan
koma munu Muspellz
of lavg lýþir
en Loki stýrir
þar 'ro fífl-megir
með Freka allir
þeim er bróþir
Býleiz í favr.

Surtr ferr sunnan
meþ sviga leivi [5])
skínn af sverþi
sól valtíva:
griótbiörg gnata
en gífr rata,
troþa halir helveg,
en himinn klofnar.

Þá kömr Hlínar
harmr annar fram,
er Oþin ferr
við úlf vega;
en bani Belia
biartr at Surti:
þar mun Friggiar
falla ángan.

Gengr Oþins son
við úlf vega,
Víþarr of veg [6])
at valdýri,
lætr hann megi hveðrúngs
mund of standa
hiörr til hiarta;
þá er hefnt favþr.

Gengr inn mæri
mögr Hlóðyniar
neppr af [7]) naþri
níðs óqviðnum,
er af móþi drepr
Miðgarðz veorr;
munu halir allir
heimstöð [8]) ryþia.

Sól mun sortna
savckr fold í mar

1) *sl. U. en O. hefir* gnyr *fyrir* ymr.
2) *þannig O. S.* veggbergs *K. en U. fellir út þessa línu.*
3) *þannin O.* avrn mun hlacka *K. S.*
4) nidfölu *S.* 5) lævi *O.*
6) vídr of veg *O.* Vídar um veg *S.* 7) nepr at *K. S.*
8) heimsteid *K, S. sem þykist meiníngarlaust. Annars setia K. og S. þessar tvær sídustu línur fyrst í þessum vísuhelmíngi; en þannig trublast samheingid, hefi èg því umbreytt rödinni eptir Völuspa. Þessar 6 vísur fellir U. út.*

hverfa af himni  
heiþar [1]) stiörnur;  
geisar eimi  
oc aldrnari,  
leikr hár hití  
við himin siálfan.

Hèr segir enn svâ [2]):

Vígriðr heitir völlr,  
er finnaz vígi at  
Surtr oc en svasu goþ:  
hundrat rasta  
hann er á hverian veg;  
sá er þeim völlr vitaðr.

52. Þá mælti Gángleri. Hvat verþr þá eptir, er brendr er himin oc iörð, oc heimr allr, oc dauð goþin avll oc allir einheriar oc allt mannfólk? oc hafit þèr áðr sagt, at hverr maþr skal lifa í nokqvorum heimi um allar alldir. Þá svarar Hár. Margar 49.
eru þá vistir góþar oc margar illar: bazt er þá at vera [á Gimle [3]) á himni; oc allgott er til góþs dryckiar þeim er þat þikkir gaman í þeim sal er Brímir heitir, hann stendr oc á himni [4]); sá er oc góþr salr er stendr á Níþafiöllum giör af rauþu gulli, sá heitir Sindri; í þessum savlum skulo byggia góþir menn oc siþlátir. Á nástravndum er mikill salr oc illr, oc horfa norðr dyr, hann er oc ofinn allr orma hryggium [sem vandarhús [5]); en ormahavfut avll vitu inn í húsit, oc blása eitri, svâ at eptir salnum renna eitrár, oc vaþa þær ár eiðrofar oc morðvargar, svâ sem hèr segir [6]).

Sal veit ec standa  
sólu fiarri  
ná-stravndu á,  
norðr horfa dyrr:  
falla eitrdropar  
inn of lióra;  
sá er undin salr  
orma hryggium.

1) heidum *O.* 2) Vafþrúdn. 18. *en þetta erindi fellir U. út.*  
3) *fellir O. ut.* á Gimli meþr Surti *U.*  
4) stendr á ókólni *O.* ok gott er til dryckia i Brimle *U,*  
5) *fellir O. út; svo og U.* 6) *í Völuspá.*

Skulu þar vaþa
þúnga strauma
menn meinsvara
oc morðvargar.

En í Hvergelmi er verst [1]):

þar qvelr Níðhavggr
nái framgengna.

53. Þá mælti Gángleri. Hvârt lifa nokqvorr goþin þá? eþa er þá nokqvorr iörð eþa himin? Hár svarar. Uppskýtr iörþunni þá or sænum, oc er þá græn oc favgr, vaxa þá acrar ósánir. Víþarr oc Vali lifa, svâ at eigi hefir særin oc Surta logi [2]) grandat þeim, oc byggia þeir á Iþavelli [3]), þar sem fyrr var Asgarðr. Oc þar koma þá synir Þórs: Móþi oc Magni, oc hafa þar Miöllni. Því næst koma þeir Balldr oc Havðr frá Heliar: setiaz þá allir samt oc talaz viþ, oc minnaz á rúnar [4]) sínar, oc ræþa of tíþindi þau er fyrrum höfþu verit, oc Miþgarþzorm, oc um Fenris-úlf: þá finna þeir í grasinu gulltavflur þær, er Æsirnir höfþu átt. Svâ er sagt [5]).

Víþarr oc Vali
byggia ve goþa
þá er sortnar Surta logi:
Móði [6]) oc Magni
skulo Miölni hafa
Vínguis at Vígþroti [7]).

[En þar sem heitir Hoddmímis-hollt leynaz menn tveir í Surta loga er svâ heita: Líf oc Leifþrasir, oc hafa morgindavggvar firir mat. En af þessum mavnn-

1) allra vest *S. Þykist skrifarinn hafa ætlad med: þessu ordi ad göra tvær hendíngar úr því, til ad fylla upp erindid; en þad eru raunar höfundarins ord og ekki skáldsins.*

2) Svartalogi *U.* 3) Eiþavelli *U.* 4) raunir *S.*

5) Vafþrúd. 51. 6) *þannig O. U.* Megi *K. S.*

7) Vignigs synir at vígroþi *U.* Vignis hafa at Vígþrote *S.*

um kemr svâ mikil kynslóð at byggviz heimr allr; svâ sem hèr segir [1]).

Líf oc Leifþrasir
en þau leynaz munu
í hollti Hoddmímis:
morgin-davggvar
þau er at mat hafa,
en þaþan af alldir alaz [2])

Oc hitt mun þèr undarligt þyckia, er sólin hefir getit dóttur eigi ófegri en hon er, oc ferr sú þá stigu móþur sinnar, sem hèr segir [3]):

Eina dóttur
berr Alfravþull
áðr hana fenrir fari:
sú skal ríþa,
er regin deyia,
móþur brautir mær.

[En nú ef þú kannt lengra fram at spyria; þá veit ec ei hvaþan þèr kemr þat; firir því at öngan mann heyrþa èc lengra segia fram aldarfarit, oc nióttu nú sem þú namt [4]).

54. Því næst heyrþi Gángleri dyni mikla hvern veg frá sèr, oc leit út á hliþ sèr: oc þá er hann sèz meirr um, þá stendr hann úti á slèttum velli, sèr þá önga havll oc önga borg. Gengr hann þá leið sína braut, oc kemr heim í ríki sitt, oc segir þau tíþindi er hann hefir sèt oc heyrt, oc eptir honum sagþi hverr maðr avðrum þessar savgur [5]).

---

1) en í holdi Mímis leynaz meyiar í Svarta loga *U. Erind't finnst í Vafþr.* 45.

2) Líf ok lífþræser er þar leynaz meyiar í Mímis holldi; morgindöggva þær ok þar um alldr alaz *U.*

3) Vafþr. 47. 3) *Þessu sleppir U.*

5) *Þessa ályktun fyrsta höfundarins og eptirmálann dregr U. saman í eitt, og kemst svo að ordi:* Nú er G. heyrir þetta, þá verþr gnyr mikill, ok er hann á slèttum velli. Oc er Æsirnir heyra þetta sagt, gáfu þeirr sèr þessi nöfn Asanna; at þá er láugar stundir liþi efaþiz menn ecki at allir væri einir þeir Æsir er nú var frá sagt ok þessir Æsir er nú voru, ok var Avko-Þórr kalladr Asa-Þórr.

## EPTIRMALI.

En Æsir setiaz þá á tal oc ráþa ráþum sínum, oc minnaz á þessar frásagnir allar, er honum voru sagþar, oc gefa nöfn þessi hin savmu er áðr eru nefnd mavnnum oc stavþum þeim er þar voru; til þess at þá er lángar stundir liþi, at menn skyldu ecki ifaz í at aller væri einir þeir Æsir er nú var frásagt oc þessir, er þá voru þau savmu navfn gefin. Þar var þá . . . . . . [1]) Þórr kallaðr, oc er sá Asa-Þórr, hinn gamli sá er Öku-Þórr, oc honum eru kend þau stórvirki er Ector gerþi í Tróio. En þat hyggia menn at Tyrkir hafi sagt frá Ulyxes, oc hafi þeir hann kallat Loka, þvíat Tyrkir voru hannz hinir mestu úvinir.

1) *Hinar lesa* þ*etta saman* var þá Þórr kallaþr, *sem ef eckert vantadi*; þ*á verdr madr ad undirskilia* einhver *edr annad* þ*víliki fyrirnafn.*

# BRAGARÆDUR [1].

55. Einn maðr er nefndr *Ægir* eþa Hlèr, hann bió í ey þeirri er nú er kavllut Hlès-ey, hann var miöc fiölkunnigr. Hann gerþi ferð sína til Asgarðz; en er Æsir vissu ferð hannz, var honum fagnat vel, oc þó margir lutir með siónhverfingum [1]): oc um qveldit er drecka skyldi, þá lèt Oþinn bera inn í havllina sverþ, oc voru svâ biört at þar af lýsti, oc var ecki haft liós annat meþan við dryckiu var setit. Þá gèngu Æsir at gildi sínu, oc settuz í hásæti 12 Æsir, þeir er dómendr skyldu vera, oc svâ voru nefndir: Þór, Njörðr, Freyr, Týr, Heimdallr, Bragi, Viþarr, Vali, Ullr, Hænir, Forseti. Slíkt sama Asynior: Frigg, Freya, Gefiun, Iþunn, Gerþr, Sigun, Fulla, Nanna. Ægi þótti gavfugligt þar um at siáz; Veggþili avll voru þar tiöldut með favgrum skiöldum, 50.

1) *K. O. og U. hafa hèr einga almenna fyrirsögn. S. hefir:* Bragalygi, *en St.* þridie Partur kallaz Braga-Rædur *m. m.* (*i St. er nefnil. Formalinn fyrsti partr en Gylfaginning annar*). Þar-ámóti hefir *U. hèr sèrliga fyrirsögn fyrir fyrstu grein nfl.* Frá heimboþi (Asanna at Ægi). *En greinin sjálf er hèr mikid stytt, og hliódar svo:* þessir Æsir þágo heimboþ at Ægi í Hlèsey. Aþr hafþi Oþinn honum heimboþit. Um qvelldit lèt Oþinn bera sverd í höllina, ok lysti þaraf sem logum biörtum. Þór var þar, Niörþr, Freyr, Tyr, Heimdallr, Bragi, Víþarr, Vali, Ullr, Hænir, Forseti, Loki. Asynior slíkar, Frigg, Freyia, Gefion, Iþunn, Gerþur, Sigun, Scolla (*á ad vera* Fulla), Nanna. Bragi Æsegir gi frá mörgum tíþindum. *I næstu dæmisögu er einnin orda-atiltækid mikid stytt, en þó er innihaldid sama sem i K. og O.*

2) fiölkyngi *O.*

þar var oc áfenginn [1]) miöðr, oc miöc druckit.
Næsti maðr Ægi sat *Bragi*, oc áttuz þeir við dryck-
iu oc orþaskipti: sagþi Bragi Ægi frá mörgum tiþind-
um, þeim er Æsir höfþu átt [2]).

56. Hann hóf þar frásavgn at þrír Æsir fóru
51. heiman Oþinn oc Loki oc Hænir, oc fóru um fiöll
oc eyþimerkr, oc var íllt til matar. En er þeir koma
ofan í dal nakqvarn, siá þeir oxna flock, oc taka
einn uxan, oc snúa til seyþis. En er þeir hyggia at
soþit mun vera, rausa þeir seyþinn, oc var ecki soþ-
it: oc í annat sinn er þeir rausa söþinn, þá er stund
var liþin, oc var ecki soþit; mæla þeir þá sín á
milli hveriu þetta mun gegna. Þá heyra þeir mál í
eikina upp yfir sic, at sá er þar sat qvaz ráþa
því er eigi soþnaði á seyþinum: þeir litu til, oc sat
þar avrn oc ei lítill. Þá mælti avrninn: vilit þèr
gefa mèr sylli mína af oxanum, þá mun soþna á
seyþinum. Þeir iáta því: þá lætr hann sígaz or
trènu, oc setz á seyþinn, oc leggr upp þegar it fyrsta
lær oxans tvö oc báþa bógana. Þá varð Loki reiðr,
oc greip upp mikla staung, oc reiþir af avllu asli, oc
rekr á kroppin erninum: Avrninn bregz við havggit
oc flýgr upp; [þá var savst staungin við kropp arnar-
innz, oc hendr Loka við annan enda [3]). Avrninn
flýgr hart, svâ at sætr Loka taka niðr [4]) griótit oc
urþir

1) áfeingur *S.* 2) adhasz *O.*

5) þá var föst höndin vid stöngina, en annar endir vid bak arn-
arins *O.*

4) vid *S.* niþri viþ *U.*

urþir oc viþu: hendr hannz hyggr hann at slitna muni or avxlum. Hann kallar oc biðr allþarfliga avrninn friþar; en hann segir at Loki skal aldri laus verþa, nema hann veiti honum svardaga, at koma *Iþunni* út of Asgarþ með epli sín: en Loki vill þat; verþr hann þá lauss, oc ferr til lagsmanna sinna, oc er ei at sinni sögð fleiri tíþindi um þeirra ferð, áðr þeir koma heim. En at áqveþinni stundu [1]) teygir Loki Iþunni út um Asgarþ í skóg nokqvorn, oc segir at hann hefir fundit epli þau er henni munu gripir í-þickia: oc bað at hon skal hafa með sèr sín epli, oc bera saman oc hin. þá kemr þar *þiazi* iötun í arnarham, oc tekr Iþunni oc flýgr braut með, [oc hefir heim [2]) til búss síns. [En Æsir urþu illa 52.
við hvarf Iþunnar, oc gerþuz þeir brátt hárir oc gamlir. þá áttu þeir þíng, oc spyrr hverr annan hvat siþarst vissi til Iþunnar [3]); en þat var sèt siþarst, at hon gèck út or ásgarþi með Loka. þá var Loki tekinn oc færðr á þingit, oc var honum heitit bana eþa píslum; en er hann varþ ræddr, þá qvaz hann mundu sækia eptir Iþunni í Iötunheima, ef Freyia vill liá honum valshams er hon á. Oc er hann fær valshaminn, flýgr hann norðr í Iötunheima, oc kemr einn dag til þiaza iötuns: var hann róinn á sæ, en Iþunn var ein heima. Brá Loki henni í hnotar liki, oc hafþi



1) stefnu *O.*
2) oc i þrymheim *O.* heim i þrymheim *S.* i þrúþheim *U.*
3) Æsir gerþuz æfrir miök, ok spurþo hvar Iþunn væri *U.*

í klóm sèr, oc flýgr sem mest. En er þiazi kom heim oc saknar Iþunnar; tekr hann arnarhaminn, oc flýgr eptir Loka, oc dró arnsug í flugnum. En er Æsirnir sá er valrinn flaug með hnotina, oc hvar avrninn flaug; þá gèngu þeir út undir Asgarð, oc báru þannig byrþar af lokarspánum. Oc þá er valrinn flaug inn of borgina, lèt hann fallaz niðr við borgarveggimn, þá slógu Æsirnir eldi í lokarspánu, en avrninn mátti ei stavðva sik, er hann misti valsins: laust þá eldinum í fiþri arnarins, oc tóc þá af fluginn. Þá voru Æsirnir nær oc drapu þiaza iötun fírir innan Asgrindur, oc er þat víg allfrægt. En
53. *Skaþi* dóttir þiaza iötuns tóc hiálm oc bryniu oc avll hervâpn, oc ferr til Asgarþz, at hefna favþur síns; en Æsir buþu henni sætt oc yfirbætr: oc hit fyrsta at hon skal kiósa sèr mann af Asum, oc kiósa at fótom, oc siá ecki fleira af. Þá sá hon eins mannz fætr forkunnar fagra, oc mælti: þenna kýs ec; fátt mun liótt á Balldri. En þat var Njörðr or Nóatúnum. Þat hafþi hon oc í sættargerð sinni, at Æsir skyldu þat gera, er hon hugþi at þeir skyldu eigi mega, at hlæia hana: þá gerþi Loki þat, at hann batt um skegg geitar nokqvorrar, oc auðrum enda um hreðiar sèr [1]), oc lètu þau ýmsi eptir [2]), oc skrækti hvârtveggia við hátt; þá lèt Loki fallaz í knè Skaþa, oc þá hló hon: var þá giör sætt af Asanna hendi við hana. Svâ er sagt at Oþinn gerþi þat til yfirbóta [3]) við hana, at hann tóc augu þiaza oc kastaþi

1) sèr geitarskegg undir hreþiarnar *U.*
2) fyrir *O.*  3) umbóta *O.* favþr-bóta *U.*

upp á himin, oc gerþi af stiörnur tvær. Þá mælti Ægir: Mikill þycki mèr Þiazi firir sèr hafa verit, eþa hvers kyns var hann? Bragi svarar: Avlvaldi 54.
hèt faþir hannz, oc merki munu þèr at-þickia, ef ec segi þèr frá honum. Hann var miöc gullauðigr, en er hann dó, oc synir hannz skyldu skipta arfi; þá havfþu þeir mæling at gullinu er þeir skiptu; at hverr skyldi taka munnfylli sína, oc allir iafn margar. Einn þeirra var Þiazi, annar Iþi, þriþi Gángr. En þat höfum vær orðtak nú með oss, at kalla gullit munntal þessa iötna: en vèr felum í rúnum eþa í skáldskap svâ, at vèr kavllum þat mál eþa Orðtac eþa tal þessa iötna. Þá mælti Ægir: Þat þicki mèr vera vel fólgit í rúnum. [Oc enn mælti Ægir [1]).

57. Hvaþan af hefir hafiz sú iþrótt, er þèr kallit 60.
*Skáldskap?* Bragi svarar: Þat voru upphöf til þess, at guþin höfþu ósætt viþ þat fólk er Vanir heita, en þeir lavgþu meþ sèr friþstefnu, oc settu griþ á þá lund, at þeir gèngu hvârirtveggiu til eins kers, oc spýttu í hráka sínum: en at skilnaþi þá tóku goþin oc vildu ei láta týnaz þat griþamark, oc sköpuðu þar or mann, sá heitir *Kvásir*. Hann er svâ vitr, at engi spyrr hann þeirra luta er eigi kann hann orlausn; oc hann fór víða um heim at kenna mavnnum fræþi, oc þá er hann kom at heimboþi til dverga nokqvorra Fialars oc Galars, þá kavlluþu þeir hann með sèr á einmæli, oc drápu hann, lètu renna blóð hannz í tvav ker oc einn ketil, oc heitir

1) *O. sleppir úti þessu, U. hefir hèr lánga og heimskuliga fyrisögn, en S.* Hvörnin skáldskapr hófst.

sá Oðrærir [1]), en kerin hètu Són oc Boðn: þeir blendu hunángi viþ blóðit, oc varð þar af miöðr sá, er hverr er af-dreckr verþr skáld eþa fræþamaðr [2]). Dvergarnir sögþu Asum at Kvásir hefþi kafnat í mannviti, firir því at engi var þar svâ fróþr, at spyria kynni hann fróþleiks.

Þá buþu þessir dvergar til sín iötni þeim er Gillíngr [3]) heitir oc konu hannz, þá buþu dvergarnir Gillíngi at róa á sæ með sèr, en er þeir fóru firir land fram, röru dvergarnir á boþa, oc hvelfþi skipinu. Gillíngr var ósyndr, oc týndiz hann; en dvergarnir rèttu skip sitt, oc rèru til landz. Þeir sögþu konu hannz þenna atburþ, en hón kunni illa, oc grèt hátt. Þá spurþi Fialar hana, ef henni mundi huglèttara, ef hon sæi út á sæinn, þar er hann halþi týnz, en hon vildi þat: þá mælti hann við Galar bróþur sinn; at hann skal fara upp yfir dyrnar er hon gèngi út, oc láta qvernstein falla i havfut henni, oc talþi sèr leiþaz óp hennar; oc svâ gerþi hann.
61. Þá er þetta spurþi Suttúngr jötun son Gillings [4]), ferr hann til, oc tóc dvergana oc flytr á sæ út, oc setr þá i flæþar-sker. Þeir biþia Suttúng sèr lífsgriþa, oc bióþa honum til sættar i favðrgiöld miöðin dýra, oc þat verþr at sætt með þeim: flytr Suttúngr miöþin heim, oc hirþir þar sem heita Hnitbiörg, setr þar til gæzlu dóttur sína Gunnlavþu. Af þessu

1) *þannig O. U.* Odreyrir *K.*
2) ok frædimadr *O.* ok fræþamadr *U. S.* 3) Grillingr *U.*
4) *þannig O. U. St.* Suttúngr bróþurson Gillings *K. S. en sidan segist hann þiggia miödinn i födur bætr. S. skrifar alistadar* Suptúngur.

kavllum vèr skáldskapin Kvásis blóð eþa dverga drecku eþa fylli eþa nakqvarskonar lavg Oðreris eþa Boðnar eþa Sónar eþa farskost dverga (firir því at sá miöðr flutti þeim fiörlausn or skerinu), eþa Suttúnga miöþ, eþa Hnitbiarga lavg.

58. Þá mælti Ægir. Myrkt þycki mèr þat mælt,
at kalla skáldskap með þessum heitum. En hvernig
komu þeir Æsir [1]) at Suttúnga miþi? Bragi svarar:
Siá saga er til þess, at Oþinn fór heiman, oc kom 62.
þar er þrælar níu slógu hey: hann spyrr ef þeir
vilì at hann brýni liá þeirra. Þeir iáta því, þá tekr
hann hein af belti sèr oc brýndi [2]), en þeim þótti
bíta liárnir myklu betr, oc föluþu heinina. En hann
mat svâ at sá er kaupa vildi skyldi gefa við hóf [3]),
en allir qvoþuz vilia, oc báþu hann sèr selia: en
hann kastaþi heininni í lopt upp; en er allir vildu
henda, þá skiptuz þeir svâ við, at hverr brá liánum
á háls avðrum. Oþinn sótti til náttstaþar til iötuns
þess er Baugi hèt broþir Suttúngs. Baugi [kallaþi
illt fiár-halld sitt, oc sagþi at þrælar hanns níu
havfþu drepiz, en talþiz ei vita sèr vân verkmanna [4]):
en Oþinn nefndiz firir honum Bavlverkr, hann bauð
at taka upp 9 manna verk firir Bauga, en mælti sèr
til kaups einn dryck af Suttúnga miþi. Baugi qvað
enskis ráð eiga af miþinum, sagþi at Suttúngr vildi
einn hafa, en fara qvezt hann mundu með Bavlverki,

---

1) komuz þèr Æsir *O.*
2) liana *bætir O. inn. Kannske þetta ord hafi í gamla daga heitið eins og ennú i Svensku* líe *í margt.* liar.
3) höfud sitt *S. St.* ok gáfu þeir viþ havfud sín *U.*
4) lèzt eigi hafa vel halldit húskörlum sinum *U.*

oc freista ef þeir fengi miöþin. Bavlverkr vann um sumarit 9 manna verk firir Bauga, en at vetri beiddiz hann Bauga leigu sinnar. Þá fara þeir báþir: Baugi segir Suttúngi bróþur sínum kaup þeirra Bavlverks; en Suttúngr syniar þverliga hvers dropa af miþinum. Þá mælti Bavlverkr til Bauga at þeir skyldu freista væla nokqvorra, ef þeir megi ná miþinum, en Baugi lætr þat vel vera: þá dregr Bavlverkr fram nafar þann er Rati heitir [1]), oc mælti at Baugi skal bora biargit, ef nafarrinn bítr; hann gerir svâ: þá segir Baugi at gavgnum er borat biargit, en Bavlverkr blæs í nafars raufina, oc hrióta spænirnir upp í móti honum; þá fann hann at Baugi vildi svíkia hann, oc baᵭ bora gögnum biargit. Baugi boraþi enn; enn er Bavlverkr blæs annat sinn, þá fuku inn spænirnir. Þá bráz Bavlverkr í orms líki, oc skreiᵭ í nafarsraufina, en Baugi stack eptir honum nafrinum, oc misti hannz. Fór Bavlverkr þar til sem Gunnlavᵭ var, oc lá hiá henni þriár nætr, oc þá lofaþi hon honum at drecka af miþinum þriá drycki: í enum fyrsta dryck drack hann allt or óᵭreri, en í avᵭrum or Boᵭn, í enum þriþia or Són, oc hafþi hann þá allan miöþinn. Þá bráz hann í arnarham, oc flaug sem ákafazt. En er *Suttúngr* [2]) sá flug arnarins, tóc hann sèr arnarham, oc flaug eptir honum, en er Æsir sá hvar Oþinn flaug, þá settu þeir út í garþinn ker sín. En er Oþinn kom

---

1) nafarinn þann er Ródi heitir *S.* nafarinn roda *U.*

2) *Svo hefir U. en K. og O. hafa:* þiazi, *sem kannske gæti skiliz fyrir jötun yfirhöfud.*

inn of Asgarð, þá spýtti hann upp miþinum í kerin; [en honum var þá svâ nær komit at Suttúngr mundi ná honum, at hann sendi aptr suman miöþinn, oc var þess ecki gætt: hafþi þat hverr er vildi, oc köllum vèr þat skáldfífla lit [1]). En Suttúnga miöð gaf Oþinn Asunum, oc þeim mönnm er yrkia kunnu; því kavllum vèr skáldskapin feng Oþins oc fund oc dryck hannz oc giöf hannz oc dryck Asanna [2]).

---

1) *þannig K.* lut *O.* en sumum ræpti hann aptr, er honum varþ nær farætt; hava þat skálldfífl, ok heitir arnar-leir. *U.*

2) *Allar þórar Eddubækur K. O. U. og S. smeygia hèr inn byrian af Skáldu enda til þeirra orda:* Svâ ok at kalla Reidar-ty; *án allrar adgreiningar, eda fyrirsagnar.. þarnæst kemr eptirmálinn einnig fyrirsagnarlaus:* Enn þetta er nú . . . enn ráku í braut Elenum. *þar aeptir fylgir önnur grein af Skáldu í K. og O. öldúngis fyrirsagnarlaus:* Nù skal láta heyra *o. s. fr. Meina eg þetta hafi svo tilgeingid, ad höfundr eptirmálans hafi skrifad hann á laust blad, og fest inn í bók, sem hefir vantad adgreiningu ámedal Eddu og Skáldu: næsti uppskrifari hefir ekki vitad hvar þetta blad átti ad innfærast, helár fært þad inn þar, sem næst-undanfarna bladsida var úti: en þad hefir verid of seint, svo ad 1. grein af Skáldu med því móti hefir komid á undan eptirmála Eddu. Sömu röd fylgir S. fullkomliga þó hefir hún amilli eptirmalans:* ráku í braut Elenum *og þeirrar eptirfylgiandi 2. greinar Skáldu:* Nù skal láta heyra *þessa fyrirsögn med storum grænum ok raudum bókstöfum:* Annar Partur eddu eru Kennijngar ok Wijsur gamallra Skállda, Synandi: hvorninn Skálldin hafa Grunndvallat Sijnar wijsur Og kvædahátt Epptir historiu þessarar Bókar. *Einnig er í U. upphaf Skáldu áfast vid nidurlagid af Eddu, og eptirmálinn eptir Bragar. innfærdr á sama stad, en hann er hèr miklu skemri, og þar eptir fylgir þegar sagan um þór og Hrúngnir, þá þórs ferd til Geirraudargarda; þá synist skrifarinn hafa ætlad fiögur blöd til ad skrifa á þórsdrapu alla, og ad láta svo buid duga: en þar ed hann hefir ekki getad feingid þórsdrapu, þá hefir hann skrifad á þessi blöd Skáldatal, ættartölu Snorra og lögsögumanna-tal. þetta ræd eg af nidurlagi sögunnar um þórs ferd til Geirraudargarda:* Eptir þessi savgu hefir ort Eilifr Gudrúnarson i þórsdrápu: (bls. 42.) *hvareptir plássid sem eptir er á bladsídunni er autt, svo sem til ad byria á drápuna: einnig af því at bls. 50 er óhrein í meira lagi svo sem hefdi hún nockra stund verid sú sídasta í bókinni. En seinna hefir þó synzt skrifaranum at gjöra sèr einnig ágrip úr allri skáldu, tekr hann þá til þar sem ádr var fráhorfid, setr fyrst (bls. 51.) almenna fyrirsögn svo látandi:* Hèr hefur Skáldskaparmál ok heiti margra hluta; *smeygir þarnæst inn byriun þridiu greinar Skáldu, sem hann þó sídan med ödrum ordum ítrekar á*

## EPTIRMÁLI EDDU.

Enn þetta er nú at segia úngum skáldum, þeim er girnaz at nema mál skáldskapar, oc heyia sèr orðfiölþa með fornum heitum, eþa girnaz þeir at kunna skilia þat er hulit er qveþit; þá skili hann þessa bók til fróþleiks oc skemtunar. En ecki er at gleyma eþa ósanna svâ þessar savgr, at taka or skáldskapinum fornar kenningar, þær er havfutskáld hafa sèr líka látit: en ei skulo kristnir menn trúa [á heiþin goþ, oc eigi á sannyndi þessar sagnar, annan veg enn svâ sem hèr finnz í upphafi bókar, er sagt er frá átburþum þeim, er mannfólkit viltiz frá rèttri trú, oc þá næst frá Tyrkium, hvernig Asiamenn þeir er Æsir eru kallaþir favlsuþu frásagnir þær frá þeim tiþindum er gerþuz í Tróio, til þess at landfólkit skylldi trúa þá guð vera [1]).

Príamus Konúngr í Tróio var höfþíngi mikill yfir avllum her Tyrkia, oc hannz synir voru tignaztir af öllum her hannz. Sá salr hinn ágæti, er Æsir kallaþu Brimis sal eþa biórsal: þat var havll Príamus konúngs. En þat er þeir gera lánga frásavgn of ragnaravkkr: þat er Tróiomanna orosta. Þat er frásagt at Avku-Þórr egndi oxahöfþi, oc dró at borþi Miðgarþz-orm, en ormrinn hèllt svâ lifinu at hann savkþiz í hafit: eptir þeim dæmum er þetta sagt, er Ector

*rètta stad; og kèmr þá loksins til annarar greinarinnar*: Enn skal láta heyra dæmin *o. s. fr.*

1) *U. St. hafa hèr einúngis*; nè ásannast at svâ hafi verit. *Öllu því sem eptir er af eptirmálanum sleppa þær úti, auk midr áridandi ordamunar í hinu.*

drap Volukrontem ágætan kappa, at ásiáanda enum mikla Akille, oc teygþi hann svâ at sèr með havfþi hins drepna, þess er þeir iöfnuþu til oxans þess er Ökuþórr hafþi [1]) havfuþit af; en er Akillevs var dreginn í þetta úfæri með sínu kappi, þá var honum sú ein lífshiálpin at flýia undan banvænligu havggi Hectoris oc þó sárr. Svâ er oc sagt at Ector sótti svâ ákafliga orostona, oc svâ miklir voru ofrhugir hannz er hann sá Akillevs, at engi lutr var svâ sterkr at standaz mætti firir honum; oc er hann misti Akillevs, oc hann var flýiðr, þá sefaþi hann svâ reiþi sína, at hann drap þann kappa er Roddrus [2]) hèt: svâ savgþu Æsir at þá er Okuþórr misti ormsins, þá drap hann Ymi iötun. En við ragnaravckur kom Miðgarðz-ormr vâveifliga at Þór, oc blès á hann eitri, oc hió hann til bana: en ei nentu Æsir at segia svâ, at Öku-Þórr hefþi svâ látiz, at einn stigi yfir hann dauþan [3]), þótt svâ hefþi verit. En meirr hraufuðu [4]) þeir frásavgninni en satt var, er þeir sögþu at Miðgarðzormr fengi þar bana; en þat færþu þeir til, þótt Akillevs bæri banaorð af Ektore, þá lá hann dauðr á sama velli af þeim savkum; þat gerþu þeir Elenus oc [5]) Alexander, þann Elenus [6]) kalla Æsir Ala. Þat segia þeir at hann hefndi bróþur síns, oc hann lifþi þá er avll goþin voru dauð, oc slavknaðr var elldrinn sá, er brendr var Asgarþr oc allar eignir goþanna. En Pirrus honum iöfnuþu þeir til Fenris-

---

1) braut *O.* 2) Rodvus *O.* Rodduus *S.*
3) *sl. O.* 4) hröpudu *O. S.*
5) *O. sl.* Elenus oc. 6) þann Alexander *O*

úlfs: hann drap Oþin, en Pirrus mátti vargr heita at þeirra trú; því at ei þyrmdi hann griþastavþunum, er hann drap konúnginn í hofinu firir stalla Þórs. Þat kalla þeir Surta loga er Tróia brann. En Móþi oc Magni synir Öku-Þors kvomu at krefia landa Ala eþa Víþar; hann er Eneas, hann kom braut af Tróio, oc vann síþan stór verk. Svâ er oc sagt at synir Ectoris komu til Frigialandz, oc settuz siálfir í þat ríki, en ráku í braut Elenum.

# SKÁLDSKAPARMÁL.

## *I. KENNINGAR* [1]).

1. [Þá mælti Ægir: hversu á marga lund breytit þèr orðtökum skáldskapar? eþa [2]] Hversu mörg eru kyn skáldskaparins? [Þá mælti Bragi:] Tvenn eru kyn þau er greina skáldskap allan. [Ægir spyrr:] Hver tvenn? [Bragi svarar:] *Mál* oc *hættir*. Hvert máltac er haft til skáldskapar? [Þrenn er grein skáldskaparmáls. Hver [3])? Svâ at nefna hvern lut sem heitir,

---

1) *Her hefir eingin af þeim gömlu skinnbokum neina fyrirsögn, en þessa hefi èg sett yfir eptir því sem almennt er talad, en siálft efnit útheimtir, og fyrsta grein, sem er nockurskonar formáli fyrir Skáldu, synir ad höfundrinn hafi viliad.*

2) *Ad þetta sem èg hèfi fráskilid se textanum òvidkomandi, og seinna tilsett, svo þessi grein einhvörnegin hèngi saman med Bragar. sem hún af hendingu ver ordin aföst vid: meina èg sè audsætt 1) af samanburdi vid upphaf annars partsins um bragarháttuna, sem er öldúngis líkt þessu, nema ad því leiti sem Bragi og Ægir eru i burtu. 2) Er þad jafnvel hèr ekki nema vid tvö fyrstu spursmál og svör sem þessir gódu menn nefnast; sidan hefir skrifaranum leidst eda gleymzt ad bæta inn þessum ovidkomandi nöfnum. 3) er ordfærid í þessari grein og mest allri Skáldu svo fráleitt sialfri Eddu, ad þótt einhverium hefdi þóknazt ad smeygia inn Ægir og Braga vid allar spurningar og andsvör i Skaldu, sem skrifari Uppsala Eddu raunar hefir gjört i allri þessari 1. grein; mundi enn þá audsèd ad hún væri allt annad verk. En hvad þessa klausu snertir, þá hefir U. einasta:* Þá mælti Ægir hve mörg eru kyn *o. s. fr.*

3) *Þannig O.* Þrenn eru grein skáldskáparmáls hvers: *S. en U. kemst svo ad ordi*: Bragi segir tvent kent ok ókent. Ægir segir: hvat er kent? Br. s. at taka heiti af verkum mannz eþa annarra hluta eþa af því er hann þolir öþrum eþa af ætt nockurri. Æg. s. hverr dæmi ero til þess? Br. s. at kalla Oþin favþr þors, Baldrs eþa Bezlo eþa annarra barna sinna; eþa ver Friggiar, iarþar, Gunnlaþar, Rindar; eþa eiganda Valhallar; eþa styranda guþ-

avnnur grein er sú er heita fornöfn, en þriþia málsgrein er sú er kavllut er kenníngar: oc er sú grein svâ sett; at vèr kavllum Oþinn eþa Þór eþa Tý, eþa einhvern af Asum eþa Alfum, [at hverr þeirra er ec nefni til [1]), þá tec ec með heiti af eign annars Assins, eþa get ec hannz verka nokqvorra; þá eignaz hann nafnit, en ei hinn er nefndr var. Svâ sem vær köllum *Sigtý* eþa *Hángatý* eþa *Farmatý*: þat er þá *Oþins heiti*, ok köllum vèr þat kent heiti. [Svâ oc at kalla *Reiðar-tý* [2]].

2. Nú [3]) skal láta heyra dæmin hvernig havfuðskáldin hafa látit sèr sóma at yrkia eptir þessum heitum oc kenníngum; svâ sem segir Arnor iarlaskáld, at hann heiti *Allfavðr*:

---

anna, Asgarþz eþa Hliþskiálfar, Sleipnis eþa geirsins, óskmaga einhvers, sigurs, valfallz, gervanda himins ok jarþar, sólar, kalla hann: alldinn Gaut (*hèr meinast kannskè* Allda-gautr *sem finnst í Vegtamskvidu* 6.), hapta-guþ, hánga-guþ, farma-guþ, Sigtyr. *Hèrnæst tekr til eptirmali Eddu*: En þat er at segia úngum skalldum *o. s. fr.*

1) *þetta fellir O. út.*

2) *nefnl.* Þór, *sem á reidina, en betr þætti mèr þetta í burtu; þykir mèr þad svo undirkomid, ad þegar skrifarinn sá*: Sigty Hángaty, Farmaty, *hefir honum til hugar komid ad madr giæti einnig sagt* Reidarty, *en ad þad mundi trubla samheingid at tala her um Þór, gat hann ecki hugsad, af því eptirmali Eddu kom næst eptir hiá honum, ístadinn fyrir adra grein Skáldu, sem innihcldr dæmi uppá Odins heiti. En þótt eg þykist þannig sannfærdr siálfr, ad þad sem eg hefi innstrikad i þessari fyrstu grein mætti vel missa sig, þá hefi eg þó eckert viljad undanfella úr því sem finnst í enum gömlu Eddubókum, svo einginn segi èg hafi med neinu óleyfiligu móti styrkt mína adgreiníng ámilli Eddu og Skaldu og umflætning eptirmálans vid Eddu; legg eg þetta mál hughraustr undir lærdra Islendínga og annara kunnugra fornfræda manna úrskurd, feginn ef nockur frædi mig betr.*

3) *þannig O. S.* Enn *K. U. þar ad auki nefir U. næst eptir upphaf 3:iu greinar, sem ádr var getid og á sinum stad mun notad verda, þessa fyrirsögn fyrir 2 grein.* Frá því eptir hverium heitum skálldin hava kveþit.

Nú hyck sliðrhugaz[1]) segia (síð lèttir[2]) mèr stríþa[3]) [þýtr Allfavðr [4]] ýtum jarls kosti[5]) [brim hrosta].

Hèr kallar hann oc skáldskapin *hrosta-brim Allfavðr*.

Hávarþr halti qvað svâ:

Nú er iódraugum Ægis arnar flaug oc bauga[6]) hygg ec at[7]) heimboð þiggi Hánga-goþs of[8]) vángi.

Svâ qvað Víga-Glúmr 9):

Lattiz herr með havttu[10]) Hánga-týs at gánga, þótti-t þeim at hætta þeckiligt firir brecku.

Svâ qvað Refr:

Opt kom[11]) iarþar leiptra er Balldr hníginn skáldi hollr at helgu fulli[12]) hrafna lár[13]) mer stafna.

Svâ qvað Eyvindr skáldaspillir[14]):

Oc Sigurþ[15]), hinn er svavnum veitti hróka-biór Haddíngia-vals Farma-týs, fiörvi næmþu iarþráþendr[16]) á Oglóe.

Svâ qvað Glúmr Geirason:

þar var[17]) þrafna byriar þeim er stýrþu heima siálfr í sæki-álfi Sig-týr atals dýra.

Svâ qvað Eyvindr enn[18]):

Gavndul oc Skavgul sendi Gauta-týr, at kiósa of konúnga: hver Yngva ættar skyldi með Oþni fara, oc í Valhavllu vera.

---

1) þannig O. sliþrhugaþs U. slídr hugar K. S.
2) lætr U. 3) striþum U. 4) Alfavþrs U.
5) kostr K. kost O. kosta U. y Öls kosta S.
6) um hauga U. 7) á U. 8) af O. U.
9) Viga Gl. s. kap. 27, 18. 10) hættu o: hettu *Vigaglúms Saga.*
11) kemr O. U. 12) helgum fullum U.
13) sár O. sár meþ stafni U. 14) *Siá Snorra Har. Gr. 6.*
15) Sigurþr K. 16) iarþra þrændr K.
17) voru K. 18) *Snorra Hák g. 33. Hákonarm.* 1.

Svâ qvað Ulfr Uggason:

Ríþr at vilgi blíþu [1])
víðfrægr [en mèr [2]) líþa]
Hropta-týr [of hvâpta [3])
hróþr-mál] sonar báli.

Svâ qvað Þióðólfr enn hvinverski:

Valr lá þar á sandi [4])
vitinum [5]) eineygia
Friggiar faþmbyggvi,
favgnuþum dáð slíkri.

Svâ qvað Hallfravðr:

Sannyrþum spenr sverþa
snar [6]) þiggiandi viggiar
barr-haddaþa [7]) byriar
biþ qvân of sic þriþia.

Hèr er þess dæmi at iörð er kavllut kona Oþins í skáldskap. Svâ er hèr sagt at Eyvindr qvað [8]):

Hermóðr oc Bragi!
qvað Hropta-týr,
gángit í gavgn grami;
þvíat konúngr ferr,
sá er kappi þickir,
til hallar hinig.

Svâ qvað Kórmakr [9]):

Eykr með enni dúki
iarð hlutr dîa fjarþar
breyti hún sá er beinan
bindr seið Yggr til Rindar.

Svâ sagþi Steinþórr.

Forngervan [10]) á ec firnum [11])
farms Gunnlaþar Arma
horna-fors at hrósa
hlit-styggs [12]), oc þó litlum.

Svâ qvað Ulfr Uggason:

þar [13]) hyck sigrunni svinnum
sylgs valkyriur fylgia
heilags tafns oc hrafna
hlaut innan svâ minnum . . .

Svâ

1) hríþum at vilgi viþo *U.*
2) man *U.* 3) um hapta *U.* 4) landi *O. U.*
5) vittim (vittun, vitnin, vitinn) enum *O. kannskè rèttara vari* vitt inum.
6) *þannig U.* svarr *O.* þvarr *K.*
7) *þannig O. U.* biarr haddaþa *K. Strax eptir* bif qvân *K. O.*
8) Hákonarm. 15. 9) *Siá ókend heiti godanna.*
10) Forngiörfar *O.* forngervom *U.* 11) firþum *U.*
12) *þannig O. U.* hlitstyks *K.*
13) þat *K. en U. sl. þessu erindi.*

Svâ qvað Egill Skallagrímsson:

Blót ec ei af því
bróþur Vilis
guð iarþar
at ec giarn sia [1]);
þó hefir Míms-vinr
mèr of-fengit
bavlva bætr,
er it betra telk. [2]).
Gáfumc íþrótt
úlfs oc bagi
vígi vanr [3])
vammi firþa.

Hèr er hann kallaðr guð iarþar oc Míms-vinr oc úlfs-bagi. Svâ qvað Refr:

þær [4]) eigu vèr veigar
val-gautr salar brautar
fals hrannvalar [5]) fannar
framr valdi tamr [6]) gialda.

Svâ qvað Einarr skálaglamm:

Hlióta mun ec nè hlitir [7])
Her-týss of þat Fröiu [8])
firir avrþeysi at ausa
austr vingnoþar [9]) flausta.

Svâ sem Ulfr qvað Uggason:

Kostigr ríþr at kesti
kynfróþs [10]) þeim er goð hlóþu
hrafn-freistaþar hesti
Heimdallr at mavg fallinn.

Svâ er sagt í Eyríksmálum:

Hvat er þat drauma? (qvað Oþinn)
ec hugþumz firir dag rísa,
Valhavll ryðia
firir vegnu fólki;
vekþa ec einheria,
bæþa ec upprísa,
becki at strá,
biórker leyðra;
valkyriur vín bera,
sem vísi komi.

Þat qvað Kórmakr:

9

---

1) þannig *U.* giarna siá *K.* giarn sè *O.*
2) hid betra telz *O.* er ek betra telk *U.* Ef hit betra teldi *Eigl. Sonartorr.* 22. 3) þannin *O. U. St. S.* ramr *K.* 4) þar *S.* Hèr *St.*
5) fallhrann vala *O.* fars hrann mara *U. St.*
6) valldr ramar *O.* valldr ramar *eda* rá mar *U. eda kannske* rammar *eins og St.* 7) en heitir *U. St.* 8) fryio *U.*
9) vin gnadar *O.* um gnoþar *U. St.* 10) kyngóþr *U.*

Algildan bið ec aldar  
allvald of mèr halda  
Ysu [1]) bifvángi Yngva.  
úngr fór Hroptr með Gúngni.

Þat qvað Þórólfr: [2])

Sagþi hitt er hugþi [3])  
Hliðskiálfar gramr siálfum  
hlífar-styggr, þar er havgnir  
Háreks liþar vâru.

Svâ qvað Eyvindr:

Hinn er Surz  
or savck davlum  
far magnuðr  
fliúgandi bar. [4])

Svâ qvað Bragi:

Þat erumc sent at [5]) snemma  
sonr alda-favðrs [6]) vildi  
afls viþ úri þafþan [7])  
iarþar reist of-freista.

Svâ qvað Einarr: [8])

Þvíat fiölkostigr flestu  
flestr [9]) ræðr viþ son Bestlu  
væri ec morðz [10]) til mærðar  
mæríngr, en þú færa,

Svâ qvað Þorvaldr blavnduskáld:

Nú hefi èc mart  
í miþi greipar  
bonar bors [11])  
Bura arfa.

3. Hèr skal heyra hve skáldin hafa kent *skáld-skapin* eptir þessum heitum er áðr eru ritut. Svâ sem er at kalla Qvásiss-dreyra oc dverga-scip, dverg-a-miöð, jötna-miöð, Suttúnga-miöð, Oþins-miöð, Asa-miöð, favðurgiöld iötna: lavgr Oðræris oc Boðn-ar oc Sónar oc fylli, lavgr Hnitbiarga, fengr oc fundr oc farmr oc giöf Oþins. Svâ sem hèr er qveþit, er orti Einarr skálaglamm.

Hugstóran [12]) bið ec heyra (heyr iarl Qvásiss dreyra!)

---

1) ys *O.* yss *U. og i næstu línu* Hrókr *U.* 2) þórálfr *O.* þorvaldr *U.*  
3) hugdit *O. og strax* hlífar styggs *U.* 4) *U. fell. ut þetta erindi.*  
5) synt er *U.* 6) alfavþrs *U.* 7) þæfdan *O.* þaktan *U.*  
8) Skálaglamm *bæt. U. vid.* 9) feþr *U.*  
10) tekit hefi ek morz *O.* tekit hefi ek morþr *U.*  
11) burar Börs *O.* bukar bærs *og strax* burar *U.* 12) hugstórar *U.*

foldar-vörð á fyrþa
fiarð-leggiar brim dreggiar[1]).

Oc sem qvað Einarr enn skálaglam:

Ullar gengr of alla
asksaung þess er hvöt[2]) magnar
byrgis bavþvar sorgar[3])
bergs grumila[4]) dverga

Svâ sem qvað Ormr Steinþórsson:

At væri borit biórs-
bríkar oc mitt lík
[reckar nemi] dauðs [dryck
Dvalins!] í einn sal.

Oc sem Refr qvað:

Griót aldar rær[5]) gildi
geð reinar þorsteini
berg mœra[6]) glymr bára
bið ec lýþa kyn[7]) hlýþa,

Svâ sem qvað Egill: [8])

Buðumc hilmir lavð,
nú[9]) á ec hróþrs of qvöð,
bar ec Oþins-miöð
á Engla-biöð.

Svâ sem qvað Glúmr Geirason:

Hlýþi hapta beiþis
hefk milldínga gilldi[10])
því bióðum[11]) vèr þavgnar
þegna tión af[12]) fregnum.

Oc sem qvað Eyvindr:

Vilia[13]) ec hlióð[14])
at hannz[15]) liþi,
meþan Gillíngs
giölldum yppik,[16])
meþan hannz ætt
í hverlegi
Gálga-grams[17])
til goþa telium.

Svâ sem Einarr qvað Skálaglamm:

Eisar vargr[18]) firir vísa
verk ravgnis mer havgna
þýtr ódreris alda
alldr hafs viþ fles galldr.

---

1) dreggiat *O.*
2) hót *U. St. G.*
3) birkis bavþvar serkiar *U.*
4) grymila *U.*
5) tel ek *U.*
6) berg-yra *G. St.*
7) lyþa þa kyn *K.*
8) *Ur Höfudlausn Egils Skallagrimssonar* 2.
9) þ*annig U.* þat *K.*
10) hefr milldínga gilld *eda* gilldir *U.*
11) biþium *U. St. G. rèttara.*
12) at *U. St. G.*
13) vilra *U.*
14) þ*annig U.* hlid *K.*
15) Hárs *U.*
16) m. Gillingr g. yppir *U.*
17) þ*annig U.* farms *K.*
18) vagr *O.*

Oc enn sem hann qvað:

Nú er þaz [1]) Boðnar bára
berg saxa tér [2]) vaxa
görvi [3]) í höll oc hlýþi
hlióð fley iöfurs þióðir.

Oc sem qvað Eilífr Guðrúnarson [4]):

Verþi þèr allz orþa [5])
oss græ̇r of kon mæran [6])
á sefreinu [7]) sónar
sáð vingiöfum, ráþa [8]).

Svâ sem qvað Völusteinn:

Heyr Míms-vinar mína [9])
(mèr er fundr gefinn þundar)
við góma-sker glymia
Glaumbergs Egill! [10]) strauma.

Svâ qvað Ormr Steinþórsson:

Seggir þurfu-t [11]) ala ugg;
engu snýr ec í Viþurs-feng
háþi: kunnum hróþr-smíð
haga of minn brag.

Svâ qvað Ulfr Uggason:

Hoddmildum tér [12]) hilldar
hugreifum [13]) Oleifi
hann vil ec at giöf Grímnis
geþ marþar [14]) lá qveþia.

Skáldskapr er kallaðr siár eþa lavgr dverganna, firir því at Kvásis blóð var lavgr í ódreri, áðr miöðrinn væri giör, oc þar gerþiz hann í katlinum, oc er hann kallaðr firir því hverlavgr Oþins; svâ sem qvað Eyvindr, oc fyrr var ritað:

Meþan hannz ætt
í hverlegi
Gálga-grams [15])
til goþa telium.

Enn er kallaðr skáldskaprinn far eþa lið dverganna, lið heitir avl, oc lið heitir skip, svâ er tekit til dæma, at skáldskapr er nú kallaðr firir því skip dverga. Svâ sem hèr segir:

---

1) þiaz *K.* 2) mier. *S.* 3) gefi *O.* 4) Einar G. son *U.*
5) Verþr ei a. o. *K.* Verdi þèr at orda *O.* Verþi þèr en iarþar *U.*
6) mærar *K.* os gr. ok k. mærar *O.* æs gert um (vin) kon mæran *U.*
7) á Sæfreinio *U.*
8) báþir *U.* 9) *þannig O.* míma *K.* mínar *U.*
10) *þannig O.* Egils *K.* glaumbers Egill *U.*
11) *þannig O. U.* þurfu at *K.* 12) hialldr gegnis tel ek *U.*
13) herreifum *U.* 14) geþfiarþar *U. O.* 15) *þannig U.* farms *K.*

Bæþi á ec til brúþar [1]) sollinn [2]) vind at senda
berg iarls oc skip dverga sein fyrnd gavtu eina.

4. Hvernig skal kenna Þór? Svâ at kalla hann son Oþins oc Jarþar: faþir Magna oc Móþa oc Þrúþar, verr Sifiar, stiúpfaþir Ullar, stýrandi oc eigandi Miöllnis oc megingiarþa, Bilskirnis, veriandi Asgarþz, Miðgarþz, dólgr oc bani iötna oc tröllqvenna, vegandi Hrúngnis, Geirröþar, Þrívalda, drottinn Þiálfa oc Rösku, dólgr Miðgarþz-orms, fóstri Vingnis oc Hlóru. [3]) Svâ qvað Bragi Skáld:

Vaðr lá Viðris-arfa á Eynefis-avndri
vilgi slakr, er [4]) raktiz Jórmungandr at sandi.

Svâ qvað Avlver hnúfa:

Œstiz allra landa umgiörð oc sonr Jarþar

Svâ qvað Eilífr:

Reiþr stóð Rösku bróþir, skelfra [6]) Þórs nè Þiálfa
vâ [5]) gagn faþir Magna, Þróttar-steinn við ótta.

Oc sem qvað Eysteinn Valdason:

Leit á brattrar-brautar [7]) [æstiz áðr [9]) at flausti
baug [8]) hvassligum augum avggs [10]) búð] faþir Þrúþar.

Enn qvað Eysteinn:

Sín bió Sifiar-rúni (horn-straum getum Hrímnis
snarla fram með karli hræra) veiþar-færi.

Oc enn qvað hann:

Svâ brá viðr at síur [11]) iarþar, út at borþi
seiþr rendi fram breiþar Ullz-magar [12]) hnefar skullu.

---

1) bróþr *U.* 2) sólar *U.* 3) Loru *U.* hioru *K.* 4) en *O.* ne *U.*
5) rá *O.* *sem hliódstafirnir synast útheimta; kannske umlidni tíminn af riá.* 6) skalf eigi *U.*
7) *þannig O.* brattar brautir *K. U.* 8) baugs *U.* 9) orþ *U.*
10) avgurs *O.* Yggs *U.* 11) *þannig O.* svíur *K.*
12) mágs *O. en U. sleppir úti þessu erindi.*

Svâ qvað Bragi:

Hamri fórsc [1]) í hægri eygir Avflug-barþa [2])
hönd þá er allra landa endi skeiðs [3]) of-kendi.

Svâ qvað Gamli:

Meþan gramr hinn er svik grundar-fisk með grandi
sampi gliúfr skeliúngs nam [5]) riúfa;
snart Bilskirnis [4]) hiarta

Svâ qvað Þorbiörn dísarskáld:

Þórr hefir Yggs með árum. Asgarð af þrek varþan.

Svâ qvað Bragi:

Oc borðróins barþa á haussprengi [7]) Hrúngnis
brautar hríngr [6]) en lióti harðgeðr neþan starþi.

Enn qvað Bragi:

Vel hafit yðrum eykium simbli sumbls [9]) of mærum
aptr þrívaldra [8]) haldit sundr-kliúfr níu havfþa.

Svâ qvað Eilífr:

Þraungvir gein [10]) við þúngum qveldrunninna qvenna
þángs rauð-bita tángar kunn leggs [11]) alin munni;

Svâ qvað Bragi:

Þiock-vavxnum qvað [12]) þickia hafra niótz at havfgum
þikling firing mikla [13]) hætting megin drætti.

Svâ qvað Ulfr:

Fullavflugr lèt fellir ramt mein var þat reyni
fiall-gautz hnefa skialla reyr œz leggs [14]) við eyra;

Enn qvað Ulfr:

Viðgymnir [15]) laust Vimrar- hlusta-grunn við hravnnom.
vaðs af fránum naðri hlaut innan svâ minnum.

---

1) fórk *U.* 2) ecki avflug bára *U.* 3) seids *O. U.*
4) Bilskirni *U.* 5) mun *U.* 6) þvengr *U.* 7) hausprengiu *U.*
8) þrívalda *O.* 9) sumbl *O.*
10) þraungum gæir *O.* þreyngvir geim *U.*
11) kunnlegs *O. U.* *og strax* a lin *K. O.* 12) qvez *U.*
13) þ. faren mickla *O.* þiklings firir miklum *U.*
14) reirarlogs *O.* reyrarleggs *U.* 15) Vidgymrir *O.* Viþgenrir *U.*

Hèr er hann kallaðr iötunn Vimrarvaðs, á heitir Vimur er Þór óð, þá er hann sótti til Geirröþargarþa. Oc svâ qvað Vetrliþi:

Leggi brautz þú Leiknar, steypþir Starkaði, [1])
lamþir þrívalda, stóttu [2]) of Giálp dauþa.

Oc svâ qvað þorbiörn dísarskáld.

Ball [3]) í Keilu kolli, heptir [6]) þú Hengiau-keöptu,
kiallandi [4]) brauz þú alla, Hyrrockin [7]) dó fyrri,
áðr draptu Lit oc Loþa, [5]) þó var snemr hin sama [8])
lèztu dreyra Búseyru, Svivavr numin lífi.

5. Hvernig skal kenna *Balldr*? Svâ at kalla hann son Oþins oc Friggiar, ver Navnnu: faþir Forseta, eigandi Hrínghorna oc Draupnis, dólgr Haðar, Heliar sinni, Gráta-guð. Ulfr Uggason hefir qveþit eptir savgu Balldrs lángt skeið í Húsdrápu, oc ritat er áðr dæmi til þess, er Balldr er svâ kendr.

6. Hvernig skal kenna *Niörð?* Svâ at kalla hann vagna-guð eþa Vana-niþ eþa Van, oc favður Freys oc Freyiu, fègiafa-guð. 9) [Svâ segir Þórðr Siáreksson.

Varð siálf sonar [10]) goðrún bani
nama snotr una goð brúðr vani
kialarr of tamþi heldr vel mara
qvoþut hamþi hiavrleik spara [11])

1) þannig *U.* Starkeþi *O.* stálkedi *K.* 2) stettu *O. U.*
3) Gall *O.* 4) kallandi *U.* 5) þannig *U.* lut oc leiþa *O. og K.*
6) þannig *O.* hepp oc *K.* bus eyro heptuþ hangan kepto *U.*
7) Hyrrærin *U.* Hyrrokin *O.* 8) meir en mæra *U.* *Kannske rèttast vari*: snemr hin sæma. 9) þannig *O. U.* gefianda gud K. gefiande gud *S.* 10) sona *O.* *kannske rèttara* suna.
11) þannig O. havrleik spara *K.* havrleik snara *S.*

Hèr er þess getit er Skaþi gèck frá Nirþi, sem fyrr er ritat [1]).

7. Hvernig skal kenna *Frey?* Svâ at kalla hann son Niarþar, bróþur Freyiu, oc enn Vana-guð oc Vana-niþ oc Van oc árguð oc fègiafa. [Svâ qvað Egill Skallagrímsson [2]):

þvíat Griótbiörn
of-gæddan hefr
Freyr oc Niörðr
at fiárafli. [3])

Freyr er kallaðr Belia-dólgr, svâ sem qvað Eyvindr skáldaspillir:

þá er útröst [4])
iarla bagi
Belia dólgs [5])
byggia vildi.

Hann er eigandi Skíðblaðnis oc galltar þess er Gullinbusti heitir. Svâ sem hèr segir: [6])

Ivalda synir
gèngu í árdaga,
Skíðblaðni at skapa:
skipa bazt
skírum Frey,
nýtum Niarþar bur.

Svâ segir Ulfr Uggason:

Ríðr á baugr [7]) til borgar
bavð-fróþr sonar [8]) Oþins
Freyr oc fólkum stýrir
fyrst oc gulli byrstum [9]).

Hann heitir oc Sliðrugtanni:

8. Hvernig skal *Heimdall* kenna? Svâ at kalla son niu mæþra, vörð goþa, svâ sem fyrr er ritat, eþa hvíta ás, Loka-dólg, men-sækir Freyiu. Heimdallar sverð heitir havíut, svâ er sagt at hann var lostinn mannz höfþi í gögnum. Um þat [10]) er qveþit í Heimdallar galdri, oc er síþan kallat havíut miötuðr

1) *U. sleppir úti þessu frá merkinu.* 2) *i Arinbiarnar drápu* 18. 3) *þessu sl. U.* 4) útræstr *O*, ofræstr *U.* 5) dólgr *U.* 6) *Sæm. Edd. Grímn.* 43. 7) bavrg *U.* borg *O.* 8) sonr *U.* 9) fyrstr enum gulli bysta. *U.* 10) en þat *O*: um hann *K.*

þann átta èc vin verstan [1]) Ala undir-kúlu
vazta rödd [2]) en mèr baztan óniþraþan [3]) þriþja.

hann kallaþi stein vazta undir-kulu [4]), en jötun Ala steinsins, en gull rödd jötuns.

39. Sú er sök til þess at gull er kallat *otrgjöld.*
Svâ er sagt at þrír [5]) æsir fóru at kanna heim allan: 68.
Oþin oc Loki oc Hænir; þeir komo at á nokqvorri,
oc gèngu með ánni til fors nokqvors, oc við fors-
inn var otr einn, oc hafþi tekit lax or forsinum oc
át blunndandi. þá tóc Loki upp stein, oc kastaþi
at otrinum, oc laust í havfut honum; þá hrósaþi
Loki veiþi sinni, at hann hefþi veitt í einu havggi
otr oc lax: tóku þeir þá laxin oc otrinn oc báru
með sèr, komu þá at bæ nokqvorum oc gèngu inn,
en sá búandi er nefndr Hreiðmarr er þar bjó, hann 69.
var mikill firir sèr, oc mjöc fjölkunnigr, beidduz æs-
ir at hafa þar náttstað, oc qvo' uz hafa með sèr
vist ærna, oc sýndu búandanum veiþi sína. En er
Hreiðmarr sá otrinn, þá kallaþi hann sonu sína
Fâfni oc Regin, oc segir at Otr bróþir þeirra var
drepin, oc svâ hverir þat höfþu gert. Nú gánga
þeir feðgar at ásunum, oc taka þá höndum oc
binda, oc segja þá um otrinn at hann var sonr
Hreiðmars. Æsir bjóþa firir sik fjörlaustn, svâ mikit
fè sem Hreiðmarr sjálfr vill á-qveþa, oc varð þat

---

1) þ*aunig O. U.* visarstan *K.*
2) þ*annig eg, samqvæmt útskíringunni*, vatz ravdla *K.* vaz rödd *O.*
3) þ*annig O.* oniþioþan *K.* oniþiaþan *U.*
4) *K. og O. smeygja hèrinn* steininn; *en U. hefir*: Hann kallar sæin[illegible] vazta undir kúlo. 5) þ*annig eg fyrir* þá er *K.* þá *O.*

at sætt með þeim, oc bundit svardavgum. Þá var otrinn fleginn, tók Hreiðmarr otrbelginn oc mælti við þá, at þeir skulu fylla belginn af rauþu gulli, oc svâ hylja hann allann, oc svâ skal þat vera at
70. sætt þeirra. Þá sendi Oþin Loka í Svartálfa-heim, oc kom hann til dvergs þess er heitir Andþvari [1]) hann var fiskr i vatni, oc tóc Loki hann höndum, oc lagþi á hann fjörlausn allt gull þat er hann átti í steini sínum; oc er þeir koma í steininn, þá bar dvergrinn fram allt gull þat er hann átti, oc var þat allmikit fè. Þá svipti dvergrinn undir havnd sèr einum litlum gullbaug, þat sá Loki oc bað hann framláta bauginn. Dvergrinn bað hann taka ei af sèr bauginn, oc lètz mega æxla sèr fè af bauginum ef hann hèldi. Loki qvað hann ei skylldu hafa einn penníng eptir, oc tóc bauginn af honum oc gèck út; en dvergrinn mælti at sá baugr skyldi vera hverjum havfuðs bani er átti. Loki segir at honum þótti þat vel, oc sagþi at þat skylldi haldaz mega firir því sá formáli, at hann skylldi flytja þeim til eyrna er þá tæki við. Fór hann í braut til Hreiðmars, oc sýndi Oðni gullit, en er hann sá bauginn þá sýndiz honum fagr, oc tóc hann af fènu, en greiddi Hreiðmari gullit. Þá fylldi hann otrbelginn sem mest mátti hann, oc setti upp er fullr var; gèck þá Oþinn til, oc skyldi hylja belginn með gullinu. Þá mælti hann við Hreiðmar, at hann skal sjá hvârt belgrinn er þá allr huldr; en Hreiðmarr

1) Andvari O.

leit til oc hugþi at vandliga, oc sá eitt grana hár, oc bað hann hylja, en at öðrum kosti væri lokit sætt þeirra. Þá dró Oþin fram bauginn, oc huldi grana ~~hárit~~, oc sagþi at þá voru þeir lausir frá otrgjöldunum. En er Oþinn hafþi tekit geir sinn, en Loki skúa sína, oc þurptu þá ecki at óttaz; þá mælti Loki at þat skyldi haldaz er Andvari hafþi mælt: at sá baugr oc þat gull skyldi verþa þess bani er átti, oc hèllzt þat siþan. Nú er þat sagt af hverju gull er otrgjöld kallat eþa nauþgjald Asanna eþa rógmalmr.

40. Hvat er fleira at segja fra gullinu? Hreið- 71.
marr tóc þá gullit at sonargjöldum, *en Fâfnir* [1]) oc Reginn beidduz af nokqvors í bróþrgjöld; Hreiðmarr unni þeim enskis pennings af gullinu, þat varð úráð þeirra bræðra at þeir drápu favþur sinn til gullzins. Þá beiddiz Regin at Fâfnir skylldi skipta gullinu í helmínga með þeim. Fâfnir svarar svâ at lítil von var, at han mundi miðla gullit viþ bróþr sinn, er hann drap fauþr sinn til gullzins, oc bað Regin fara braut, en at avðrum kosti mundi hann fara sem Hreiðmarr. Fâfnir hafþi þá tekit hjálm, er Hreiðmarr hafþi átt, oc setti á havfut sèr, er kallaðr var ægis-hjálmr, er öll qvikvendi hræþast er sjá, oc sverþ þat er Hrotti heitir. Reginn hafþi þat sverð er Refill er kallaðr, flýþi hann þá braut, en Fâfnir fór upp á Gníta-heiþi, oc gerþi sèr þar ból, oc bráz í orms líki, oc lagþiz á gullit.

---

1) Fofnir *O. einlagt.*

Reginn fór þá til *Hjálpreks* konúngs á þjóði,
72. gerþiz þar smiðr hannz, þá tóc hann þar til fóstrs *Sigurð* son Sigmundar sonar Völsúngs oc son Hjördísar dóttr Eylima. Sigurþr var ágætaztr allra herkonúnga at ætt ok afli oc hug, Reginn sagþi honum til hvar Fâfnir lá á gullinu, oc eggjaþi hann at sækja gullit. Þá gerþi Reginn sverð (þat er Gramr), at svá hvast var at Sigurðr brá niðr í rennanda vatn, oc tóc í sundr ullar lagð, er rak firir strauminum at sverþzegginni. Því næst klauf Sigurðr steðja Regins ofan í stockinn með sverþinu. Eptir þat fóru þeir Sigurðr oc Reginn á Gníta-heiþi, þá gróf Sigurðr gröf á veg Fâfnis, oc settiz þar í. En er Fâfnir skreið til vatz, oc hann kom ifir gröfna, þá lagþi Sigurðr sverþinu í gögnum hann, oc var þat hannz bani. Kom þá Reginn at, oc sagþi at hann hefþi drepit bróþur hannz, oc bauð honum þat at sætt, at hann skyldi taka hjarta Fâfnis, oc steikja við eld, en Reginn lagþiz niðr oc drack blóð Fâfnis, oc lagþiz at sofa. En er Sigurðr steikti hjartat, oc hann hugþi at fullsteikt mundi; oc tóc á fíngrinum hve hart var: en er frauðit rann or hjartanu á fíngrinn; þa brann hann, oc drap fíngrinum í munn sèr; en er hjartablóðit kom á túnguna, þá kunni hann fugls ravdd, oc skildi hvat ígþurnar savgþu, er sátu i viðnum, þá mælti ein:

Þar sitr Sigurþr
sveita stockinn,
Fâfnis hjarta
við funa steikir;
spakr þætti mèr
spillir bauga,
ef fjörsega
fránan æti [1])

1) ætti *K. O.*

þar liggr Regin (qvað önnur)
ræðr um við sik,
vill tæla mavg [1])
þann er trúir hânum:
berr af reiþi
raung orð saman,
vill bavlva-smiðr
bróþr hefna.

Þá gèck Sigurðr til Regins, oc drap hann, en síþan til hestz síns er Grani heitir, oc reið til þess er hann kom til bóls Fâfnis, tóc þá upp gullit, oc batt i klyfjar, oc lagþi upp á bak Grana, oc steig upp sjálfr, oc reið þá leið sína. Nú er þat sagt hver saga er til þess, er gullit er kallat ból eþa bygð Fâfnis eþa málmr Gnita-heiþar eþa byrðr Grana.

41. Þá reið Sigurðr til þess er hann fann á 73.
fjallinu hús; þar svaf inni ein kona, oc hafþi sú hjálm oc brynju, hann brá sverþinu oc reist brynjuna af henni: þá vaknaði hon oc nefndiz Hildr, hon er kavllut *Brynhildr*, oc var valkyrja. Sigurþr reið þaþan oc kom til þess konúngs er Gjúki hèt, kona hannz er nefnd Grimhildr, bavrn þeirra voru þau Gunnarr, Havgni, Guðrún, Guðný, Gotthormr var stjúpsonr Gjúka. Þar dvaldiz Sigurðr lánga hríð þá fèck hann Guðrúnar Gjúkadóttr, enn Gunnar oc Havgni sóruz i bræðralag við Sigurð. Því næst fóru þeir Sigurðr oc Gjúkasynir at biðja Gunnari konu til Atla Buðlasonar Brynhildar systr hannz: hon sat á Hindafjalli, oc var um sal hennar vafrlogi, en hon hafþi þess heit strengt, at eiga þann einn mann, er þorþi at riþa vafrlogan. Þá riþu þeir

1) *sleppir O, úti.*

Sigurðr oc Gjúkúngar (þeir eru oc kallaþir Niflúngar) upp á fjallit, oc skyldi þá Gunnarr riþa vafrlogan, hann átti hest þann er Goti heitir, en sá hestr þorþi ei at hlaupa í eldinn. þá skiptu þeir litum Sigurðr oc Gunnarr oc svâ vopnum [1]; því at Grani vildi undir aungum manni gánga nema Sigurþi. þá hljóp Sigurþr á Grana oc reið vafrlogan. þat qveld gèck hann at bruðlaupi með Brynhildi; en er þau komu í sæing, þá dró hann sverðit Gram or slíðrum, oc lagþi í milli þeirra. En at morni þá er hann stóð upp oc klæddi sic, þá gaf hann Brynhildi at línfè gullbaugin, þann er Loki hafþi tekit af Andvara, en tóc af henni annan baug til minja. Sigurðr hljóp þá á hest sinn, oc reið til fèlaga sinna: skipta þeir Gunnarr þá aptr litum, oc fóru aptr til Gjúka með Brynhildi. Sigurðr átti tvö börn með Guðrúnu: Sigmund oc Svanhildi.

þat var eitt sinn at Brynhildr oc Guðrún gèngu
74. til vatz at bleikja hadda sína, þá er þær komu til árinnar þá óð Brynhilldr út á ána frá landi oc mælti, at hon vildi eigi bera í havfut sèr þat vatn er rynni or hári Guðrúnu, þvi at hon átti búanda hugaðan betr. þá gèck Guðrún á ána eptir henni, oc sagþi at hon mátti firir því þvo ofarr sinn hadd í ánni, at hon átti þann mann er eigi (Gunnar) oc [2]) engi annarr í veröldu var jafnfrækn; því at

1) *þannig O.* nöfnum *K.*
2) *Nafnit er ólæsiligt i K. en O. sleppir úti þein ordum:* eigi (Gunnar) oc.

hann vâ Fâfni oc Regin, oc tóc arf eptir báþa þá. Þá svarar Brynhildr: meira var þat vert, er Gunnar reið vaforlogan, en Sigurþr þorþi ei. Þá hló Guðrún oc mælti: ætlar þú at Gunnarr riþi vafrlogann? Sá ætla èc at gèngi í reckju hjá þèr, er mèr gaf gullbaug þenna. En sá gullbaugr er þú hefir á hendi, oc þú þátt at línfè, hann er kallaðr Andvara-nautr, oc ætlac at ei sótti Gunnarr hann á Gníta-heiþi: þá þagnaði Brynhildr oc gèck heim. Eptir þat eggjaþi hon Gunnar oc Havgna at drepa Sigurð, en fyrir því at þeir voru eiðsvarar Sigurðar. Þá eggjuþu þeir til Gotthorm bróþur sinn at drepa Sigurð; hann lagþi Sigurð sverþi í gögnum sofanda, en er hann fèck sárit, þá kastaði hann sverðinu Gram eptir honum, svâ at sundr sneið í miþju manninn. Þar fèll Sigurðr oc sonr hannz þrevetr, er Sigmundr hèt, er þeir drápu. Eptir þat lagþi Brynhildr sik sverþi, oc var hon brend með Sigurþi. En Gunnar oc Havgni tóku þá Fâfnisarf oc Andvaranaut, oc rèþu þá lavndum.

42. Atli konúngr Buðlason bróþir Brynhilldar 75.
fèck þá Guðrúnar, er Sigurðr hafþi átta, oc áttu þau börn. Atli konúngr bauð til sín Gunnari oc Havgna, en þeir fóru at heimboðinu. En áðr þeir fóru heiman þá fálu þeir gullit Fâfnisarf í Rín, oc hefir þat gull aldri síþan fundiz. En Atli konúngr hafþi þar lið firir, oc barþiz við Gunnar oc Havgna, oc urþu þeir handteknir, lèt Atli konúngr skera hjarta or Havgna kyqvom, var þat hannz

bani. Gunnari lèt hann kasta í ormgarð, en honum var fengin leyniliga harpa, oc sló hann með tánum; þvíat hendr hannz voru bundnar, svâ at allir ormarnir sofnuþu, nema sú naðra er rendi at honom, oc hjó svâ firir flagbrjóskit, at hon steypði havfþinu inn í holit, oc hangdi [1]) hon á lifrinni þar til er hann dó. Gunnar oc Havgni eru kallaðir Niflúngar oc Gjúkúngar; firir því er gull kallat Niflúnga-skattr
76. eþa arfr. Litlu siðarr drap Guðrún tvâ sonu sína, oc lèt gera með gulli oc silfri borðker af hausum þeirra, oc þá var gert erfi Niflúnga. At þeirri veizlu lèt Guðrún skenkja Atla konúngi med þeim borðkerum mjöð, oc var blandit við blóþi sveinanna; en hjörtu þeirra lèt hon steikja, oc fá konúngi at eta: en er þat var gert, þá sagþi hon honum sjálfum með mörgum ófavgrum orþum. Eigi skorti þar áfenginn [2]) mjöð, svâ at flest fólk sofnaþi þar sem sat: á þeirri nótt gèck hon til konúngs, er hann svaf, oc með henni sonr Havgna, oc vâgu at honum. Þat var hannz bani. Þá skutu þau eldi á havllina, oc brann þat fólk er þar var inni. Eptir þat fór hon til sjóvar, oc hljóp á sæinn, oc vildi týna sèr, en hana rak ifir fjörþinn, kom þá á þat land er átti Jónakr konúngr: en er hann sá hana tóc hann hana til sín, oc fèck hennar: áttu þau þrjá sunu er svâ hètu: Savrli, Hamþir, Erpr, þeir voru allir svartir sem hrafn á hárs lit, sem Gunnar oc Havgni oc aðrir Niflúngar.

1) hèck *O.* 2) áfengan *O.*

þar fæddiz upp *Svanhildr* dóttir Sigurþar sveins, 77.
hon var allra qvenna fegurst. þat spurþi Jórmunreckr [1]) konúngr hinn ríki, hann sendi son sinn Randve at biðja hennar sèr til handa. En er hann kom til Jónakrs, þá var Svanhildr seld honum í hendr; skyldi hann færa hana Jórmvnrecki. þá sagþi Bicki at þat var betr fallit, at Randver ætti Svanhildi, er hann var úngr oc bæþi þau, en Jórmunrekr var gamall. þetta ráþ likaþi þeim vel enum úngum mönnum. því næst sagþi Bicki þetta konúngi, þá lèt Jórmunrekr taka son sinn oc leiða til gálga; þá tóc Randver hauk sin oc plockaþi af fjaðrarnar, oc bað senda feðr sínum, þá var hann hengdr. En er Jórmunrekr konúngr sá haukinn, þá kom honum í hug at svâ sem haukrinn var úfleygr oc fjaðrlaus, oc svâ var riki hannz úlært, er hann var gamall oc sonlaus. þá lèt Jórmunrekr konúngr, 78.
er hann reið or skógi frá veiþum með hirð sína, en Svanhildr drotning sat at haddbliki; þá riþu þeir á hana, oc tróþu hana undir hestafótum til bana. En er þetta spurþi Guðrún þá eggjaði hon sonu sina til hefndar eptir Svanhildi. En er þeir bjögguz til ferþar, þá fèck hon þeim brynjur oc hjálma svâ sterka at ei mundi járn á-festa. Hon lagþi ráð fyrir þá, at þá er þeir kvæmi til Jórmunreks konúngs, at þeir skylldu gánga of nótt at honum sofanda, skyldi Savrli oc Hamþir havggva af honum hendr oc fætr en Erpr havfuþit. En er

1) Jórmunrekr *O. einlægt.*

þeir komu á leið, þá spurþu þeir Erp hvað liðsemd þeim mundi at honum, ef þeir hitti Jórmunreck konúng. Hann svarar at hann mundi veita þeim þvílíkt sem hönd fæti. þeir segja at þat var allz ecki at fótr styddiz við hönd. þeir voru svâ reiðir móþur sinni, er hon hafþi leitt þá út med heiptyrþum, oc þeir vildu gera þat er henni þætti verst, oc drápu Erp, því at hon unni honum mest. Litlu siþarr er Savrli gèck, skriðnaði hann avðrum fæti, studdi sic með hendinni, þá mælti hann: veitti nú höndin fætinum; betr væri nú at Erpr lifþi. En er þeir komu til Jórmunreks konúngs of nótt þar sem hann svaf, oc hjoggu af honum hendr oc fætr, svâ vaknaði hann oc kallaþi á menn sína, bað þá vaka. þá mælti Hamþir: af mundi nú havfuþit, ef Erpr lifþi; þá stóþu upp hirdmenninir, oc sóttu þá, oc fengu ei sótt þá með vâpnum. þá kallaþi Jórmunrekr at þá skal berja grjóti, var svâ gert; þar fèllu þeir Savrli oc Hamþir: þá var oc dauð avll ætt oc afqvæmi Gjúka.

Eptir Sigurþ svein lifþi dóttir èr Aslaug hèt, er fædd var at Heimis í Hlymdölum, oc eru þaþan ættir komnar stórar. Svâ er sagt at Sigmundr vavlsúngs son var svâ máttugr at hann drack eitr, oc sakaþi ecki; en Sinfjötli sonr hannz oc Sigurþr voru svâ harþir á húðna at þá sakaði ecki eitr, þó at utan qvæmi á þá bera. því hefir Bragi skáld svâ qveþit:

þá

þá er forns litar flotna
af ang boþa [1]) aungli
hravckvi áll of hrockin
hèck Völsúnga drecku.

Eptir þessum savgum hafa flest skáld ort, oc tekit við ýmsa þáttu [2]). Bragi hinn gamli orti um fall Savrla oc Hamþiz í drápu þeirri, er hann orti um Ragnar Loðbrók.

Knátti eðr við illan
Jórmunreckr at vakna
með dreyr-fár [3]) dróttir
draum í sverþa-flaumi:
rósta varð í ranni
Randves höfuð-niþja,
þá er hrafn-bl[á]ir hefndu
harma Erps of-barmar.

Þar svâ at gerþu gyrþan
gólf Hölqvis sá fylkir
segls naglfara siglur
saums avanar [9]) standa:
urþu skemst oc Savrli
samr þa þeir Hamdir
havrþum herþi mýlum
Hergautz-vinu barþir.

Flaut of-sett [4]) við sveita
sóknar-álfs [5]) á gólfi
hræfa davgg of [6]) havgnar
hendr sem fætr of kendu:
fèll í blóþi brunninn
brunn avlskacki runna [7])
þat er á [8]) leipa landa
laufi fátt at havfþi.

Mjöc lèt stála stökqvir
styðja Gjúka niðja
flaums þá er fjörvi námu [10])
folghildar mun vildu
oc blá-serkjan [11]) birkis
bavllfagr gavtu allir
enni [12]) havgg oc eggjar
Jónakrs sonum launa.

Þat seg ec fall á favgrum
flotna randar botni
ræs gáfomc [13]) reiþar mána
Ragnarr oc fjöld sagna.



1) á fángboþa *O. og strax* hröcku all.
2) háttu *O. en K. sleppir uti* vid
3) dreyr frá *O. rèttara mun*: dreyr-fádar.
4) um sætt *O.* 5) afls *K. og O.* 6) hræfar dögg því. *O.*
7) brun avlskacki runa *O.* 8) *O. sl. uti* á.
9) amuanar *O.* 10) nama *K.*
11) bláserckja birckis bavlserckja *O.* 12) enn *O.*
13) gáfu mik *O. og strax*: ragnafljód ok sagna.

43. Hví er gull kallat *mjöl Fróþa?* Til þess
66. er saga [1]) sjá, at Skjöldr hèt sonr Oþins, er Skjöldúngar eru frá-komnir, hann hafþi atsetu oc rèð lavndum þar sem nú er kavllut Danmavrk, en þa var kallat Gotland. Skjöldr átti þann son er Friþleifr hèt, er lavndum rèð eptir hann. Sonr Frilleifs hèt *Froþi*, hann tóc konúngdóm eptir favþr sinn, í þann tið er Augústus keisari lagþi friþ of heim allan; þá var Kristr borinn; en firir því at Fróþi var allra konúnga ríkaztr á norðrlavndum, þá var honum kendr friðrinn um alla danska túngu, oc kalla norðmenn þat Fróþa-frið. Engi maðr grandaþi avðrum, þótt hann hitti firir sèr föþurbana eþa bróþurbana lausan eða bundinn: þá var oc engi þjófr eða ránsmaðr, svâ at gullhríngr einn lá á Jalángrs heiþi lengi. Fróþi konúngr sótti heimboð í Sviðjóð til þess konúngs er Fjölnir er nefndr: þá keypti hann ambáttir tvær er hètu *Fenja* oc *Menja*, þær voru miklar oc sterkar. I þann tíma fannz [2]) i Danmörk kvernsteinar tveir svâ miklir, at engi var svâ sterkr at dregit gjæti; en sú náttúra fylgþi kvernunum, at þat mólz á kverninni, sem sá mælti firir er mól. Sú kvern hèt *Grótti.* Hengikjaptr er sa nefndr, er Fróþa konúngi gaf kvernina. Fróþi konúngr lèt leiða ambáttirnar til kvernarinnar, oc bað þær mala gull oc frið oc sælu Fróða: þá gaf hann þeim ei lengri hvild eða svefn

---

1) *Þessi grein er ádr útgefin af Skúla Thorlac. i hans spec. 5. en U. dregr hana saman i 3, 4 línur.* 2) *Adrir* fundoz.

en gaukrinn þagþi, eða hljóð [1]) mátti qveþa. Þá er sagt at þær qvæþi ljóð þau, er kallat er [2]) *Grótta-saungr*, oc áðr lètti qvæþinu mólu þær her at Fróþa; svâ at á þeirri nótt kom þar sá sækonúngr, er Mýsíngr hèt, oc drap Fróþa, tóc þar herfáng mikit; þá lagþiz Fróþa-friþr. Mýsíngr hafþi með sèr Grótta, oc svâ Fenju oc Menju, oc bað þær mala salt, oc at miðri nótt spurþu þær, ef ei leiddiz Mýsingi salt, hann bað þær mala lengr: þær mólu litla hríð áðr niðr sukku skipin, oc var þar eptir svelgr i hafinu er særinn fellr í qvernar augat: þá varþ sær salltr.

Nú eru [3]) komnar
til konúngs húsa
framvísar tvær
Fenja oc Menja:
þær 'ro at Fróþa
Friþleifs sonar
máttkar meyjar
at mani hafþar.

Þær at lúðri
leiddar voru,
oc grjóts [4]) grjá
gángs of beiddu: [5])
hèt hann hvârigri
hvíld nè yndi,

áðr hann heyrþi
hljóm ambátta.

Þær þyt þulu
þavgn-horvinnar [6])
leggjum lúðra [7])
lèttum steinum:
bað hann enn meyjar
at þær mala skyldu.

Súngu oc slúngu
snúðga [8]) steini,
svâ at Fróþa man
flest sofnaði;
þá qvað þat Menja,
var til meldz komin:

---

1) *Adr.* leóþ. 2) kavllut eru *Skúli.*

3) eru *eda* eru' um *verdr mádr at lesa istadinn fyrir* erum, *sem sámheingid ecki leyfir*, *þótt allar Eddubækr hafi þad.*

4) *Adrir* grióti. 5) *Ádr.* gánga beiddi.

6) *Hèr þykir mer vanta* ı, *og vildi èg t. d. bæta inn*: hófu at meldri, þær hverfa knáttu *edr úmbreyta* þulu *í* þutu *og finna þartiī annad ordatiltæki.*

7) luþur *Skúli.* 8) *þannig Sk.* stiúdga *K.*

"Auð mölum Fróþa,
mölum alsælan,
fjöld fjár
á fegins lúðri.
Sitì hann á auði,
sofi hann á dúni,
vaki hann at vilja,
þá er vel malit!"
"Hèr skyli engi
avðrum granda,
til bavls búa,
nè til bana orka,
nè höggva því
hvössu sverþi;
þó at bana bróþur
bundinn finni".
En hann qvað ecki
orð it fyrra:
"sofit ei þit
nè of sal gaukar,
eða lengr en svâ
ljóð eitt qveþac."
Varattu, Fróþi!
full-spakr of þic,
malvinr manna,
er þú man keyptir;
kauss þú at afli
oc at álitum,
en at ætterni
ecki spurþir.
Harðr var Hrúngnir
oc hannz faþir;
þó var þjazi
þeim avflgari,
Iþi oc Avrnir
okrir niðjar,
bræðr bergrisa,
þeim erum bornar.
Komi-a Grótti
or grjá fjalli,
nè sá hinn harþi
hallr or jörþu:
nè moli sva
mær bergrisa,
ef vissi átt [1])
vætr til hennar.
Vær vetr níu
vorum leikur,
avflgar alnar
firir jörð neþan:
stóðu meyjar
at megin-verkum,
færþum sjálfar
setberg or stað.
Velltum grjóti
of garð risa,
svâ at fold firir
fór skjálfandi:
svâ slöngþum vit
snúðga steini,

1) *þetta, sem er sama og* ætt *hefi eg sett ístadinn fyrir* ótt *K. Sk. adrir* œtt.

havfga halli,
at halir tócu.
En vit síþan
á Svíðjóþu
framvísar tvær
í fólk stigum:
bræddum [1]) björnu,
en brutum skjöldu,
gengum í gegnum
gráserkjat lid:
steyptum stilli,
studdum annan,
veittum góþum
Gothormi lið;
vara kyrrseta
aðr knúi fèlli.
Fram hèldum því
þau misseri,
at við at kavppum
kendar voru:
þar skorþu vit
skavrpum geirum
blóð or benjum,
oc brand ruþum.
Nú erum komnar
til konúngs húsa
miskunn-lausar
oc at mani hafþar:
aurr etr iljar,
en ofan kuldi,
drögum dólgs sjötul,
daprt er at Fróþa.
Hendr skulu hvílaz,
hallr standa mun,
malit hefi èc firir mik
mitt of leiti.
Nú mun-a höndum
hvíld vel gefa,
áðr full-malit
Fróþa þycki.
Henda skulo höldar [2])
harðar trjónar,
vâpn valdreyrug;
vaki þú Fróþi!
Vaki þú Fróþi,
ef þú hlýþa vill
söngum ockrum
oc savgum fornum.
Eld sé èc brenna
firir austan borg,
víg-spjöll vaka,
þat mun viti kallaðr:
mun herr koma
hinig at bragþi,
oc brenna bæ
firir buðlúngi.
Munattu halda
Hleiðrar stóli,
rauþum hríngum
nè regin-grjóti:

1) *þannig Skúli fyrir* beiddum *K. aðrir* breiddum, *og enn aðrir* beittum.
2) *þetta hefi ig sett ístaðinn fyrir* hendr skulo hölda *K. Sk.*

tökum á möndli
mær skarpara!]
eruma vafnar
í valdreyra.
Mól mins favþur
mær ramliga;
því at hon feigð fira
fjölmargra sá;
stukku stórar
steðr frá lúðri
í Arnar-fjavrþ,[1])
mölum en framarr!
Mölum enn framarr;
mon Yrsu sonr,
niðr Hálfdanar[2])
hefna Fróþa:
sá mun hennar
heitinn verða
burr oc bróþir,
vitum báþar þat.
Mólu meyjar,
megins kostuþu,
voru úngar
í jötun-móþi:
skulfu skapttrè,
skautz lúðr ofan;
hraut hinn havfgi
hallr sundr í tvav.
En bergrisa
brúðr orð um-qvað:
malit höfum, Fróþi!
senn munum hætta,
hafa fullstaþit
fljóð at meldri.

Einarr Skúlason qvað svâ.

Frá ec at Fróþa meyjar
fullgóliga mólu
[lætr stillir grið gulli]
grafvitnis-beð [slitna].
mjúks bera mínar auxar
meldr þann við hlyn feldrat
konúngs dyrkar fè Fenju
favgr hlýr bragar stýri.

Svâ qvað Egill:

Glaþar flotna fjölð
við Fróþa-mjöl.

43. Konúngr einn í Danmörk er nefndr
63. *Hrólfr kraki*, hann er ágætaztr forn-konúnga, fyrst
af mildi oc frækleik oc lítillæti. Þat er eitt marc
um lítillæti hannz, er mjöc er fært í frásagnir, at

1) *Þetta, sem eg álít fyrir einkarnafn, hefi ég sett istadinn fyrir* iarnar fiarþar *K.* iárnar fiarþar *Sk. sem mèr þykir óskiljanligt.*

2) *K.* vid halfdana; *Sk. hefir umbreytt því til* niþ hálfdana, *en mèr þykir náttúrligast at heimfæra þat allt til Hrólfs konúngs kraka serilagi þar ed ætt Mysings er óþeckt.*

einn lítill sveinn oc fátækr er nefndr Vavggr, hann kom í havll Hrólfs konúngs, þá var konúngrinn úngr at aldri oc grannlígr á vöxt: þá gèck Vöggr firir hann, oc sá upp á hann. Þá mælti konúngrinn: hvat viltu mæla sveinn er þú sèr á mik? Vöggr svarar: þá er ec var heima, heyrþac sagt at Hrólfr konúngr at Hleiðru var mestr maðr á norðrlöndum, en nú sitr hèr í hásæti kraki einn lítill, oc kalla þeir hann konúng sinn. Þá svarar konúngrinn: þú sveinn hefir gefit mèr nafn, at ek skal heita Hrólfr kraki, en þat er títt at gjöf skal fylgja nafnfesti. Nú sé ec þic önga gjöf hafa til at gefa mèr at nafnfesti, þá er mèr sè þægilig, nú skal sá gefa öðrum er til-hefir: tóc gullhring af hendi sèr oc gaf honum. Þá mælti Vöggr. Gef þú allra konúnga heilaztr, oc þess strengi èc heit, at verða þess mannz bani, er þinn banamaðr verðr. Þá mælti konúngr oc hló við: Litlu verdr Vöggr feginn.

Annat mark var þat sagt frá Hrólfi kraka um 64.
frækleik hannz, at sá konúngr rèð firir Uppsölum er Adils hèt, hann átti Yrsu móður Hrólfs kraka. Hann hafþi úsætt við þann konúng er rèð firir Noregi er Ali hèt. Þeir stefndu orostu milli sín á ísi vatz þess er Væni heitir. Aþils konúngr sendi boð Hrólfi kraka mági sínum, at hann qvæmi til liðveizlu við hann, oc hèt mála öllum her hannz, meðan þeir væri í ferþinni. En konúngr sjálfr skyldi eignaz þrjá kostgripi, þá er hann kaus or Svíðjóð. Hrólfr konúngr mátti ei fara firir úfriþi, þeim er hann átti

við Saxa, en þó sendi hann Aðilsi berserki sína tólf: þar var einn Bavðvar bjarki oc Hjalti hugprúþi Hvitserkr hvati, Vöttr, Viðseti, þeir bræðr Svipdagr oc Beiguðr. I þeirri orustu fèll Ali konúngr oc mikil luti liðs hannz. þá tóc Adils konúngr af honum dauþum hjálminn Hildisvín oc hest hannz, Hrafn. þá beidduz þeir berserkir Hrólfs kraka at taka mála sinn þrjú pund gullz hverr þeirra, oc umfram beidduz þeir at flytja Hrólfi kraka kostgripi, þá er þeir kuru til handa honum. þat var hjálmrinn Hilldigavlltr oc brynjan Finnzleif er hvergi festi vâpn á, oc gullhríngr sá er kallaðr var Svíagrís er átt höfþu lángfeþgar Aþils. En konúngr varnaði allra gripanna, oc ei helldr gallt hann málann, fóru berserkirnir braut, oc undu illa sínum lut. savgþu svâ búit Hrólfi kraka, oc jafn skjótt byrjaþi hann ferþ sína til Uppsala, oc með honum tólf berserkir hannz allir griþalausir. Yrsa möþir hannz fagnaþi honum, oc fylgþi honum til herbergis, oc ei til konúngs hallar, voru þá gervir eldar stórir firir þeim, oc gefit avl at drecka. þá komu menn Aþils konúngs inn oc báru skíþin á eldinn, oc gerþu svâ mikinn at klæþi brunnu af þeim Hrólfi, oc mæltu: er þat satt at Hrólfr kraki oc berserkir hannz flýja hvârki eld ne járn? þá hljóp Hrólfr kraki upp oc allir þeir, þá mælti hann:

Aukum enn elda at Aþils húsum

tóc skjöld sinn oc kastaði á eldinn, oc hljóp yfir eldin meðan skjöldrinn brann, oc mælti enn:

Flýr-a [1]) sá eld
er yfir-hleypr.

Svâ fór hverr at öðrum hannz manna, tóku þá er eldinn höfþu aukit, oc köstuþu þeim á eldinn, þá kom Yrsa oc fèck Hrólfi kraka dýrshorn fullt af gulli, oc þar með hrínginn Svíagrís, oc bað þá braut ríþa til liðsins. Þeir hljópu á hesta sína, oc riþu ofan á Fýris-völlu; þá sá þeir at Aðils konúngr, reið eptir þeim með her sinn alvâpnaðan, oc vill drepa þá. Þá tóc Hrólfr kraki hægri hendi gullit ofan í hornit, oc söri allt um götuna, en er Svíar sjá þat, hlaupa þeir or savðlunum, oc tóc hverr slíkt er fèck, en Aðils konúngr bað þá ríþa, oc reið sjálfr ákafliga. Slúngnir hèt hestr hannz allra hesta skjótaztr. Þá sá Hrólfr kraki at Aðils konúngr reið nær honum, tóc þá hrínginn Svíagrís oc kastaði til hannz, oc bað hann þiggja at gjöf. Aþils konúngr reið at hrínginum, oc tóc til með spjótz oddinum oc rendi upp á falinn. Þá veik Hrólfr kraki aptr, oc sá er hann laut niðr, þá mælti hann: svínbeygt hefi ec nú þann er ríkaztr er með Svíum: svâ skilduz þeir. Af þessi savk er gull kallat sáð Kraka eþa Fýris-valla. Svâ qvað Eyvindr skáldaspillir. [2])

Bárum Ullr of alla
ímun-lauks [3]) á hauka-
fjöllum [4]) Fýris-valla-
fræ Hákunar æfi.

---

1) Þannig *O.* flya *K.* Flyr ei *U.*
2) *Sjá* Sn. Har. gráf. s. 1. *kap.*
3) Þannig *O.* leturs *K.*
4) fjöllu *K.*

Svâ sem Þjóðólfr qvað.

Avrð ser [1]) Yrsu burþar
inn-drótt jöfurr sinni
bjart plógaþan [2]) bauga
brattakr völu spakra
eys landreki ljósu
lastvarr Kraka-barri
á hlemildar holdi
hauks kalfor mèr sjálfum.

44. Svâ er sagt at konúngr sá er *Havlgi* er
65. kallaðr, er Hálogaland er viðnefnt, var faþir Þorgerþar Havlga-brúþar, þau voru bæþi blótut, oc var haugr Havlga kastaðr, önnor fló af gulli eþa silfri, þat var blótfèit, en önnor fló af moldu oc grjóti. Svâ qvað Skúli Þorsteinsson.

Þá er ræfr vila reifnis
her fylgins bað ec Havlga
rauð ec firir svauld [3]) til auþar
haugþavk sama baugum.

I Bjarkamálum enum fornum eru tavð mörg gullz-heiti. Svâ segir þar:

Gramr hinn gjöflazti
gæddi hirð sína
Fenju forverki,
Fâfnis miðgarþi,
Glasis gló-barri,
Grana fagrbyrði,
Dravpnis dýrsveita,
dúni Grafvitnis.
Ytti [4]) avrr hilmir,
aldir við-tóku,
Sifjar [5]) svarðfestum,
svelli dal-nauðar, [6])
tregum Otrs-gjöldum,
tárum Mardallar,
elldi óronar, [7])
Iþja glys-málum.
Gladdi gunnveiti
(gèngum fagrbúnir)
þjaza þíngskilum
þjóðir hermargar.

1) sær *O.* And sær yso byrþar *U.*
2) flugu adan *O. og strax* vala. *Hún setr og þennan vísuhelming seinast.*
3) Svold *O.*
4) *þannig O.* veitti *K.*
5) Svíar *K.*
6) *þannig O. U.* dalnavnar *K.*
7) Oranar *O.*

Rínar rauð-málmi, vísi hinn vígdjarfi
rógi Niflúnga varþi mann-Baldr [1])

45. Gull er kallat í kenníngum eldr handar eða liðs eða leggjar, þvíat þat er rautt, en silfr snær eþa svell eþa hèla, því at þat er hvítt. Með sama hætti skal oc kenna gull eða silfr til sjóðs eða diguls eða lavðar, en hvârtveggja silfr oc gull má vera grjót handár eða hálsgjörð nokqvors þess mannz, er títt var at hafa men. Men oc hríngar eru bæþi silfr oc gull ef eigi er annan veg greint. Sem qvað Þorleifr fagri:

Kastar gramr á glæstar (úngr vísir gefr eisu
gegn valstöðvar þegnum armlegs) digul-farmi

Oc sem qvað Einarr Skálaglam:

Lið-bravndum kná lundar [2]) hycka èc ræsis recka
land frækn jöfurr granda; Rínar-grjót of-þrjóta.

Svâ qvað Einarr Skúlason:

Blóð eisu liggr bæþi sjóðs á ek sökqva stríþi
bjargs tveim-megin geima snær oc elldr at mæra.

Oc enn sem hann qvaþ:

Dægr þrymr [3]) hvert en hjarta aldri má fyrir eldi
hlyrskildir ræðr mildu [4]) áls hrynbrautar skála
heita blacks of hvítum öll veðr [5]) fólka-fellir
hafleygr digulskafli: frammræði snæ bræða.

Hèr er gull kallat snær skálanna. Svâ qvað Þórþr maura-skáld.

Sèr [6]) á seyma-rýri sigþis látrs at [7]) átti

1) *Þetta er min getgáta istadinn fyrir* varþi hann baldr þaugli *K.* vakti hann balldr þægi (þeygi) *O. U.*
2) landa *U. og i næstu linu* branda. 3) þrumir *O.*
4) mildum *U. og i næstu linu* hvíta. 5) vinnr *U.*
6) Sær *U. og strax* Sigþirs. 7) oc *K.*

brauns glað sendir handa
Hermóðr favþur góþan [1])

46. Maðr er kallaðr brjótr gullzins; svâ sem qvað Ottarr svarti:

Goþmennis þarf ec gunnar
gullz-brjótanda at njóta,
hèr er alnennin [2]) inni
inn-drótt með gram[3]) svinnum.

eþa gull-sendir, sem qvað Einarr skálaglam:

Gull-sendir lætr grundar
glaþar þengill her drengi
hannz mæti knà ec hljóta [4])
hljót Yggs mjaþar njóta.

Gull-vörpuþr, sem qvað Þorleikr.

Hirð viðr grams með gerþum;
gull-vavrpuðr sèr holla

Gull-stríþir, sem qvað Þorvaldr blavndu-skáld:

Gull-stríþir verpr glóþum
(gefr auþ konúngr rauþan)
óþjoðar bregðr eyðir
armlegs Grana-farmi.

Gull-skati, sem hèr er:

Gat ec gull-skata
gavr er leygs [5]) of bavr
gavtu ginnvita [6])
graps taug drapu.

Kona er kend til gullz, köllut selja gullz, sem qvað Hallarsteinn.

Sval teigar mun selju
sallz Viðblinda-galltar
raf [7]) kastandi rastar
reyr þvengs muna lengi.

Hèr er kallat hvalir Viðblinda geltir, hann var jötun oc dró hvali í hafi úti sem fiska; teigr hvala er sær, rauf sæfar er gull, kona er selja gullz þess er hon gefr, oc (á) samheiti við selju, er trè er, sem fyrr er ritat at kona er kend við allz konar trjá-

---

1) góþum *K.* 2) almennis *U.* hann er alnennin *O.*
3) græda *K.*
4) ljóta *U. og strax* hljó yggs.
5) görlæygs *O.*
6) gunn vita *og strax* graps *eda* glaps *O. en U. sleppir þessu erindi.*
7) rauf *U.*

heiti qvenkend. Hon er oc lág [1]) kavllut þess er hon gefr, lág heitir oc trè þat er fellr í skógi. Svâ qvað Gunnlaugr ormstúnga. [2])

Alin var rýgr at rógi (lág var ec auðs at eiga
runnr olli því gunnar óðgjarn) fira börnum.

Kona kallaz mörk. Svâ qvað Hallarsteinn.

Ec hefi óðar lokri væn [4]) mörk skála verki
avlstafna [3]) þèr skafna vandr stef knarrar branda.

Tróþa enn, sem qvað Steinn:

þú munt furs [5]) sem fleiri gravnn við gæfu þinni
flóðs hirþi sif [6]) tróþa grjótz Hjaðnínga brjótaz [7])

Skorþa, svâ qvað Ormr Steinþórsson:

Skorþa var í favt færð nýri saung nadd-Freyr [9])
fjarð-beins [8]) afar hrein nistíng of mjaþar-Hrist.

Stoð[10]), sem Steinarr qvað:

Mens hafa mildrar synjat [11]) sjá hofumk villti [12]) stoð stilltan
mjúkstallz logit allir straum túngls at mèr draumar

Björk enn, sem Ormr qvað:

því at hols [13]) hrynbáls billíngs á burar full
bramma þaz ec berc fram bjarkar hefi èc lagit mark

Eik, svâ sem hèr er:

Aura stendr firir orum
eik fagrbúin leiki.

Lind, svâ sem hèr er:

Ognrackr skalat ockra (svâ bauð lind í landi
álmr dyn-skúrar málma líns) hugrecki dvína,

---

1) laug *K.* 2) *Gunnl. Saga Kap.* 11 *bls.* 160.
3) audstafna *O.* 4) vetz *K.* 5) fús *U.*
6) Bil *U.* tróþar *K.* 7) grjót hj. brjóta *O.*
8) fjarsbeins *O.*
9) naddgreyr *K.* 10) Stord *O. en U. fellir út þetta erindi.*
11) Synjar *O.* 12) vellti *O.*
13) hjóls *U, og strax* ec ber *U. O.*

Maðr er kendr til viða, sem fyrr er ritað: kallaðr reynir vâpna eþa víga, ferþa oc athafnar, skipa oc allz þess er hann ræðr, oc reynir. Svâ qvað Ulfr Uggason:

Enn stirdþinull [1]) starði
storðarleggs [2]) fyrir borði
fráns [3]) á fólka reyni
fránleitr oc blès eitri.

Viðr oc meiðr, sem qvað Kórmakr:

Meiðr er morgum eyðri [4])
morðreins í dyn fleina
hjörr fær hildum bavrrum [5])
hjarl Sigurþi jarli.

Lundr; svâ qvað Hallfræyðr vandræþa-skáld.

Ask þollum stendr Ullar
austr at miklu trausti
reyki lundr hinn ríki
randfárs brumaðr hári.

Hèr er oc þollr nefndr buss. Svâ qvað Arnorr:

Rökkr avndurt bað randir
regg buss saman leggja
róg-skýja hest [6]) rýgja
regin [7]) haust nótt gegnum.

Askr, sem Refr qvað:

Gèck í gulli stockna
gjöf-rífr Hárs-drífu-
askr við ærinn þroska
esfræyr [8]) sæing meyjar.

Hlynr:

Heill kom-þu, handar-svella-
hlynr! qvaddi svâ brynja.

Bavrr, sem Refr qvað:

Allz böðgæþi bjóþa [9])
bavrr ræðr til þess hjörva
ógnstavðvar hefi èc ægi
ein ráþit [10]) þorsteini.

Stafr, sem Ottarr qvað:

Hèlltu þar er hrafn nè svallta
(hvatráðr ertu!) láði
ógnarstafr fyrir jöfrum
ygr tveimr við kyn beima.

---

1) stirdmálugr *U.* 2) elgs *vildi Gunn. P.* 3) fróns *O.*
4) ædri *O. U.* 5) hildibörrum *O.* 6) hellt *O.* 7) rogni *O.*
8) eggþeys *U.* ássfreyr *O:*
9) þ*annig O. og U.* ..llz bavd ögþi gjöþa *K.* 10) einrádinn *O. U.*

þorn, sem Arnorr qvað:

Hlóð, en hala teþu | auþar-þorn firir avrnu [1])
hirðmenn ara-grenni, | úngr valkavstu þúnga.

47. Hvernig skal kenna *orostu?* Svâ at kalla veðr vâpna eþa hlífa eða Oþins eða valkyrju, eða herkonúnga, eða gný eða glym. Svâ qvað Hornklofi:

Háþi gramr þar er gnúþu | (rauð fnustu ben blóþi)
geira-hregg við seggi | bengavgl at dyn Skavglar.

Svâ qvað Eyvindr:

Oc sá halr | havsvan [2]) serk
at Hárs-veðri | Hrís-grímnis bar.

Svâ qvað Bersi:

þótta èc þá er ori [3]) | hæfr at Hlackar-drífu
ár sagt er þat várum | hyrrunnum vel gunnar.

Svâ qvað Einarr:

Glymvindi lætr Gavndlar [4]) | Hildar-segl', þar er hagli
gnestr hjörr taka mestum | hraustr þengill drífr strengjar.

Sem qvað Einarr skálaglam:

Ne sigbjarka serkir | Hárs við havgna skúrir
sum [5]) miðjúngum romu | hleþut fast of-seþir. [6])

Svâ sem hèr:

Odda-gnýs við æsi [7])
oddnes þinul setja.

Oc en þetta:

Hnigu fjandr at glym Gaundlar
grams und arnar hramma.

48. *Vâpn* oc *herklæþi* skal kenna til orostu oc til Oþins oc valmeyja oc herkonúnga, kalla hjalma

---

1) örnum *O.* arno *U.* 2) hösvan *eda* hölvan *O.* 3) eri *O.*
4) göndla *K. O.* 5) som *O.* som *eda* some niþj. *U.*
6) hleiþut *eda* hleiþir fastum reiþir *U.*
7) eli *U. og strax* Oddnetz.

hiálm, havtt eða fald, en brynju serk eða skyrtu, en skjöld tjald, oc skjaldborgin er kavllut havll oc ræfr, veggr oc gólf. Skildir eru kallaþir, oc kendir við herskip, sól eþa túngl eþa lauf eða blik eða garðr skipsins. Skjöldr er oc kallat skip Ullar, eða kent til fóta Hrúngnis, er hann stóð á skildi: á fornum skjöldum var títt at skrifa ravnd þá er baugr var kallaðr, oc er við þann baug skilldir kendir. Havggvâpn, eyxar eþa sverð er kallat eldar blóðs eþa benja, sverð heita Oþins eldar, en eyxar kalla menn travllqvenna heitum, oc kenna við blóð eða benjar eða skóg eða við. Lagvâpn eru vel kend til orma eða fiska. Skotvâpn eru mjöc kend til hagls eða drífu eðr rotu: avllum þessum kenníngum er marga lund breytt, því at þat er flest ort í lofqvæþum, er þessar kenníngar þarf við.

Lattiz herr með havttu — þóttit þeim at hætta
hánga-týs at gánga, — þeckiligt firir brecku. [1])

Svâ qvað Einarr skálaglam:

Hjálm-faldinn bauð hildi [2]) [hinn er fór í gný Gunnarr]
hjaldr-avrr oc Sigvaldi [3]) — gunndjarfr Búi [sunnan]:

Roþa serkr, sem Tindr qvað: [4])

þá er hring-fám [5]) Hánga — (hruþuz rið-marar Roþa-
hrynserk Viþurr [6]) brynju — rastar) varþ at kasta.

Hamþ-

1) *Sjá bls. 95. og V'ga Gl. s. kap. 27, 18.*
2) hjálm baud hildi ólmum *O.*
5) Sigvalda *O. en K. fellir ut* oc.
4) *Sjá Ol. Tryggvas. s. Sn. kap. 43 hvar þad eignast Finni Hallkelssyni.*
5) hríngfáin *U.* — 6) viþum *K. O.* viþ aurr *U.*

Hamþis skyrta, sem Hallfreyðr qvað:

Olítit [1]) brestr úti
undýrs [2]) sumum runnum
hart á Hamþis-skyrtum [3])
hryn-grap [4]) Egils vâpna

Savrla ſavt, enn sem hann qvað:

þaþan verþa ſavt fyrþa
(fregn ec gerla þat) Savrla
rjóþaz björt í blóþi
ben firir mell [5]) skúrum.

Sem Grettir qvað:

Hèldu Hlackar-tjalda-
hefjendr saman nefjum,
Hildar-veggs oc hjöggnz
hregg-Nirþir [6]) til skeggjum.

Róþa ræfr, sem Einarr qvað: 7)

Eigi þverr firir augna
Oðs beðvinu Róþa
ræfr [8]) eigniz sá regni
ram svellz [9]) konúngr elli.

Hildar veggr, sem qvað Grettir, oc áðr er ritat.

Skipsól sem Einarr qvað:

Leyg [10]) rýðr ætt á ægi
Olafs skipa-sólar.

Hlýr-túngl, sem Refr qvað:

Dagr var fríðr sá er favgru [11])
fleygjendr álm [12]) leygjar
í hang feril [13]) hrínga
hlýr-túngli mèr þrúngu.

Garðr skips, sem hèr er:

Svâ skaut [14]) gegn í gögnum
garð stein-farinn barþa
sá var gný-stærir geira
Gunnar æfr [15]) sem næfrar.

Askr Ullar sem hèr er:

Ganga èl of únga [16])
Ullar-skips með fullu,
þar er samnagla siglur
sliðr dúkaþar riþa.

13

1) ólítinn *U.* 2) und-fúrs *U.* *kannske rettast væri* unn-fúrs.
3) skyrtor *U.* 4) hryn-gjálp *U.*
5) ben fur meil *O.* ben fur meils *U.*
6) *U. synist ad hafa* hregg-viþir til seggjum.
7) *Sjá* 37. *gr.* 134. *bls.* 8) ræfrs *O.*
9) ramsvel *U.* ramsvell *eda* ransvell *O.* 10) leygr *eda* leygi *U.*
11) favgrum *U.* fræju. *O.* 12) a lin *O.* alim leygja, *eda* leygar *U.*
13) á hr... feril *U. og í næstu linu* þrúngþo. 14) fór *U.*
15) hæfr *O.* 16) Ynga *U.*

Ilja blað Hrúngnis, sem Bragi qvað:

Vilit, Hrafnketill! heyra þrúþar [skal ec þengil [1]]
hve hrein gróit steini þjófs iljablað [leyfa].

Bragi skáld qvað þetta um bauginn á skildinum.

Nema svâ at góð ens gjalla [2]) meyjar hjóls inn mæri
gjöld baug-navar [3]) vildi mavgr [4]) Sigurþar Havgna.

hann kallaþi skjölldinn Hildar-hjól, en bauginn navf hjólsins. Baug-jörð, sem Hallvarþr qvað:

Rauð ljósa sèr ræsir baug-jörð brodda ferþar
[rít brestr sundr hin hvíta] bjúgrend í tvav fljúga [5]).

Svâ er enn qveþit:

Baugr er á bero sœmstr en á boga avrvar.

Sverþ er Oþins eldr, sem Kórmakr qvað:

Svall þá [6]) er gèck með gjallan glað fæþandi [7]) Gríþar
Gautz-eld hinn er styr beldi gunnr, komz uðr úr [8]) brunni.

Hjálms-elldr, sem qvað Ulfr Uggason:

Full-avflug [9]) lèt fjalla hilldr en hropz [10]) of gilldar
fram hafsleipni þramma hjálm avldum [11]) mar feldu

Brynju-eldr, sem qvað Glúmr Geirason:

Hein-þyntan lèt hvína foldar-vörðr sá er fyrþum [12])
hryn-eld at þat brynju fjorn harþan sik varþi.

Randar íss oc grand hlífar, sem Einar qvað:

Ráðvöndum þá ec rauþra (grand berum hjálms í hende)
randa-íss at vísa, hvarm-þey drifin Freyju

---

1) ec oc þengil *K. U. hefir* þengils.
2) gegna *U.* 3) *þannig O.* nafagdrs *K.* nadrs *U.*
4) mög *O.* meygia (*edr* meygin) hjóls en ek merkþa mavg *U.*
5) *U. hefir* rítr — bauggjörþ — bjúg let; *St.* bjug litr *G.* litr.
6) sá *U. en O. sl.* því. 7) bræþanda *U.*
8) Urdr at *O.* ruþr or *U.* 9) avflugr *U. og strax* falla *O. U.*
10) hóptz *U.* hoiz *O.* 11) hjálms eld þá er *U.*
12) forþom *edr* firþum *og strax* fiorn *edr* firn *U.*

Öx heitir travll-kona hlífa, sem Einarr qvað:

Sjá megu rètt hve Revils — fjornis fagrt of skornir
ríþendr við brá gríþar — foldviggs [1]) drekar liggja.

Spjót er ormr kallat, sem Refr qvað:

Kná myrkdreki marka [2]) — æfr á aldar lófum
minn, þar er ýtar finnaz, — eikinn bezt at leika [3]).

Avrvar erv kallaðar hagl boga eða strengjar eða hlífar eða orustu, sem Einarr qvað skálaglam: *)

Brak ravgnir skaut bogna [4]) — hagls or [6]) Hlackar seglum
barg óþyrmir varga [5]) — hjörs rakliga [7]) fjörvi.

Oc Hallfröðr:

Oc geir rotu [8]) gavtvar — húngr-eyþundum hánga
gagls við strengjar hagli — hlóþut járni seðar. [9])

Oc Eyvindr skáldaspillir: [10])

Lítt qvoþu þic láta, — brynju-hagl í benjum,
landvörðr! er brast Havrþa — buguz [11]) álmar, geð fálma.

50. *Orrosta* er kavllut Hjaðnínga veðr eþa èl, oc vâpn Hjaðnínga eldar eþa vendir. En sjá saga
er til þess: Konúngr sá er *Havgni* er nefndr 67.
átti dóttr er *Hilldr* hèt, hana tóc at herfángi konúngr sá er *Hèþinn* hèt Hjarranda son, þá var Havgni konúngr farinn í konúnga stefnu, en er hann spurþi at herjat var í ríki hannz, oc dóttir hannz var í

1) foldvígs *K: og strax* dreckar *U.*
2) markadr *U.* myrkadr *G. og í næstu l.* finna.
3) eiki borþs áleika *U.* eikin bozt at l. *O.*
*) *Sjá Har. gr. s. Snorra 6. kap.*
4) skog bognum *O.* Br. ravgna skog bogna *U.*
5) bard óþ. varda *O.* 6) hagl or *O.* hagls í *U.*
7) rakkliga *O.* 8) ötu *O.* 9) hlödut iarni (í arm) södar *O. hún eignar og honum Einari þetta.*
10) *Sjá Har. gr. s. Snorra* 1. *kap.*
11) *Þannig einnin O. og mun þad rètt þótt gerdarordid* ek byg, baug bugum *sé ureldt; á eingils. er* búge, beáh, bugon, *og á þyzku er* biege, bog, bogen *algengt ord. Hèraf og isl.* boginn, þ. gebogen.

braut tekin, þá fór hann með sínu liþi at leita Hèþins, oc spurþi til hannz at Hèþin hafþi siglt norðr með landi. Þá er Havgni konúngr kom í Noreg, spurþi hann at Hèþinn hafþi siglt vestr of haf, þá siglir Havgni eptir honum allt til Orkneyja; oc er hann kom þar sem heitir Há-ey, var þar firir Hèþinn með lið sitt. Þá fór Hilldr á fund favþur síns oc bauð honum men (í) sætt af hendi Hèþins, en í avðru orþi sagþi hon at Hèþinn væri búinn at berjaz oc ætti Högni af honum öngrar vægþar vân. Havgni svarar stirt dóttur sinni, en er hon hitti Hèþin, sagþi hon honum at Havgni vildi önga sætt, oc bað hann búaz til orostu, oc svâ gera þeir hvârir tveggju, gánga upp á eyna oc fylkja liþinu, þá kallar Hèþinn á Havgna mág sinn, oc bauð honum sætt oc mikit gull at bótum. Þá svarar Havgni: of sið bauðtu þetta, ef þú vill sættaz, því at nú hefi èc dregit Dáinsleif, er dvergarnir gerðu, er mannz bani skal verþa hvert sinn er bert er, oc aldri bilar í havggi, oc ecki sár grær ef þar skeiniz af. Þá svarar Hèþinn: sverþi hælir þú þar, enn ei sigri; þat kalla ec gott hvert er drottinholIt er. Þá hófo þeir orostu þá, er Hjaðninga-víg er kallat, oc bavrþuz þann dag allan, oc at qveldi fóru konúngar til skipa. En Hilldr gèck of nóttina til valsins, oc vakþi upp með fjölkýngi alla þá er dauþir voru, oc annan dag gèngu konúngarnir á vígvöllin oc bavrþuz, oc svâ allir þeir er fèllu hinn fyrra daginn. Fór svâ sú orosta hvern dag eptir annan, at allir

[þeir er *) fèllu, oc avll vâpn, þau er lágu á vígvelli, oc svâ hlífar urþu at grjóti. En er dagaþi stóþu upp allir dauþir menn oc bavrþuz, oc avll vâpn voru þá nýt. Svâ er sagt í qvæþum at Hjaþníngar skulu svâ bíþa ragna-ravkrs. Eptir þessi savgu orti Bragi skáld í Ragnars drápu Loðbrókar:

Oc um þerris [æða
osk-ran at þat sinum [1])
til fár huga færi
feðr veðr boþa [2]) hugþi:
þá er hristi-sif hrínga
hals of [3]) bavls of-fylda
bar til byrjar-dravsla
baug avrlygis-draugi.

Bauþa sú til bleyþi
bœti-þrúðr at móti
málma mætum hilmi
men dreiruga [4]) benja:
svâ lèt ey þótt etti [5])
sem orosta lètti
jöfrum úlfs at [6]) sinna
með algífris lifru.

Letrað lýþa stillir
landa vanr á sandi
þá svall heipt í Havgna
havð glamma mun [7]) stavðva:
er þrym regin þremja
þróttig Hèþins sóttu
heldr en hildar svika [8])
hrínga þeir of fíngu

þá má sókn á Svolnis
sal penníngi kenna
ræs gáfumk reiþar (m. .)

Oc firir hönd í hólmi
hveðro brynju viðris
feng eyþande fljóþa
fordæþa nam ráþa:
allr gèck herr und hurþir
Hjarranda fram kyrrar
reiðr at Reifnis skeiði
ráðalfr of [9]) mar bráþum.

Orrosta er veðr Oþins, sem fyrr er ritat. Svâ qvað Víga-glúmr [10]).

Rudda èc sem jarlar,
orð lèc á því forþum,
með veðr-stavfum Viðris-
vandar mèr til landa [11])

---

*) *sl. U.* 1) *þannig O.* at avscran at þat sinn... *K.*
2) boga (boda. bogda, bodga) *O.* 3) en *O.* 4) dræyrugra *O.*
5) ætti *O. og strax* orrosto. 6) of *O.*
7) *þannig O. en K. synist ad hafa* glammr man. 8) svíra *O.*
9) af *O. en U. sl. drápubrotinu.* 10) *Sjá Viga Gl. s. kap.* 26, 11)
11) handa *K.* Vandils m. t. handa *U.*

Viðris veðr er hèr kallat orosta, en vöndr vígs sverðit, en menn stafir sverþzins: hèr er bæþi orosta oc vâpn haft til kenníngar mannzins, þat er rekit kallat er [svâ er ort; skjöldr er land vâpnanna, en vâpn er hagl eða regn þess landz, ef nýgjörvíngum er ort.

51. Hvernig skal kenna *skip?* Svâ at kalla hest eða dýr eða skíð sækonúnga eþa sævar eða skipreiþa eða veðrs.

Báru-fákr, sem Hornklofi qvað:

Hrjóðr lèt hæztrar tíþar
barðráþr [1]) skipa þavrþum
báru-fáks ens bleika
barn-úngr á lavg þrúngit.

Geitis marr. Svâ qvað Erringar-steinn:

En þótt úfriþ sunnan
öll þjóð segi [2]) skáldi
[hlavðum Geitis-mar grjóti]
glaþir nennum vær [þenna].

Sveiþa hreinar:

Súð löngum komt Sveiþa[3])
(sunnz liðu dýr frá grundu)
sigrackr Savlsa-beckjar
Sveins mavgr[4]) á travð hreinum

Svâ qvað Hallvarðr. Hèr er oc kavllut sundz dýr oc særinn Savlsa-beckr. Svâ qvað Þórðr Sjáreks son: [5].)

Sveggja lèt firir Siggju [6])
sól-borðz-goti norþan,
gustr skaut Gylfa-rastar-
glaumi suðr firir Aumar: [7])
en slóþgoti síþan
sæþíngs [8]) firir skut bæþi
(hestr óð lauks [9]) firir Lista)
lagþi Kavrmt oc Agðir.

---

1) harþr *U.* 2) þ*ennig U.* ófriþr sunnan ö. þj. segir *O.* segir þat *K.* 3) Sveita *K.* 4) rakkr *O. en U. fellir út þetta.* 5) Snarraks son *K.* 6) Sveigja l. f. sygjo *U.* 7) suþr raumi *U.* 8) Sæþins *U; eins og fyrir nedan.* 9) lavgs *K. en U. sl. þessum 2 línum.*

Hèr er skip kallat Sól-borðz-hestr, oc sær Gylfa-land; sæþíngs-slóð særinn oc hestr skipit; oc enn lauks hestr, laukr heitir siglu-trè. Oc enn sem Markus qvað:

Fjarð linna óð fannir
fast vetrliþi rastar,
hljóp of hvíta gnípur [1])
hvals þann ívgtanni;
björn gèck fram á fornar
fl þs hafskíþa [2]) slóþir,
skúr-avrðigr braut skorþu
skers glym-fjötur bersi.

Hèr er skip kallat björn rasta, björn heitir vetrliþi oc íugtanni oc bersi, oc björn skorþu er hèr kallat. Skip er oc kallat hreinn, svâ qvað Hallvarðr, sem áðr er ritat; oc Hjörtr, sem qvað Haraldr konúngr Sigurþarson:

Sneið fírir Sikiley víþa
súð (vorum þá prúþir)
brynt skreið vel til vânar [3])
vengis-hjörtr und drengjum.

Oc elgr, sem Einarr qvað:

Baugs getr með þèr þeygi
þýðr drengr vera lengi
elg búum flóðs nema fylgi
frið stavkqvir því nakqva. [4])

Sem Máni qvað.

Hvat mundu hafs á acri [5])
hengiligr með drengum
karl, þvíat kraptr þinn favrlaz,
kinngrár mega vinna.

Vargr, sem qvað Refr:

En hodd-vönuðr [6]) hlýddi
hlunn-vitnis em ec runni
hollr til hermþar spjalla
heimvandil [7]) þorsteini;

1) ok húna *gnípur* hval iugtanni hranna *O.*

2) hafskipa *O. U. og strax* skrúþavrþigr *U. en hún sl. fyrri helmingi þessarar stöku.*

3) varnar *K. og í næstu línu* um *fyrir* und. *Sjá Haralds hardr. s. Snorra kap.* 15. 4) þèr nockut *U.* 5) otri *O. og strax* drengjum. 6) hodd vargs *U.*

7) heinvandil *O.*

Oc oxi [1]). Skip er oc kallat skíð eða vagn eða reið. Svâ qvað Eyjólfr Daþa skáld: [2])

Meita fór [3]) at móti
mjöc síð um dag skíþi
úngr með jöfnu gengi
útvers fraymum hersi [4]):

Svâ qvað Styrkarr Oddason:

Ok ept ítrum stöckvi
óc Havgna lið [5]) vavgnum
hlunnz á heiþa [6]) fannir
hyrjar flóðs af móþi.

Oc sem Þorbjörn qvað:

Haf-reiþar var hloþir [7])
hlunnz í skírnar brunni
hvíta-Kristz sá er hæsta
hodsviptir fèck giptu.

52. Hvernig skal *Krist* kenna? Svâ at kalla hann skàpara himins oc jarþar, engla oc sólar, stýranda heims oc himin-ríkis oc engla, konúng himna oc sólar oc engla oc Jórsala oc Jórdanar oc Grikklandz: ráþandi postola oc heilagra manna. Fornskáld hafa kent hann við Urþar brunn oc Róm, sem qvað Eilífr Guðrúnarson:

Setbergs qveþa sitja
suðr at Urþar brunni
svâ hefir ramr konúngr remþan
Róms-banda sic lavndum.

Svâ qvað Skapti Þóroddzson:

Máttr er múnka-drottins
mestr (aflar guð flestu)
Kristr skóp ríkr oc reisti
Rúms höll veröld alla.

Himna-konúngr sem Markus qvað:

Gramr skóp grund oc himna
glygg-rannz sem her dyggjan
einn stillir má avllu
aldar Kristr of-valda.

---

1) oxa *U.* *en O. sl.* *þvi.* 2) Eyvindr *U.* 3) var *K.* Meira fór *U.* 4) *þannig O.* i fr. hersi *K.* ver formun hersir *U.* 5) bad *K.* 6) heita *U.* 7) hlæþir *O.* hafr æþar var hlæþir *U.*

Svâ qvað Eilífr kúlnasveinn:

Hróz lýtr helgum kristi [1]) savnn er enn avll dýrð avnnur
heims ferð oc lið heima, ein Mario sveini [2])

Mario-sonr enn, sem Eilífr qvað:

Hirð lýtr himna dýrðar mátt viðr mildíng dróttar
hrein Mario sveine, (maðr er hann oc guð) sannan.

Engla-konúngr enn, sem Eilífr qvað:

Máttr er en menn of hyggi þó er engla-gramr öllu
mætr guðs-vinar [3]) betri; avrr helgari oc dýrri.

Jórdanar-konúngr. Svâ qvað Sighvatr:

Endr rèð engla senda fors þó hann á hersi [5])
Jórdanar-gramr [4]) fjóra heilagt skopt or lopti.

Grickja-konúngr, sem Arnorr qvað:

Bœnir hefi ec firir beini Grickja-vörð oc Garþa
bragna fallz [6]) við snjallan gjöf launat [7]) svâ jöfri.

Svâ qvað Eilífr kúlna-sveinn:

Himins dýrð lofar havlþa
(hann er allz konúngr) stilli [8])

Hèr kallaþi hann fyrst Krist konúng manna, oc annat sinn allz konúng. Enn qvað Einarr Skúlason, [9])

Lèt sá er landfólks gætir um-geypnandi opna
líkbjartr [10]) himinríki allz heims firir gram snjöllum

[Ok en er svâ qveþit:

Sjálfræþi [11]) dó síþan sá er hèck, enn dag döckti,
sólar-fróns at nóni, döglíngr á járnnöglum. [12])

---

1) cruci *O.* krossi *Skúli Th. spec.* 7, hrocz l. halgum cruce *U. G.*
2) þ*annig K. O. Sk.* einn sól-konúngr hreinni *U. G.*
3) þ*annig O. Sk.* sonar *K.* vinum *U. og í fyrri lin.* minni *fyrir* máttr. 4) Jórdanar gram *K. og sídan* helagt; *en í O. sèst ecki* skopt or; *U. hefir* skóp ôr. 5) hans (han) um hersis *U.* 6) fjallz *U.* 7) launag *O.* launa èk *U.* 8) spjalli *U.* 9) *Sjá* Geisla 16. 10) líkn framr *Geisli*; líknbjartr *U. í næstu linu* opnar *Geisli. (prentadr aptan vid 3. part Heimskrínglu).*
11) *kannske rèttara væri* sjálfráþi. 12) þ*etta erindi finnst ein-*

53. Þar koma saman kenningar, oc verðr sá at skilja af stoð [1]), er ræðr skáldskapinn, um hvern qveþit er konúnginn; því at rètt er at kalla Mikla-garþz keisara Grikkja-konúng, oc svâ þann konúng er ræðr Jórsalalandi at kalla Jórsala-konúng; sva oc at kalla Róms-konúng Rómaborgar keisara, eða Engla-konúng þann er Englandi ræðr. En sú kenn-íng, er áðr var ritoð at kalla Krist konúng manna, þá kenníng má eiga hver *konúngr*. Konúnga alla er rètt at kenna svâ at kalla þá landráþendr eða landz-vörðu eða landz-sæki eða hirðstjóra eða vörð landfólks. Svâ qvað Eyvindr skáldaspillir: [2])

... Farma-týs
fjörvi næmdu
jarþ-ráðendr
á Oglóe.

Oc sem Glúmr qvað Geirason:

Hilmir rauð und hjálmi
heina-laut á [3]) Gautum
þar varþ í gný geira
grundar-vörðr of-fundinn.

Sem Þjóðólfr qvað:

Hárr skyli hirðar- [4]) stjóri
hug-reifr sonum [5]) leifa
arf oc óþal-torfu
(ósk mín er þat) sína.

Sem Einarr qvað:

Snáks berr fald of fræknum
foldvörðr [6]) (konúngs Havrða
frama telr grepr firir gumnum)
geðsnjallr skarar-fjalli.

Rètt er oc um þann konúng, er undir honum eru skattkonúngar, at kalla hann konúng konúnga. Keis-ari er æztr konúnga, en þar næst er konúngr sá er ræðr firir þjóðlandi, jafn í kenningum öllum hver

*úngri i G. St.* 1) stoþu *U.* 2) *Sjá Harald. gráf. s. Snorra 6. kap. og Skáldu 2 gr.* 3) *þannig O. U.* und *K.* 4) *þannig O. U.* hildar *K.* 5) *þannig O. U.* sonr *K.* 6) fólkvördr *O.*

við annan í skáldskáp. Þar næst eru þeir menn er jarlar heita eða skattkonúngar, oc eru þeir jafnir í kenníngum við konúng, nema ei má þá kalla þjóðkonúnga, er skattkonúngar eru. Oc svâ qvað Arnorr jarlaskáld of Þorfinn jarl.

Nemi drótt hve sjá sótti
snarlyndr konúngr, jarla
eigi þraut við ægi
óvægjan gram bægja.

Þar næst eru í kenningum í skáldskap þeir menn er hersar heita; kenna má þá sem konúng eða Jarl: svâ at kalla þá gullbrjóta oc auð-mildinga oc merkismenn oc fólk-stjóra, eða kalla hann Oddvita liðsins eða orostu; firir því at þjóðkonúngr hverr, sá er ræðr mörgum lavndum, þá setr hann til landstjórnar með sèr skattkonúnga oc jarla, at dæma landzlavg oc verja land firir úfriþi í þeim lavndum er konúngi liggja fjarri, oc skulu þeir dómar oc refsingar vera þar jafnrèttir sem sjálfs konúngs. Oc í einu landi eru mörg hèrut, oc er þat háttr konúnga, at setja þar rèttara ifir svâ mörg hèruð, sem hann gefr vald yfir, oc heita þeir hersar eþa lendir menn í danskri túngu, en greifar i Saxlandi, en barúnar i Englandi; þeir skolu oc vera rèttir dómarar oc rèttir landvarnar menn yfir því ríki, er þeim er fengit til stjórnar. Ef ei er konúngr nær, þá skal fyrir þeim merki bera í orostum, oc eru þeir þá jafnrèttir herstjórar sem konúngar eþa jarlar.

Þar næst eru þeir menn er havlþar heita, þat er búendr, þeir er gildir eru af ættum oc rettum

1) Þannig seinna K. og O. en hèr ofvægian.

fullum: þá má svâ kenna at kalla þá veitanda fjár oc gætanda oc sætti manna; þessar kenníngar megu oc eiga havíþíngjar. Konúngar oc jarlar hafa til fylgðar með sèr þá menn, er hirðmenn heita oc húskarlar, en lendir menn hafa oc sèr handgengna menn, þá er í Danmörku oc Sviðjóð eru hirðmenn kallaþir, en í Noregi húskarlar, oc sverja þeir þó eiða, svâ sem hirðmenn konúngum. Húskarlar konúnga voru mjöc hirðmenn kallaþir í forneskju. Svâ qvað þorvaldr blöndu-skáld:

Konúngr heill oc svâ snjallir óð hafa menn í munni
sókn-avrr (við lof[1]) gjörvan minn) húskarlar þínir.

þetta orti Haraldr konúngr Sigurþarson:

Fullafli beið fyllar hilmis stóls á hæla
finn ec optr at drífr minna húskarla lið jarli.

Hirðmenn oc húskarla höfþíngja má svâ kenna at kalla þá inndrótt eða Verþúng eða hirðmenn. Svâ qvað Sighvatr:

þat frá ec víg á[2]) vatni nadda-èl at nyla
verþúng jöfurs gerþu næst tel engin[3]) smæstu.

Oc enn þetta:

þági var[4]) sem þessum mjöð firir málma-qveþju
þengils á jó strengjar mær heiðþegum bæri.

Heið-fè heitir máli oc gjöf, er haufþíngjar gefa; Svâ qvað Ottarr svarti:

Góðmennis þarf ec gunnar hèr er alnenninn inni
glóð-[5]) brjótanda at njóta; inndrótt með gram svinnum

---

1) lèt (lètt?) of *O. en í fyrri l.* snjallr *K.* 2) at *O.*
3) ek æigi hin *O.* 4) vass *O.* 5) god *O. kannske rèttara* gold. *Sjá* 47. *gr.* 156. *bls.*

Jarlar oc hersar oc hirðmenn eru svâ kendir at kallaþir konúngs rúnar eþa málar eþa sessar. Svâ qvað Hallfröðr.

Grams rúni lætr glymja
gunnríkr hinn er hvavt líkar
Havgna hamri slegnar
heipt-bráðr of sic váþir.

Sem Snæbjörn qvað:

Stjór viðjar lætr [1]) styðja
stíls buðlúnga [2]) máli
hlemmi sverþ við harðri [3])
húf lángan ser [4]) dúfu.

Svâ qvað Arnórr:

Bera sín en mic [5]) mínir
morðkenndz [6]) taka enda
þess of [7]) þengils sessa
þúng mein synir úngir.

Konúngs spjalli, sem Hallfröðr qvað: [8])

Ráð lukuz at sá síþan
snjallmæltr [9]) konúngs-spjalli
átti einga dóttur
Onars viþi gróna.

Svâ skal menn kenna við ætt, sem Kórmakr qvað:

Heyri sonr á sýrar
sann-reynis fen-tanna
avr greppa lætr [10]) uppi
jastrin Harallz mína.

hann kallaþi jarlinn sannreyni konúngsins, en Hákun jarl son Sigurþar jarls. En Þjóðólfr qvað svâ um Harald:

Vex [11]) Olafs feðr
Járnsaxa-veðr,
harðræþit hvert,
svâ at hróþrs er vert.

Oc enn svâ:

Jarisleifr of-sá
hvert jöfri [12]) brá,
hófsc hlýri frams
ens helga grams.

---

1) lèt *O.*
2) döglínga *U.* 3) haudri *K.* 4) sæ *O.* skæ *U.*
5) synum mik *U.* 6) kend *O.* mærþ kendr *U.*
7) þessum *U.* 8) *Sjá jardarheiti 24. gr. 123. bls.*
9) snjallráþr *U.* 10) aurgreipa let ek *U. og strax* astrin *eða* ástrin. 11) Eykr *U. og strax* Járnsöxu.
12) hvat jöfur *U.*

Oc enn qvað hann:

Andaþr er sá,
er of alla brá,
haukstalla konr
Haraldz bróþrsonr.

En qvað svâ Arnórr í Ravgnvaldz drápu:

Rèþ heita konr hljóti [1])
her þarfr við mic gjörva
styrk let oss [2]) of orkat
jarls mægð af því frægðar.

Oc enn sem hann qvað of Þorfinn jarl:

Bitu sverð en þar þurþir [3])
þunn-gjör firir Mavn sunnan
Ravgnvaldz kind und [4]) randir
ramlig fólks [5]) ens gamla

Oc enn qvað hann:

Ættbæti fiþr [6]) ítran
allríks en ec bið líkna
trúra [7]) tiggja dyrum
Torf-Einars guð meinum.

Oc enn qvað Einarr skálaglam:

Ne áttstuðill ættar
ógn-herþir [8]) mun verþa
skylldr em ec hróðri at hallda
hilditannz inn mildi.

---

1) hlæti *O.* hleyti *U. og strax* herþarf *K.*
2) öll *O.* storr let (lit) oss um orkat *U. og í næstu linu* at því.
3) þurdu *O.* þurdi *U.*
4) en *U. rèttara* oc.
5) ramlig fólk *O.* ramligt fólk *U.*
6) firr *U. og í næstu l.* líknar.
7) trúna *O. og í næstu l.* Torf-æinar.
8) ógnherþi *U. og í næstu l.* mildri.

## 2. ÓKEND HEITI [1]).

Hvernig er ókend [2]) setníng skáldskapar? Svâ at nefna hvern lut sem heitir.

54. Hver eru úkend heiti *skáldskaparins*? Hann heitir bragr oc hróðr, óðr, mærðr [3]), lof, leyfð [4]). Þetta qvað Bragi hinn gamli; þá er hann óc um skóg nokqvorn síð um qveld, þá stefjaþi tröllkona á hann, oc spurþi hverr þar fór.

Travll kalla mic,
túngl sjotrúngnis,
auðsug jötuns,
el solar bavl,
vilsinn völu
vörð nafjarþar
hvelsvelg himins;
hvat er travll nema þat? [5])

Han svarar svâ:

Skáld kalla mic,
skap-smið Viðurs,
Gautz gjaf-ravtut,
grepp óhneppan,
Yggs avlbera,
óðs skapmóþa [6]),
hag-smið bragar;
hvat er skáld nema þat?

Oc sem Kórmakr qvað:

Hróð geri èc of mavg mæran
meirr Sigröþar [7]) fleira
hapt sönis [8]) galt ec hânum
heið sitr þórr í reiþu [9])

1) *Þessa fyrirsögn hefi eg sjálfr sett yfir, samqvæmt innihaldinu og fyrstu grein Skáldu. O. smeygir hèrinn ritgerdunum um stafrofid og skáldskapar figurur, en þær eru opinberliga of ödrum höfundi, og trubla hèr samheingid öldúngis.*
2) *kend U.* 3) mærþ *O. U. hún fellir og út* ódr.
4) *K. og O. fella út* leyfþ. 5) *Þetta erindi fella út O. U.*
6) sparmóþa *O. U.* 7) Sigurþr *U.* 8) sænis *U.* fönis. *O.*
9) reiþum *K.*

Oc sem qvað þórðr Kolbeinsson:

Mjöc lèt margar sneckjur (óðr vex skáldz) oc skeiþar [1])
mærþar-avrr sem knavrru skjöld-hlynr á brim dynja.

Mærð, sem Ulfr Uggason qvað:

þar kömr á (enn œri [2]), [ofra èc svâ] til sæfar
endr bar ec mærð af hendi) sverð-regns [lofi þegna].

Hèr er oc lof kallat skáldskapr. Svâ qvað Ormr Steinþórsson: [3])

Ek hefi orðgnótt miklu (fram tel ek leyfþ fyrir lofþa
(oft finnum þat) minni ljósri) en ek mundi kjósa.

54. Hvernig ero nöfn *goþanna*? þau heita bavnd, sem qvað Eyvindr [4]) Daðaskáld.

Dregr land at mun banda
Eirikr und sic geira-
veðr-mildr, oc semr hildi.

Oc havpt, sem qvað þjóðólfr inn hvinverski: [5])

Tormildaðr var tívi [6]) hvat qveþu hapta snytrir [7])
tál hreinn meðal beina hjálmr aldin því valda.

Ravgn, sem Einarr qvað skálaglam:

Ramaukin qveð ec ríki
ravgn Hákunar magna.

Jólnár, sem Eyvindr qvað:

Jólna sumbl stillis lof
en vær gátum sem steina brú.

Díar sem Kórmakr qvað: [8])

Eykr með enni dúki breyti húns sá er beiþan
jarð hlutr día fjarþar bindr seið Yggr til Rindar.

55.

---

1) at skeiþa *K.* 2) er æri *U.* 3) þ*etta erindi finst einúngis i U. St. G. Eg hefi í* 1. *linu sett* miklu *fyrir* mikla *og í* 4. ljósri *fyrir* ljósir *eptir getgátu.* 4) Eyjólfr *O.* 5) *Sjá Haustlaung* 22 *gr.* 120 *bls.* 6) tyri *O.* 7) Snytur *O.* 8) *Sjá bls.* 96. 2. *gr.*

56. Þessi nöfn *himins* eru rituð, en eigi höfum vær fundit í qvæþum avll þessi heiti, en þessi skáldskapar-heiti sem avnnur þycki mèr óskylt at hafa í skáldskap, nema áðr finni hann í verka havfut-skálda þvílík heiti. Himinn: hlýrnir, heið-þornir, hregg-mímir, andlángr, ljósfari, drífandi, scatyrnir, víðfeðmir, vetmímir, leiptr hrjóðr, viðbláinn.

Sól: sunna, ravþull, ey-glóa, al-skír, sýni, fagra-hvæl, líkn-skin, Dvalins-leika, álf-ravþull, ifrravþull, mylen.

Túngl: máni, ný, nið, ártali, mulenn, fengari, glamr, skyndir, skjálgr, skramr.

57. *Jörð*, sem Þjóðólfr qvað:

Yr [1]) lætr odda-skúrar
opt herþir gjör verþa
hríngs áðr hann of-þrúngvi [2])
havrð el und sic jörþu

Fold, sem Ottarr qvað:

Fold verr fólk-baldr,
fár má konúngr svá,
örnu reifir Oleifr,
er framr Svía gramr.

Grund, sem Haraldr qvað:

Grund liggr und bavr bundin
breið hólm-fjötrs leiþar
lein landz hoddum grandar
hauðr eitr svavlun navðri [3])

Hauðr, sem Einarr qvað:

Verja hauðr með hjörvi
hart davglínga bjartir [4])
hjálmr spríngr opt firir ólmri
egg-hríþ framir seggir.

Land, sem Þórðr Kolbeinsson qvað:

Enn ept víg fram [5]) veigu
vant er orð at styr norðan
land eþa lengra stundu
lagþiz suðr til Agþa.

14

1) Þannig *O.* I lætr *K.* ör *revera idem Gunn. P. en U. sl.* Þessari *gr.*
2) Þryngvi *O.* 3) svölum nadri *O.* 4) *He'dr vildi eg* bjartra *eda* bjartr. *O. fellir út* Þetta *erindi.* 5) frá *vildi Guun. P.*

Láð, sem Ottar [1]) qvað:

Hèllztu, þar er hrafne svallta (hvatráþr ertu) láþi
ógnarstafr firir jöfrum ýgr tveimr við kyn beima.

Hlóþyn, sem qvað Völusteinn:

Man ec þat er jörð viþ [2]) orþa endr myrkdanar sendu [3])
grœnnar [4]) gravfnum munni gein Hlóðynjar beina

Fron, sem Ulfr qvað Uggason:

En stirð þinull starþi storþar legs firir borþi
fróns á fólka reyni fránleitr, oc blès eitri.

Fjörgyn:

Avrgilldis var ec elldi áls Fjörgynjar mála [5])
dyggr sè heiðr oc hreggi hryn beðs ár steðja.

58. *Vargr* heitir *dýr*, þat er rètt at kenna við blóð eþa hræ; svâ at kalla verð hannz eþa dryck, eigi er rètt at kenna svâ við fleiri dýr. Vargr heitir oc úlfr, sem Þjóðólfr qvað:

Gera var gisting [kjörinn] [6]) gnóg, en úlfr or skógi
(sonr á sár at spenja Sigurþar) kom norþan.

Hèr er hann oc geri kallaðr. Freki, sem Egill qvað [7]):

þá er odd-breki (sleit und freki)
gnúþi hrafni á havfut-stafni. [8])

Vignir, sem Einarr qvað:

Elfr varþ unda-gjálfri eitr-kavld roþin heitu
vitnis fèll með vatni varmt avlþr í men Karmtar

1) Arnorr *O. Sjá bls.* 158.
2) *U. fell. út* viþ.
3) myr Danar lenda *O.*
4) Grönnor *O.* grönn or. *vildi Gunn. P.*
5) máí *O.*
6) Þetta *ord vantar bædi í K.* og *O. enn er hèr innsett eptir getgátu Gunn. Páls.*
7) *Sjá Höfudlausn* 10.
8) talni *O.*

Ylgr, sem Arnorr qvað:

Svalg át-bogi ylgjar
ógóðr, en var blóþi
græþir grænn at rauþum
grand-auknum ná blandinn

Vargr, sem Illugi qvað:

Vargs var munr[1]) þar er margan
men-skerþir stack sverþi
myrk avrriþa markar,
minn drottinn rak flótta.

*Björn*: fet-viðnir, húnn, vetrliþi, bersi, fress, iugtanni [2]), Ifjúngr, glúmr, jól-fiðr [3]), vilskarpr, bera, jó-recr, riti, frekr, blómr, ysjúngr [4]).

*Hjörtr*: moðrauðnir, dalarr, Dalr [5]), Dvalinn, Duneyr, Dura-þrór.

Þetta er *enn vargs heiti*, sem Hallr qvað:

Heiðíngja sleit húngri,
hár-gyldir naut sára,
granar rauð gramr á fenri
gèck úlfr í fen drecka.

Oc enn sem Þórðr qvað:

Oð (en œrnu níþi
ims-sveit freka-hveiti) [6])
(gera-avlþra [7]) naut gylþir)
Gjálpar-stóð í blóði.

Þessi eru heiti *hesta* talit. Þessi eru hestaheiti í Þorgríms-þulu.

Hrafn oc Sleipnir
hestar ágætir,
Valr oc Lèttfeti,
var þar [8]) Tjaldari:
Gulltoppr oc Goti,
getit heyrþac Sóta,
Mór oc Lúngr með Mári

Vigg oc Stúfr
var með Skæfaþi,
þegn knátti Blackr bera:
Silfrtoppr oc Sinir, [9])
svâ heyrþac Fáks of-getit,
Gullfaxi oc Jór með goþum.

---

1) munnr *O. og strax* þat er *K.* 2) vigtanni O.
3) *Getr einnig lesizt* jálfidr *en O. hefir* jolfodr.
4) *O. fell. út* ysjúngr; *kannske þad sè sama sem* ifjungr.
5) Dalfdáinn O. Dáinn *Snorra edda* 16. *bls.* 19.
6) hneiti *O.* neyti *vildi* Gunn. P.
7) alldra *O.* 8) Vardar *O.* 9) Þ*annig O.* synir *K.*

Blóðughófi hèt hestr,
er [1]) bera qváþu
avflgan [2]) Atriþa:
Gils oc Falhófnir [3]),
Glær [4]) oc Skeiðbrímir,
þar var oc Gullir of-getinn [5])

þessir 'ro enn talþir í Alsvinnz-málum.

Dagr reið Dravsli,
en Dvalinn Moðni,
Há [6]) Hjálmþer,
en Haki Fáki: [7])
reið bani Belja
Blóðug-hófa;
en Skævaþi
skati Haddíngja.
Vesteinn Vali;
en Vívill Stúfi,
Meinþjófr Mói
enn morgin-vakri;
Ali Hrafni
til íss riþu,
en annarr austr
und Aðilsi
grár hvarfaþi
geiri undaðr.
Björn reið Blacki
en Biarr Kerti,
Atli Glaumi
en Aðils Slúngni;
Havgni Havlqvi [8])
en Haraldr Favlqvi [9]);
Gunnar Gota
en Grana Sigurþr.

Arvakr oc Alsviþr draga sólina, sem fyrr er ritat. Hrímfaxi eþa Fjörsvatnir [10]) draga nóttina. Skinfaxi eða Glaðr.

þessi *oxna* heiti eru í þorgrímsþulu:

Gamalla Uxna nöfn
hefi ec gerla fregit
þeirra Rauðs oc Hæfis:
rekinn oc kyrr [11]),
Himins-hriótr oc Apli [12]);
Arfr oc Arfuni.

þessi eru *orma* heiti: dreki, Fáfnir, Jormungandr, naðr, Niðhavggr, linnr, naðra, Góinn, Móinn, Grafvitnir, Grábakr, Ofnir, [Svafnir, Grímr [13])

1) oc *K.* 2) avflgar *O.* at ríþa *K.* 3) Falliafnir *K.*
4) Gler *O.* 5) Gyllis of getid *sú sama.*
6) *fellir K út.* 7) Raci *O.*
8) Havlcni *O. U.* 9) Favlcni *O. U.*
10) Fjörsvartnir *O.* 11) hyr *O.* Reginn ok hlyrr *eda* lyrr *U.*
12) Himinsrióþr oc Alfr *O.* himinrióþr ok Arfli *U.*
13) *O. telr þetta medal nautsheita,* en *U. synist at hafa hèr* Sugriner.

*Naut:* kýr, kálfr, yxin, [1]) vetrúngr, griþúngr, boli.

*Sauðr:* hrútr, bekri, ær, lamb, veðr.

*Svín:* sýr, gylta, runi, gavlltr, gríss.

59. Hver eru heiti *loptz* oc *veþranna*? lopt heitir ginnúnga-gap oc meþalheimr, foglheimr, veðrheimr [2]). Veðr heitir hregg, byrr, glygg, hret, gjósta, vindr. Svâ segir í Alsvinnz málum [3]).

Vindr heitir með mönnum,
en vavsundr [4]) með goþum,
kalla gneggjuð ginregin:
œpi kalla jötnar,
en álfar gnýfara,
heitir í helju hlavmmuðr. [5])

Veðr heitir oc gustr.

60. Tveir eru *fuglar* þeir, er eigi þarf at kenna annan veg en kalla blóð eþa hræ dryck þeirra eþa verð, þat er hrafn oc avrn, alla aþra fugla karlkenda má kenna við blóð eþa hræ, oc er þat [6]) nafn avrn eþa hrafn, sem Þjóðólfr qvað:

Blóð-orra lætr barri
bragníngr ara fagna,
Gautz berr sigð [7]) á sveita-
svans-avrð konúngr Havrþa:
geirs-oddum lætr gredder [8])
grunn hvert stika sunnar
hirð, þá er hann skal varþa
hrægams ara sævar.

Þessi eru nöfn *hrafns:* krákr, Huginn, Muninn, borginmóþi [9]), árflognir, ártali, holdboþi. Svâ qvað Einarr skálaglam:

---

1) *O. smeygir inn* kvíga, grímr.
2) Veidheimr *K.* 3) *Sjá Alvissmal* 20-21.
4) *K. hefr* vönsundr *en O.* vavnsudr *Gunn. P. hefir skrifad hjá* vausudr *sem er sama og* vösundr *eins og* höfundr og Höfuþr *o. þessh.* 5) hlumudr *O.*
6) *K. sm. inn hèr* þa, *en U. fellir út helming af þessu, alla fyrri greinina, og nidrlagid af hinni frá ordunum* Svafnir Grímr.
7) sik *U. og strax* svans verþ. 8) græddir *K.* græþir *U.*
9) *Gunn. P. vildi* Morginboþi.

Fjallvöndum gaf fylli her-stefnandi [1]) hravfnum
fullr varð (en spjör gullu) hrafn á ylgjar tafni.

Svâ qvað Einarr Skúlason:

Dólg skara kná [2]) dýrum Hugins fermu [4]) bregðr harmi
dýr magnandi [3]) stýra harmi bliksólar garmi.

Oc enn sem hann qvað:

En við hjaldr þar er havdar [5]) Muninn dreckr blóð or benjum
hugþrúðið svellr húla blásvartr) konúngs hjarta.

Sem qvað Viga-glúmr: [6])

þá er dyn-fúsar dísir (bráð fêck borginmóþi)
dreyra-mens á Eyri blóð-skjaldaþir stóþum.

Sem Skúli qvað þorsteinsson:

Mundit efst, þar er undir Hlavck í hundraðs flocki
árflogni gaf ec sárar, hyt nga mic lta.

*Avrn* heitir svâ: ari, gemlir, hreggskornir 7), eggþir, ginnarr, undskornir, gallofnir 8), sem Einarr qvað:

Sámleitum rauð sveita (fêkz arnar matr járnum)
(sleit avrn Gera beitu [9]) Járnsöxu grön faxa.

Sem Ottarr qvað:

Avrn dreckr undarn, opt rýðr úlfr kept [11])
ylgr færr at hræm [10]) sylg, ari getr verð þar.

---

1) hrestefnandi *O.* 2) dólgstala kná ek *U.*
3) magnaþi *K.* 4) firmu *O.*
5) *þannig O. U.* havlda *K.*
6) *Fyrstu helming þessarar vísu* Lattiz her med höttu *o. s. fr. sjá* bls. 95 *og* 160. *Vigaglúms sögu* 27. *kap.* 18 *erindi.* *þar stendr* svellz *fyrir* mens *og fyrir* 3 *linuna.* breid óx brögnum mæda.
7) *U. smeygir inn* Geirloþnir, Hrímnir, Ymi (ymir), andhrimnir.
8) gallopnir *O. U.* 9) *þannig O. U.* gróaþeirv *K.*
10) hræum *O.* 11) *þannig O.* keypt *K. en U. sleppir þessu erindi.*

Sem Þjóðólfr qvað: [1])

Seggjondum [2]) fló sagna
snótar-ylgr at móti
í gemlis-ham gömlum
glamma ofyr [3]) skömmu.

Oc sem hèr er:

Hreggskornis vil ec handa
háleitan mjöð vanda. [4])

Oc enn sem Skúli qvað:

Vaki ec þar er velleiz ecka [5])
víþis áþr oc síþan
greppr [6]) hlýþir þá góþ ı
gallofnis vel spjalli.

61. Hver 'ro *sævar* heiti? Hann heitir marr, Ægir, Gumir, Hlær, haf, leið, ver, salt, [sem arna lavg, grœþir 7) sem Arnórr qvað oc fyrr var ritat [8]):

Nemi drott hve sæ sótti [9])
snarlyndr konúngr jarla,
eigi þraut við ægi
óvæginn gram [10]) bægja.

Hèr er nefndr sær oc svâ ægir. Marr sem Hornklofi qvað: [11])

Þá er út á mar mætir [12])
mannskæðr lagartanna [13])
ræsi naðr oc [14]) ravsnar
rak vebrautar [15]) nökqva.

Lavgr er oc hèr nefndr. Svâ qvað Einarr:

Lavgr þvær [16]) flauz en fagrir
flóðs vaskar brim-glóþum
(þar er sær á hlið hvâra
hlymr) veðrvitar glymja.

---

1) *Sjá Haustlaung bls.* 119.
2) Segjondum *O. U.*
3) ofar *O.* glama á fyrir skavmo *U.*
4) vandla *K.* mjök vanda *U.*
5) vell eis eccja *O.* Vakrz þar er vellis ekla. *U.*
6) grefr *O.* grepp heyrir þat goþum *U.*
7) *sl. O. en U. fellir út alla þessa grein, allt ad Eldzheitum.*
8) *Sjá bls.* 171. 9) sveiti *K.* 10) fram *K.*
11) *í Glymdrápu sjá Har. harf. s. Snorra,* 9. *kap.*
12) *þannig Sn.* meita *K. O.*
13) *þannig Sn.* laþ. ranna *K.* lagar hadir *O.*
14) *þannig Sn.* til *K. O.*
15) vebratar *K.* ravcve brautar *O.* 16) er *K.*

Hèr er flóð kallat. Svâ qvad Refr, sem fyrr var ritat: [1])

Færir [2]) björn, þar er bára opt í Ægis kjapta
brestr, undinna festa úrsvöl Gýmis völva.

Haf, sem Hallvarþr qvað:

Vestr lètz þú í haf hristum [3]) umbandz allra landa
harð vígs svikul gjarþar íss framstafni vísat.

Leið, sem hèr er:

Erum á leið frá láþi austr sè èc fjavll af flausta-
liðnir [4]) Finnum-skriðnu, ferli geisla merloð.

Sem Egill qvað [5]), Ver:

Vestr fór ec of ver, mun-strandar-mar,
en ec Víðris ber svâ er mitt of-far.

Mar, sem Einarr qvað:

Kaldr þvær marr und mildum grefr elsnúinn jöfri
mart dægr viþu svarta almsorg manar þjalma.

Sallt, sem Arnorr qvað:

Sallt skar húfi hieltum [6]) báru brimlogs-rýri
hraustr þjóð konúngr austan, brún veðr at Sigtúnum.

Græþir, sem Bavlverkr qvað:

Leiðángr bjóttu af láþi gjálfr-stóþum reiztu [7]) græþi
(lavgr gèck of skip) favgru glæstum ár it næsta.

Hèr er oc gjálfr kallat særinn. Víþir, sem qvað Refr:

Barðristinn nemr brjósti nauð þolir viðr, en víþi
borð heimr drasill [8]) skorþu verpr inn of þravm stinnan.

---

1) *Sjá sæfarkenníngar 25 gr. 125 bls.*
2) færiz *K.* 3) hrystir *O.*
4) lidnum *K.*
5) *Sjá höfudl. 1 erindi.*
6) helltom *O.*
7) reztu *K.* reistu *O.* 8) drasil *vildi Gunn. P.*

Húmr, sem Brennu-njáll qvað:

Senn jósu vær, svanni!
sextán (en brim vexti)
(dreif á hafskips húfa
húm) í fjórum rúmum.

þessi eru enn sæfar-heiti, svâ at rètt er at kenna til skips eþa gullz [1]). Rán er sagt at var kona Ægis, svâ sem hèr er:

Hrauð í himin upp glóþum
hafs gèck sær af afli
skaut Ránar vegr máua
bavrð hygg ec at ský skorþi [2])

Dætr þeirra Ægis oc Ránar eru níu, oc eru nöfn þeirra fyrr ritut [3]): Himinglæfa, Dúfa, Blóðughadda, Hefríng, Uðr, Hravnn, Bylgja, Dravfn, Kólga [4]). Einarr Skúlason talþi [í þessi vísu er fyrr var ritat:

Æsir hvast at hraustum
Himinglæfa þut sævar.

sex nöfn þeirra [5]): Himinglæfa, Uðr, Dúfa, Blóðughadda, Kólga, Hefríng. Hravnn, sem Valgarðr qvað:

Lavðr var lagt í bæþi
lèc sollit haf golli
en herskipum hrannir
höfuð ógurlig þógu.

Bylgja, sem Ottarr svarti qvað:

Skárut skavfnu stýri;
skaut sylg hár bylgjur
lèc við hún á hreini
hlunnz þar er drósir spunnu.

Dravfn, sem Ormr qvað:

Hrosta drýgir hvern kost
hauk lúðrs gæi [6]) þrúðr,
en drafnar-loga-Lofn
lavstu rækir vinfavst:

---

1) skip eda gull *O. og þykir þad rèttara.*
2) skordu *O. en á ödrum stad seinna* skerdi.
3) *Sjá* 25 *gr. bls.* 124.
4) *O. sl. þessum nöfnum.*
5) *i* vísuordi VI nöfn þeirra *O.*
6) gei *O. kannske* Geir-þrúdr.

Bára, sem Þorleifr fagri qvað:

Sjár þýtr, en berr bára
bjart lavðr of við rauþan,
grans þar er gulli búnum
ginn hlunn-vísundr munni.

Lá, sem Einarr qvað:

Nè framlyndir fundu
fyrr hyckat [1]) lá kyrþu
þar er sjár á við voru
vini ora [2]) fèll stórum.

Fyllr [3]), sem Refr qvað:

Hrynja fjöll á fyllar
fram æsiz nú Glamma
skeið vetrliþi skíþa
skaut björn Gusis nauta.

Boþi, sem hèr er:

Boþi fèll á [4]) mic brálla
bauð heim með sèr geimi [5])
þá ec eigi lavð leygis.

Breki, sem Ottar qvað:

Braut (en breki þaut)
borð (óx viþar morð)
(meðr fengu veðr) [6])
mjó for ofan sjó.

Vâgr, sem Bragi qvað:

Vildið vaungum [7]) ofra
vàgs byr sendir ægi
hinn er mjótýgill máva [8])
mórar skar fyrir Þóri.

Sund, sem Einarr qvað:

Skar ec súðum sund
fyrir sunnan hrund,
mín [9]) prýddiz mund
við mildíngs fund.

Fjörðr, sem Einarr qvað:

---

1) fyr hyc ac *O.*
2) vini ura *O.*
3) Fylli *O.*
4) of *sú sama*
5) geima *O. og strax* þá ec enig laud lögis.
6) *Þetta ord hefi eg sett til eptir getgátu, þad vantar í O. en K. fellir út bádar seinustu linurnar.*
7) raungum *K. og strax* öfra *O*
8) mjótigil mada *O. og i næstu l.* mora sca fyr Þori.
9) *Bædi K. og O. hafa hér* minn.

Næst [1]) sè ec orm á jastar nemi bjóðr hve èc fer flæþar
ítr serki vel merkþan [2]) fjarð-báls of hlyn máli.

Sægr, sem Markus qvað:

Sægs mun ec síðr en eigi sólar sverri málan
(sá er illr er brag spillir) slíðr áls regin níþa.

62. Hver 'ro *eldz* heiti? Svâ sem hèr er:

Eldr brenn-at sá [3]) sjaldan, blása ravnn fir ræsi
svíðr dygr [4]) jöfurr bygþir reyk, er Magnús qveyqvir.

Logi, sem Valgarðr qvað:

Snarla skaut or [5]) soti stóþu stopþir síþan
svec of hús oc reykir stein óðr logi glóþum.

Bál, sem hèr er:

Haki var brendr á báli
þar er brim slóþir óþu.

Glæðr, sem Grani qvað:

Glæðr hygg ec Glamma slóðar
gramr eldi svâ feldu.

Eisa, sem Atli qvað:

Ox rýdsc, eisur vaxa, hús brenna, gim geisar,
allmörg, loga hallir, góð mennit fellr bloþi.

Hèr er oc gim kallat eldrinn. Eimr, sem hèr er.

Brunnu allvaldz inni, eimr skaut á her hrími
eldr hygg ec at sal feldi, hálfgjör [6]) við Níð sjálfa.

Hyr, sem Arnórr qvað:

Ómþit [7]) ráð við Rauma heit dvínuþu hveina [8]),
reiðr Eydana-meiþir, hyrr gerþi þá kyrra.

---

1) nest O. 2) merkan *sú s.*
3) svâ *U.* brennrat sá *O.* 4) dyggr *U.*
5) ör *O og strax* sveic o. h. enn röcir st. steypd, *en U. hefir af öllu erindinu einúngis* reykr stóþ en steyptiz steinóþr logi innan; *hún sl. þar hjá þeim 2 næstu vísufjörd.*
6) hjálmger *U.*
7) eymþit *U.* en *O. sl.* vid, *og hefir sidan* er Dana.
8) heina *U.* dynjodo hveina *O.*

Viti, funi, sem Einarr qvað:

Funi kyndiz fljótt,
en flýþi skjótt
Hísingar herr,
sá er hafþi verr.

Brími, sem Valgarðr qvað:

Bjartr [1]) sveimaþi brími
brutu víkíngar fikjum
vísa styrks af virki
varp [sorg á men borgar. [2])

Leygr, sem Halldórr qvað:

Er knáttuð þar þeirra
[þú vart alldrigi (scialldar-
leygr þaut of sjavt) sigri
sviptr] gjörsimum scipta.

63. Þessi eru nöfn *stundanna:* avlld forðum, alldr fyrir löngo, ár, misseri, vetr, sumar, vâr, haust, mánoðr, vika, dagr, nótt, morgin, aptan, kvelld, árla, snemma, síðla, í sinn, fyrra dag, í næst [3]), í gær, á morgon, stund, mál. Þessi eru enn heiti nóttar í Alsvinsmálum: [4])

Nótt heitir með mönnum,
en njóla í helju,
cölluð er gríma með goðum].
ósorg kalla jötnar,
álfar svefn-gaman,
dvergar draum-njórun [5]).

Frá jafn-dægri er haust til þess er sól setz í eykþar stað, þá er vetr til jafn-dægris, þá er vâr til fardaga, þá er sumar til jafndægris. Haust-mánuðr heitir inn næsti firir vetr, fyrstr í vetri heitir gor-mánuðr, þá er frer-mánuðr, þá er hrútmánuðr, þá er þorri, þá gói, þá ein-mánuðr oc sáðtíð, þá eggtið oc stecktið, þá er sólmánuðr, oc selmánuðr, þá eru hey-annir, þá er kornskurþar-mánuðr.

---

1) *Þannig O. U.* bjart *K. i næstu l.* brittu *O. en U. hefir einúngis fyrstu línuna.*
2) *Þetta allt ad merkinu] vantar í K. og er tekid ur O.*
3) i nótt *eda* nætz *U. kannske meiníngin sè* á næstunni.
4) *Sjá Alvism.* 30.
5) *U. sl. því sem eptir kemr af þessari grein.*

64. Hver eru *manna* nöfn úkend? Maðr er hverr firir sèr, it fyrsta oc it ætza heiti mannz er kallaðr [1]) keisari, því næst konúngr, þar næst jarl; þessir þrír menn eigu saman þessi heiti öll. Allvaldr, svâ sem hèr er qveþit:

Allvalda kann ec alla
austr oc suðr of [2]) flausta
Sveins er sonr at reyna
setr hverjum gram betri.

Hèr er oc gramr kallaðr; því heitir hann allvaldr at hann er einvaldi allz ríkis síns. Fylkir, sem Gizurr qvað:

Fylkir gleðr í fólki
flack [3]) oc svan Hlackar,
Olafr of-viðr elum
Ygs gavgl fegin Skavglar.

Firir því er fylkir kallaðr konúngr, at hann skipar í fylkíngar herliþi sínu. Vísi, sem qvað Ottarr svarti:

Vísi rekr vígfrek [4])
víst austr mun laust
aldar hefir allvaldr
ósc víf gott líf.

Harri eþa herra, sem qvað Arnórr:

Harri fèck í hverri
Hjaltlandz þrumu [5]) branda
(greppr vill grams dýrð yppa)
gagn sá er hæstr [6]) er bragna.

Hertogi heitir jarl, oc er konúngr svâ kallaðr oc, firir því er hann leiðir her til orostu. Svâ qvað Þjóðólfr:

Oc hertoga-hneykir
herfengnum lèt stínga
(leyfð ber ec hannz) or havfþi
haugs skyndaþi augu.

---

1) *Þannig eg fyrir* kallat maðr *K.* callmadr *O.*
2) á *O. og í 4. l.* sötr.
3) Flac *O.*
4) *Þannig O. en K. synist at hafa* tekr víg freys.
5) þrymu *O.* 6) næstr *K.*

Sinnjor eþa senjor, sem Sighvatr qvað:

Lát auman nú njóta
Noregs oc gef [1]) stórum
málhalt ec sva [2]) sem sælan
sinnjor laga þinna.

Mildíngr, sem Markús qvað:

Mildíngr fór of óþjóð eldi,
auþit varð þá flotnum dauþa,
hæstan kyndut, hlenna-þrýstir!
hyrjar-ljóma suðr at Jómi.

Mæríngr, sem Hallvarðr qvað:

Erat und jarþar havslu [3])
orðbrjótr dönum forþar
moldreks múnka [4]) valdi
mæríngr en þú nærri.

Landreki, sem Þjóðólfr qvað: [5])

Eys landreki ljósu
lastvarr Kraka-barri.

sem fyrr var ritat; því heitir hann svâ at hann rekr her um land annarra konúnga, eþa rekr her or sínu landi.

Konúngr [6]) er nefndr *Hálfdanr gamli*, er allra konúnga var ágætaztr; hann gjörði blót mikit at miðjum vetri, oc blótaði til þess at hann skyldi lifa í konúngdómi sínum 300 vetra. Enn hann fècc þau andsvör at hann mundi lifa ecki meirr enn einn micinn mannz-alldr, enn [þeir mundi þó 300 vetra, er [7]) engi mundi vera í ætt hans cona eða ótiginn maðr. Hann var hermaðr mikill, oc fór víða um austrvegu; þar drap hann í einvígi þann conúng, er Sigtryggr hèt. Þá fèck hann þeirrar cono, er cölloð er Alvig en spaca, dóttir Emundar conúngs

1) gæt *Gunnar Pálsson.*
2) mál á ek (ák) hallt (hætt, satt) *Gunn. P.*
3) Ec sat u. j. haustlo *O.*
4) munda *O.*
5) *Sjá bls.* 154.
6) *þetta vantar i K. og er hèr innfært eptir O. allt ad merkinu*].
7) *sl. U.*

or Hólmgarði] þau áttu sonu átján, oc voru níu senn bornir, þeir hètu svâ: einn var þengill, er kallaðr var manna-þengill, annar Ræsir, þriði Gramr, fjórði Gylfi, fimti Hilmir, setti Jöfurr, sjöundi Tiggi, áttundi Skyli eða Skúli, níundi Harri eþa Herra. þessir níu bræðr urþu svâ ágætir í hernaþi, at í öllum fræþum síþan eru nöfn þeirra halldin firir tignarnöfn, svâ sem konúngs nafn eþa nafn jarls; þeir áttu engi börn, oc fèllu allir í orostum. Svâ sagþi Ottarr svarti: [1])

þengill var þegar úngr
þreks-gjörr víg-avrr;
haldaz bið ec hannz aldr,
hann tel ec yfir-mann.

Svâ qvað Markús:

Ræsir lèt af roðnum hausi
Rínar-sól á mar-fjöll skína. [2])

Svâ qvað Egill:

Gramr hefir gerþi havmrum
grundar upp of-hrundit. [3])

Svâ qvað Eyvindr: [4])

Lèc við ljóð-mögu,
skyldi land verja
Gylfi enn glaðværi,
stóð und gullhjálmi.

Svâ qvað Glúmr:

Hilmir rauð und hjálmi
heina laut á Gautum [5])

Svâ qvað Ottarr svarti:

Jöfurr heyri upphaf
(ofraz mun konúngs lof)
háttu nemi hann rètt
hróðrs [6]) míns, bragar síns.

---

1) Arnor *U.* 2) rína sól á marfjöl hreina *O.*
3) um-hrundit *U. en O. fellir út þessar línúr.*
4) *Sjá Hákonarmál.* 4. *erindi.* 5) *þannig O. U.* ágætum *K. Sjá bls.* 170, 6) *þannig U.* hródr *K. O.*

Sem Stúfr qvað:

Tír-eggjaðr hjó tiggi
tveim höndum lið beima;
reifr [1]) gèck herr und hlífar
hizig suðr firir Nizi.

Svâ qvað Hallfreyðr:

Skiliðr em ec við Skylja,
Skálm-avld hefir því valdit,
vætti [2]) ec virþa drottins,
víl [3]) er mest, oc dul flestum.

Svâ qvað Markús:

Harra qveð ec at hróðr-gjörð dýrri
hauk-lundaþan Dana-grundar.

Enn áttu þau Hálfdan aðra níu sonu, er svâ heita: Hilldir, er hilldingar eru frá-komnir; annarr Nefir, er niflúngar eru frá-komnir; þriþi Auþi, er avþlíngar eru frá-komnir; fjórði Yngvi, er ýnglíngar eru frákomnir; fimti Dagr, er davglíngar eru frá-komnir; sètti Bragi, er bragníngar eru frákomnir, þat er ætt Hálfdanar ens milda; sjöundi Buðli, af buðlúnga ætt kom Atli oc Brynhildr; áttundi er Lofþi, hann var herkonúngr mikill, honum fulgþi þat lið, er lofþar voru kallaþir, hannz ættmenn voru kallaþir lofþúngar, þaðan er kominn Eylimi móþurfaðir Sigurþar Fâfnisbana; níundi Sigarr, þaþan eru komnir siklíngar, þat er ætt Sigeirs [4]), er var mágr völsúnga, oc ætt Sigars, er hengþi Hagbarð. Af hildínga ætt var kominn Haralldr inn granrauþi móþurfaþir Hálfdanar svarta, Af niflúnga ætt var Gjúki, af avðlínga ætt var Kjárr, af ylfinga ætt var Eirikr inn málspaki.

Þessar

1) reif *K.* 2) veitti *O.* 3) villa *U.*
4) Siggeirs *O*

þessar eru oc konúnga ættir ágætar: frá Yngvari [er ýnglíngar eru frá-komnir [1]), frá Skildi í Danmörk [er skjöldúngar eru frá-komnir [2]), frá Völssúngi á Fraklandi, þeir heita völsúngar. Skelfir hèt einn herkonúngr, oc er hannz ætt kavllut skilvínga ætt, sú kynslóð er í austrvegum. þessar ættir er nú eru nefndar hafa menn sett svâ í skáldskap, at halda öll þessi firir tignar navfn. Svâ sem Einarr qvað:

Frá ec við hólm at heyja
hildíngar fram-gíngu
lind varð grön in grana [3])
geir-þíng í tvav springa.

Sem Grani qvað:

Davglíngr fèck at drecka
danskt blóð ara-jóþi.

Sem Gamli qvað gnævaþar-skáld:

Avðlíngr drap sèr úngum
úngr naglfara á [4]) túngu
innan borðz oc orþa
afl gjóðr meþalkafla.

Sem Jórunn qvað:

Bragníngr rèð í blóþi
(beið her konúngs reiþi)
(hús lutu opt firir eisum)
óþjóþar slog [5]) rjóþa.

Svâ qvað Einarr:

Beit buðlúngs hjörr,
blóð fèll á davrr,
raufsc Hildar-ský
við Hvíta-bý.

Svâ qvað Arnórr.

Siklínga venr sneckjur [6])
sjá lútar konr úti,
hann litar herskip innan
(hrafns góð er þat) blóþi.



1) eru ynglíngar *O. U.*
2) ero skjöldúngar *O. U.* 3) grœn in grana *O.* græn en gróna *U.*
4) *K. sl.* á; *en í 4 l.* aflgjörd *O.* aflgerd *U.* medalkafli *O.*
5) slavg *U.*
6) sneckjostyrir *og þarnæst* lútar gramr konr úti *U.*

Sem Þjóðólfr qvað:

Svâ lauk siklíngs æfi [1]) (lofþúngr beið enn leyfþi
snjallz at vær 'rom [2]) allir lífs-grand) í stað vândum.

Lofþa konúngi fylgþi þat lið er lofþar heita. Sem Arnór qvað:

Skjöldúngr mun þèr annarr aldri
æþri gramr und sólu fæþaz.

Völsúngr, sem qvað Þorkell hamarskáld.

Mèr rèð senda völsúnga-niðr
of svalan ægi vâpn gullbúit [3])

Ynglíngr, sem qvað Ottar svarti: [4])

Engi varð á jörþu [5]) austr sá er eyjom vestan
ógn-bráþr, áðr þèr náþi, ynglíngr und sic [6]) þrýngvi.

Yngvi þat er oc konúngsheiti, sem Markus qvað:

Eiriks lof verþr avld at heyra; ýngvi hèllt við orðztír [7]) lángan
engi maðr veit fremra þengil; jöfra sess í veröld þessi.

Skilfíngr, sem Valgarðr qvað:

Skilfíngr hèlztu (þar er skulfu [auð [8]) varþ] suðr [um síþir
skeiðr) firir lavnd hin breiðu Sikiley] liþi miklu.

Sinnjor, sem Sighvatr qvað:

Lát auman nú njóta
Noregs oc gef stórum [9]).

65. Skáld heita greppar, oc rètt er í skáldskap at kenna svâ hvern *mann* er vill. Reckar voru kallaþir þeir.

---

1) þannig *O.* ægi *K.* 2) þannig *O.* værum *K. en U. fellir úr báðar seinni línurnar o. s. fr. allt að ordinu* Skjöldúngr.
3) þannig *O. U.* gullbúinn *K.* 4) Arnorr *U.*
5) í ordo *O.* 6) vid þic *K.*
7) orrustur *O.*
8) þannig *O.* audt *K.* auþi *U.*
9) *Sjá* 190. *bls. O. bætir vid hèr:* mál helt sem sælan Sinnjor laga þinna; *en U. sleppir því öllu.*

menn, er fylgðu Hálfi konúngi, oc af þeirra nafni eru reckar kallaþir hermenn, oc er rètt at kenna svâ alla menn. Lofþar heita oc menn í skáldskap, sem fyrr er ritat. Skatnar voru þeir menn kallaþir, er fylgðu þeim konúngi, er Skati mildi var kallaðr, af hannz nafni er skati kallaðr hverr er mildr er. Bragnar [1]) heita þeir, er fylgðu Braga konúngi enum gamla. Virþar heita þeir menn, er meta mál manna. Fyrþar oc fírar oc verar heita landvarnar menn. Víkingar oc flotnar þat er skipa-herr. Beimar svâ hètu þeir, er fylgðu Beimuna [2]) konúngi. Gumnar eþa gumar heita flokstjórar [3]), svâ sem gumi er kallat í brúðfavr. Gotnar eru kallaþir af heiti konúngs þess, er Goti er nefndr, er Gotland er viðkennt, hann var kallaðr af nafni Oþins, oc dregit af Gautz nafni; því at Gautland eþa [4]) Gotland var kallat af nafni Oþins, [en Svíþjóð af nafni Sviþurs, þat er oc heiti Oþins [5]). I þann tíma var kallat allt meginland þat er hann átti Reiðgotaland, en eyjar allar Eygotaland: þat er nú kallat Danaveldi oc Svíaveldi [6]). Drengir heita úngir menn búlausir, meþan þeir afla sèr fjár, eþa orðztír; þeir fardrengir, er milli landa fara; þeir

1) *Hèr tekr til Eddubrot, sem er innfest aptarliga í O; og sem eg ætla ad kalla Ob.*
2) Beima *U. Ob.*
3) fólkstjórar *O. U. Ob.*
4) oc *O.* 5) *fell. O. út.*
6) *U. Ob. sleppa þessu enda frá* Gautz nafni.]

konúngs drengir, er havfþíngjum þjóna; þeir oc drengir, er þjóna ríkum mönnum eþa bœndum; [drengir heita vaskir menn oc batnandi [1]). Seggir eru kallaþir oc kníar oc liðar, þat eru fylgðarmenn; þegnar oc havldar svâ eru búendr kallaðir; ljónar heita þeir menn er gánga um sættir manna. [þeir menn er svâ eru kallaþir: kappar, kenpur [2]), garpar, snillíngar, hreystimenn, harðmenni, avarmenni, hetjur; þessi heiti standa hèr í mót at kalla mann blauþan, veykan, þjarfan [3]), þirfing, blotamann, skauð, skreiu [4]), skjaðr [5]), vak, vám [6]): leyra [7]), sleyma, teyþa [8]), dugga, dasi, dirockr [9]), dusilmenni, avlmusa, auvirð, vilmavgr. Avrr maðr heitir mildíngr, mæríngr, skati, þjóðskati, gullskati, mannbaldr, sælíngr, sælkeri, auðkyfíngr, ríkmenni, havfþíngi; hèr í mót er svâ kallat: hnavggvíngr, glöggvíngr, mælíngr, vesalíngr, fèniþíngr, gjavflati [10]). Heitir spekingr ráðvaldr [11]). Heitir oc óvitr máðr: fífl, afglapi, gassi, ginníngr, gaurr, glópr, snápr, fóli, œrr, óðr, galinn. Snyrtimaðr: ofláti, drengr, glæsimaðr, stertimaðr, [12])

---

1) þeir heita vaskir menn er batnandi eru *U. Ob. og strax*: Seggir heita ok kníar, liþar eru f. *o. s. fr.*

2) Kappar heita ok kempur *U. Ob.*

3) *sl. O. U. Ob.* 4) skræfo *O. U. Ob.*

5) scriad *O. en Ob. U. sl. þvi.*

6) vakvamm *eda* vakvamenn *U.*

7) lora *O.* ɔ: löra; *en U. hefir* Leoska;

8) teuda *O. en U. sl. þessu og því næsta.*

9) diröckr *O.* drockr *U. hun sl. þar hjá þeim 3. seinustu, Ob. hefir eptir* vam *þetta*: lók, leymu, dása, drók, dusilmenni.

10) hvinn, svinn *og* smælíngr *bætir Ob. vid.*

11) Rádvandr *O.* 12) snertimadr *O.*

prýþimaðr. Heitir hraumi: [skrapr, skrokkr, skeiðklofi [1]), flángi, slinni, fjösnir, [slápr, dravttr [2]) [Lýðr heitir landfólk eþa ljóðr. Heitir oc þræll: kefsir, þjónn, avnnúngr, þírr [3]).

66. Maðr heitir einn-hverr, tá ef tveir 'ro, þorp ef þrír 'ro, fjórir 'ro favruneyti, flockr eru fimm menn, sveit ef sex ero, sjav fylla savgn, átta bera ámælis-skor [4]), nautar eru níu, dunn [5]) ef tíu eru, ærir 'ro ellifu, toglöð er ef tólf fara, þyss eru þrettán, ferð er fjórtán, fundr er þá er fimtán hittaz, seta eru sextán, sókn eru 17 *), ærnir þickja úvinir þeim er átján mætir, neyti hefir sá er nítján fylgja [6]),

---

1) skapr, skockr. scridclopi *O.* skraumi, skrapr, slókr, skrockr, skeidklofi *Ob.*

2) *sl. U. en Ob. setr í stadin,* trudr, lókr, kyrkpíngr. Svâ heita höldar (*Sjá Rígsmál* 21.):

Halr, drengr,
havlldr, þegn, smidr,
breidr-bóndi,
bundin-skeggi,
búi ok boddi,
brattskeggr.

Kaudi, fnaudi, fóli, fifli, flángi, gassi, gokr, gromr, gogr (*les:* goggr) gaur, hriki, glópr, gapi, glonn, glanni, sláni, slappi, strundi, smortr, stortr, hrókr, hrotti, þumr (*kannske* þrumr), þrjótr, þrapr, tutr, tángi, motti, vámr, dárbekill, gádi, ginnúngr, gapþrosnir, gunnúngr. þrælaheiti standa í Rigsþulu (12, 13). Lini, stafklâfr, önnúngr, lydda.

3) *sl. O. Ob. en U:* Lióþer heitir þræll, kepser, þræll, þjónn avnnúngr, þirr. Lydr heitir landz fólk.

4) scavr *O.* 8 fylla á mælis skör *U.*

5) tugr *U.* tigr *Ob.*

*) sjautján *O.*

6) þannig *Ob.* menn *O. K.* neyti eru nítján *U.*

drótt eru tuttugu menn, þjóð [1]) eru þrjátigi, fólk eru fjörutigir, fylki eru fimmtigir, samnaðr [2]) eru sextiu, savrvar [3]) eru 7 tigir, avlld eru 8 tigir, herr er hundrat [4]).

---

1) þegnar *Ob.*
2) *þannig O. Ob. U.* samnrof *K.*
3) svarfadr *U.*
4) Lydr heitir landzfólk *bætir Ob. vid hèr. I minni O. hefir einhverr bætt vid seinna:* nægd er níutigir. *Eingin af hèrverandi Eddubókum gerir hèr neina stóra adgreining; getr og sked ad rèttast væri ad skipta Skáldsk. m. einnúngis i kend og ókend heiti, og telja öll Fornöfnin til seinni flocksins. Höfundrinn þykir ecki hafa haft mjög skirar hugmindir um þessar heita-tegundir, en eg hefi haldid mèr til 1. gr. Skáldu.*

## 3. *FORNÖFN.*

67. Enn eru þau heiti, er menn láta gánga *firir nöfn manna*, þat kavllum vær viðkenníngar eþa sannkenníngar [1]) eþa fornöfn.

Þat eru *viðkenníngar* at nefna annan lut rèttu nafni, oc kalla þann er hann vill nefna eiganda [2]), eþa svâ at kalla hann þess er hann nefndi favþur eþa afa [3]), ái er hinn þriði. Heitir oc sonr oc arfi, arfuni [4]), barn, jóð oc mavgr, erfíngi. Heitir oc bróþir, blóþi, barmi, hlýri, lifri. Heitir oc niðr, nepi [5]), áttúngr, konr, kundr, frændi, kynstafr, niðjúngr, ættstuþill, ættbarmr, kynqvísl, ættbogi, afqvæmi, afspríngr, [havfuð-baðmr, ofskavpt [6]). Heita oc mágar, sifjúngar, hleta-menn [7]). Heitir oc vinr oc ráðunautr, ráðgjafi, máli, rúni, spjalli, alda-þópti, einkili, sessi, sessunavtr; þópti er hálfrýmis-fèlagi.

---

1) *sl. Ob.*

2) eða veitanda eða sækjanda þeirra luta, svâ ok at kenna við ætt sína ok kalla hann o. *s. fr. Ob.*

3) *Ob. bætir inn:* son eða bróður, svâ qvað Þjóðólfr:
Vastu Olafs austan
efldr á vatnit skelfda

4) arfþegi, sefi, hefnir, burr *bætir Ob. inn.*

5) nefi *O.* hnefi *Ob.* *þar er annars bródurs og nidja-heitum samansleingt.* 6) *sl. Ob. U.*

7) hlöta menn *O.* leytamenn, spjalli o. *s. fr. U. hèr er nefnl. vina-og mága-heitum sleingt saman, eins og i Ob. er kemst ad ordum þannig:* svilar, hleytar,

Heitir oc úvinr 1) dólgr, andskoti, fjandi, sekvi 2), skaþa-maðr, banamaðr, þröngvir, savkqvir, ósviðr, ruðr 3). þessi heiti köllum vèr viðkenníngar, oc svâ þótt maðr sè kendr við bæ sinn eþa skip sitt, þat er nafn á, eþa eign sína, þá er einkarnafn er gefit.

þetta köllum vèr *sannkenníngar*: at kalla mann spekimann, ætlonarmann, orðspeking, raðsnilling, auðmilding, úslækinn, gæimann 4), glæsimann, [þetta eru fornöfn 5).

---

spjallandi, þópti, kompán, fèlagi, fóstri, vinr, vandamaðr, frændi.

1) *þannig O.* úvitr *K. en U. sl. þvi.*

2) söckvi *O. U. Ob.*

3) ósvifruðr *O.* ósvipuðr *U.* ósvifrúngr, bági *Ob.*

4) geima *O.* gei manna *U.*

5) *sl. O. En Ob höndlar hèrum miklu greiniligar med þessum ordum:* þetta köllum vèr sannkenníngar at kalla at maðr sè hraustr, barðr, hagr, horskr, kjænn, kuðr, rikr, röskr, reiðr, rammr, ráðugr, snjallr, snarpr snotr, sterkr, stórvitr, vaskr, vænn, varr, völldugr, blíðr, bjartr. þetta köllum vèr tvíriðit. Hèr fylgir stuðníng sannkenníngu, ef maðr er kallaðr alröskr, ofrhugaðr, fullhvatr, vegsæll, ok á marga vega er sannkenníngum breytt, ok heyja þær mest orðafjölða í skáldskapnum ok fegra mest skáldskapinn.

*Hèreptir fylgir, i Ob. stycki um mannskenníngar, sem kemr mikid saman vid* 31. *gr.* 127. *bls. og* 47. *gr.* 156. *bls. o. flg. en er þó svo merkiligt at vert þykir ad innfæra þad hèr heilt.*

*Mann* skal kenna við verk sín öll, þau er hann þiggr eða veitir eða gjörir; hann má kenna til eignar sinnar, þeirrar er hann á eðr gaf; þá skal svà kenna við þessa luti, kalla hann vinnanda eða fremjanda. Mann má kalla viðarheitum öllum karlkendum, þat má svà kenna við þessa luti, kalla hann vinnanda eðr fremjanda;

68. Þessi eru *kvenna heiti* ókend í skáldskap: víf oc brúðr oc fljóð heita þær konur, [er manni

---

því at hann vinnr þat er hann gjörir ok reynir. Trè er ok viðr ok reynir kallaðr, er höggr, stofn eða stafr, fjorr eða borr, draugr, ok kenðr til eignar eða verka. Svâ qvað: Þórð. S. s.

Hlackar stofns at hefna
herdenðr í því (*dyn?*) sverða

Svâ qvað Asgrímr Jónsson:

Láðs rupla fè fríðu
fornbauga her-draugar
sverða sæki Njörðu
sèr veslari heslis.

Kallaðir eru menn morðúngar eða nárúngar, miðjúngar eða strengjandi víga eða verka, svâ qvað Sighvatr:

Undr láta þat ýtar
æigi smátt, er mátti-ð
skæ-morðúngum skorðu
skýlauss röðull hylja.

Hvern karlmann má kalla feiti eða fæði hræfugla eða varga, (ok) svâ ilrjóð eða gómrjóð. Svâ qvað Arnórr:

Austan komtu með allra mestan
Yggjar márs í þrænskar (*bygðir?*)
fiðri rjóðr en fjandmenn yðra
fálma qváðu ægis hjálma

Svâ qvað Rögnvaldr:

Hvat mân ek yðr eða öðrum
úlf-brynnendum kynna
(heiðz lofa èk hjálm blíðan
há-rannz) nema guð sannan?

Maðr er kendr flæygir ok ferger, heiter ok hreyter, mýger ok meiðer, sæker ok særer, sökkver ok slöngver, væler ok veiter, æger ok ótti. Svâ qvað Arnórr.

Otti kunni-t elgjum hætta
æði veðrs um skelfðan græði
fengins gullz eða fæðit ella
fremztan alldr und drifnu tjalldi.

Þessum heitum skal kenna mann til gullz eða vâpna. Svâ qvað Olafr Leggsson:

Gjarn em ek máls um mavrnar
mæríng þann er blik særir.

Svâ qvað Snorri Sturluson (*i Háttalykli*).

eru gefnar, sprund oc svanne heita þær konur 1) er mjöc fara með dramb oc skart, snótir heita þær er orðnæfrar eru, drósir heita þær er kyrrlátar eru, svarri oc svarkr þær eru mikillátar, ristill er kavllut sú kona er sköruglynd er, rýgr heitir sú kona er rík-uzt er, feima er sú kavllut er úfravm er, svâ sem úngar meyjar eþa þær konur er údjarfar eru, sæta heitir sú kona er búandi hennar er af landi farinn, hæll er sú kona kavllut er búandi hennar er veginn, ekkja heitir sú er búandi hennar varð sóttdauðr. Mær heitir fyrst hver, en kerlingar er gamlar eru. Eru enn þau qvenna heiti er til lastmælis eru, oc má þau finna í qvæþum, þót þat sè eigi ritat. Þær konur heita eljur er einn mann eigu, [snor heitir sonarqvon, sværa 2) heitir vers móþir. Heitir oc móþir, avnnur 3) amma, þriðja edda; eiþa heitir móþir. Heitir oc dóttir oc barn jóð. Heitir oc systir, dís, jóð-dís 4). Kona er oc köllut beðja, mála, rún búanda síns, oc er þat viðrkenníng.

69. *Havfut* heitir á manni, þat skal svâ kenna at

---

Hann á höpp at synni
hann vellir blik spamar.

Kenna skal man heitum Oðins öllum ok allra Asaheitum, vel þikkir kent til álfa, kent er ok til jötna eða dverga. Svâ qvað Gestr:

Gestr hefver Geitis.

*Hèr er úti eitt blad af brotinu og vantar nú annat.*

1) *sl. U.* 2) vera *O. en U. sl,* þvi:

3) *þannig eg.* Modir heitir, oc *O. en K. U. sl.* þvi.

4) *O. sl.* jóðdís, *en U. þvi öllu frá merkinu*[.

kalla erfiði háls eþa byrþi [1]), land hjálms [2]) oc hattar oc heila, hárs oc brúna, svarþar [3]), eyrna, augna, munnz, Heimdalar sverð, oc er rètt at nefna hvert sverþz-heiti er vill, oc kenna við eithvert nafn Heimdalar [4]). Havfut heitir ókent: haus, hjarni, kjannr, kollr. *Augu* heita sjón oc lit eþa viðrlit, avrmjot [5]); þau má svâ kenna at kalla sól eþa túngl, [skjöldu oc gler eþa gimsteina eþa stein brá eþa brúna, hvarma eþa ennis [6]). *Eyru* heita hlustir oc

---

1) manz byrþr *eda* byrþe *U.*

2) hjálmar *O.*

3) *Hèr tekr Ob. til aptr. og hefir:* heyrnar a. m. ok alls þess er á höfði er.

4) Heimdallar *O. U. einlægt, en Ob. hefir* Heimdallar *á fyrri og* Heimdallz *á seinni stadnum. Hún bætir þarnæst þessu inn:* Svâ qvað Bjarni A. s.

Varð þat er fylkis færðu
fárverk brá merki
(gjör var heipt) or hjörvi
Heimdallz viðir seima.

Hèr er sagt at augu eru köllut merki brúna. Höfut er kent himinn eða hús, höll eða snekkja heila oc allz þess er í höfði býr. Svâ qvað Bjarni:

Svâ at ydróttum áttu
els rekninga þelar
rams af reikar-himni
rauð svörf ofan gnauða.

Svâ qvað Skáld-þórer.

Dyr gleifar kom dúfa
dags ok krisma lagði
megin skjölldúngi milldum
mæt í hattar-stræti.

Svâ qvað Snorri Sturluson: (*í Háttalykli* 2.)

Hollt felr hilldi-gellti
heila-bæs ok deiler
gullz í gemlis-stalli
gunnseið skörúngr reiðer

5) *sl. Ob. U.*

6) *Ob. hefir hèr:* skript eða skjölld, ljós eða lopt, gler

heyrn; þau skal svâ kenna at kalla land eþa jarþarheitum nokqvorum eþa munn eþa rás eþa sjón eþa augu heyrnarinnar, ef nýgjörvíngar eru. *Munn* skal svâ kenna at kalla land eþa hús túngu eþa tanna, orþa eþa góma, varra eþa þvílikt, oc ef nýgjörvíngar eru, þá kalla menn munninn skip, en varrarnar borþit, túngu ræþit eþa stýrit. Tennur eru stundum kallat grjót eþa sker orþa, munnz eþa túngu. Túnga er opt kavllut sverþ máls eþa munnz.

---

eða gimsteina, stein eða stjörnur, gull eða geisla ok alla birti, ok kenna til brá eða brúna, hvarma ok ennis. Svâ qvað Einarr Skúlason:

Ok fyrst þeir er lög lestu
leyfðar hröf or höfði
hætt mál var þat heila
himintúngl fírar stúngu.

Hèr er hauss kallaðr himinn, enn augu túngl þess himins. Svâ segir í Morginsól:

Hefða èk opt (enn æfi
á ek fljóðz lofa góða)
enni leiptr af unnar
elld-spöng degi löngum.

Svâ qvað Egill:

Við því tók
enn tíru fylgðu
sökk samleit
síðra brúna.

Svâ qvað Ulfr Uggason:

Inn-máni skein ennis
öndóz vinar banda,
áss skaut ægi geislum
orðsæll á men storðar.

Brár má kalla hrís eða gras hvarma eða augna. Svâ qvað Olafr Leggsson:

Haug let (*leit?*) hvarma skógar
hlaðnorn við mèr stjörnum.

*Grát* eða tár má kalla hagl eða èl, regn eða dropa, skúrir eða forsar augna eða kinna, hlýra eða brá eða hvarma. Svâ segir í Máríu flokki:

*Skegg* heitir barð, grön eða kanpar [1]), er stendr á vavrrum. *Hár* heitir lá [2]), haddr þat er konur hafa, skopt heitir hár; hár er svâ kent at kalla [3]) skóg eþa viþar-heiti nokqvoro, kenna til hauss eþa hjarna eþa höfuðs; eþa skegg, kenna við havku eþa kinnur eþa kverkr.

70. *Hjarta* heitir negg, þat skal svâ kenna, kalla

---

Knáttu mörg á mergjar
mjöðkarms furu hvarma
hirðsamnaðar himna
hrynregn sali dynja:
busti biggja rista
barm skúr ofan hvarma
fljóðs á frægja meiða
fjölglygs himin tyggja.
Vann sú er kjænst er kvenna
kvöl bannaðar manna
eljun undir stóla
iltún þvegit brúna.

*þarámoti fellir Ob. út eyra, munns, og skeggs-heiti.*

1) campr *O.* kanpr *U.* 2) lauf *U.*

3) *Ob. kemst hèr svo at ordi:* at kalla skóg eða akr, eða gras eða viðarheiti nokkuru, ok kent til höfuðs eða hvirfils, hlýrs eða vánga, hnakka eða reikar, svarðar eða ennis. Svâ qvað Snorri Sturulson:

Kom ek inn þar er sat svanni
svanna enstr *(vænstr?)* í ranni
Gerðr leysti sú svarðar
svarðakr raðar garði.

Svâ qvað bróðir Arni:

Skafa sveinar klif krúnu
kveðr eik meðan reikar
bjúgr þvrnir hnýgr hjarna
haf-skíða stafr ríða:
þola hlusta köl kvistir
kná skalla rá falla
ölr kríngiz vel vánga
venr skarði grön skarða.

Kalla má ok snjó eða mjöll hauss eða svarðar. Svâ qvað Einarr:

Hrynja lèt hin hvíta
haus-mjöll ofan lausa,
strind avrriða strandar
stallz af *(haddar-fjalli.)*

*Hèr er úti þetta eddubrot, en á því plázi sem eptir er á blaðinu stendr jánýtt qvæði um Maríu með seinni hendi, sem á hèr ecki við.*

korn eþa stein eþa epli eþa hnot [1]) eþa mýl eþa líkt, ok kenna við brjóst eþa hug; kalla má oc hús eþa jörð eþa berg hugarins. *Brjóst* skal svâ kenna at kalla hús eþa garð eþa skip hjarta, anda eþa lifrar, eljunar land, hugar oc minnis [2]). *Hugr* heitir sefi oc sjafni [3]), ást, elskugi, vili, munr; huginn skal svâ kenna at kalla vind tröllqvenna, oc rètt at nefna hverja [4]) er vill, oc svâ at nefna jötnana, oc kenna þá til konu eþa móþur eþa dóttur þess, [þessi nöfn eru sèr [5]). Hugr heitir oc geð, þocki, eljun, þrekr nenning, minni, vit, skap, lund, trygð [6]). Heitir oc hugr: réþi [7]), fjand-skapr, fár, grimð, bavl, harmr, tregi, óskap, grellzskap [8]), lausúng, útrygð, geðleysi, þunngeþi, gesni [9]), hraðgeþi, óþveri.

71. *Hönd* má kalla mund, arm, lam, hramm, á hendi heitir alm-bogi, armleggr, úlfliðr, liðr, fingr, greip, hreifi, nagl, gómr, jaþarr, qvikva [10]). Hönd má kalla jörð vâpna eþa hlífa, við axlar oc ermar [11]), lófa oc hreifa, gullhrínga jörð oc vals oc hauks oc allra hannz heita, oc í nýgjörvíngum fót axlar, bognauð [12]). *Fætr* má kalla trè ilja, rista,

1) hnöt *O.* 2) hemmar land hugar ok munz *U.*
3) *þannig O.* sjálfs *K. en U. sl. því.*
4) *þannig U. en K. og O. sleppa því.*
5) *sl. O. U.* 6) skaplyndi trygð, huga *U.*
7) reiþi *hinar.* 8) grellskap *O.* grezlskapr *U.*
9) geðsni *O.* gessin *U.* og *strax* óðverc *O.*
10) vavðvi, aflvöðvi, æðar, sinar, cöglar, knúi *bæta O. U. inn.*
11) axla oc erma *U.* 12) baugnauð *U.*

leista eþa þvílikt, [renniflein brautar eþa göngu, fetz [1]); má kalla fótinn trè eþa stoð þessa. Við skíð oc scúa oc brækur eru fætr kendir; á fæti heitir lær, knè, kálfi, bein, leggr, rist, jarki, il, tá; við þetta allt má fótinn kenna, oc kalla hann trè, oc kalla hann siglu oc rá [2]), oc kenna við þessa luti.

72. *Mál* heitir oc orð oc orðtak, snilli, tala [3]) saga, senna, þræta, saungr, galdr, qveþandi, skjal, biva, hjalld, hjal, skval, glaumr, þjarka [4]), gyss, þrapt, skalp, hól, skraf, dælska, ljóðæska, hègómi, afgelja. Heitir oc *ravdd* hljómr, rómr, ómun, þytr, gavll, gnýr, glymr, þrymr, rymr, brak, svipr, svipun, gángr. [Svâ skal orostu kenna við sverð eþa avnnur vâpn eþa hlífar [5]).

73. *Vit* heitir speki, ráð, skilníng, minni, ætlun, hyggjandi; tavlvísi, lángsæi, bragvísi, orðspeki, skavrúngskapr. Heitir underhyggja, vælræði, fláræþi, brigð, reiþi.

74. *Læti* er tvent: læti heitir rödd, læti heitir æþi, oc œþi er oc úlund. *Reiþi* er oc tvíkent: reiþi heitir þat er maþr er í illum hug, reiþi heitir oc fargervi skips eþa hross. *Far* er oc tvíkent: fár er reiþi, far er skip. Þvílík orðtök hafa menn mjöc til þess at yrkja fólgit [6]), oc er þat kallat mjöc of-

---

1) *sl. U.* 2) *þannig O.* oc kallat er sigla oc rá fótrinn *K. en U. sleppir því.*

3) *þannig U. en O. og K. hafa* snillitala *í einu lagi.* 4) *sl. U. og strax* þys. 5) *sl. U.*

6) *U. sl. því sem eptir er af þessari grein, en hef-*

ljóst [2]). *Lið* kalla menn þat á manni er leggir mætaz, lið heitir skip, lið heitir mannfólk, lið er oc þat kallat er maðr heitir avðrum liþi sínu, lið heitir avl. *Hlið* heitir á garði, oc hlið kalla menn oxa, en hlíð er brecka. Þessar greinir má setja svâ í skáldskap at gera ofljóst, at vant er at skilja, ef aþra skal hafa greinina, en áðr þycki til-horfa en fyrri vísuorð. Slíkt sama eru oc önnor mörg nöfn, þau er saman eigu heitit margir hlutir.

75. Atli, Fróþi,
Ali [3]), Glammi,
Beti, Ati
oc Beimuni:
Auðmundr, Guðmundr,
Atall oc Gestill,
Geitir, Gauti,
Gylfi, Sveiþi.

Göir, Eynefr,
Gavpi oc Endill,
Skeckill, Eckill,
Skefill oc Savlvi,
Hölfr oc Hemlir,
Hárekr oc Gor,
Hagbarðr, Haci,
Hrauðnfir, Metti. [4])

Hjör-

---

*ir þar næst:* Vargr heitir dýr o. *s. fr.* 58. §. — Björn fetvíðr — Hjörtr motrauþnir — Hrafn ok Slèttfeti. — Gamalla avxnaheiti — þessi eru ormaheiti — Tveir eru fuglar 60. §. — Avrn, ari — Eldr sem hèr segir 62. §. — Orosta er köllud Hjatníngjaveðr 50. §. — Hví er gull kallat barr Glasis 34. — Hví er gull kallat haddr Sifjar 35. — Hèr heyrir at gull er kent til havfuðbanda Fullu 36. — *Söguna um Hreiðmar* 39. — Hrólfr konúngr var ágætr it. Annat mark 44. — Gull er kallat mjöl Fróþa 43. gr. *mikit stytta og Grótta s. i burtu* — Konúngr hèt Havlgi 45. — *Agrip um hljóþsgreinir og stafasetning — um bragarhætti.*

2) *Þydir hèr* óljóst *eins og allvida í ritgerdinni um bragarháttuna.*
3) *O. bætir inni* Gamli; *en U. fellir úr alla þessa þulu; St. G., sem hafa umsteypt Skáldu öldúngis, hafa einníg skipt þessu stycki í marga smáparta, og fest hvörn framan vid þá grein af Skáldu sem inni heldr sama hlutar heiti. St. hefir þar að auki fært öll heitin í staf rofs röd.*
4) *sèst ecki í K.*

Hjörólfr oc [1]) Hravþúngr,
Högni, Mýsíngr,
Hundíngr, Hvítíngr, [2])
Heiti, Mepill, [3])
Hjálmar, Moerr,
Hömir, Moevi,
Róþi, Rakni,
Rer oc Leifi.
Randver, Ravknir, [4])
Reifnir, Leifnir,
Næfill, Ræfill, [5])
Nori, Lýngvi, [6])
Byrvill, Kilmundr,
Beimi, Jórekr,
Jólmundr [7]), Þvinnill,
Yngvi, Teiti.
Virvill, Vinnill,
Vanndill, Savlsi,
Gautrekr [8]) oc Húnn,
Gjúki, Buðli,
Homarr [9]), Hnefi,
Hyrvi, Syrvi;
sèkkat ec fleiri
sækonúnga.
Ek mun jötna
inna heiti:

Ymir, Gángr oc Mímir,
Iþi oc Þjazi,
Hrúngnir, Hrímnir,
Hrauðnir, Grímnir,
Hveðrúngr, Hafli,
Hripstoðr, Gýmir.
Harðverkr, Hrökqvir
oc Hástigi, [10])
Hræsvelgr, Herkir
oc Hrímgrímnir, [11])
Hýmir oc hrímþurs,
Hvalr, Þrígeitir, [12])
Þrymr, Þrúðgelmir,
Þistilbarþe.
Geirröþr, Fyrnir,
Galarr, Þrívaldi,
Fjölverkr, Geitir,
Fleggr [13]), Blapþvari,
Fornjótr, Sprettíngr,
Fjalarr, Stígandi,
Somr [14]) oc Svasuðr,
Svarángr, skrati.
Surtr oc Stórverkr,
Sækarls-múli
Skorir, Skrýmir,
Sterkir, Salfángr,



1) Hravdólfr *bæt O. inn.*
2) *Þannig O.* Huttíngr *K.*
3) *sjást ecki greiniliga í K.* 4) Ravekvi *O.*
5) Nepill, Repill *O.* 6) *K. synist at hafa* Lyngri.
7) Ösmundr *O.* 8) *Min getg. fyrir* Gaurekr *K. O.* 9) Hömar *O.*
10) Höstigi *O.* 11) Hríngmímir *O.*
12) Þrígettir *O.* 13) Flegr *O.* 14) Sómir *O. og strax* Skratti.

Avskruðr oc Svartr,
Anduðr [1]), Stúmi,
Alsvartr, Avrnir,
Amr oc Skalli.
Kavttr [2]), Ausgrúi,
oc Alfarinn,
Vindsvalr, Viþarr [3])
oc Vafþrúþnir,
Eldr oc Avrgelmir,
Ægir, Rángbæinn, [4])
Vindr, Viðblinndi,
Vingnir, Leifi.
Beinviðr, Björgólfr
oc Brandíngi,
Dumr [5]) Bergelmir,
Dofri oc Miðjúngr,
Nati, Sekmímir; [6])
nú eru upptalin
ámáttligra
jötna heiti.
Skal ek travllqvenna
telja heiti:
Gríðr oc Gnissa,
Grýla, Brýja,
Glumra, Geitla,
Gríma oc Bakrauf,
Grottin-tanna.
Gjölp [7]) Hyrrockin,
Hengikepta,
Gneip oc Gnepja,
Geysa, Hala,
Horn oc Hryga,
Harðgreip, Forat [8]);
Hrygþa, Hveþra
oc Havlga-brúðr.
Hrímgerþr, Hæra;
Herkja, Fála,
Imd, Járnsaxa,
Ima, Fjölvör,
Njavrn, Iviðja,
Amgerþr [9]), Simul;
Sívör, Skrikja,
Sveipin-falda.
Avflugbarþa,
oc Járn-glumra,
Imgerþr, áma
oc Járnviðja,
Margerðr, Atla,
Eisur-fala,
Leikn, Munnharpa
oc Munnriþa.
Leirvör [10]), Ljóta
oc Loþin-fíngra,
Kráka, Varðrún
oc Kjallandi,
Vígglavð [11]) Þurbavrð;
viljum nefna
Rýgi síþarst

1) Avndudor *O.* 2) Kautr *O.* 5) K. *synist at hafa* Vipar *en O.* Vidarr; *því hugsa èg* Viþarr *muni rèttast.* 4) Egir, Rangbeinn *O.* 5) Dumbr *O.* 6) Söckmimir *O.* 7) ɔ: Gjálp *O.* *ok far* Gjolp. 8) Forad *O.* *og strax* Hrydga, Hvedir 9) Arngerdr *væri kannske rèttara.* 10) Leidvör *O.* 11) Viglavd *O.*

oc Risin-gavflo.
Þórr heitir Atli
oc ása-bragr,
sá er enni-langr,
oc Eindriþi:
Björn, Hlorriþi
oc Harð-veorr,
Víngþórr, Savnnúngr,
Veoðr oc Rymr [1]),
ása-hetja.
Burir eru Oþins:
Baldr oc Meili,
Víþarr oc Nepr,
Voli, Öli [2]),
Þórr oc Hildólfr,
Hermóðr, Sigi,
Skjöldr, Yngvi-freyr
oc Itreks-jóð,
Heimdallr, Sæmíngr. [3])
Enn eru eptir
jötna-heiti:
Eimgeitir [4]), Ver,
Imi [5]), Hríngvölnir,
Viddi, Víðgrípr [6]),
Vanndill, Gyllir,
Grímnir, Glaumarr [7]),
Glámr, Sám-endill,
Vavrnir, Harðgreipr,
oc Vagn-havfþi,
Kyrmir [8]), Suttúngr
oc Kallgrani,
jötunn, Oglaðnir
oc Avrgrímnir,
Grimlíngr, [9]) Gusir,
Oföte [10]), Hlóe,
Gánglati oc Helregin,
Hrossþjófr, Durnir,
Hundallr, Baugi,
Hravðúngr, Fenrir,
Hróarr oc Miþi. [11])
Enn skal telja
ása-heiti:
þar er Yggr oc Þórr
oc Yngvifreyr, [12])
Víþarr oc Balldr,
Vali oc Heimdallr;
þá er Týr oc Njörðr,
tel ec næst Braga;
Havðr, Forseti,
hèr er efstr Loki.
Nú skal ásynjur
allar nefna:
Frigg oc Freyja,
Fulla oc Snotra,
Gerþr oc Gefjon,
Gná, Lofn, Skaþi,
Jörþ oc Iþunn,
Ilmr [13]), Bil, Njórun,

---

1) Rymir *O.* 2) Oli *O. kannske rettara*: Vali, Ali.
3) *Hèr þykir vanta eina linu at minstu.* 4) Eingeitir *O.*
5) Ymir *O. enn hann var talinn fyrstr allra.* 6) *Þannig O.* Vin-gripr *K.* 7) Glaumvarr *O.* 8) Skyrmir *O.* 9) Grillir *ss.*
10) Ofote *ss.* 11) *Hèr þykir aptr vanta í.*
12) Yngvifrör *O.* 13) *Þannig O. einnin.*

Hlín oc Nanna,
Hnoss, Rindr oc Sjöfn,
Sól oc Saga,
Sigyn oc Vör;
þa er Var [1]) oc Syn
verþr at nefna,
en þrúðr oc Rán
þeim næst talit.
Grèt oc at Oþi
gulli Freyja,
heiti eru hennar
Hnoss oc Gersimi.
Enn eru aðrar
Oþins meyjar
Hildr oc Gavndul,
Hlavk, Mist, Skavgul,
þá er Hrund oc Mist,
Hrist, Skuld talit.
Nornir heita
þær er nauð skapa.
Nipt oc dísi
nú mvn ec telja;
snót, brúðr, svanni,
svarri, spracki,
fljóð, sprund, kona,
feima, ekkja,
rýgr, víf oc drós,
ristill, sæta,
man, svarkr oc hæll,
mær oc kerlíng.
Mál er at segja
manna-heiti:
greppar oc gumnar,
gumar [2]) oc drengir,
gotnar, rekkar,
garpar, seggir,
sveit, snillíngar,
oc sælkerar.
Bragnar, þegnar,
þeimar, havlþar,
fírar oc flotnar,
fyrþar, havlþar, [3])
favruneyti, drótt,
flokkr, harðmenni,
kníar oc kappar,
kenpur, nautar.
Avld oc ærir [4])
oc afarmenni,
liþar oc lofþar,
lýðr oc sagnir,
ljóðr, oflátar,
ljónar oc ferþir,
mildíngr, mæríngr,
mannbaldr, spekíngr.
þá er glæsi-maðr
oc gull-skati,
þá eru snyrti-menn
oc auðkýfíngar

---

1) Var *er sama sem* Vör, *um þennan misskilning sjá Gylfag. 35 gr. 6:tu athugasemd. þessi þula er mikils til of ny og óáreidanlig til at geta sannad nockut ámóti málsins edli sjálfu. þannig grunar mig einnig ad* Ilmria *sè hèr ecki á rètta stad.*

2) gunnar *O.* 3) *sl. ss.* 4) *sl. ss.*

oc oflátar:
herr oc helmíngr
oc höfþíngjar,
fólk oc fylki,
fundr, almenníng.
Nú er þraung oc þys,
þorp, auðskatar,
drótt oc syrvar,
dúnn, prýþimenn,
savgn oc samnaðr,
seta, stertimenn, [1])
fiorr oc brjónar.
Enn eru eptir
aldarheiti
hirð oc gestir
oc húskarlar,
inndrótt oc hjón,
ef ec allt segi,
rúni oc þópti
oc ráðgjafi.
Innhýsíngar,
alda-þóptar,
sessi oc máli,
serlar oc fylgþir:
þá er felagar
oc frændr saman,
vinr, einkili,
verþúng, halir.
Ai oc áttúngr;
avi, sonr,
faþir, bróþir, barmi,
blóþi oc lifri,
jóð, burr, nefi,
oc arfuni.
þá eru hlýrar
oc havfutbaðmar.
Niðr, hlæta-maðr, [2])
niðjúngr oc barn,
konr oc kynqvsl,
kundr, ættbogi,
mavgr, mavtunautr, [3])
mágr oc spjalli,
ættbaðmr, ættslóð,
ofskavpt oc sveinn,
Sessunautar
oc sifjúngar,
afspríngr er þá
oc ættstuþill:
þá er ráþunautr,
þjónar, þrælar,
þirr [4]), avnnúngar,
verkmenn, kefsar.
þau eru orostu [5]) heiti:
hjaldr oc rimma,
gavll, geirahavð
oc geir-þriful [6]),
róg oc róma,
rann-grið [7]) oc storð,

1) Setimenn *O.* 2) Nidrhlutamadr *O.*
3) Þannig *O. og þykir það réttara heldr en* málunautr *sem K. hefir.* 4) Þyr *O.*
5) *sl.* K. 6) geirþrimul *O.*
7) Rangrid *O. sjá Eddu* 36. *gr. kannske* Rán-gríþr *væri réttast.*

svipul oc snerra,[1])
sig, fólkjara.
Sota-morð[2]) oc víg,
sókn oc ið,
dólg, ógntara,
drima[3]) oc ímun:
þá er orosta
oc avrlýgi,
hríð oc etja,
herþögn, þrima.
Ek mun segja
sverþa-heiti:
hjör oc hrotti,
höguðr, dragvandill,
gora[4]), gramr, gellir,
gjallr oc neþan-skarþr,[5])
sigðr oc snyrtir,
sómi, skjómi[6])
Skolkr, skerkir, stúfr,
skrýmir, laufi,
avltirr, lángbarðr
oc ormþvari;
leggbíti[7]) oc kyrr
oc Leifnis-grand,
herberi, hneitir
oc hafrakan.
Lotti, hravnduðr[8])
lavgþir, mækir,
mavnnduðr[9]), munndriþi
oc mistilteinn,
málmr, þrór oc marr
oc miðfáinn,[10])
fetbreiðr, grindlagi
oc fjörsoðnir.
Vægir[11]), veigarr,
vallángr oc brandr,
verúlfr, valnir,
vinnbjartr oc qvöl,
askr, ángr-vaþill,
eggjom-skarþi,
svipuðr[12]) oc svipaljótr,
salgarðr, hnefi.
Hvati, höfuðhvessíngr,[13])
hausa-mölvir,
hræva-gautr, herbrái
oc holdmímir;
bensogr, brigþir,
brímir, húð-lognir,[14])
skygþir, skreivir,[15])
skarðr, grindlogi.
Mímúngr[16]) oc fellir
oc mál-vitnir,
taurar, hrævarðr,
trani, vindþvari,
liðnir, kvernbíti,
ljómi, herþir,

---

1) snerta *O.* 2) Soti, mord *O. hún sl. og úti* Id.
3) drifa *O.* 4) gróa *O.* 5) neþanscardi *O.* 6) *sl. O.*
7) leggbitr *O. eins og fyrir neðan* Kvernbítr.
8) hraundúngr *O.* 9) mavdudr *O.* 10) Midfari *O. og strax* grindlogi.
11) Vegir *O.* 12) svifudr *O.* 13) *sèst ecki í K.* 14) *Sjást ecki rètt í K.* 15) Skreyvir *O. og strax* skardi.
16) Mimmúngr *ss.*

vitnir, yfrir,
vægja læstir, [1])
Skelkvíngr, fylvíngr,
flæmíngr, skerþíngr,
skotníngr, skilvíngr,
sköfnúngr, rifjúngr,
brotníngr, hvítíngr,
bæsíngr, tyrvíngr.
hœkíngr oc hríngr,
hittaz mún nettíngr. [2])
Logi oc munn-gjallr, [3])
lánghvass oc eldr,
avrn oc eygir
oc naglfari,
brigþir, mavrnir,
blör oc skerþir,
hyrr oc helsíngr,
hríþir átti.
Fellir, favlnir,
fafnir, raufnir,
imnir [4]) eimnir,
afspríngr, þinorr,
sigþir, snyrtir,
svelgr, skarr oc narr,
góinn, gestmóinn oc garr,
þrimarr, níðhavggr.
Oddr, blóðvarta
oc benknúar,
blóðrefill, blóðvarp
oc blóðiþa,
blóðvaka, ljúgfengr [5])
oc blóðhnefi,
iðhvarf oc brandr,
eggteinar, fólk.
Emjar, þremjar
oc avlroþar-nautr,
merki vættrim [6])
oc missifengr,
onn oc skafníngr,
undir-dregníngr,
vargr oc kaldhamarsnautr,
valbavst oc herðr.
Sverð oc gelmíngr
oc samnagli,
hugró, sigrhnoð,
hjalt oc tángi,
mundriþr [7]) haug-fáðr
oc meðalkafli.
Öx oc jarðsparþa,
hyrna, skjafa oc skeggja,
skrama oc genja,
regin-spavnn, gnepja,
gýgr oc fála,
snaga oc bulda,
barþa oc vígglavð,
þveita oc þenja [8])
þá er arghyrna,
hon er öfst talit
öxar-heita.

1) yfvir, vegja-lestir *O.*
2) nectíngr *O.*
3) mundgjallr *ss. og strax* lánghúss. 4) immir *ss.*
5) liúfeingr *ss.* 6) merkivettin *ss.*
7) mundridi *ss.*
8) þemja *ss. og strax* arhyrna.

Darr spjót oc navt,
davflen [1]) oc vigr,
snamfleinn [2]) oc svaf,
sviþa, hræmæki,
geirr [3]), spjörr, nata,
gefja, kesja,
gaflac fracka,
gúngnir peita.
Avr er oc acka,
oddr, hvítmylíngr,
fenja oc drífa,
flug dynfara,
bavsl, bavl, bílda,
broddr oc hremsa,
gavgn-flavg [4]) oc þraus
gavgn oc skapt-snavr.
Flugglavð, flugsvinn,
fífa oc skeyti,
geta skal fenna
oc Gusis smíðis,
Jóls smíþi er (ok)
en öfst þura.
Almr, dalr,
ýr oc tvíviðr,
sveigr, glær oc þrymr,
sómr, skal-gelmir.
Enn qveð ec heita
avll vâpn saman:
jörn [5]), avr oc slög,
ísarn oc spjörr
Skjöldr: þrúnginsalr,
skavnn, salbendíngr,
bognir, hlæbarðr,
oc buklari:
vetlimi, targa,
veðrglaðr oc hlíf,
viðbleiknir, rít,
vígglaðr oc lind. [6])
Gjallr, davggskafi
oc gimskýlir,
baðljós, grýta
oc bavð-skýlir,
svalinn oc randi,
saurnir, borþi,
scuttíngr, barþi,
skirr, tvíbyrþíngr,
yrlygr oc svarmr [7])
eilifnir, heiðr,
baugr, fagr-bláinn,
bera, miðfornir.
Hropz hattar skal ec
heiti segja:
hjálmr, gullfáinn,
hraunn, valhrímnir,
hallgrímnir, skolir [8])
oc hlífandi:
fjörnir, þocki,
oc fíc-móinn,

---

1) doplen *O.* 2) snata, fleinn *ss.* 3) gerr *ss.*
4) gagnflaug oc þreysgavgn oc scafst-snaur *ss.*
5) ɔ: *járn.*
6) þ*annig O.* lid *K· og strax* davgscapi.
7) svarmir *O.* 8) hallhrímnir, scolcr *ss.*

hilldigavlltr, kellir,
herkumbl oc velgr,
gríma, œgir,
glævir, stefnir.
Brynja, kund, hjálmgavll,
hravð oc nati,
kavld, finnzleif,
boföra [1]) þýð-sýn
oc blóðleika.
Sær, síloegja;
salt, ægir, haf,
lavgr, sumr [2]), lægir;
laugr, stop oc vâgr,
gjallr, gnap, geimi, [3])
gnarr, svífr oc marr,
súgr, sogsami,
svelgr, ravst oc fjavrðr.
Sund, ögr [velforir,
simi [4]) oc víþir,
hríð, ver, breki,
húm, flóð oc brim,
græþir, glýjoðr,
gýmir oc vegir,
gniðr oc úrór,
gjálfr, fen, snapi.
Gnat, vavrr, vika,
vözt, hof [5]) oc mið,
vatn, djúp oc kaf,
vík, tjörn oc sík,
stormr, díki, hylr,
straumr, lækr oc bekkr,
áll, bruðr, kelda,
iþa, fors oc kíll.
Hefríng [6]), alda,
hvítíngr oc lá,
hravnn, rán, kellda
oc himinglæv,
dravfn, uðr oc solnir,
dúfa, bylgja,
boþi oc bára,
blóðughadda.

(*Aa-heiti*).

Gjöll, glit, gera,
glóð oc valskjálf,
von [7]) víð, vimur,
víng oc ysa,
síð, suðr, freka,
sekin, einstika,
elfr ro ekla,
ekin, rennandi.
Þyn, rín oc nið;
þavll, rimr [8]), ysja,
dún [9]), ógn, dýna,
dyn, höll, fara,
orun oc bró [10]),
auðskjálg, lodda,
mun merkriþa,
mein oc saxelfr [11]).



1) borofa *O.* 2) sorn *ss.* 3) gnapheimi *ss.*
4) *sést ecki í K.* 5) hop *O.* 6) hefríngr *ss.*
7) vön *ss.* 8) rumr *ss.* 9) dyn *ss.*
10) *O. synist ad hafa* bio.
11) farelfr *ss.*

Tífr, durn, vina,
tems, vond oc strönd,
mavra [1]), móþa, þrym,
morn oc gautelfr,
alin, uðr, alkoga
oc evfrates,
ógn, eiðrennir [2])
oc apardjón.
Ravgn [3]), hravnn oc ravn,
raumelfr, hnipul,
hnöpul, hjálmun-lá,
humra, vína,
bil, vin vella,
valin, semd, salin,
nepr, dravfn, strauma;
nis, mynt, gnapa.
Gilling oc níl,
ganges, tvedda;
luma, verváþa [4]),
leira oc gunnþró,
viðsvöl, vegsvinn,
yn, þjóðnuma,
fjörm [5]), strond oc spe,
oc fimbulþul.
Nyt, hravnn [6]) oc nauð,
navt, slíþr oc hríð,
kavrmt, leifstr [7]) oc avrmt,
kerlaugar tvær,
gömul, sylgr [8]) oc yn,
oc geirvimul
ylgr, vavð oc fold, [9])
jórdan er á lesti.

(*Fiska-heiti.*)

Lags oc langa,
lýsa, brosma,
birtíngr, hæingr,
bust [10]) ok hrygna,
humarr, hrognkelsi,
hveðnir, flóki,
avlun, avrriþi,
oc andvari.
Síld, seiðr, skata,
síl, reiðr [11]) oc ogr,
skreiþúngr oc sitr, [12])
skálgi, flyðra,
fyldíngr, styrja
oc fyðruskill, [13])
hámerr, steinbítr,
oc háskerþíngr.
Fjörsúngr, þravmmúngr
oc fengrani,
hamarr, sandhverfa
oc horngæla:
marknútr, glaumúngr
oc marþvara
silúngr, skeljúngr,

---

1) mavrn *ss.* 2) Ridrennir *ss.*
3) Ravgnis *ss. og strax* ravnn — hnifod, hnaupol, hjálmra, vina, vil, vinfella. 4) ver, pada *ss.* 5) fiorn *ss.*
6) hravn *ss.* 7) leiptr *ss.* 8) sylgir *ss. og strax* Geimvimöl.
9) vad oc floc *ss.* 10) byst *ss.*
11) reydr *ss.* 12) sicr *ss.*
13) fudryscill *ss.*

sverðfiscr oc lyr. [1])
Þyrsklíngr, ufsi
Þorskr, vartari,
grunnúngr, gedda,
gjolnir, keila,
áll oc karfi,
krabbi, geir-síl,
hár oc góðlaks,
horn-síl, ígull.
Háfr, hvalr, geirhvalr,
oc hafgufa,
hnísa, hafstrambr,
oc hnyþíngar,
reyðr, reyðar-kálfr,
oc rauðkembíngr,
bunúngr [2]), rostúngr,
bleio-hvalr.
Norðhvalr, kýrhvalr [3]),
náhvalr oc leiptr,
skeljúngr, fiskreki
oc skútu-hvalr,
slettibaka, skjaldhvalr
oc sand-lægja,
hrosshvalr, andhvalr,
hrafnreyðr oc vögn. [4])
Nú mun ec skýra
of skipa-heiti:
avrk, ára-kló,
askr, sessrumnir,
skeið, skúta, skip,
oc skíðblaðnir,
nór, naglfari,
nökqvi, sneckja.
Byrþíngr, buza, [5])
barðkaldr oc hreinn,
backi [6]), havmlúngr,
hælug-barþi,
ravst, bátr oc regg,
ravð, hríng-hornir,
lúng, kjöll, lángskip,
leifnir, karfi.
Hríngr, gnóð, freki,
hravð, móþróe, [7])
hemlir [8]), barþe,
oc hyl-bauti,
ugla, leþja,
oc askvitull,
kona, ketla, [9])
kati, reið oc skálpr.
Knavrr, kuggr, knúi,
keipull, eikja,
dreki, elliþi,
drómundr oc prámr,
fura, vigg, galeið,
ferja, skalda,
fley, flaust oc þeckr,
fartíðr, oc lið.
Segl, skavr, sigla,
sviðvís, stýri,
sýjor [10]), saumfavr,

1) *þannig O. en K. radar þeim ödruvisi nidr, og hefir þar ad auki i* 5. *l.* glaummugr, *og í* 7. skelfíngr. 2) burúngr *O.*
3) *K. synist at hafa* Kurhv. 4) Vagn *O.*
5) bussa *ss.* 6) Haki *ss.* 7) modfroe *ss.*
8) helmir *ss.* 9) kotla *ss. og i næstu l.* scolfr.
10) spior *ss.*

súð oc skautreip,
stag, stafn, stjórnvölr,
stuðill oc sikulgjörð,
snotra oc sólborð,
sess [1]), skutr oc strengr.
Savx, stöþíngar,
sviptíng oc skaut,
spíkr, siglo-trè,
saumr, lec-stopar,
laukr, siglotoppr,
lína, eyru,
flaug, flaugarskegg [2])
oc farnagli.
[3]) Húnbora oc
hjálmun-völr,
húfr, hlýr, hremmi [4])
oc halstemni,
hefill, háls, hánki,
oc höfut-bendur,
háir, hæll, hamarr,
hjálpreip [5]) oc lík.
Ró, racki, rif,
rengur oc havmlur,
vindás, vengi,
vavndr [6]), lángnefjor,
völlt, beiti-ás,
varta brandar,
bitar, bóglína,
búlka-stockar.
Barð knè, bygþi,
belti oc kinnúngr,
kjölr, borð, keili,
oc kjöl-sýgja,
kraptar, kerlíng,
klær oc þóptur,
kalreip, þrimir,
kló, var [7]) oc þiljur.
Drengir, dragreip,
dæla, árar,
aktaumar, rör,
arinn oc nálar,
avrborð, kjalar-hæll
oc ackeri,
hnot miþi [8]), ausker,
oc húnspænir.
Javrð: fjörn, rufa,
eskja oc hlóþyn,
gýma, sif, [9]) fjörgyn,
grund, hauðr oc ravnd,
fold, vángr oc sif,
frón, hjarl oc barðmr [10])
land, bjávð, þruma,
(láð) oc merski.
Hollt, háls oc fjöll,
hlíð oc leiti,
hóll, heiðr oc hvilft,
hváll oc brecka,
hró, dalr oc vavllr,
hvammr oc túnga.

1) seys *O. og strax* sviptíngr. 2) *O. synist at hafa* flaugarsæg.
3) húnr *bætir O. vid og mun* þad *rètt, einúngis* þætti *mèr* húnn *rcg uligra.* 4) hrepni *ss. og strax* halstemmi.
5) hjálpreic *ss.* 6) vindr *ss.* 7) klovar *ss.*
8) hnackmidi *ss. og strax* húnspenir. 9) *O. sleppir* Sif *hèr.*
10) barmr *O.*

mold, flag, mýri, [1])
mór, laut oc sandr.
Enn skal segja
*avxna-heiti:*
árvacr, drjóni,
oc jórmunrekr,
simi, freyr, reginn,
smiðr, eyþvari,
ravðr oc rekníngr
oc ravckvi hliðr,
viggi, bavruðr,
víngnis-stjóri.
Himin-rjótr, simir
oc harð-fari,
þerir [2]), digni,
hjavlluðr, simull, [3])
hliðr, stúfr oc litr,
hriþ, forsimi,
arnr, avrmuni [4])
oc eiki-smiðr.
Gneisti, apli
oc golin-horni,
auðr, kvígr, avldúngr
oc arfuni,
griþúngr, ölgr, gellir, [5])
glymr oc hreði,
tíþúngr, boli,
tarfr, avrgefinn.
*Kýr* heitir skyrja, [6])
kvígja oc frenja
oc Auð-humbla,
hon er æzt [7]) kúa.
*Hrútr*, ofr-hyrníngr,
hornum-skvali [8]),
gumarr, horn-glóinn,
oc gjalldhróinn,
hvedurr, hornglóinn, [9])
hallin-skíþi,
þerr horn hróinn
oc heimdali,
bekri, miðjúngr,
blær, mavrðr oc veðr.
*Hafr* heitir grímnir
oc geiravlnir,
tanngnjóstr, kjappi
oc tanngrísnir,
skimuðr oc brúsi,
bokkr, grímr taliðr.
Heitir oc heiðrún,
haðna oc kiðlíngr,
er kolmusa [10])
oc kið saman.
*Björn*: bersi, blómr,
bera, elgviðnir, [11])
blájaxl, ísölfr
oc breiðvegi:
bestíngr, bassi,
balti, hlèbarðr,

---

1) rimi *K.* 2) begir *O.* 3) hjavllr, simul *ss.* 4) javrmuni *ss.*
5) olgr, gillir *ss. og strax* glymir. 6) scirja *K. og strax* kviga *O.*
7) ellzt *O.* 8) hornunskali *ss.*
9) *K. sl. þessu, en þá trublast bragarháttrinn.*
10) kolmula *O.* 11) elvidnir *ss. og strax* isólfr.

ufr, frekr, vilnir,
jórekr, mösni [1]).
Fetvíðnir, húnn,
fress, vetrliþi,
iugtanni, jálfuðr, [2])
ifjúngr, vilskarpr,
Hjörtr [3]): dyraþrór,
hliðr, eikþyrnir,
duneyr, dáinn,
dvalarr [4]), metroðnir.
Gavlltr: valglitnir, [5])
gríss oc hrinnir,
svinntarr [6]), runi,
særímnir, bavrgr,
rar [7]), valbassi,
roðr [8]), dritroþi,
þrór, vigrir, skunpr, [9])
þröndr, vaníngi.
Vargr: úlfr, geri,
vitnir oc hnimnir [10]) oc grá-
dýri,
hati, hróðvitnir
oc heiþíngi,
freki oc viðnir, [11])
fenrir, hlèbarðr,
goti, gilldr,
glammi, gylþir,
imarr, imr,
eggþir oc skavllkini.
Enn heitir svâ:
ylgr, vargynja,
borkn oc ima, svimul.
Níu eru himnar
á hæð taldir:
veit ec hinn næzta
sá er vindbláinn,
þá er heiðyrnir [12])
oc hreggmímir,
annarr heitir
andlángr himin,
þat máttu skilja
þriþi víðbláinn,
víð-feðmi qveð ec
vera hinn fjórþa,
hrjóðr oc hlýrni
hyggjum sètta,
gimir, vetmímir,
get ec nú vera
átta himna
upp um-talþa,
scáturnir [13]) stendr
skýum efri,

1) mösmi *O.*
2) vígtanni, jolfudr *ss.*
3) iorir *K. eins og þetta væri enn bjarna heiti.*
4) dvalr *O.* 5) valgiltnir *ss.*
6) svíntanni *ss.* 7) tarr *K.* 8) *sl. K.*
9) scumpr *O. og strax* vanníngi.
10) *kannske rèttara* hrímnir; *O. sl. þri úti.*
11) vidrir *O.*
12) heidþirnir *O.*
13) scratyrnir *ss.* skatturnir *S. og á spáz.* ɔ: Saturnus.

hann er utan [1])
alla heima.
Sól oc sunna,
sýn, fagrahvæl,
hrjóðr leika,
líkn-skin, ravþull,
leiptr, ifravþull
oc ljósfari,
drífandi, álfravþull
oc Dvalins-leika [2])

1) *O. bætir inn* (um) *eins og það væri af skrifaranum og ecki af ormsbókinni gömlu.*

2) *Hèr smeygir U. inn ofrlitlu ágripi af ritgjördinni um látínu stafrofid, sem O. færir inn á milli kendra og ókendra heita, en það á eins illa vid hèr og þar. G. og St. í sama máta, og kalla þær bádar, ad þar byrì Skálda eda 5:ti partr Eddu, en fjórdi partrinn í þeim er* Skáldskaparmál um kenníngar ok heiti margra hluta; *þær steypa nefnl. saman kendum og ókendum heitum, og kalla þat allt kenníngar. Hjá Resen er allslags kenníngum og ókendum heitum einnig samansteypt, vísunum slept, allt fært i stafrofsröd, og heitir þad þar:* Annar Partur Eddu um kenníngar.
*Res. hefir ámed.l vopnaheití þetta, sem hinar sleppa, og sem heldr þykir heyra til 71. gr.*

Vâpn þat, er stendr meðal fóta manni, heitir sverð eða brandr ok öllum sverðsheitum, *item* helliskrípr: þat skal kenna spjót-arvur ok öllum heitum lagvâpna ok skotvâpna. Kenna má þat sverð við maga, kylli, nyru eða hlaun eða hræra. Kalla má brandinn orm eð fifladólg eða jötun húss dyra burðarins.

Burðardyr má kalla travð, laun (ɔ: *leyni*) eða slíður eða ummgjörð, havll eða hirðslu þess fyrsta.

*Res. hefir adsönnu* þeirra fiska, *en Jústízrád Skúli Þórdarson Thorlacius hefir* þess fyrsta *í sínu* 7. specim. Antiqv. Borealium *bls.* 96. *hvar hann sannar ad þetta sè ekta og hafi verid notad af gömlum merkis-skáldum, (nefnl. af Eilíf Gudrúnarsyni í Þórsrdápu 8. sjá bls.* 116 *fyrir ofan.), þótt það finnist í aungri gamalli Eddu á bókfelli.*

# BRAGARHÆTTIR

## *eptir Háttalykli Snorra.*

### *I. QVÆÞI*[1])

76. Hvat eru *hættir* skáldskapar? Þrent. Hvert? Setníng, leyfi, firirboðníng. Hvat er setníng háttanna? Tvenn. Hver? Rètt ok breytt.

77. Hvernig er *rètt setníng háttanna* [2]): Tvenn. Hver? Tala oc grein [3]). Hvat er tala setníngar háttanna? Þrenn. Hver? Sú er ein tala, hversu margir hættir hafa funniz í qveðskap höfut-skálda; önnur tala er þat, hversu mörg vísuorð standa í einu eyrindi í hverjum hætti; en þriðja tala er sú, hversu

18

1) *Þessa fyrirsögn hefi eg sjálfr smidat samqvæmt* 1. *grein Skáldu og sjálfu innihaldinu. K. O. S. hafa hèr einga fyrirsögn, ecki heldr U. Þó lætr hún ganga á undan nockurskonar registur yfir dróttqvednu háttuna i fyrsta qvædinu og fáeina i ödru* (35 *alls*) *Þar er seinast* Þríhent: Hristiz hvatt Þá er reistiz. *Samt mun skrifarinn hafa ætlad ad halda Því fram og látid Þar fyrir opid plaz á sidunni, en Þat hefir ecki ordit, heldt hefir seinni eigandi notad sèr Þad til ad skrifa á nockrar linur med leyni-letri. Leyndardómrinn sá er annars audleystr, og er hann í Því innifalinn, ad madr istadin fyrir hvörn hljódstaf skrifar Þann samhljódanda, er næst honum stendr í stafrofinu, t. d.* b. *fyrir* a, f *fyrir* e (*og* æ), k *fyrir* i, (*og* j) p *fyrir* o (*og* ö) *o. s. fr. t. d. fyrst stendr Þar:* Hfr fr rktbÞr hblfr fkprÞk txgr hbttb. ɔ: *hér er ritaÞr halfr fjórÞi tugr hátta. Því næst kemr heimskulig særing einhvör, sem synist ætlud til at dempa eldsbruna. St. og G. byrja* Skáldu (5:ta part Eddu) *med ritg. um Stafrofid; en í Þeirri Skaldu er Þetta sá* 5:ti kapituli, *og hefir Þessa fyrirsögn* Háttatal er Snorri Sturluson orti um Hákon kóng ok Skúla hertuga.

2) *U. fellir út Þetta og næstundanfarna svarit.*

3) *Þannig O. U.* málsgrein *K. S.*

margar samstöfur eru settar í hvert vísuorð í hverjum hætti. Hver er grein setníngar háttanna? Tvenn. Hver? Málsgrein oc hljóðsgrein [1]). Stafasetníng greinir mál allt; en hljóð greiner þat at hafa samstöfur lángar eþa skammar, harðar eþa linar, oc þat er setning hljóðsgreina er vær köllum *hendíngar*, svâ sem hèr er qveþit:

1. Lætr sá'r Hákon heitir
(hann reckir [2]) lið) bannat
jörð kann frelsa fyrðum
friðrofs konúngr ofsa

sjálfr ræðr allt oc Elfar
úngr stillir sá milli
(gramr of gipt at fremri)
Gaudvíkr jöfurr landi.

Hèr er stafasetníng sú er hætti ræðr, oc qveþandi gerir, þat eru tólf stafir í eyrindi: oc eru þrír settir í hvern fjórðúng. I hverjum fjórþúngi eru tvav vísu-orð. Hverju vísu-orþi fylgja sex samstöfur. I öðru vísuorþi er settr sá stafr fyrst í vísu-orþinu, er vær köllum *höfutstaf*; sá stafr ræðr qveþandi: en í fyrsta vísuorþi, mun sá stafr finnaz tysvar standa firir samstöfun; þá stafi köllum vèr *stuðla.* Ef höfutstafr er samhljóþandi, þá skulu stuðlar vera enn [3]) en sami stafr; svâ sem hèr er:

*Lætr sá er Hakon heitir*
*(hann reckir lið) bannat...*

en rángt er, ef þessir stafir standa firir samstöfun optarr eþa sjaldnarr enn svâ í fjórþúngi vısu. En ef hljóðstafr er havfuðstafrinn, þá skulo stuðlar vera oc hljóðstafir, oc er fegra at sinn hljóðstafr sè hverr þeirra; þá má oc hlýþa at hljóðstafr standi

1) *Þannig O. U. en K. bætir inni* Hvat er málsgrein?
2) rækir *U.*
3) *sl. O. S. U.*

fyrir optarr í fjórþúngi í fornöfnum eþa í málfylling, þeirri er svâ qveþr at: *ec*, eþa svâ: *en, er, at, i, oc, of, af, um*, oc er þat leyfi, en ei rètt setníng.

Önnur stafasetníng er sú er fylgir setníng hljóðs þess, er hátt gerir oc qveþandi. Skal sú grein í dróttqvæþum hætti svâ vera, at fjórþúngr vísu skal þar saman-fara at allri stafasetníng oc hljóþa: skal í fyrra vísuorþi þannig greina þá setníng:

*Jörð kann frelsa fyrþum,*

hèr er svâ: *jörð, fyrð*, þat er ein samstafa í hvârum stað, oc sinn hljóðstafr fylgir hvârri, oc svâ upphafsstafr; en einir stafir eru eptir hljóðstaf í báðum orþum: þessa setníng hljóðfallz kavllum vèr *stothendíng*. En í öðru vísuorþi er svâ:

*Friðrofs koníngr ofsa,*

svâ er hèr: *rofs, ofs*, þar er einn hljóðstafr, oc svâ allir þeir er eptir fara í baþum orþum, en upphafsstafir greina orþin: þetta heita *aðalhendíngar*.

Svâ skal hendíngar setja í dróttqvæþum hætti, at hina síþarri hendíng í hverju vísuorþi, er heitir *viðrhendíng*, hon skal standa í þeirri samstöfu, er ein er síþar. En sú hendíng er *frumhendíng* heitir stendr stundum í upphafi orðz, köllum vèr þá *oddhendíng*, stundum í miþju orþi, kavllum vèr þá *hluthendíng*. Þetta er *dróttqvæþr háttr*; með þeima hætti er flest ort, þat er vandat er; þessi er upphaf allra hátta, sem málrúnar eru firir avðrum rúnum.

78. Hvernig er *breytt setníng háttanna*? Tvâ vega:

Hvernig? Með máli oc hljóðum. Hvernig skal með máli skipta? Tvâ vega. Hvernig? Halda eþa skipta háttunum. Hvernig skal breyta háttunum oc halda sama hætti? Svâ at kenna eþa styðja eþa reka eþa sannkenna eþa yrkja at nýgjörvíngum.

Hvat eru *kendir hættir?* Svâ sem þetta:

2. Fellr of ſura stilli
ſlein-braks limu axla [1])
Hamþis-faung, þar er hríngum
hylr ættstuþill Skylja:
holt felr hildi-gelti
heila-bæs en [2]) deilir
gullz, í [3]) gelmis-stalli
gems-eið [4]) skavrúngr reiþir.

Hèr eru avll heiti kennd í þessi vísu, en hendíngar oc orþa-lengð oc stafa-skipti fara sem fyrr var ritat.

79. Kenníngar eru með þrennum háttum greindar: fyrst heita kenníngar, annat tvíkennt, þriþja rekit; þat er kenníng at kalla *ſlein-brak* orostu, en þat er tvíkennt at kalla *ſlein-braks-ſur* sverþit, en þá er *rekit* ef lengra er:

3. Ulfs-baga verr Ægis
ítr báls-hati málu,
sett eru bavrð firir [5]) bratta
brún Míms-vinar-rúnu:
Orms-vâþa kann eiþu
allvaldr gavfugr halda,
men-stríþir, njót móþur
mellu-dólgs til elli!

80. Hvat eru *Sannkenníngar?* Svâ sem þetta:

4. Stinn sár þróaz stórum,
sterk egg fravmum seggjum
hvast skerr [6]) hlífar traustar,
hár gramr lifir framla:

---

1) limu aka *U.* limvaka *St.*
2) heila-bys oc *O.* heilaljós en *U.* 3) oc *O.*
4) gavmseid *ss.* gunnseid *U.*
5) borþ yvir *U.* bord fyrir breida *Jón Olafsson frá Svefneyjum í verdlaunaritinu um gamla skáldskapinn.* *Khöfn* 1786. *bls.* 163.
6) sceer *O. Jón Ol. bls.* 171.

hrein sverð litar harþa [1]) (ítr ravnd furaz undrum)
hver drengr; göfugr þengill unir bjartr snöru hjarta.

Þat er sannkenníng at styðja svâ orþin með savnnu efni, svâ at kalla [*stinn* sárin; því at havfug eru sár stór, en rètt er mælt at þróaz: avnnur sannkenníng er sú, at sárin þróaz *stórum* [2]); nú er eitt vísuorð oc tvær sannkenníngar. [I avðru vísuorði er kavllut *sterk* egg, en *framir* seggir. I enu þriþja er svâ, at *hvast* skerr, hlífin er *traust.* Oc í fjórþa orþi at kalla konúnginn *mikinn,* en líf hannz *framligt.* Þar næst at kalla *hreint* sverð, oc *harðliga* roþit, en *einn-hverr* liðsmanna; oc væri rètt mál, þótt maðr væri nefndr: *gavfugr* er konúngrinn kallaðr, ravndin var *kostig,* oc furaþiz *undarliga skjótt,* konúngrinn undi *glaðr frœknu* hjarta. Nú eru hèr sýndar [3]) sextán sannkenníngar í átta vísuorþum, en þó fegra þær mjöc í qveþandi at ei sè svâ vandliga eptir þeim farit.

81. Sannkenníngar hafa þrenna grein, heitir ein sannkenníng, avnnur stuðníng, þriþja tvíriþit. [Þetta er *tvíriþit* kallat [4]).

5. Oþ-harþa spyr ec eyþa ham-davckum fær Hlackar-
egg full-hvötum seggjum, hauk munnroþa aukinn
dáð-ravkkum veldr dauþa (veg-hræsinn spyr ec vísa)
dreng ofr-hugaþr þengill; valdr [5]) ógn-þorinn skjaldar.

---

1) hardla *Ol. en þess er eingin þörf; því* härda *er sama: t. d. Hák. qv.* 25. harda hvell sigrhljód *og vídar.*
2) stinn sár þróaz stórum *O.*
3) Nú ferr svâ meþ sama hætti unz avll er uppi visan oc eru hèr *U.*
4) *fella U. St. út.*
5) *þannig O.* vald *K. U.*

Hèr fylgir stuðníng hverri sannkenníng, svâ sem kavllut er eggin *óðhörð*, en *fullhvatir* mennirnir. Þat er sannkenníng *hörð* egg, en *hvatir* menn; þat er stuðníng er annat savnnunar-orð fylgir sann-kenníngu.

82. Hvat eru *nýgervíngar?* Svâ sem þetta:

6. Sviðr lætr sóknar-naðra
slíðr-braut jöfurr skríþa,
ótt ferr rógs or rèttum
ram-snákr fetil-hamsi:
linnr kná sverþa-sennu [1])
sveita-beks at leita,
ormr þyrr [2]) vals at [3]) varmri
víg-gjöll sefa-stigu.

Þat eru nýgjörvíngar at kalla sverþit *orm*, oc kenna rètt, en slíðrirnar *gavtur* hannz, en fetlana oc um-gjörð *hams* hannz: þar helldr til ormsins náttúra, at hann skríðr or hamsi, oc til vatz; því er svâ sett nýgjörvíng, at hann ferr leita *blóðs-beckjar* oc skríþr *hugar-stigu*, þat eru brjóst manna. Þá þickja nýgjörvíngar vel qveþnar, ef þat mál er upp er tekit haldi of alla vísulengð; en ef sverþ er ormr kallaðr, en síþan fiskr eþa vöndr eþa annan veg breytt, þat kalla menn nykrat, oc þickir þat spilla. Nú er dróttqvæþum hætti (breytt) með 5 greinum, oc er þó hinn sami háttr rèttr oc úbrugþin, oc er' optliga þessar greinir sumar eþa allar í einni vísu, oc er þat rètt, þvíat kenníngar auka orðfjölþa, sannkenníngar fegra oc fylla mál, nýgjörvíngar sýna kunn-ustu oc orðfimi.

1) spennir sverda senna *U. St.*
2) ormþyr *U. St.*
3) þannig *O. U. St.* or *K.*

83. Þat er leyfi háttanna at hafa samstöfur seinar eþa skjótar, svâ at dragiz fram eþa aptr or rèttri tölu setníngar, oc megu finnaz svâ seinar at fimm samstöfur sè í öðru oc enu fjórþa vísuorþi. Svâ sem hèr er:

7. Hjálms fylli spekr hilmir
hvatr vind blæs [1]) skatna,
hann kná hjörvi þunnum
hræs þjóð ár ræsa:
ýgr hilmir lætr [2]) eiga
avld dreyrfá skjöldu,
styrs rýðr stillir hersum
sterkr járngrá serki.

I þessi vísu eru allar *oddhendíngar* [hinar fyrri hendíngar [3]), oc er þó þessi háttr drótt-qvæþr at heiti. [4])

84. Nú skal sýna svâ skjótar samstöfur oc svâ settar nær hverja annarri, at af því eykr lengð orðzins:

8. Klofinn spyr ec hjálm firir hilmis
hjarar egg (duga seggir);
því eru heldr, þar er skekr skjöldu,
skafin sverð litut ferþar:
bila muna gramr, þó at gumna [5])
gular rítr nái líta;
draga þorir hann yfir hreinna [6])
hvatan brand þrymu randa.

Hèr er í fyrsta oc þriðja vísuorþi níu samstöfur; en í öðru oc í fjórþa sjö; hèr er þat sýnt hversu flestar samstöfur megu vera í vísuorþi með dróttqvæþum hætti, oc af þessu má þat vita at átta eþa sjö megu vel hlýþa í fyrsta oc þriþja vísu-

1) hvatt (hvatr) vindles *O.* hvatr vinles *U.* vinndhles *S.*
2) þannig *O. U.* yggr hilmir hvetr *K.*
3) *sl. K. S.* 4) hætti *O.* 5) gunnar *U.*
6) þannig *O.* hretna *K.* fyrir hreinan *U. og í.* 8. *l.* þrimu *U.* þrumu *O.*

orþi. I þessi vísu eru allar frumhendíngar hluthendur, oc dregr þat til at lengja má orþin, at sem flestar samstöfur standi firir hendíngar. þat er annat leyfi háttanna at hafa í dróttqvæþum hætti eitt orð eþa tvav í vísu með álavgum eþa dett-hent eþa dun-hent eþa skjálf-hent, eþa með nokqvorum þeim hætti er ei spilli qveþandi. þriþja leyfi er þat at hafa aþalhendíngar í fyrsta eþa þriþja visuorþi. Fjórþa leyfi er þat at skemma svâ samstöfur, at gera eina or tveim, oc taka or annari hljóðstaf. [þat köllum vær bragar mál. Svâ sem hèr, er qvað þórarinn málhlýþíngr: [1])

Varþat mic þars myrþir
morðfars vega þorþu.

En er sú grein útsett myklu lengra.] þat er hit fimta leyfi at skipta tíþum í vísuhelmíngi. Sètta leyfi er þat at hafa í dróttqvæþum hætti samhendíngar eþa liðhendíngar [2]). þat er it sjavnda at hafa eitt málsorð í báþum vísuhelmíngum, oc þyckir þat spilla í einstaka vísum. Atta er þat at nýta, þótt samqvætt verþi við þat er áðr er ort vísuorð eþa skemra. Níunda er þat at reka til hinnar fimtu kenníngar, en or ættum er, ef lengra er rekit; en þótt þat finniz í fornskálda verka, þá látum vær þat nú únýtt. Tíunda er þat, at vísu fylgir drag eþa stuþill, oc svâ þó at þat sè í síþarra helmíngi, ef maðr er nefndr eþa kent nafn hannz í fyrra helmíngi,

1) *þannig eg fyrir* máhliþíngr; *en O. og U. sl. þessu öllu ámilli merkjanna* [ ]. 2) hlithendíngar *U.*

íngi, þótt þat sè ei nafn annan veg en *hann* eþa *hinn* eþa *sá* eþa *sjá*. Ellipta er þat at: *er*, *en*, *eð*, eþa *at* má hafa optarr en eitt sinn í vísuhelmíngi, svâ sem Refr qvað:

Sæll er hinn er hranná-
hádýra vel stýrir
(tíð erumc vitnis-vâþa
víngerþ [1]) unir sínu.

Tólpta er atriðs klauf. Hvat er tiþaskipti? þrent. Hvernig? þat er var, þat er er, þat er verðr.

85. Hver setníng er þat at breyta háttum með máli einu? þat má svâ gera at gefa nafn hâttum, oc svâ tölu háttanna ena fyrstu, en halda annarri oc enni þriþju tölu setníngar; þat er, sem fyrr var ritat, at hafa átta vísu orð í örindi, oc hin þriþja tala at hafa sex samstöfur í vísuorði ok sömu setníng hendínganna. Háttum er skipt með ýmissum orðtökum, oc er þessi einn háttr er kallaðr er sextánmælltr.

9. Vex yðn, vellir roðna,
verpr lind, þrymu snerpir,
fæsc gagn, fylkir eignaz,
falr hitnar, seðzc vitnir:
skekr rönd, skildir bendaz,
skelfr askr, griþum raskar,
brandr gellr, brynjur sundraz,
braka spjör, litaz avrvar.

Hèr eru tvav mál fullkomin í hverju vísuorþi, en orþalengð oc samstavfur oc hendíngar oc stafaskipti sem dróttqvætt.

86. Nú er breytt annan veg dróttqvæþum hætti, oc en með máli einu. þenna hátt kalla menn *áttmælt*:



1) þannig *O. U.* yingriþ *K.*

10. Jörð verr siklíngr sverþum;
sundr rjúfa spjör undir,
lind skerr í styr steinda,
stavkkr hans af bol lausum:
falla fólk á velli,
fremr milldr jöfurr hildi,
egg bítr á lim lýti,
liggr skavr sniþin hjörvi,

Hèr er mál fullt í hverju vísuorþi.

87. Þessi er hinn þriþi [1]).

11. Yskelfir kann úlfum
auð-mildr búa gildi,
lætr gylþis kyn gáti [2])
gunn-snarr una harri:
fær gotna-vinr vitni
val-bjór afar stóran,
vargr tèr [3]) or ben bergja
blóð-dryck, oc grön rjóþa.

Hèr lýkr máli í tveim vísuorþum.

88. Sjá háttr er nú skal rita er hinn fjórþi þeirra er breyttir eru, en hinn fimti at háttatali. Þetta er *stælt* kallat:

12. Hákun veldr oc havlldum
(harðráþum guð jarþar
tiggja lèr með tíri)
teitr þjóðkonúngs beite:
valld á víðrar folldar
(vindræfurs jöfurr gæfu
öþlíngi skóp úngum)
avrlyndr skati gjörla.

Hèr er svâ [4]):

*Hákun velldr ok havlldum*
*teitr þjóðkonúngs heiti*:

en annat oc it þriþja vísuorð er sèr um mál, oc er þat *stál* kallat.

---

1) *Og er kalladr* Fjórdunga lok *í innihalslistanum í U. eins og af Gunnar P.*

2) gáto *Ol. bls.* 163, *í ordaregistrinu hefir hann*; "Gata ɔ: *victus, cibus*" *en þetta þykir einúngis hans getgáta; og réttara mun* gát *af* geta *eins og* dráp, nám *af* drepa, nema *o. þv.*

3) tær *O. U.*

4) þetta er it fyrsta *U. en K. sl. því.*

89. Þessi er hinn fimti, *hjástællt* [1]):

13. Manndýrþir fá [2]) mærþar
mæt avlld fíra-gæti
lýtr auð-gjafa ítrum
öll (stóð sær of fjöllum):

rjóðr vendils [3]) gat randa-
ræki-njörð at sækja,
hæf ferþ var sú harþa,
heim (skaut jörð or geima).

Þetta kavllum vær hjástællt: hèr er it fyrsta vísuorð oc annat oc þriþja sèr um mál, oc hefir þó þat mál eina samstöfun með fullo orþi af hino fjórþa vísuorþi; en þær fimm samstöfur er eptirfara lúka heilu máli, oc skal orðtak vera forn minni.

90. Þessi er hinn sjavndi, *Lánglokur* [4]):

15. Hákun ræðr með heiþan
[hefir drengja vinr fengit
(lavnd verr buðlúngr brandi
breiðfeld) mikit veldi]:

[róg-leiks náir ríki
remmi-týr at stýra
(avld fagnar því) eigno]
orðróm konúngdómi.

Hèr hefr upp mál í enu fyrsta vísuorþi, oc lýkr í enu síþarsta oc eru þau sèr um mál.

91. Þessi er enn átti háttrinn, *Tiltekit.*

15. Þeim er, grundar grímu
gjald seiðs [5]) oc var falldinn,
(drótt man enn þatz [6]) átti
áðr hannz faþir ráþa:

gunn-heitir ná grýtu
(gramr býr of þrek) stýra;
stórt ræðr hann en hjarta
hvetr buðlúnga setri.

Hèr er hinn fyrri vísuhelmíngr leiddr af þeirri vísu er áðr var qveþin, oc fylgir þat máls orð er *afleiþíng* er kavllut, er síþarst var í hinni fyrri vísu, þessum vísuhelmíngi, oc er sá vísuhelmíngr ei elligar rèttr at máli.

1) *sl. O. U.* 2) fær *U. og i næstu l.* gætir.
3) *Þannig U.* riódvendils *K.* riódvandill gat *O.*
4) Lánglok *Gunnar P.* 5) gjalldseidr *O.*
6) *Þannig O.* mun enn þess *U.* man ec þannz *K.*

92. Þessi er hinn níundi háttr:

16. Setr of vísa vitran
víg-drótt [en þar hníga]
(ýr dregz) við skot-skúrum
skjaldborg [í gras alldir]:
vâpn-rjóðr stikar víþa
(vell-brjótr [1]) á lavg spjótum
þrýngr at sverþa saungvi)
sókn-harðr þravmu [2]) jarþar.

Þat máls orð er fyrst er í þessi vísu er síþarst í hinni fyrri, oc er hin síþari svâ dregin af hinni fyrri; því heita þat *dravgur*.

93. Þessi er hinn tíundi háttr, er vær köllum *refhvörf* [3]). I þeima hætti skal velja saman þau orðtök er úlikuz sè at greina, oc hafi þó einnar tíþar fall bæþi orð, ef vel skal. En til þessa háttar er vant at finna avll orð gagnstaðlig, oc er hèr firir því sum orð dregin til hæginda, en sýnt er í þessi vísu þat, er orðin munu finnaz, ef vandliga er leitat, oc mun hèr þat sýnaz at flest frumsmíð stendr til bóta. Svâ er hèr qveþit:

17. Síks-glóþar verr sækir
slètt skarð hafi jarþar,
hlíf-granda rekr hendir
heit kavld loga avldu:
fljótt vâlkat skilr fylkir
friþ-læ [ravþul [4]) sævar
rán-sið ræsir stavðvar]
reiðr [glaðr fravmum meiþum].

Hèr er í fyrsta vísuorþi svâ qveþit: *siks*, *glóþar*, *verr*, *sækir*; *sik* er vatn, *glóð* er eldr, en eldr oc vatn hatar hvârt avðru: *verr*, *sækir*, þat er úlikt at verja oc sækja. Annat vísuorð er svâ: *Slètt*, *skarð*, *hafi*, *jarþa*; *slètt* þat er jafnt, *skarð* þat er úslètt: oc svâ *hafi*, *jarþar*; sær er *haf*, land er *jörð*, en þá er í eitt fall mælt [5]) at *sá ferr af hafi til jarþar.*

1) vell-brjót *O.* 2) þrumu *ss.* þrimu *U.*
3) Hrefhvörf *U.* 4) röduls *O. U.*
5) þannig *O.* er í ætt full mælt *K.* þat er eitt fall mælt *U.*

þriþja vísuorð er svâ: *hlíf, granda*, þat er ljóst refhvörf-mælt; oc svâ *rekr*, *hendir*, sá flytr braut er *rekr*, en sá stavðvar er *hendir*. *Heit*, *kavld*, þat er ljós orð, oc svâ *loga*, *avldu*; *logi* er eldr, *alda* er sjár. Fimta orð er svâ: *fljótt*, *vâlkat*; *fljótt* er þat er skjótt er, *vâlkat* þat er seint er: oc svâ *skilr*, *fylkir*; sá er *skilr* dreifir, en sá er *fylkir* samnar. Sètta orð er svâ: *friþ*, *læ*; *friþr* er sætt, *læ* þat er væl, oc enn *ravðull*, *sævar*; *ravþull* er sól, oc gengr hon firir eld í öllum kenníngum, *sær* er enn sem fyrr í móti eldi. Sjavnda orð er svâ: *rán*, *sið*, *rán* þat er *ósiþr*: oc svâ *ræsir*, *stavðvar*; sá flytr er *ræsir*, en sá heldr aptr er *stavðvar*. Atta orð er svâ: *reiðr*, *glaðr*, þat er ljóst mælt: oc svâ *fravmum*, *meiþum*; þat er újafnt at vinna manni *frama* eþa *meizlur*. Hèr eru sýnd í þessi vísu sextan orðtavk sundrgreinilig, oc eru flest ofljós til rètz máls at færa, oc skal þá svâ upptaka: *Síks glóð* þat er gull, *sækir gullz* þat er maðr: hann *verr skarð jarþar hafi slètt*, þat eru firþir, svâ heitir fylki í Noregi: *hlíf-grandi* þat er vâpn, *hendir loga avlldu* er maðr, er *rekr kavld heit* sverþinu, þat er at hefna úsiþu: *fljótt vâlkat* má þat kalla, er skjótráþit er, þat *skilr* hann af ófriþinum, konúngr heitir *fylkir*: *ránsið ræsir stavðvar sævar-ravþuls-fravmum-meiþum*. Þetta heita *en mestu refhvörf*.

94. Þessi eru avnnur refhvörf oc eru hèr hálfu færi vísuorð, þau er refhvörfum er ort, oc

eru þau tvenn í öðro vísuorþi; oc er firir því köll-ut en mestu.

18. Blóð fremr (Hlavkk at háþiz fal lætr of her hvítan [1])
heldr slitnar dul) vitni: hollr gramr rekinn framþan,
[skjöldr] enn skatnar foldir [en tiggja sonr] seggjum
[skelfr harðr] taka varþa: svalr brandr [dugir] grandar.

hèr eru þau refhvörf í öðro hverjo orði: *heldr* oc *slitnar*, oc *dul* oc *vitni*, *dul* er laun, en *vitni* er sannan. En í fjórþa vísuorþi eru þessi: *skelfr*, *harðr*, *taka*, *varþa*. I sètta vísuorþi er svâ: *hollr*, *gramr*, *rekinn*, *framþan*. I átta vísuorþi er svâ: *svalr*, *brandr*, *brandr* er elldz heiti: *dugir*, *grandar*, þetta er ofljóst ort. Hèr eru oc avnnur máltavk, þau er til máls skal taka; svâ at kalla: *blóð fremr vitni* þat er vargr; en *dul* eþa laun *slitnar* eþa rofnar *at hlavkk háþiz*, þat er orosta. Oc í avðrum fjórþúngi er svâ, at *harðr skjöldr* (*skelfr*), en *skatnar taka varþa* ríki. I þriþja fjórþúngi er svâ: at *hollr gramr lætr of her framþan* [2]) *fal hvítann rekinn*, sá er framiðr er framarr er settr. I fjórþa fjórþúngi er svâ: at *svalr brandr grandar seggjum*, *en tiggja sonr dugir*.

95. Þessi er *hinn þriþi refhvarfa-háttr*:

19. Segl skekr of hlyn [3]) huglar
(hvast drífa skip) rasta
en favll of gram gylli [4])

---

1) *K. S. og U.* f. látid her hv. *O.* hal látid her hv. *Gunnar Pálsson hefir skrifad hjá* "fal. of her *sumir*, lætr *adrir*" *þar af hefi ég upptekid þad sem meiningin þykir útheimta.*
2) *þannig U. en K. O. telja* framþan *til* fal. 3) hlin *O.* ok hlyn *U.* 4) *þannig O. U.* gulli *K.*

grunn djúp hata unna:
nè rán við haf-breinum,
há-ravst skapar flaustum
(hravnn firir húfi þunnum
heil klofnar) frið deilu [1]).

þessi eru at kalli in mestu refhvörf [2]). Hèr er eitt [3]) vísuorð í hvârum helmíngi, þat er refhvörfum er ort, oc tvenn í hvârum [4]), svâ sem hèr: *grunn djúp hata unna*, enn í enum efra helmíngi er svâ: *heil klofnar frið deilu*; þessi eru at kalli en mesti refhvörf oc *minnzt* af þessum.

96. Nú hefjaz *en minni refhvörf*. Hèr eru ein refhvörf í vísuorþi:

20. Hèlir hlýr at [5]) stáli,
hafit fellr, en svífr þelli
ferþ dvöl firrizt harþa [6])
fram mót lagar glammi:
vindr rèttr vâþir bendir,
vefr recr á haf sneckjur,
veðr þurr vísa iþjor [7])
vârar fýsir skip lýsa [8]).

Hèr er eitt refhvarf í hverju vísuorþi, oc flest ofljós.

97. þessi eru *avnnur en minni.*

21. Lúng [9]) frá ec lýþa þengils
(lá reis of skut) geisa,
en svavrð of her herþa [10])
hljóp stóð und gram Róþa. [11])
þjóð fær þúngra skeiþa
þraung rúm skipat laungum

1) dæla *O.* 2) *sl. O. U.* 3) eru tvav *O.*
4) *þannig O. en* or hvârum *K. rèttara þætti mèr: í* hvâru *eðr í* hvârum stad. 5) fyrir *U.* 6) Hörda *O.*
7) þyrr *O.* iþnir *U.* 8) lyþa *ss.*
9) Lyng frá ec lysa *O. og í næstu l.* geisla.
10) sverd *U.* --hardiz *O. kannske rèttara væri:* (en sverd of her) Hörda *eda* harda. 11) hljód *O.* --um gram bjoda *U.*

stál lætr styrjar deilir
stinn klavck í mar savckva.

Hèr er refhvörf í avðru hverju vísuorþi.

98. þessi eru en *þriþju*:

22. Himinglæfa strýkr háfar
hravnn Skilja sog þiljur
lavg stíga [1]) vill lægir
ljótr fagr-drasil brjóta.
Lvs-heims náir ljóma
(líðr ár) of gram blíþum
(uðr reckir kjöll klavkkvan
kavld) eisa, far geisar.

Hèr eru refhvörf í hvârum helmíngi; þessi eru en minnztu refhvörf.

99. En er sá háttr er vær kavllum *refhvarfa-bróþur*.

23. Firriz hönd med harra
hlum [2]) (líðr vetr at sumri)
en flaust við lavg Lista
laung taka lívíld at gaungu.
Avl mæþir lið lýþa,
lètt skipaz havll it [3]) rètta,
enn skál at gjöf góla
gullz svífr tóm en fulla.

Hèr er i öðru (orði) oc fjórþa þau orð er gagnstað-lig eru sem refhvörf; enda standa ei saman, oc er ein samstafa millum þeirra, oc lúkaz bæþi ei eina tıð. þessir hættir er nú eru ritaþir eru dróttqvæþ-

ir at

1) þannig *U.* launstiga *K.* lög skída *O. og í fyrir l.* sæg *U.* sög *O.*
2) þannig *U.* hlumr *K. O.*
3) þannig *U.* en *K.* hin *O.*

ir at hendíngum oc orþa lengð: hèr eru sex samstöfur í hverju vísuorþi, oc aþalhendíngar í öþru oc enu fjórþa, en skothendor í fyrsta oc þriþja.

100. Hvernig skal skipta dróttqvæþum hætti með hendíngum eþa orþa lengð? Svâ sem hèr er *dunhenda*.

24. Hreintjörnum gleðr horna
(horn nàir lítt at þorna)
(mjöðr hegnir bavl bragna)
bragníngr skipa sagnir:
fólk-hömlu gefr framla
framlyndr viþum gamlar
(hinn er heldr firir skot skjöldum)
skjöldúngr hunángs-avldur.

Hèr er þat málsorð fyrst í öðru oc enu fjórþa vísuorþi, er síþarst er í enu fyrsta oc þriþja.

101. Þetta er *tilsagt*.

25. Ravst gefr avðlíngr jastar
(avl virþi ec svâ) firþum;
þavgn fellir brim bragna
(bjór forn er þat) horna:
máls kann mildíngr heilsu
(mjöðr heitir svâ) veita;
strúgs kemr í val veiga [1])
(vín kallac þat) galli [2])

102. Nú er *orðzqviþaháttr*:

26. Fús brýtr fylkir eisu
fens (bregðr hönd á venju)
rán-hegnir gefr Rínar
rayf (spyrr ætt at jöfrum):
mjöc trúir ræsir recka
raun (sèr gjöf til launa).
ráð á lofþúngr lýþa
lengr (vex hverr af gengi).

103. Þetta er *álagsháttr*:



1) strúgs kemr valr á veigar *O.* stryks k. í val veiga *U.*
2) gallda *U.*

27. Iskalda skar [1]) ec öldu
eik (var súð en bleika
reynd) til ræsis fundar
ríks (emc kuðr at slíku):
brjótr þí hersirs heiti
hátt (dugir sæmd at vitta)
auðs af jarla-prýþi [2])
ítrs (vara siglt [3]) til lítils).

Hèr hefr upp annat oc hit fjórþa vísuorð með fullu orþi oc einni samstöfu, oc leiþir þat orð af hinu fyrra vísuorþi, en þær fimm samstöfur er þá eru eptir eru sèr um mál. Þessi er hinn fyrsti háttr er ritaðr sè þeirra er breytt er af dróttqvæþum hætti með fullu hátta-skipti, oc hèþan frá skal nú rita þær greinir, er skipt er dróttqvæþum hætti oc breytt með hljóþum oc hendínga-skipti eþa orþa lengð, stundum viðlagt en stundum aftekit.

104. Þetta er *tvískelft.*

28. Vann baugs veitti [4]) sendir
vígrackr [en gjöf þackac
skjald-brags [5]) Skylja mildum]
skip reiþu mèr [heiþa]
fann næst fylkir unna
favl dýr [6]) at gjöf stýri
stál hreins, styrjar-deilis
stórlæti sá ec [7]) mæta.

Hèr [er] í fyrsta oc þriþja vísuorþi þat er háttum skiptir, hèr standaz [8]) hljóðfyllendr svâ nær [at ein samstafa er í milli þeirra; þeir gera skjálfhendur stuðlar, oc er hinn fyrri [9]) upphaf vísuorðz, en hendíngar standaz sem first. En ef frumhendíng er í þeirri samstöfu, er næst er hinni fyrstu, þá bregz eigi skjálfhenda.

---

1) þannig *U.* braut *O.* skal *K.* 2) fryþi *U.*
3) slíkt *O. U.*
4) veiti *U.* vandbaugs veiti *O.* *kannske rèttara:* vann baugs-veiti senda *eda* veita sendir. 5) skjaldbraks *O.*
6) fjöldyr *ss.* falldur *U.* *og strax* styra. 7) sá er *K.* fá er *U.*
8) stuþlar *bætir U. inn.* 9) ero hin fyrri *U.*

105. Þessi er *detthendr háttr* [1].

29. Tvær man ec hilmi hýrum
heims-vister ótvistar,
hlaut ec ásamt at sitja
seimgildi fèmilldum:
fúss gaf fylkir hnossir
flein-stýri margdýrar,
hollr var hersa-stilli
hodd-spennir fjölmennum.

Hèr skiptaz hættir í öðru oc fjórþa vísuorþi, oc ræðr en fjórþa samstöfun háttunum.

106. Þetta er *draugs-háttr*.

30. Þoll bið ec hilmis hylli
halda grænna skjalda,
askr beið af því þroska
þilju Hrúngnis ilja:
víg-foldar njót valdi
vandar margra landa
nýtr vartu oss til ítrar
elli dólga fellir [2])

Hèr er enn í fjórþa oc í avðru vísuorþi þat er háttum skiptir oc ræðr hèr hin þriþja samstafa.

---

1) *O. hefir af öllu þessu frá merkinu einúngis:* at tvær samstöfur eru ímillum þeirra: þær gjöra skjálfhendur.

2) dólgafellis *O.*

## *ANNAT QVÆÞI.*

107. [Nú hefr upp annat qvæþi: [1]).

31. Stáls dyn-blacka stavckvi
stinngeðs samir minnaz
(álms-bifsæki aukum [2])
Yggs-feng) á lof Þergils:
óddz [3]) blá ferla jarli
avrbrjót hè skal þrjóta
(Háts saltunna [4]) brannir
brænum) óð at stæra.

Þetta heitir bragarbót [5]). Hèr skiptir háttum i fyrsta oc þriþja vísuorþi: [hèr standaz sem first má stuðlar, en hendingar svâ at ein samstafa er á milli, þat greinir háttuna [6]).

108 Þenna hátt kalla menn *riðhendor* [7]).

32. El þreifz skarpt of Skúla
skýs snarvinda lindar,
egg varþ hvöss í havggum
hræs dyn-brunnum [8]) runnin:
seim-þreytir bjó sveita
snjallr ilstafna [9]) hrafni,
Páll [10]) varð und fet [11]) falla
fram þrá-barni arnar.

Hèr skiptir háttum í öþru oc fjórþa visuorði, standa þar hendingar baðar samt nær enda, oc lúkaz í einum staf [12]) báþar, oc er betr at samhljoðandi sè eptir aðra [13]).

---

1) Þat er ort er um Skúla jarl oc heitir Bragarbót *hætir O. inn, U. sl. þessu öllu, en hátrinn sjelfr heitir* bragarháttr *i U.* draughendt *hjá Gunnori P. honn gefr næst undanfarna hættunum eckert islenzkt nafn.*
2) álfs b. aukinn *O.*
3) Ods *O.*
4) saltavnnu *K.* saltunnum *U.*
5) *sl. O. U.*
6) *sl. O. þó setr hun i stadin:* ok rædr sú samstafa háttum, er næst er hinni fyrstu.
7) *sl. O. en U. kallar þenna hátt* lidhendur.
8) *þannig O. U.* brönnum *K.*
9) ilstafni *O.*
10) þollr *O.* Valr *U.*
11) fit *O.* fót *U.*
12) í einn hljódstaf *U. en þessi ord sjast ecki i K.*
13) báþar *O.*

109. Þessi háttr er kallat *veggjat.*

33. Lífs varð rán at raunum
reð [1]) sverþ, skapat mjöc ferþum
straung [2]) óð þrátt á þíngi
þjóð sterk, liðu fram merki:
hrauð of hilmis bróþur
hvöss egg friþar vön [3]) seggjum,
spjót náþu blá bíta,
búandmenn hlutu þar renna.

Hèr er hátta skipti í öðru oc fjórþa vísuorþi, oc er þar ein samstöfun sett í, svâ at tvær eru síþarr, oc aukit því lengð orðzins.

110. Nú er *flagþa háttr:*

34. Flaust bjó fólka-treystir
fagr-skjölduþustum avldum,
leið skar bragníngs bróþir
bjart-veggjuþustu reggi: [4])
hest rak hilmir rastar
harð-sveipadaztan [5]) reipum,
sjár blaut við þröm þjóta
þúng-húfuðuztu lúngi.

Hèr skiptir háttum í öðro oc enu fjórþa vísuorþi, er hèr aukit bæþi samstöfu oc fullnat orðtak sem framazt, oc eptir þá samstöfun eru þrjár samstöfur, oc er rètt dróttqvætt ef hon er or-tekin.

111. Þessi háttr er *en forna Skjálfhenda:*

35. Reist at vágs-brú vestan
(varr-sima bar [6]) fjarri)
heit-fastr hlífar rastir
hjálmtýr svölu stýri:
stöck öx [7]) er bar blacka [8])
brims firir jörð, it grimma
herfjöld húfar svölþu
hrann lið [9]) búandmanna.

Hèr er skjálfhent með aþalhendíng i þriþja vísu-

1) reid *O.* reidd *U.* 2) stöng *U.* stög *O.*
3) ván *O. eptir vanalegri stafasetníngu.*
4) hreggi *O. U.* 5) þ*annig O. U.* hardgreipadaztan *K.*
6) barr *K. St.* 7) stökr vóx *U.* stöcr ox *K.* Stockr vóx *St.*
8) backa *U. St.* 9) hrann rád *K.* hrannlad *U.* hrannláþ *St.*

orþi í hvârum-tveggja helmingi en, at öðru sem dróttqvætt. [Þenna hátt fann fyrst Veili [1]); þá lá hann í útskeri nokqvoro, kominn af skips broti, oc höfþu þeir íllt til klæþa oc veðr kallt: þá orti hann qvæþi er kallat er Qviþan skjálfhenda eþa Drápan steflausa, [oc qveþit eptir Sigurðar savgu [2]).

112. Þetta er *þríhent* kallat:

36. Hristi hvatt þá er reistiz
herfaung mjöc laung vestaung,
samþi fólk en fravmþuz
fullsterk hríngserk grams verk:
hönd lèc hermun [3]) reyndiz
hjörr kalldr [4]) allvalldr mannballdr
egg frá ec breiþa bjöggju
bragníng fylkíng stóð þíng.

Þrennar aþalhendíngar eru hèr í öðru oc enu fjórþa vísuor i, oc lúkaz allar einnig, oc fylgir samstöfun firir hverja.

113. Nú er *hinn dýri háttr*:

37. Vann kann virþum banna
vald gjald höfuþ [5]) aldar
ferð verþ fólka herþi [6])
fest mest, sá [7]) er bil lestir:
hátt þrátt [8]) havlþa áttar
(hrauð auð jöfurr rauþum)
[þat gat þengill skatna
þjóð] stóð af [9]) gram [bjóþa].

Hèr eru i fyrsta [oc þriþja vísuorþi [10]) tvær aþalhendíngar samt í upphafi, en hin þriðja at hætti við enda.

---

1) Þorvaldr Veili *U.*
2) *sl. U.* en *O. sl. því öllu frá fyrra merkinu, og færir það inn seinna við 38 erindi.*
3) hverjum *O.* herjum *U.* hernum *S.*
4) kalld *O. en* alls valdr *S.*
5) höfundr *O. U.*
6) hirdi *O. og strax flest.*
7) sú *U.*
8) hrátt *U.*
9) of *ss.* um *U.*
10) visuordi ok hverju í upphafi *O.*

38. Farar snarar fylkir byrjar,
freka breka lemr á sneckjum,
vaka taka vísa reckar,
viðar skriðar at þat biðja:
svipa skipa sýjur [1]) hepnar
savmum þravmum í byr ravmmum,
Haka skaka hrannir blavckum,
hliðar miðar und kjöl miðri [2])

114. Þessi háttr er kallat *tiltekit*:

39. Oc hjaldr-reifan[3]) hófu
hodd-sticklanda miklir
(morðflýtir kná mæta
m lm-skúrar dyn) hjálmar: [4])
hjaldrs þá er hilmir foldar
hugdýrum gaf stýri [5])
[ógn-svellir fær allan]
jarldóm gavfugr [sóma].

Hèr skiptir háttum it fimta vísuorð, oc leiþir í því orþi m ltac af fyrra vísuhelmíngi, oc dregz þat vísuorð með hljóðfyllíng mjöc eptir skjálfhendu enne nýu.

115. Þessi h ttr er kallat *greppa minni*: [6])

40. Hverr fremr hjaldr [7]) barra,
hverr er mælíngum ferri [8]),
hverr gerir havpp at stærri,
hverr kann auð at þverra?

---

1) synir *U.* svior *K.*
2) *Þetta erindi færa U. St. G. inn hèr, og þykir þad rètt, bædi vegna innihaldsins um sjóferdina og vegna þess þad er svo líkt fyrri hættinum, en O. og Skaldubrot, sem eg eignadist á Islandi, færa þad inn seinna næst eptir Ragnars Lodbrókar h. O. kemr þarnæst med þad um Veila, sem K. og U. höfdu vid 35. erindit, og hefir þareptir þetta:* Hèr eru þrjár hendingar í visu ordi ok skothenden þridja hendíngin ok fylgir samstafa hverri hendíngu. *Skáldubr. nefnir þad* Velaháttur al. Tröllsháttur, *og hefir næst eptir þetta*: Þad qvædi, sem þessi visa er í hèt qvidan skjalfhenda, eru hèr þrjár hendingar *o. s. fr. K. hefir hlaupit yfir þad fyrst, en sidan er þad skrifad til allra seinast, eptir* Njóti aldurs *o. s. fr. S. hefir eckert af því.*
3) hjaldreifar *K.* 4) halmar *U.*
5) hugstærum gaf færi *O.* hugfærum (-ræfur) gaf stæri *U. og mun þad rètt.* 6) *sl. O. U.* 7) hildi *O. U.* 8) færri *O.* ɔ: færari *Gunn. P.* fyrri *U.* ɔ: fjærri *ad eg meina.*

veldr hertogi hjaldri,
hann er first blicnar [1]) manne,
hann á havpp at sýnni,
hann vèlir [2]) blic spannar.

Þessum hætti er breytt til dróttqvæðz háttar með orþum [3]).

116. Nú er sá háttr, er vær kavllum *liðhendor*.

41. Velr ítr-hugaðr ýtum
Otr-gjöld jöfurr snotrum,
opt hefir þíngs firir þraungvi
þúng-farmr Grana sprúngit:
hjörs vill rjóðr at ríþi
reiðmálmr Gníta heiðar,
vígs er hreytt at hættiz [4])
hvatt niflúnga-skatti.

Þat eru liðhendor, er hinn sami stafr stendr firir hendíngar, oc þá er rètt ort liðhendr háttr, at í avðru oc í hinu fjórþa vísuorþi sè oddhendíng oc skothendíng [við þær hendíngar, er í fyrra [5]) vísuorþi eru, oc verþr þá einn upphafsstafr allra þeirra þriggja hendínganna [6]).

Nú er sá háttr er vær kavllum *rètthent* [7]):

42. Alrauþum drífr auþi,
ógn rakkr fírum Hlackar
veit ec hvar [8]) vals á reitu
verpr hríng-dropa snerpir:
snjallr lætr á fit falla
fagr-regn jöfurr þegnum
(ógn-flýtir [9]) verr ýtum
arm) Mardallar hvarma.

Hèr eru aþalhendíngar í fyrsta oc þriþja vísuorþi, en gætt at taka or skothendor.

118.

1) blikur *U.* blikurs *O.*   2) velur *S.*
3) *O. bætir vid:* en flestir yrkja þat med lèttum heitum.
4) hætis *U.* hæiti *O.*   5) *þannig U.* einu *K.*
6) *O. sl. þessu frá merkinu.*   7) detthent *O.*
8) *þannig O. U. og Ol. bls.* 60. hvat *K.*
9) ógn-flytum *O. og Ol. ámóti málfrædinni; U. og K. hafa* ógnflytir

118. Enn er sá háttr er vær köllum *ina minni aþalhendu*, þat eru skothendor í enu fyrsta vísu-orþi í báþum helmíngum, svå sem hèr segir:

43. Samþuckjar fremr savckvi[1]) fè-stríþir kná Fróþa-
snar baldr hjarar aldir,
gunn-hættir kann Grótta-
glaðdript[2]) hraþa skipta;
friðbygg-liþi tryggva,
fjölvinjaðr hylr Fenju
falr meldr alin[3]) veldi

En minni alhenda er þá rètt ort, at haldit sè vísu-lengð saman; en ef henni er skotit í fulla alhendu svå at skothendor sè þar sumar eþa allar í vísu-orþi, þá er þat ei rètt.

119. Nú er *alhent*:

44. Frama skotnar gram gotnom herfjölð bera havlþar
gjöf sannaz ravf[4]) spannar
men-stiklir venz mikla[5])
mann dýrþir vann[6]) skýrþar:
hag bál[7]) lagar stála
friþaz sjaldan við valdi
val-landz[8]) svala branda.

Hèr eru tvennar aþalhendíngar í hverju vísuorþi. þessi þyckir vera fegrstr oc vandaztr, ef vel er ortr, þeirra hátta er qvæþi eru ort eptir, oc er þá full alhendíng ef ei finnz í: *at, ec, en* eþa þau smá orþ er þeim fylgja, nema þau standi í hendíngum, en ei hafa allir menn þat varaz, oc er þat firir því ei rángt, sem qvað Klæingr biskup:

Bað ec sveita glað Geitis,
gavr er ið at favr tíþum,
dravgum hest á lavg lesta,
lið flýtr, en skrið nýtum.

120. þetta er *stamhendr* háttr:



1) Samþyckjar fr. söckum *U. O.* 2) grottu grad dript *O. og strax* fjölvinjar, *en U. hefir* fjölvinjat. 3) *K. synist ad hafa* alm, *en O. færir þetta erindi inn næst eptir:* bad ec sveita. 4) ref *U.* 5) miklar *O. Olafs. bls.* 61. venr miklar *U.* 6) innan *U.* 7) hag báls *ss. O.* 8) vandz *U.*

45. Lætr undin brot brotna
bragníngr firir sèr hrínga,
sá tekr firir men menja
mætt orð of sik fættir: [1])
armr kná við blik blikna
brimlandz viþum randa,
þar er hönd at lið liþnar [2])
lý-slóþar berr glóþir.

Hèr er í fyrsta oc þriðja vísuorði tvíqveþit at einni samstöfu, oc haft þat til hendínga, oc firir því kavllum vær þetta stamhent at tviklypt [3]) er til hendíngarinnar; oc standa svâ hendíngar í orþinu sem riðhendor.

121. Nú er sá háttr er *samhent* er kallat:

46. Virþandi gefr virþum
ver-bál [4]) liþar skerja,
gleðr vell-brjóti vellum
verþúng avar [5]) þúngum:
ýtandi fremr ýta
auð sæ-funa rauþum,
þar er mætum gram mæti
mar-blaks-skipendr þacka.

Hèr eru þær hendíngar er vær kavllum samhendor, því at þessar eru allar med einum stavfum, oc eru í avðru oc þriðja vísuorþi svâ settar sem skothendur í dróttqvæþum hætti.

122. Nú er *íþurmælt*:

47. Seim-þverrir gefr seima
seim-avrr liþi beima,
hríng-mildan [6])spyr echríngum
hríng-skemmi brott stínga:
baug-stavckvir fremr baugum
baug-grimmr hjarar drauga, [7])
viðr gull-broti gulli
gull-hættr skaþa fullan.

Hèr er þrim sinnum haft samhendíngar, tysvar í fyrsta oc þriðja vísuorþi, en í avðru oc hinu fjórþa er haldit afhendíng sem í dunhendum hætti.

123. Þessi háttr heitir *klifat.*

48. Auð-kendar [8])verr auþi
auð-týr boga-nauþir,

---

1) mæt o.um s. fætir' *O.* metord of s. fetir *U.* 2) þvíat h. vid l. lidna *O.* 3) tvíkylpt *U.* 4) verbáls *K.* 5) aurar *K.* 6) hríng-mildum *O. og í næstu l.* brotninga *ss.* brott þinga *U.* 7) draugum *K.* 8) *þannig U. en K. synist at hafa* audkendor, *en O.* audkendum, *og strax* boga nauda.

þar er auð-viþum auþit
auðs í gulli rauþu:
heið-mönnum býr heiþis
heið-milldr [1]) jöfurr reiþir,
verr [2]) heið-fravmuðr heiþar
heið gjöf vala leiþar.

Hèr halda samhendingar of allan vísuhelmíng, oc taka með aþalhendíng ena síþarri í öþru oc enu fjórþa vísuorþi.

124. Nú eru þeir hættir er *stúfar* heita:

49. Hjaldr-remmir tekr Hildi
(bríngr brestr at gjöf) festa [3]),
hnígr und Havgna-meyjar
hers-valdandi tjald:
Hèþins-mála býr hvílu
hjálm-lestanda flestum,
morð-aukinn þiggr mæki
mund Hjaðnínga-sprund.

Hèr er it fjórþa vísuorð stýpt; oc tekin af samstafa, er í dróttqvæþum hætti skal setja med hendíng.

125. Þessi er *meiri stúfr*:

50. Yggs-drósar rýfr eisa
avld [4]) móð-seva-tjöld,
glóð stöckr í haf Hlackar
hugtúns firum brún:
geð-veggjar svífr [5]) glugga
gless dyn-brimi hress; [6])
hvattr er hyrr at slètta
hjaldrs gnapturna aldrs. [7])

Hèr er stýft annat oc it fjórþa vísuorð.

126. Nú er *hinn mesti stúfr*. Hèr eru avll vísuorð stýfð:

51. Her-stefnir lætr hrafn
húngrs [8]) full-seðjazt úngr,
il-spornat getr [9]) avrn
alldr-lausaztan haus,
vilja-borg [10]) en vargr
víg-sára klífr grár,
opt solgit fær ylgr
(jöfurr góðr vill svâ) blóð.

Þessir hættir er nú eru ritaþir oc greindir í þrjá staþi; þvi at menn hafa ort fyrr svâ at í einni vísu var annarr helmíngr stýfðr enn annarr helmíngr

1) heidfrækn *U.* 2) venr *O. U.* 3) flesta *U.*
4) ell *U.* 5) ged veggr synir *ss.* 6) glæss d. br. hræss. *O.*
7) alldr. *ss.* 8) húngr *O. U.* 9) lætr *O.* 10) *þannig O. U.* dorg *K.*

tvístýfðr, oc eru þat háttafavll; sá er hinn þriþi er alstýfðr er, þvíat hèr eru avll vísuorð stýfð:

127. Nú skal rita þann hátt er *skothendr* heitir:

52. Særskjöldúngs niðr skúrum,
sköpt darraþar lyptaz,
hrindr gunnfána grundar [1])
glygg af fræknum tiggja
geysa Ve fyrir vísa
veðr staung [2]) at hlym Gúngnis,
styrk eru mót und merkjum
málms of ítran [3]) hilmi.

Hèr eru skothendur í öllum vísuorþum, en annat sem dróttqvæþr háttr.

128. Nú er sá háttr er vær kavllum *liðhendor*.

53. Stjóri venzt at stæra
stór verk dunu geira,
halda kann með Hildi
hjaldr-týr und sic foldu;
harri slítr [4]) í hverri
Hjarranda-favt snerru,
falla þar til fyllar
fjallvargs jóru-þollar.

I þessum hætti eru liðhendor með tvennu móti, en aðrar á þá lund at við [5]) ena fyrri hendíng í fyrsta oc þriþja vísuorþi . . .

129. Nú skal rita þá háttu er fornskáld hafa qveþit, oc eru nú settir saman; þótt þeir hafi ort sumt með háttafavllum, oc eru þessir hættir dróttqvæþir kallaþir í fornum qvæþum, en sumir finnaz í lausum vísum. Svâ sem orti *Ragnarr konúngr Loðbrók* með þessum hætti: [6])

54. Skýtr at Skavglar-veðri
en skjaldagi haldaz [7])
Hildur hlemmi drífu
of hvítum [8]) þravm rítar:

1) Göndlar *Olafs. bls.* 59. 2) þ*annig U.* stöng *O. en í K. sest* þ*ad ecki*; ströng *Olafs.* 3) ítrar *K.* 4) skilr *U.* 5) *O. sl.* at; *en U. sl.* vid. 6) *Hèr tekr til* þ*ad adr umgetna Skaldu-brot,* þ*ad kemr O. mikid nærri vidast hvar.* 7) skjölldvigi halldiz *U. og í næstu l.* hleimi *U.* hlemmi *eda* hleanu *O.* 8) hvítar. *O.*

en í sœfis sveita
at sverþtogi ferþar
rýðr alda-vin odda
(þat er jarls megin) snarla.

Hèr er í fyrsta oc þriðja visuorþi háttlausa, enn í öðru oc fjórþa aðalhendingar; en havfutstafrinn stendr svâ, sá er qveþandi ræðr í öðro oc enu fjórþa visuorþi, at þar er firir-sett samstafa ein eþa tvær, en at avðru sem dróttqvætt.

130. Nú skal rita *Torf-einars hátt:*

55. Hver sæi jöfra-œgi [1])
jarl fjölvitrum betra, [2])
eþa gjarnara at græþa [3])
glym hraðfeldan skjalda?
stendr af stála-skúrar
styrr ólítill Gauti,
þá er fólks-jaþar foldir
ferr sig-njörþum varþa.

Hèr er í fyrsta oc þriþja vísuorþi háttlausa, en í avðro oc fjórþa skothent oc riðhent. [4])

131. Nú er *Egils háttr.*

56. Hver ali blóþi byrsta [5])
bens rauð-sylgjum ylgi,
nema svâ at gramr of-gildi
gaf [6]) dag margan vargi:
gefr oddviti undir
egg ný-bitnar vitni,
her sèr [7]) Fenris fitjar
framkló loðnar roþna.

Hèr er í fyrsta oc þriðja vísu-orþi háttlausa, en í avðru oc enu fjórþa aðalhendingar oc riðhent. [8])

132. Nú er *fleins-háttr.*

57. Hilmir hjálma-skúrir
herþir sverþi roðnu,
hrjóta hvítir askar,
hrynja bryniu-spángir:

---

1) ægir *O.* ægri *U.* 2) forvitrum snarla *U.* 3) *þannig O. U.* gæþa. *K. og strax* hardselldan *O.* harþsvelldan *U.* 4) aþalhending ok ridhendur *O.* 5) bysta *U. og strax* ylgjar.
6) *þannig O. Skáldubr.* grád. *K. U.* 7) hann er *O.* hann *eda* hèr er *U.* 8) *O. setr þenna hátt eptir Fleinshátt en U. og Skáldubr. fylgir sömu röd sem K. Her eru og úti U.G. eckivantar í þær því autt pláz er eptir i U. og eru þara uppdregnar tvær mannsmyndir ecki of snoturligar, heldr hefir skrifarinn einhvörnegin ecki komizt til þess ad ljúka vid. En i St. hefir einhver bætt vid úr S. því sem vantadi.*

hnyckja Hlackar-eldar remma rimmu-glóþir
harþa svarþar-landi, randa-grand of jarli.

Hèr er svâ farit hendíngum sem í dróttqvæþum hætti, en hendíngar eru settar saman í öndurþu vísuorþi.

133. Nú er *Braga-háttr*.

58. Er til hjálma-hyrjar
herjom styrjar væni,
þar svá at jarl til ógnar
egnir togno sverþi:
sjá kná garð firir grundu,
grindar [1]) þundar jaþra,
er skatna-vinr skjaldar
skyldiz galldr at fremja.

Hèr er í fyrsta oc þriðja vísuorþi it síþarsta máls orð haft til hendíngar, en missir þess orðz ens fyrra er gera skyldi skothendíng, en við þetta hendíngar-orð eru í öþro oc eno fjórþa vísuorþi hendíngar oc er þat önnur hendíng skothenda oc lið . . . önnur aþalhendíng . . . fyrstr, en þessar hendíngar er í öðru oc fjórþa vísuorþi eru, standa sem í fleinshætti. Víþa er þat í fornskálda verka, er í einni vísu eru ýmsir hættir eþa háttafavll, oc má eigi yrkja eptir því, þó at þat þycki ei spilla í fornqvæþum.

134. Nú eru þeir hættir greindir í þrjá staði er *kimblaböond* heita. Þessi er einn:

59. Hjálm-lestir skerr [2]) Hristar
hregg avld Sigars-veggi
gramr lætr í byr [3]) brjóta
branndz hnigþili rannda stranda [4]):
stál hrafna lætr stefnir
styr vind of sic þyrja
þiggr at Gavndlar glyggvi
gagn [5]) oddviti bragna sagna.

---

1) grundar *O. Skáldubr.* 2) skekr *O. Skáldubr.*
3) böd *samastadar.* 4) standa *sst.* 5) gáng *K.*

Hèr er í fjórþa vísuorþi í hvârum helmíngi aukit aðalhending með tveim samstöfum eptir vísuorð, en at öðru sem dróttqvætt.

135. Nú er *it meira kimblaband*:

60. Alm-drósar skylr ísa
ár flest megin bára sára
kænn lætr hræs á hravnnum
hjálm svell jöfurr gella fella
styrjökla kná stiklir
stinn mens legi venja benja [1])
lætr stillir favr [2]) fylla
fólk sund hjarar lunda unda.

Hèr eru tvenn kimlabavnd á hvârum helmíngi.

136. Þessi eru *en mesta kimlabavnd.*

61. Hræ ljóma fellr [3]) hrími tími
hár vex [4]) of gram sára ára
frost nemr [5]) of hlyn Hristar Mistar
herkaldan þravm skjaldar aldar:
gull-sendir brýtr grundar hrundar
gunnveggs [6]) stöfum leggi hreggi
sókn-vallar spyr ec svelli elli
svâ skotnar þat gotna þrotna.

Hèr fylgir hverju vísuorþi kimblaband.

137. Nú skal rita *hrynjandi háttu. Þessi* er *hin fyrsti*:

62. Tiggi snýr á ógnar-áru [7])
(und-gagl veit þat) [8]) sóknar-hagli,
Yngvi drífr [9]) at hreggi hlífa
hjör vèlir fjör [10]) brynju-èli:
vísi heldr of fjörnis-foldir [11])
(fólk skiptir svâ boga-driptum,
skúrum lýstr of hilmi hraustan,
hannz fregnum styr) Mistar-regni.

1) leggja veina beina *O.* 2) fraur *K.* 3) felr *O.* 4) veg *ss.* 5) venr *ss.* 6) *K. synist ad hafa* gunnreggs. 7) ára *O.* 8) undgagls veit því *ss.* 9) dreif *og strax* hlífar *ss.* 10) fjör *ss.* 11) foldar. *ss.*

Hèr er it fyrsta oc þriþja vísuorð aukit framan tveim samstöfum til háttar setníngar, en ef þær eru afteknar, þá er eptir sem dróttqvætt. En or öðro oc fjórþa vísu-orþi má taca málsorð þat er tvær samstavfur fylgja, en fimta oc en sètta í visuorþi, þá er þat orð oc dróttqvætt. I hrynhendum háttum eru optazt átta samstöfur í vísu, en hendíngar oc stafaskipti fara sem í dróttqvæþum hætti. Þetta kavllum vèr *dróttqvæþa hrynjandi.*

138. Nú skal sýna fleiri skipun háttanna; er þessi hrynjandi köllut *tröllz-háttr:*

63. Stála kendi steyckvi lundum
styrjar valdi ravþu fallda; [1])
reckar stýrþu rètt til jarþar
roþnu barþi austan fjarþar:
oddum rendi eljun strand... [2])
ýta ferþar hrínga-skerþir,
hilmir stærþi hvössu sverþi
heila-grundar megin-undir.

Hèr eru átta samstöfur í hverju visu-orþi, [hèr eru hluthendor í öllum orþum ok fylgja fjórar samstöfur hverri hendíngu [3]), oc svâ fara skothendor oc aðalhendíngar oc stafaskipti sem í hrynhendu.

139. Þessi er einn hrynhendr háttr:

64. Vafþi lítt, er virþum mætti,
víg-rækjandi fram at sækja,
skerþir gèck í skúrum [4]) Hlackar
Sköglar-serks fyrir rodnum merkjum;
ruddiz land [5]), en ræsir þrænda
Ribbúngum

1) at falda *O.* at halda *Skaldubr.* 2) strandar *S. skáldubr;* strandir *O. Aðrir* steindir. 3) *vantar í O. Skáldubr.* 4) *þannig O.* skutu *K.* 5) lind *O.*

Ribbúngum skóp bana þúngan,
Gunnar skaut und Gera fótar
grimsetta il hjálma-kletti [1])

þetta er hrynhenda óbreytt [2]).

140. þetta er *draug-hent:*

65. Vâpna-hríþ vellta náþi
vægþarlaus feigum hausi,
hilmir lèt höggum mæta
herþa-klett bana verþan:
fleina-lands fylkir rendi
fjörnis hlíþ megin skíþi
(avflugt sverþ eyddi [3]) fyrþum
jöfri kent) holdi fenta.

þessum hætti eru tíþaz sjav samstöfur í hverju vísuorþi, hendíngar oc stafa-skipti sem í dróttqvæþum, oc ef hèr er ortekin ein samstöfun fyrsta eþa þriþja vísuorþi, sú er stendr næst hinni fyrstu, þá falla hljóþin avll sem í dróttqvæþum hætti. Svâ má oc aftaka í öðro oc hinu fjórþa vísuorþi ena sömu samstöfun, oc er þá þat dróttqvætt,[oc verþr sumt ei mjúkt [4]).

141. þenna hátt köllum vær *munnvörp.*

66. Eyddi úthlaups-mavnnum
ítr hertogi spjótum,
súngu stál of stillis [5])
(stóð ylgr í val) dólgum:
hal margan lèt havfþi
hodd-grimr jöfurr skemra;
svâ kann rán at refsa
reiðr oddviti þjóþum!

22

1) hjalmakl. *O.* 2) *sl. O.* 3) avflum sótti oddi *K. en O. hefir* sverdum *fyrir* fyrþum. 4) ok allmjúkt *O.* 5) stilli *O.*

Hèr er háttlausa í enu fyrsta oc þriþju vísuorþi, en í avðru oc enu fjórþa skothendor.

142. Nú er sá háttr er kallat er *háttlausa.*

67. Ortac avld at minnum  
þá er alframazt vissac  
of siklínga snjalla  
með sex togum hátta;  
sítz hafa veg nè vellum, [1])  
er verþan [2]) mic lètu,  
á aldin mar orpit  
(oss er þat frami) jöfrar.

I þessum hætti eru öngvar hendíngar, en stafaskipti sem í dróttqvæþum hætti. Nú eru saman-settir í tveim qvæþum sex tígir hátta, oc umfram þær átta greinir, er fyrst er skipat dróttqvæðum hætti með málsgreinum, þeim er fylgja hættinum, oc eru þessir hættir allir vel fallnir til at yrkja qvæði eptir, ef vill.

---

1) sitt hafa veig med vellum *O.*  
2) virdan *Ol. bls.* 58.

## ÞRIÞJA QVÆÞI.

143. Nú skal upphefja it þriðja qvæþi, þat er ort er eptir enum smærum háttum, oc eru þeir hætt-ir þó margir áðr í lofqvæþum: Hèr hefr upp *tog-drápu lag*:

68. Fremstr varð Skúli,
skal-a lof dvala,
sem ec mildum gram
mærð fjöl-snærþa:
meirr skal ec stæri
styrs hróðr fyrir
(kærr var ec harra)
hers [1]) gnótt bera.

Hèr er í öðru oc í fjórþa vísuorþi fjórar samstöfur oc tvær aþalhendingar, oc svâ settr havfutstafr sem í dróttqvæþu; en í fyrsta oc þriðja vísuorþi eru oc fjórar rèttar samstöfur oc en fimta afkleyvis samstafa, þat er *ec* eþa *af*, eð [2]) *en*, eð *er* eþa þvílíkt. Þar eru oc skothendingar, oc ein hljóðfylling við havf-uð-stafinn.

144. Þetta er annat toglag:

69. Kunn bjó ec qvæþi
konúngs bróþur þjóð
[þann veit ec þengil]
þrenn [fjölmennan]:
fram skal en fjórþa
folk glaðs [3]) vaþa
ljós ellz lagar
lofom [4]) friþrova.

Svâ ferr hèr annat oc fjórþa vísuorð sem í fyrra hætti, en it fyrsta oc þriðja vísuorð er hèr hend-íngalaust, en tveir hljóðfyllendr við havfuðstaf sem í dróttqvæþu.

---

1) Þannig *O. S.* hannz *K.* 2) ɔ: edr.
3) hin fjórdi fals gladr *Skáldubr.*
4) ljóss beri lagar lofs *sst.*

145. Þessi er hinn þriþi háttr, er vèr kavllum *bágm* - - -

70. Mitt er of mœti
mart lag bragar
áðr óqveþit
odd-braks [1]) spakan:
hlýtr grams geta
grepp óhneppra
skýrr skrant fara
skjöldúnga úngr. [2])

I þessum hætti eru skothendíngar í fyrsta oc þriðja vísuorþi oc stafaskipti sem í dróttqvæþum hætti, en at öðru sem togmælt. I avllo toglagi er ei rángt þót 5 samstöfur sè i vísuorþi, er skammar eru sumar oc skjótar. Þat er togdrápu háttr at stef skal vera til fyrsta vísuorðz, oc lúka því máli i enu siþarsta vísuorþi qvæþissins, oc er rètt at setja qvæþit með svâ mörgum stefjamelum [3]) sem hann vill, oc er þat tíþaz at hafa avll jafnlöng, en hverr stefjamels skal stef upphaf oc niðrlag.

146. Nú er *grœnlennzki háttr*:

71. Slóð kann sneiþir [4])
seima geima
hnig fák hafa [5])
hleypa greypa: [6])
hinn er af hlunni
hesta festa
lætr leyfð skati
lánga gánga.

Hèr er it fyrsta oc þriþja vísuorð svâ sem hagmælt, en annat oc fjórþa með aþalhendíngum, oc eru tvær samstöfor aþalhendar, oc enda báþar í einn staf.

147. Nú er *hinn skammi háttr*:

72. Gull kná ec [7]) greppar
glóa róa
vass eru [8]) seggir
samir framir:

1) od-brags *K.*
2) hlitr gramr geira greps óhneppan skir skrautfara skjöllldúngr úngr *Skáldubr.* *en erindid vantar í S.* 3) málum *S.*
4) Blód kann sverda *Skáldubr.* 5) hringfak hraka *Skáldubr.* hnig-far hnara *S.* 6) gleipa *Skáldubr.*
7) er *S.* *Skáldubr. sl.* því, *og hefir strax* garpar.
8) vals eru *S.* vel ord *Skáldubr.*

eik má und jöfri
una bruna,
þá nýtr vísi
viþar skriþar.

Hèr er it fyrsta oc þriðja vísuorð hendíngalaust, en annat oc it fjórþa sem grænlenzki háttr, oc skemri orðtökin.

148. Nú er *nýi háttr*:

73. Ræsir glæsir
Ravkqva stavkqva [1])
[hvítum rítum
hreina reina: [2])
skreytir hreytir
skafna stafna
hrínga stínga [3])
hjörtum svörtum.

I þessum hætti eru í hverju vísuorþi fjórar samstöfur, en tvær aðalhendíngar, oc lúkaz í einn staf báþar, oc engi afkleyfis orð [4]).

149. Þetta er *stúfhent*:

74. Haf-ravst [5]) hristir
hlunn-vigg tiggja,
borð-grund bendir
brim-dýrs [6]) stýri:
blá veit brjóta
byr-skíþ víþi;
bauð harþr [7]) bavrþum
buðlúngr þúnga.

I þessum hætti eru fjórar samstöfur í vísuorþi, en hendíngar oc stafaskipti sem í dróttqvæþum hætti, nema þat at allar hendíngar eru náhendar.

150. Þetta er [8]) *náhent*:

75. Hrinda lætr hnig [9]) grund
haf bekks sneckjur
þá er falla fleinþollr [10])
frygg-mál stálum:
hlumi (lítr her fram)
hirð-menn spenna,
enn ræþi (rauð goð
rógálfr) skjálfa.

---

1) döckva *Skáldubr. Olafs. bls.* 66. nöckua *S.*
2) hrista nista heyra eyra *Skáldubr.*
3) þannig *S. Ol.* strínga *K.* 4) enn höfudstafir sem í fyrsta toglagi *Skáldubr.* 5) Há röst Ol. 65. Hrafröst listur *Skáldubr.*
6) brimdyr *Ol.* hörd grunn hendir hnorin díri *Skáldubr.*
7) þannig *Ol.* en *K. S. hafa* hjarþr *og í næstu l.* þúngan.
8) nákvedid eda *bætir Skáldubr. inn.*
9) hríngs *Skáldubr.* 10) þollar *sst. og strax* fjörmáls.

I þessum hætti eru fjórar samstöfur í vísuorþi, oc er eigi rángt i enu fyrsta oc þriþja, þótt fimm sè: þar eru skothendor, i avðru oc enu fjórþa eru aþalhendíngar, oc báþar saman, oc en fyrri stýfð, en stafaskipti sem i dróttqvæþu.

151. Þetta er *hnugg-hent*:

| | |
|---|---|
| 76. Hrannir strykqva hlaþin beck, [1]) | svarvtum hleypir svana-fjöll |
| haflavþr skellir, | snjallmæltr stillir |
| kasta nàir kjalarstig | hlunna [fram of [2]) Haka veg |
| kallt hlýr savlltum: | hríþ-feld skíþum. |

Hèr er í fyrsta oc þriþja vísuorþi sjav samstöfur oc hendinga-laust, en rètt at stöfum, en annat oc it fjórþa hefir fjórar samstöfur, en rètt at stöfum oc skothendíngum, oc oddhent, oc stýfð en fyrri hending.

152. Nú er *hálfhneft*.

| | |
|---|---|
| 77. Snyðja lætr í sólroð | lypta kná lýðr [3]) opt |
| sneckjur á Manar-hleck, | lauki of kjalar-ravkn, |
| árla sèr úngr jarl | greiþa náir glygg vàð, |
| alvaldr breka-fall: | greipum mæta dragreip. |

I þessum hætti eru sex samstöfur í vísuorþi, en eigi er rángt, þótt verþi fimm eþa sjav; í fyrsta oc þriðja vísuorþi eru skothendor, en aðalhendingar í avðru oc hinu fjórþa i hvârumtveggja stað, en fyrri hendíng rètt i dróttqvæþu, en en siþarri stýfð eþa hneft, þat er allt eitt.

153. Sjá háttr er *alhneftr*:

| | |
|---|---|
| 78. Hravnn skerr hvatt ferr | Já brýtr lavg skýtr |
| húfr kalldr allvaldr, | lúng-armr ráng-barmr: |

1) strjuka hl. bord *sst.* strykja hl. bord *Olafs.* 66.
2) *Ol.* fram á, *en K. sl.* fram.
3) lyptaz kná af lydi *Ol.* 40.

brátt skekr byrr rekr
blá-vegg rá skegg,
jarl lætr almætr
ósvipt hún-skript.

Í þessum hætti eru fjórar samstöfur í vísuorþi oc tvær aþalhendíngar báþar í einn staf; oc allar hendíngar hneptar.

154. Þetta er *Haþar-lag.*

79. Læsir leyfðr vísi [1])
landa útstrandir
blíðr um bláskíþu
barþa rann garþi:
ern kná jarl þyrna
oddum valbrodda
jörð með jelsnörþum
jaðri hræ naþra.

I þessum hætti eru fimm samstöfur í vísuorþi, en hendíngar oc stafaskipti sem í dróttqvæþum hætti. [2])

---

155. Nú eru þeir hættir er *rúnhendor* eru kallaðar, þeir eru með einu móti: hver háttr rúnhendr skal vera með aðalhendíngum tveim, oc í sínu vísuorþi hvâr hending. Þessi er *rètt rúnhenda:*

80. Lof er flutt fjórum
firir gunn-avrum,
nè spurð spörum
spjöll grams snörum:
hefi ec hannz favrum
til hróðrs eyrum [3])
ypt ovörum
firir auðs bavrum.

Þessi háttr er halldin með einni hendíng í hverju vísuorþi, oc svâ er sú rúnhendíng, er skilr hendíngar, oc skiptir orþum; því er þetta rúnhent kallat.

156. Þetta er *hin minni rúnhenda:*

81. Fluttac fræþi
of [4]) frama-græþi,
túnga tæþi
með tavlu-ræþi:

1) Ræsir *Skáldubr.*
2) *Hvar fjórda qvædit byrjar finnst hvörgi tiltekid, þó getr sked þad sè vid* 80. *edr* 81. *erindi.*
3) mœrum *S.*
4) Þannig *Ol. bls.* 70 oc *K.*

stef skal stæra
stilli mæra,
hróðr dugir hræra
oc honum færa.

Hèr gengr hendíng of hálfa vísu, en önnur í síþarri helmíngi, þessi háttr er stýfþr eþa hnept af enum fyrra.

157. Þessi er *en minnzta rúnhenda*:

82. Slíkt er svá
siklíngr á
(avld þess ann)
orþróm þann:
jarla er
austan ver
skatna skýrstr
Skúli dýrstr.

Þessum hætti eru þrjár samstöfur í vísuorþi, en tvav vísuorð sèr um hendíng: stafaskipti sem í dróttqvæþu. En finnz þat svâ at ei er rángt ef stendr einu sinni firir máls orð hljóð-stafr, sá er qveþandi ræðr.

158. Þessir eru enn rúnhendir.

83. Naðrs gnapa ógn alla,
eyþir [1]) baug-valla,
hlunnz of hástalla
hestar svan-fjalla [2]):
orms er glatt galla
með gumna-spjalla,
jarl fremr sveit snjalla,
slíkt má skavrúng kalla.

Þessi háttr er ort með fullri rúnhendíng, oc eru þar tíþaz fimm samstöfur í vísuorþi eþa sex ef skjótar eru.

Þessi er annarr:

84. Orð fèck gott gramr
hann er gunn-tamr,
mjöc er full-framr
fylkir rausn-samr,
hinn er mál metr,
mildíng sízt getr
þann er svâ setr
seggi hvern vetr.

158. Þessi

1) Nadr gnapa og nalla neydir *Skáldubr. kannske rettara* eyþis.
2) skervalla *Skáldubr. sjá Ol.* 46.

159. Þessi er hneftr af hinni rúnhendíng [1].

85. Mærð vilc [2]) auka
Mistar-lauka
góma-sverþi
-grundar-skerþi:
dýrð skal segja
(drótt má þegja)
styrjar-glóþa-
stavckvi móþa.

I þeima hætti eru fjórar samstöfur í vísuorþi, en höfuðstafr sem í dróttqvæþum hætti, oc fylgir þeim einn hljóðfyllandi.

160. Þessi er hinn þriþi háttr rúnhendr:

86. Veit ec hríngs hraþa
í havll laþa,
gott er hús Hlaþa,
hirð avl saþa:
drekkr gramr glaþa,
en at gjöf vaþa
vitar valkaþa, [3])
vann baug skaþa.

Þetta er rètt rúnhendíng, oc er þessi háttr tekinn af toglagi: hèr eru fjórar samstöfur í vísuorþi eþa fimm ef skjótar eru.

161. Þessi er *hin minni hrúnhenda* [4]).

87. Drífr handar-hleckr,
þar er hilmir drekkr:
mjöc er bravgnum beckr
blíð-skálar þeckr.
Leikr hilmis her
hrein gullin ker [5])
(segi ec allt sem er)
viþ orþa-sker.

Þessi er hneftr af hinum fyrra.

162. Þessi er *en minzta*:

88. En þá er hirð til hallar
her oddviti kallar,
opt tekr jarl at fagna
vit [6]) ótali bragna:
búin er gjöf til greizlu
at gullbrota veizlu,
þraungt sitr þjóþar sinni,
þar er mestr frami inni.

23

1) *Þannig S. en þetta sèst ecki í K.* 2) skal *Skáldubr. Olafs.* 45. Mærd vil ec a. máls um hauka g. hlídi gr. skídi. *S.*
3) val sada *O.* 4) rúnhenda *ss. eins og seinna.*
5) gullker *ss.* 6) vitr *O. S.* vidr *Gunnar Pálsson.*

þessi hrunhenda er tekin af dróttqvæþum hætti, oc eru hèr [jafn margar [1]) samstöfur oc svâ stafaskipti sem í dróttqvæþu.

163. Nú hefr upp en fjórþa bálk rúnhendínga:

89. Hirð gerir hilmis kátt,
havll skipaz þraungt at gátt,
auð gefr þengill þrátt,
þat spyrr fram í átt:
slíkt tel ec hilmis hátt,
hannz er rausn of mátt,
jarl brýtr sundr í smátt
slúngit gull við þátt.

þessi háttr er hneftr af enum fyrra, oc rúnhendr.

164. Nú er *minni rúnhenda:*

90. Mörg þjóð ferr til siklíngs sala,
sæmd er þar til allra dvala,
tiggi veitir seima svala,
satt er betz of hann at tala:
bresta spyrjum bauga flata,
bragna vinr kann gulli hatta [2])
æþri veit ec at gjöflund gat-a
grundar-vörðr firir hrínga-skata.

þessi rúnhenda er tekin af hrynhendum hætti.

91. þiggja kná með gulli glöð
gotna-ferþ at ræsi mjöð,
drecka lætr hann sveit at sín
silfri skengt it fagra vín:
greipum mætir gullin skál
gumnum sendir Rínar-bál,

---

1) jafníngar *O. S.*

2) hata *O. hvarvii Gunn. P. gerir þessa athugagrein:* gullid *edr* gulli ata. *Mèr virdist rèttara* gull at hata *edr* gulli glata.

eigi hittir æðra mann,
jarla beztr, en 1) skjöldúng þann.

þessi er hneftr af hinni fyrri rúnhendu.

165. Hèr hefr upp hinn fimta rúnhendan bálk

92. Getit var grams fara,
gert hefi ec mærð snara,
þengil mun þess vara,
þat nam ec lítt spara:
finnr-at fræknara
fæþi gunn-stara
mann nè milldara
merkir blóð-svara.

þessi er oc full rúnhenda, oc tekin af hálfhneptum hætti eþa náhendum.

166. þessi er *hin minni rúnhenda.*

93. þengill lætr havpp hrest,
honum fylgir dáð mest,
vísi gefr vel flest
ver-bál ólest:
Húfar brutu haf ljótt,
heim lèt [2]) ec jöfur sótt;
Yngva lofar öll drótt,
jarls sa er frama gnótt.

þessi er stýfðr eþa hneptr af fyrra hætti.

94. — — — — — gramr
gull söri [3]) Kraki framr,
efla frágum [4]) Háka [hjaldr
— — — — — — aldr. [5])
Ormi veitti Sigurðr sár,

1) er *K.*
2) *þannig O.* leit *K.*
3) gullsæri *S. adrir* Gramr særi gulli Kraki.
4) frægum *O. S.*
5) hinn milld lofadr alldr *O.* hinn milldi lofadr aldr *S.*

slíkt var allt fyr liþit [1]) ár,
Ragnar þótti skatna skýrstr;
Skúli jarl er myklu dýrstr.

167. *Mála-háttr*:

95. Munda èc mildíngi,
þá er Mæra-hilmi
fluttac fjögur qvæþi,
fimtán stór-gjafar:
hvar viti áðr orta
með æþra hætti
mærð of men-glötuð
maðr und himins skautum?

168. *Fornyrþa lag*:

96. Ort er of ræsi,
þann er rýðr granar
vargs oc ylgjar,
oc vâpn litar:
þat mun æ lifa,
nema avld fariz,
bragninga lof,
eþa bili heimar.

169. *Balkar-lag*:

97. Lypta èc ljósu
lofi þjóð-konúngs,
upp er firir ýta
jarls mærð borin:
hver muni heyra
hróðr gjöfláta
seggr svâ qveþinn
seims oc hnossa?

Sú er grein milli þessa hátta at í fornyrþis lagi eru í fyrsta oc þriðja vísuorþi einn stuðill, en í öþro oc fjórþa visuorþi þá stendr havfuðstafr í miðjo orþi; En í *sticka-lagi* eru þrír stuðlar, en havfuðstafr í miðjo orþi; En í Balkar-lagi standaz stuðlar oc höfuðstafr sem í dróttqvæþu.

170. *Starkaþar lag*:

98. Veit ec verþari
þá er vell gefa,
bravndum beita
en [2]) búa sneckjur:
hæra hróðrar
en heimdraga,
únga jöfra
en auð-spavrut.

99. þeir 'ro jöfrar
alvitraztir,

1) hit lidna *O.* 2) ok *O.*

hríngum hæztir,
hugrackaztir,
vellum verstir,

### 171. *Ljóþa-háttr*:

100. Glöggva grein
hefi èc gert til bragar,
svâ er tírætt
hundrað talit:

### 172. *Galldra-lag*:

101. Sóttac fremd,
sótta ec fund konúngs [3]),
sóttac ítran jarl:
þá er ec reist,
þá er ec renna gat
kaldan straum kili
kaldan sjá kili.

102. Njóti aldrs

vígdjarfaztir,
hirð hollaztir,
happi næstir.

hróþrs örverpr [1])
skal-a maðr heitinn vera;
ef svâ [2]) fær alla
háttu ort.

oc auðsala
konúngr oc jarl!
þat er qvæþis lok;
falli fyrr
fold í ægi
steini studd
en stillis lof! [4])

---

1) *Min getg. fyrir*: ör veþr *K.* ör udr *O.* ör udur¦ *S.* ófródr *adrir forte* örrádr *Gunn. P.*
2) sá *K.* so *S. O. sl.* alla.    3) *sl. O. S.*
4) *Hèr eru úti K. og S. ad öllu leiti, og meina èg ad Skálda sè augljósliga nú á enda, samqvæmt* 1. *gr.; þvi nú er úttalad um skáldskaparmálid og bragarháttuna. þad sem eptir kemr hlýtr þar fyrir ad vera verk fyrir sig, þótt þad sè af sjálfum höfundinum ætlad til at fylgja Eddu og Skáldu, sem sèst af byrjun*: Nú um hríd hefir sagt verit hversu kenna skal þá hluti, som frammi standa i bók þessari *o. s. fr. þessi ord munu líka hafa tælt skrifara O. til ad smeygja öllu verkinu inn í midja Skáldu medal kenninga og ókendra heita, og skrifara U. til ad færa sitt ágrip þaraf inn ámedal Skáldskaparmáls og Bragarhátta; enn auk þess ad þannig trublast innihaldid i Skáldu, sem annars stendr allvel heima vid* 1. *stu gr., þykir mèr líka audfundinn ædi munr á ordfærinu hèr og í Skáldu. Hèr eru aungvar stuttar, smásmugligar spurníngar, þar eingin ordskripi úr grizku nè látínu, angvar gudrækiligar hugvekjur, og eckert getid um biblíuna, af hvörju öllu èg ræd ad þetta sè af ödrum höfundi heldr enn Skálda, enn af sama sem formáli og eptirmálar vid Eddu.*

Ritgjörðir

*hinni*

# ÍSLENZKU MÁLFRÆDI

Viðvíkjandi.

# Um

# LÁTÍNU-STAFROFIT*).

1. Nú um hríð hefir sagt verit, hversu kenna skal þá luti, sem frammi standa í bók þessari: megu þær kenníngar á margan veg bræytaz, eptir þí sem nú finna ný skálld, ok taka til ok setja reglur eptir ýmisligum bókum. Skal þó eigi at helldr láta þat únýtt vera, sem fornskálldin hafa fundit, er efni ok grundvöllr er allz skálldskapar, enn æigi skolu menn þessum frásögnum trúa framarr en skynsamligt er, eptir þí sem segir í fyrsta lut bókarennar með hverju (móti) villurnar fjölguðuz: ok af þí hefir hvert skálld sett sér reglu, þat sem eigi trúði réttlegha, af þí þeir hugðu Oðin guð verit hafa ok alla þá með guðmagni, sem honum þjónuðu, sem hæyra hefir mátt í mörgum frásögnum þessar bókar. Enn nú skal lýsa hversu ný skáld ok fræðimenn ok æinkannlega klerkarnir vilja lofaz láta, hversu kveða skal, ok únýta æigi at helldr þat sem menn hafa framit, útan þat sem klerkligar bækr banna; því at þat er náttúruligt at menn sé nú smásmuglari, sem fræði-



*) *Allt þetta sem hèr fylgir finnst einúngis i O., þó hefir U. nockurskonar ágrip af þriá 5 bls. nefnl. 88 92. O. hefir aungva adgreining ne fyrirsögn hvorki hèr nè sidar, enn U. kallar þad Hljóþsgreinir, sem þó ecki þykir eiga vel viþ innihaldid.*

bækrnar dreifaz nú viðara. Láta [1]) froðir klerkar hverjar bækr sem þeir finna, at snara til þeirrar þjóðar túngu, sem í þí landi talaz, sem þá eru þeir, æigi at æins hversu tala skal, helldr ok jamvel hversu hverr stafr hljóðar með *löngu* hljóði eða *skömmu*, *hörðu* eða *linu*, ok hvat hvergi þeirra hefir af sèr *fall* eða *tima*, eðr (af) þeim, sem fyrir honum stendr ok eptir, sem yðr mun sýnt verða í þeim greinum, sem síðarr eru skrifaðar eptir þeirra manna upptekinni stafasetníngar-reglu, sem vèr hyggjum vel hafa kunnat orðograffíam; ok þó at sína fíguru hafi hverr þeirra til sinnar sagnar, þá sýniz mönnum allir þeir fagrliga skipat hafa: hefir hverr sett stafina eptir þeirri túngu, sem þeir hafa talað; ok þó at þeirra verk sè samanborin, þá bregðr ekki þeirra annars reglu. Skal yðr sýna hinn fyrsta letrs hátt svâ ritinn, eptir því sem Þóroddr rúnameistari ok Ari prestr hinn fróði hafa sett í móti Látínumanna stafrofi, er meistari Priscianus hefir sett. Hafa þeir þí fleiri hljóðsgreinir með hverjum raddarstaf, sem þessi er túngan fátalaðri, svâ at þat má undirstanda með hljóði *umbæygiligu*, *hvössu* ok *sljófu*, svâ at einnar tíðar fall væri í hvârutveggja stafrofi til þess at skálldin mætti þá mjúkara kveða eptir nýfundinni letr-list; enn hafa æigi hvert orðz skripi þat sem fornskálldin nýttu, en hálfu siðr auka í enn verrum orðum en áðr hafa fundin verit; því at vandara var þeim at tala, sem ekki höfðu fyrir sèr, enn þeim sem nú hafa ýmisligar fræðibækr. Enn vel má nýta at hafa eptir þeim heiti ok kenníngar

---

1) *kannske rèttara* játa ɔ: *leyfa*.

æigi lengra reknar enn Snorri lofar. Leiti eptir sem vandligaz, þeir sem nú vilja fara at nýjum háttum skálldskapar, hversu fegrst er talat; enn æigi hversu skjótt er ort, þviat at því verðr spurt: hver kvað? þá er frá-líðr, enn æigi: hversu lengi var at-verit? Ok þeir sem nú vilja með nýju kveða, hafi smásmugul ok hvöss ok skygn hugsunar augun að sjá hvað yðr er nú sýnt í þessum frásögnum.

2. I flestum landum setja menn á bækr annattveggja þann fróðleik, er þar innanlandz hefir gjörz eðr þann annan, er minnisamligaztr þikkir, þó at annars-staðar hafi helldr gjörz, eða lög sín setja menn á bækr, hverr þjóð á sína túngu. Enn af því at túngurnar eru (ú)líkar hverr annarri, þær [þegar] er or æinni ok hinni sömu túngu hafa geingið eða græinz; þá þarf úlika stafi í at hafa, enn æigi ena sömu alla í öllum, sem æigi rita Grickir látínustöfum girzkuna, ok æigi Látínumenn girzkum stöfum látínu, nè enn helldr ebreskir menn ebreskuna hvârki girzkum stöfum nè látínu, helldr ritar sínum stöfum hverr þjóð sína túngu. Hverega túngu er maðr skal rita annarrar túngu stöfum, þá verðr sumra stafa vant, af þí at æigi finnz þat hljóð í túngunni, sem stafirnir hafa þeir er af-gánga. Enn þó rita enskir menn enskuna látínu-stöfum öllum þeim er rèttræðir verða í enskunni, en þar er þeir vinnaz æigi til, þá hafa þeir við aðra stafi svâ marga ok þesskonar sem þarf, en hina taka þeir or er æigi eru rèttræðir í máli þeirra. Nú eptir þeirra dæmum, allz vèr erum æinnar túngu, þó at greinz*) hafi mjök

*) *Mín lagfæring fyrir* gjörz *O.*

önnur tveggja eða nakkvað báðar, til þess að hægra verði at rita ok lesa, sem nú tíðiz ok á þessu landi, bæði lög ok áttvísi eða þýðingar helgar, eða svâ þau hin spaklegu fræði, er Ari Þorgilsson hefir á bækr sett af skynsamlegu viti, þá hefir ek ok ritað oss Islendíngum stafrof bæði látinu-stöfum öllum þeim, er mèr þótti gegna til vârs máls vel, svâ at rèttræðir mætti verða, ok þeim öðrum, er mèr þótti í þurfa at vera, en [1]) or vâru teknir þeir er æigi gegna atkvæðum vârrar túngu: or eru teknir samhljóðendr nokkurir or látinu-stafrofi, enn nokkurir í gjörfir; raddarstafir eru [2]) öngvir or-teknir, enn í-gjörfir mjög margir; því at vâr túnga hefir flesta alla hljóðs eða raddar.

3. Nú af þí at samhljóðendr megu ekki mál eða atkvæði gjöra æinir við sik, æigi svâ at megi nafn hafa án raddarstafs [3]); enn að raddarstafnum æinum ok sèrhverjum má kveða, sem hann heitir ok at honum kveðr í hverju máli, ok þeir bera svâ tign af samhljóðöndum sem almætti af hálfmætti: þá hefi ek af því fyrri setta þá í stafrofi ok í umræðu hèr nú. Við þá hljóðstafi fimm, er áðr voru í látínu stafrofi *a*, *e*, *i*, *o*, *u* þar hefi ek við-gjörfa þessa stafi fjóra, er hèr eru ritnir nú: ǫ, ę, ø, *y*. Ǫ (*á*) hefir lykkju af *áe*, en hrínginn af *óe*; því at hann er þeirra hljóða tveggja samanblandinn [4]), kveðinn minnr opnum munni enn *á*, enn meirr enn *ó*. Ę (*æ*) er ritinn með lykkju *ás*, enn með öllum vexti *es*, sem hann er af þeim tveim samfeldr, minnr opnum munni enn *á* enn meirr enn *e*. Ø hann er af hljóði *es* ok *ós* felldr

1) *Mín lagfæring fyrir* er *O*.
2) enn *O*.
5) raddarstafi *ens*.
4) *kannske* sambland.

saman, minnr opnum munni kveðinn enn *e* ok meirr enn o, enda ritinn af því með kvisti *es* ok með *ósens* hring. *Y* er af röddu *ís* ok *ús*, görr at [1]) æinni röddu, kveðinn minnr opnum munni enn *í*, ok meirr enn *ú*; ok skal af því ena fyrri kvísl af höfuðstafs*úe*, sem áðr er þeim í stafrofi skipat. Nú má verða at því at nokkurr svari svâ: ek má fullvel lesa danska túngu, þó at látínu stöfum rèttum sè ritað, má ek þó at líkindum ráða hve kveða skal, þó að æigi sè allir stafir rèttræðir í því er ek les; ræki èk æigi hvârt þú rítr *ǫ* [2]) þitt eða *a*, (*e*) eða *ę*, *y* ok *u*. Enn ek svara svâ: eigi er þat rúnanna kostr, þó at þú lesir vel eða ráðir vel að líkindum, þar sem rúnar vísa óskýrt, helldr er það þinn kostr, enda er þá æigi örvænt at þæygi lesa èk vel eða minn maki, ef sá finnz, eða ráða èk vel at líkindum til hvers ens rètta færa skal, ef fleire vega má færa til rèttz enn einn veg, þat sem á einn veg er þó ritað, ok æigi skýrt ákveðit, ok skal geta til, sem þú lètz [þat] vel kunna. Enn þó at aller mætte nakkvað rètt or-gjöra; þá er þó vís von at þæygi vili aller til æins færa, ef máli skiptir, allra helldz í lögum. Enda tel ek þik æigi hafa vel svarað, er þú lætr æigi þurfa í vâru máli þessa níu raddarstafi *a*, *á*, *e*, *æ*, *i*, *o*, *ö*, *u*, *y*, allra helldz ef ek klýf or þessum níu sex greiner ens fjórða tigar, þær er sitt m l gjöri hverr, ef glögt eru skildar. Nú mun ek þessa stafi átta, allz æingi grein er enn gjör á meðal enna sömu tveggja samhljóða, setja sitt sinn hvern, enn sýna ok dæmi gefa, hve sitt mál gjöri

1) af O.   2) ǿ *sst.*

hverr þeirra við enna sömu stafa fullting, í enn sama stað settr hverr sem annarr, ok á þannveg svâ gefa dæmi of allan þenna bækling ámeðal enna líkuztu greina þeirra er á stöfunum verða gjörvar: sár sâr, sèr sær, sor (sór) súr syr: sár veitti maðr:mèr eitt, sár mörg veitta èk honum; sor-goðinn [1]) sór ein sœren; súr eru augu sýr, slík duga betr enn springi ýr.

4. En nú elr hverr þessa stafa níu annan staf undir sèr, ef hann verðr i nef kveðinn, enda verðr sú grein sva skýr at hon má ok máli skipta, sem ek sýni hèr nú eptir, ok setè púnct fyrir ofan þá er í nef eru kveðnir: hár hâr, ro rȯ, þel þėl, fær fær, ísa ísá, orar órar, öra œra, þuat þvat, syna sýna. *Hár* vex á kvikendum, enn *hár* [2]) er fiskr; *rá* er eitt trè úr seglviðum, enn *rá* er hyrning húss; *þel* er á hnefa bundnum, eða hlutr felldar, enn *þėl* er smiðartól; annat er þat, er sauðrinn heitir *fær*, enn annað þat, er hann *fær* lambs; *í-sá* skýja-deilld, þá er vèr komum í *isa*; *orar* eru úræktir *orar*; spakt skylldi hið ellzta barn, þvíat hið ellra má *œra* hið öra, þar varþ*ú at*, er fjáðr [3]) klæðit *þvat*. Þriggja *syna* austr mun ek þèr *sýna*. Nú verðr þetta allt saman raddarstafanna *a*, *ȧ*, *á*, *â*, *e*, *ė*, *æ*, *ǽ*, *i*, *í*, *o*, *ó*, *ö*, *œ*, *u*, *ú*, *y*, *ý*.

5. Enn þó at ek rita æigi fleiri raddarstafi, enn raddirnar funduz í voru máli, átján gjörvar or fimm látínu röddum; þá er þó gott að rita þat, að er grein enn á raddarstöfum, bæði þeim er áðr voru í stafrofi, ok þeim öðrum er nú eru í-gjörfir, grein sú er máli skiptir: hvârt stafr er lángr eða skammr.

---

1) *Kannske*: saur-godinn. 2) ɔ: *háfr*.

Sem Grickir rita í öðru líkneski lángan staf, enn í öðru skamman; svâ rita þeir ε skamman ε, enn svâ lángan, sem sjá stafr er η, þannveg o skamman, enn þannveg lángan ω. Þá grein vil ek enn sýna, því at hon skiptir máli ok, jafnt sem hinar fyrri, ok merkja ena löngu með stryki frá hinum skömmum: far, fár, ramr, rámr, öl, ól, vön, von, sèþu, seþu, framer, frá mèr, ver, vèr, venèz, vænez, vil, víl, minna, mínna, goð, góð, mona, móna, Goðreði, goð ræði, möndi, mœndi, dura, dúra, runar rúnar, flytr, flýtr, brynna brýnna. *Far* heitir skip, enn *fár* nokkúrskonar nauð; *ramr* er sterkr, enn *rámr* enn hási; *öl* heitir dryckr, enn *ól* er band; túngan er málinu *vön*, enn at tönnunum er bitzins *von; Sè-þu* hve vel þeir *seðu* er fyrir saumförinni rèðu; mjök eru þeir menn *framer*, er æigi skammaz að taka mína konu *frá mèr;* svâ er mörg við *ver* sinn *vær*, at varla of-sèr hon af honum nær; *veniz* æigi góðr maðr því þó at vândr maðr *væniz* góðum konum; dul vættir ok *vil* at lina muni erfiði ok *víl:* huglan mann vil ek *minna* hugðra erinda *mínna;* sú kona göfgar *goð*, er sjálf er *góð; mon-a* mín *móna* (kveðr barnið) við mik gjöra verst hjóna; vel líkaði *Goðröði góð ræði*, þat eru góðar árar, sem skálld qvað:

rètt kann ræði slíta
ræsis herr or verri.

Leka *mundi* húsit, ef æigi *mœndi* smiðrinn; ef gestrinn kveðr *dura*, þá skylldi æigi bóndinn *dúra; runar* heita geltir, enn *rúnar* málstafir; Sèþu hve flotinn *flýtr*, er sækarlinn *flytr;* stýrimaðr þarf byrenn *brýnna*, enn sá er nautunum skal brynna.

6. Nú ef nokkur þessa greina sex ens fjórða

tigar má svâ niðr-falla, að alldre þurfi í vâru máli, þá skjótumz ek yfir, sem vís von er; eða svâ ef fleiri finnaz í manzens röddu. En þat er gott at vita, sem fyrr var getið, er svâ kveðr at hverjum raddarstaf í hverju máli, sem hann heitir í stafrofi, nema þá er hann hafnar sínu eðli, ok hann má helldr þá samhljóðandi heita en raddarstafr. Þat verðr þá er hann er stafaðr við annan raddarstaf, sem hèr eru nokkur dæmi nú: austr, eárn, eir, iúr [1], æyrir, uín. Nú er æigi örvænt að svâ svari nokkurr mèr: þar er orð, at þú ritar þar *e*, er flestir menn rita *i* (*j*), þá er hann verðr fyrir samhljóðanda settr, sem nú er skamt frá því er þú ritaðir *eárn*, þar sem ek munda *iárn* rita, eða svâ í mörgum stöðum öðrum. Þá svara ek svâ: þú hefir þar rètt fundit, ok þó æigi allz getið, þess er þèr má ek kynliga þikkja ritað hafa, ok þó hafa ek fyrir önnkost svâ ritað í flestum stoðum. Ef ek gjörða annat mál, sem þar væri full þörf ok ærin efni til, er kænska væri, of þat til hverra stafa hverr orð hafa eðli, eða á hverja lund hverja stafi skylldi samanstafa, þá væri sú bók önnur öll, ok mikklu meiri; ok má ek af því æigi þat mál nú mæla innan í þessu: en þó mun ek nokkurum orðum svara um þetta hit æina orð, er þú skoraðir helldz í; fyrir þí at þat hljoð, er samhljóðandinn hefir, eða sá raddarstafr, er í hans stað er settr ok stafaðr við annan raddarstaf, er æigi auðskilið, þviat litið verðr ok viðblandit nær eða gróeð við raddarstaf þann er við er stafat. Þá er þess leitanda hvârt svâ finnum vèr

---

1) o: júgr, júfr; *Svíar segja* jur *ennþá.*

vèr kveðit hið sama orð, að sá raddarstafr sé frá öðrum raddarstaf skilinn, ok gjöri sína samstöfon hvårr, er optaz er við-stafaðr, svâ at æina samstöfon gjöra báðir. Skáld eru höfundar allrar rynni eða málsgreinar, sem smiðir málsgræina *) eða lögmenn laga. En þessa lund kvað æinn þeirra eða þessu líkt.

Höfðu hart of-krafðir
(Hílldr óx við þat) skilldir
gáng, en gamlir sprúngu
gunn-þíngs eárn-hríngar.

Nú þó at kveðandin skylldi hann til at slíta æina samstöfu í sundr, ok gjöra tvær úr, til þess at kveðandi halldiz í hætti, þá rak hann þó æingi nauðr til þess at skipta stöfunum, ok hafa *e* fyrir *i*, ef helldr ætti *i* at vera enn *e*, þó at mèr litiz æigi at því. Enn ef nokkurr verðr svâ æinmáll eða hjámáll, at hann mæler á mót svâ mörgum mönnum skynsömum, sem bæði lètuz sjálfir kveða þetta orð, áðr ek ritaða þat, ok svâ hæyra aðra menn kveða, sem nú er ritað, ok þú lætr *i* skolu kveða enn æigi *e*, þó at þat orð sè í tvær samstöfur deillt, þá vil ek hafa ástráð Katónis, þat er hann rèð syni sínum í versum:

*Contra verbosos noli contendere verbis;*
*sermo datur cunctis, animi sapientia paucis.*

Það er svâ að skilja: hirð æigi þú að þræta við málrófsmenn; málróf er gefit mörgum, en spekin fám. Nú lýk ek hèr umræðu raddarstafanna, enn ek leita við, ef guð lofar, at ræða nakkvat um samhljóðendr.

*) *Kannske* málmgripa.

7. I nafni samhljóðanda hvèrs sem æins er nokkur raddarstafr, því at hvârki nefnir þau nöfn nè önnur eingi, ef þeir njóta eigi raddarstafa, sem fyrr var sagt. Nú þó að þat hljóð eða atkvæði, er samhljóðendr hafa, megi varla æitt saman aðkveða; enda sè þó nauðr at skilja hvat þeir stoða í málinu; enda stoði eingi þeirra þat allt í málinu, sem nafn hans er til, sem raddarstafirnir gjöra; þá mun ek svâ haga nafni hvers þeirra, er áðr hafði æigi svâ nafn til, at þá skal af nafninu skilja hvat hann stoðar í málinu; þó að áðr skili æigi. Skal þat atkvæði hvers þeirra í hverju máli vera, sem þá lifir nafnsins eptir, er or er tekinn raddarstafr or nafninu. *B*, *d*, *g*, *h*, *p*, *t* þeir stafir hafa af því mundáng-mikit æins-stafs-atkvæði, at alldri má tvâ samhljóðendr ens sama lutar setja í æinni samstöfun fyrir raddarstafinn *F*, *l*, *m*, *n*, *r*, *s*, þeir stafir megu hafa tveggja samhljóðanda atkvæði hverr æinn, ef svâ mjök vill atkveða, svâ sem hverr þeirra, er eptir raddarstafinn verðr settr, sem þar berr vitni, er vèr nefnum þá með svâ miklu atkvæði, sem mundim vèr, ef svâ skylldi ríta nöfn þeirra: eff, ell, emm, enn, err, ess. Má ok minka atkvæði þeirra, þó at þeir standi eptir raddarstafi í samstöfon, ok sè svâ nefndir, sem þessa kostar væri ritin nöfn þeirra: ef, el, em, en, er, es, sem ek læt þá svâ heita alla, ok alldri hafa meirr enn æins stafs atkvæði hvern, hvârt sem þeir standa fyrir raddarstafi í samstöfun eða eptir: nema þars ek rít samhljóðanda, hverngi er ek rít, með vexti höfuðsstafsins, enda standi hann eptir raddarstafenn í samstöfun: þá læt ek þann æinn jarteina eafn mikit, sem þar væri

tveir einskonar ok ens sama konar ritnir, til þess at rit verði minna ok skjótara ok bókfell drjúgara. Nú þars þeir stafir ero, er raddarstaf hefir eptra í nafninu, sem eru *b*, *c*, *d*, g, *p*, *t*, ok af þí ofæykr æigi atkvæði nafns hvers þeirra; þá skipti èk þar höfuðstafsins nafni, ok set ek þá raddarstaf fyrr, til þess at aukaz megi atkvæði þeirra svâ í nafninu, sem annaɩs-staðar skolu þeir í málinu jarteina. Skal nú hverr samhljóðandi jammikit sitt atkvæði leggja til lags við raddarstaf þann er í nafni hans er, sem hann skal hafa við hverngi annarra, er hann verðr stafaðr í hverju máli. Enn fyrir því nú at sumir samhljóðendr hafa sín líkneski ok nafn ok jartein, en sumir hafa höfuðstafs líkneski ok nafn ok jartein, en sumir hafa höfuðstafs líkneski ok skipat stöfum sumra í nafni, ok aukit atkvæði bæði nafns ok jarteinar, eń sumir hallda líkneski sínu, ok er þó minnkat atkvæði nafns þeirra, ok jartein, sú er þeir skolu hafa í málinu, skal þeirri lik er í nafninu verðr; þá skal, nú sýna leita bæði líkneski þeirra ok svâ nöfn fyrir ofan ritin, at yfir þat megi nú allt saman líta, er áðr var sundrlauslega umrætt:

| | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| b, | B, | c, | C, | d, | D, | f, | F, | g, | G, | |
| bè | ebb, | chè, | ecc, | dè, | edd, | ef, | eff, | gè, | egg, | |
| g̃, | h, | H, | l, | L, | m, | M, | n, | N, | p, | P, r, |
| eng, | há, | Há, | el, | ell, | em, | emm, | en, | enn, | pè, | epp, er |
| R, | s, | S, | t, | T, | x, | X, | þ. | | | |
| err, | es, | ess, | tè, | ett, | ex, | exx, | | | | |

8. Sá stafr, er hèr er ritinn *C*, er látinu-menn flestir kalla *cè*, ok hafa fyrir tvâ stafi, fyrir *t* ok *s*, þá er þeir stafa hann við *e* eða *i*, þótt þeir stafi hann við *a* eða o eða *u* sem *k*, sem svâ stafa Skotar þann staf

við alla raddarstafi í latínu, ok kalla *che;* hann læt ek ok *che* (ɔ: *ke*) heita í oru stafrofi, ok stafa ek svâ við alla raddarstafi, sem *k* eda *q*, en þá tek ek yr stafrofi báða, ok læt ek þenna æinn (c) fyrir hvârn hinna ok svâ fyrir sjálfan sik, allz þeir höfðu áðr aller æitt hljóð í (flestum) stöðum eða jartein. Enn fyrir því at c hefir enn sama vöxt hvârt sem hann er höfuðstafr ritinn eða æigi, allra helldz er ek rít (eigi) þá höfuðstafi stærri enn aðra í ríti, er æigi standa í vers upphafi, ok skolu tvâ stafi earteina; [ok] þá rít ek fyrir hans höfuðstaf þenna staf *K*; fyrir því at þá hefr hann sinn vöxt, þót nakkvat lægiz við: er ok æigi allfjartekit til þess vaxtar honum; allz sá stafr stendr í griksku, ok heitir *kappa*, ok jarteinir 20 í tölu þar; enn hèr skal hann í máli vâru standa fyrir *cc*, sem aðrir enir smæri höfuðstafir jarteina tvâ stafi í máli. Má hann ok í tölu vârri jarteina tvö hundruð tíræð sem *cè* tvav í látínu. Aðr hann væri fyri tvâ stafi settr ok hann hèt *che*, þá hafði hann eftra *e* en *e* í nafni sínu; en nú skipti hann, ok hafi *e* fyrst í nafninu, ok heiti *ekk*, enda siti um so-gört. Þat *n*, er stendr fyrir g hið næsta í æinni samstöfu, þat er minnr í nef kveðit, en meirr í kverkr en önnor *n*, af því at þat tekr viðbland nakkvat af g: nú gjöri ek þeim af Þí vinveittar samfarar sínar, ok gjöri ek æinn, staf af báðum, þannz ek kalla *eng* ok rítk á þessa lund g̃. Hann læt ek jarteina æinn sem hina tvâ, svâ at allt sè eitt, hvârt þú rítr *hringr* eða *hrĩgr;* nema þat er ritminna, er stafir eru færi. Hvârki hefi ek brugðit vexti nè nafni á *h*, því at hann má hvârki vaxa nè þverra nè á æingi veg skapaz í sínu atkvæði. *X*, *y*, *z*, & þeirra stafa má þarnaz, ef vill, í vâru

máli, því at æingi er æinka jartein þeirra; allz þeir eru fyrir þá eina stafi hafðir, er áðr eru í stafrofi: sumir fyrir tvâ, sem *x* ok *z*, & eða (~), er fyrir fleiri verðr stundum; enn sumir fyrir æinn, sem *y*, eða stundum (¯). *X* hann er samsettr í látínu af *c* ok *s*; hann vil ek (ok) hafa svâ samsettan í voru máli, ok ekki sinn láta hann höfuðstaf vera; því at hann verðr aldrei fyrir *c* tvav, ok æigi í upphafi vers nè orðz, nè samstöfunar [1]). *Y* hann er grickskr stafr, ok heitir þar *vi*, enn látínumenn hafa hann fyrir *i*, ok í grickskum orðum að æins þó, ef skynsamlega er ritað; ok þarf hann af því æigi hèr í vâra túngu, nema maðr vili setja hann fyrir *u*, þá er hann verðr stafaðr við annan raddarstaf, ok hafðr fyrir samhljóðanda: er [2]) þó láta èk af nú að rita hann: því at ek sèkka *u* þess meiri þörf fulltíngs en öðrum raddarstöfum, þá er þeir verða fyrir samhljóðendr settir. *Z* hann er samsettr af *daleth*, ebrèskum staf svâ ritnum ד, er [3]) settr er fyrir *d*, ok af þeim öðrum er heitir *sade*, ok er svâ ritenn צ, ok er fyrir *es* í látínu settr, allz hann sjálfr er ebrèskr stafr, er þó sè hann í látínu stafrofi ok hafðr; því at ebrèsk orð vaða opt í látínunni. Honum vísa èk helldr or vâru máli ok stafrofi; því at þó verða fyrir nauzynja sakir fleiri stafir í þar, enn ellegar vilda èk hafa: vil ek helldr rita þeim enum fám sinnum er þarf, *d* ok *s*, allz hann er of allt [4]) í oru máli af *d* samsettr ok *s*, en ekki sinn af ð [5]) ok *s*. & er helldr samstöfon enn stafr, ok eru stafaðir saman *e* ok *t* í látínu, enn *e* ok þ í

1) *Min lagfæring fyrir* samstöfunnar *O.*
2) *kannske rèttara;* en. 3) ok *O.*
4) ɔ: *allsstadar*; ofvallt *O.* 5) d *O.*

oru máli, ef hafa skylldi; enn ek hefi hann sem sízt í oru máli ok stafrofi, þvíat alldregi verðr sú samstöfun svâ í oru máli æinsaman, at æigi standi í þeirri hinni sömu samstöfun nakkvar samhljóðandi fyrir *eet.* Titull hefir enn ecki eðli til stafs, enn hann er þó til skyndíngar ritz ok mínkunar settr fyrir ýmsa stafi aðra, stundum fyrir æinn, en stundum fyrir fleiri. Set ek hann optaz fyrir *m*, eða stundum fyrir *n*, eða fyrir *er* samstöfon *), þann er svâ er vaxin (7): kanka ék til þess meiri ráð, en lítil; bindi hverr med titli sem tilfyndiligt ok auðskillekt þikkir. Titull hefir þó nokkura jartein til nafns þess er hann á; þó at hann megi æigi svâ merkja af nafni sem aðra stafi: *titan* heitir sól, en þaðan af er minkat þat nafn, er *titulus* er á látínu, *titull* kveðum vèr, þat er sem lítil sól sè; þvíat svâ sem sól lýsir þars áðr var myrkt, þá lýsir svâ titull bók, er fyrir er ritinn, eða orð, ef yfir er settr.

Staf þann er flestir menn kalla *þorn* þann kalla èk helldr af því *thè*, at þá er þat atkvæði hans í hverju máli, sem eptir lifir nafnsins, er yr er tekinn raddarstafrinn or nafni hans, sem alla hefi ek samhljóðendr samda í þat mark nú, sem ek reit snemma í þeirra umræðu. Skal þ standa fyrri í stafrofi enn titull, þó at ek hafa siðar umræðu um hann; því at hann er siðarst í-fundinn; enn af því (ræddi ek) fyrr um titul, at hann var áðr í stafrofi, ok ek lèt hann þeim fylgja í umræðu er honum líkir þarnaz sína jartein. Höfuðstaf *thèsens* rit ek hverg nema í vers upphafi; því at hans atkvæði má æigi æxla, þót hann standi eptir raddarstaf í samstöfon.

*) stafstöfon *O.*

9. Nú þó að eg hafa mjök skyndilega mælt um höfuðstafanna rit, þeirra er fyrir tvâ skal æinn vera, þá kalla ėk æigi rángt nė illa ritað, þó at hinir tveir sė þar helldr ritnir, er hvârgi er höfuðstafr, er þó vilja ėk helldr æinn staf ríta, þar sem bæði stoðar jamnmikit æinn ok tvâ, til þess sem ek sagða at rit verði minna ok skjótara ok bókfell drjúgara. Enn þat veit ek æigi hvat þá skal at-hafa, ef svâ illa verðr at enn högz nokkurr í ok mælir svâ: þar sem þú rítr höfuðstaf æinn, kveðr hann ef hann ræðr þat, eða samhljóðendr tvâ æinskonar samfellda í æinni ok enni sömu samstöfu, segir þú, þá vil ek hvârki ríta samhljoðendr tvâ nė höfuðstaf æinn til þess at auka atkvæðit, nė enn helldr þann sem æigi sė höfuðstafr til þess at minnka, helldr rít ek æinn ens sama konar [ens sama] jafnan, ok æigi höfuðstaf nema í upphafi orðz ok vers, ok qveði svâ mjök eða lítt að hverjum, sem ek ræð síðan; eða æigi ræki ėk að ek kveða jafnmjök at öllum. Hvað skal þá aðhafa? kvað ek, hvað þá nema sýna honum svâ skýr dæmi þeirra græina, er hann skilr engvar áðr vera, að þá þikkiz hann of sæinn verða til at mæla seálfr á mót sėr, ok verða fyrri að bragði enn þeir er ella mundi fífla hann, ok kalla sem væri spakara ef þegði. Nú eru hėr þau dæmi, er bráðafángs funduz [þeir], enn síðan nokkuru ljóslegarr til máls færð ok skilníngar: ú bė UBe, secr seKr, höðu höDu, áfarar aFarar, þagat þaGað, öl öL, frame fraMe, vina viNa, krapa kraPa, hver hveR, fus fuS, skjót skjöT: *ú bė* þat eru tvav nöfn tveggja bókstafa, enn *Ubbe* þat er æins manz æitt nafn; *sekr* er skógarmaðr, enn *sekkr* er ílát; *höðu* þá er hölga tröll dó, enn heyrði til *höddu* þá

er Þór bar hverenn; betra er hverjum fyrr *þagað*, enn annar hafi *þaggað*; eigi eru *öl öll* að æinu; meiri þikkir stýrimannzins *frami*, enn þess er þiljurnar byggir *frammi;* sá er mestr guðz *vina* er mest vill til-*vinna;* vaða opt til kirkju *krapa*, þó að þar fái leið *krappa;* hverr kona ok karlmaðr skylldu þess *fús*, sem guð er *fúss:* þá munu þau til góðra verka *skjót*, ok hafa guðs hylli *skjótt.*

10. Nú um þann mann er ríta vill eða nema að vâru máli ritið, annaðtveggja helgar þýðingar eða lög eðr áttvísi, eða svâ hveregi, er maðr vill skynsamliga nytsemi á bók nema, eðr kenna, enda sè hann svâ lítillátr í fróðleiks-ástinni, að hann vili nema litla skynsemi helldr enn öngva, þá er á meðal verðr enar meiri; þá lese hann þetta kapitulum vandlega, ok bæti, sem í mörgum stöðum mun þurfa, ok mete viðleitni mína, en vârkynne úkænsku, hafi stafrof þetta er hèr er áðr ritað, unnz hann fær þat, er honom líkar betr: *a ȧ á â e ė æ ǽ i ı o ó ø œ u ú y ý* *b B c K d D f F g G ḡ h l L m M n N p P r R* *s S t T x þ &* (⁹ ⁷ ‾ ’).

---

11. Nú*) fyrir því at maðrinn sè skynsamligum anda skrýddr ok prýddr, þá skilr hann ok greinir alla luti gjörr ok glöggra enn önnur kykvendi; þá næyti ok njóti þess láns með guði. Hjarta mannz kennir allz, ok við hjartat liggr bæði barki ok vèlendi, ok and-

*) *Þetta stycki synist ad vera af ôdrum höfundi; því þat mótsegir hinu sumstadar, t. d. um C. og er hvörgi nærri eins smásmuglegt.*

andblásnar æðar renna þar upp ok mætaz, bæði þær æðar, er bera vind eða blástr, blóð eða ljóð; ok á annan veg horfa þær svâ, at þær mætaz við túngu rætr; með því hverr er þarf renn ok rödd upp fyrir hverju orði. Þarf ok með orði hverju þrjár þessar greinir: minni ok vit ok skilníng; minni at muna orða atkvæði, vit at hugsa hvat hann vill mæla, skilníng til þess hvat í-býr orðunum.

12. Nú hafa þessir lutir hljóð, sumer rödd ok sumer mál, sem sagt var. Sú er æin grein [1]) hljóðs, er þær veðr eða vötn, eðr sjór eðr grjót eðr björg eða jörð hrynr, þetta hljóð heiter gnýr eða þrymr, dynr eða dunur; svâ þat hljóð, er málmr mætiz, eða manna þyss; þat heiter ok gnýr, glymr eða hlymr [2]); svâ þat er viðir brotna [eða gnesta, þat heitir brak eðr brestir [3]): þetta eru vitlaus hljóð; enn hèr umfram er þat hljóð, er stafi æina skortir til máls, þat heitir saungr, þat eru hörpur eða önnur söngfæri [4]). Önnur hljóðsgræin er sú er fuglar eðr dýr eðr sækvikendi hafa, þat heitir rödd; heita þær radder á marga lund. fuglar sýngja eða gjalla eðr klaka, [ok þó (með) ýmsum háttum; dýra-rödd er greind med mörgum nöfnum [5]), ok kunna menn skyn hvat þikkjaz benda í sínum látum sumum; sækvikendi blása eða gjalla [6]):



1) *Hèr tekr til U. og byrjar þanneg*: Hèr segir frá hljóþsgreinum. Hvad er hljóþsgrein? þrenn. Hver? Þat er ein grein.

2) hljómr *U.*

3) eþa vâpnin mætaz, þetta heita brak eþa brestir eþa enn sem ádr er ritad: *U.*

4) ok enn helldr hin meiri söngfærin: en þat heitir söngr *ss.*

5) ok enn með ymsum háttum ok nöfnum ok kunnostum ero greind ymsa vega dyranöfnin *ss*

6) gella *ss.*

allar þessar raddir eru mjök skynlausar, svâ at flestr luti manna viti. Þriðja hljóðsgræin er miklu merkiliguz, er menn hafa, þat er hljóð ok rödd ok mál. Málið gjöriz af blæstrinum ok túngubragðinu [1]) ok skipan varranna [2]). Ef maðr getr mickla málsnilld, þá þarf þartil þrent [3]): vit ok orðfæri ok fyriræflun ok alhægt túngubragð. Ef tenn eru skörðóttar, ok missir tanngarðar [4]), þat lýtir málit; svâ ok ef túngan er ofmikil, þá er málið blest; nú er hon oflitil, þá er sá holgómr. Þat kann ok spilla máli mannz, ef varrar eru æigi heilar.

13. Muðrinn er leikvöllr orðanna en túngan stýrið [5]), á þeim leikvelli eru reistir þeir stafir, er allt mál gjöra, [ok fimm hríngar eru um þá stafi slegnir eðr setter í málshætti [6]). I fyrsta hríng eru fjórir stafir, er heita höfuðstafir, þá má til æinskis annars

1) viþ tenn ok góma *bætir U. inn.*
2) *U. færir inn hèr úr fyrri gr.* En hverjo ordino fylger minnit ok vitid: minuit þarf til þess at muna atkvædi orþanna; en vitid ok skilníngina til þess at hann muni at mæla þau orþin er hann vill.
3) *sl. U.* 4) túngan þær *ss.*
5) Muþrinn ok túngan er leikvöllr orþanna *ss.*
6) *U. hefir hèr úr* 15. *gr.* ok hendir málit ymsa svâ til at jafna, sem hörpu-strenger, eþa ero læstir lyklar í Simphonie

| | | | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| q kú | v vaff | þ þorn | h há | | | | | | | | | |
| b beb | d dud | f faf | g gug | k . . | l . . | m mem | n nen | p p p | r rar | s ses | t tut | |
| a | e | i | o | u | y | æ | ö | au | ey | ei | j | |
| B ebb | D edd | F eff | G egg | K ekk | L ell | M emm | N enn | P epp | R err | S ess | T ett | |
| ð ed | z zet | c cè | x ecs | & et | 7 ir | 9 us | *w* ra | — m,n | | | | |

*Þetta er uppmálad á kríngl. figúru i sjálfri U. sem ecki gat prentazt: innsta kringlan er fjórskipt og svarar hinni fyrstu línu hèr, þar utan um eru fjórar hríngar, serhvörjum af þeim er skipt í tólf, rúm, enn þrjú rúm eru aud í efsta hríngnum eins og hèr í nedstu lin-*

nýta, enn vera upphaf ok fyrir öþrum stöfum þ, *v*, [1]) *h*, *q*. I öðrum hring eru stafir tólf [2]), þeir heita málsstafir, hverr þeirra má vera bæði fyrir ok eptir í orðinu, ok gjörir þó æingi þeirra mál af sjálfum sèr: *b*, *d*, *f*, *g*, *k*, *l*, *m*, *n*, *p*, *r*, *s*, *t*, nöfn þeirra eru eptir hljóð þeirra [3]). I þriðja hring eru tólf stafir, er hljóðstafir heita; þessi er græin þeirra, fyrst heita stafir, ok skal svâ rita: *á*, *e*, *í*, *ó*, *ú*, *ý*. Ønnur er þeirra græin sú at þeir heita límingar, ok skal þá svâ rita: æ, ø au [4]), þessir þrír stafir eru hvartveir [5]) hljoðstafir samanlímdir; því at þessi stafr hverr hefir hvorn lut af hljoði hinna, er hann er af-gjörr. En þriðja græin er sú er þeir stafir hafa, er heita lausaklofar ok skal svâ rita *ey* ok *ei*, þessir tveir stafir eru ritaðir úbræyttir i hvârum stað, ok gjörr æinn af því at hann tekr hljóð þeirra beggja, enn fyrir ritzháttar sakir er þá úhægt saman at binda. Tólfti stafr er skiptingr: þat er rèttr [6]) hljoðstafr; ef málstafr er

---

*unni. Nafnid* Vaff *hefi ég sett fyrir* vnd, *sem eckert* þydir; þad *er nefnl. audséd á mörgu ad skrifarinn hefir ecki skilid höfundarins meiníng allvída. I ödrum hríng var* b *og* beb *sitt í hvörju rumi, enn* k *vantadi*; *í þridja hríng vantadi* j; *í fjórda stód* beb *fyrir* ebb; *enn í fimta* með *fyrir* eð, þet *fyrir* zet (o: *zeta*), ed *fyrir* et, ur *fyrir* ir, uss *fyrir* us (*alþeckt band í látinu*), ar *fyrir* ra, qn *fyrir* m, n; *enn titlarnir, scm höfundrinn kallar böndin, skelfiliga rángsnúnir og óþeckjanligir*: *svó ad þetta allt vard eg ad lagfæra af egin ramleik.* 1) *O. skrifar hèr* y.

2) *U. hefir hèr*: XI. (*af því* k *var gleymt sem ádr er getid*) þeir sem heita ꝥ, þ, h, y, h, q (*þetta rugl er komid inn frá spáziunni, hvar þad hefir verid ætlad til ad innfærast í fyrri klausuna, og hefir átt at vera*: þ, v, h, q) málstafir: hverr, þeirra *o. s. fr.*

3) hèr sett eptir hljóþi þeirra *U.*

4) æ, au, ay *U.*

5) þessir ero tueir, hèr ero 2 (*af hvörju þad fyrsta er penna villa*) *ss.*

6) æinn *O.*

fyrir honum ok eptir í samstöfun; enn ef hljóðstafr er næstr eptir hann, þá skiptiz hann í málstaf, ok gjöraz þá af honum mörg full orð, svâ sem: *já* eðr *jörð* eða *jór*; önnur skipting er þat, at hann er lausaklofi, svâ sem áðr var ritað, þá er svâ ef málstafr stendr fyrir honum ok hljóðstafr eptir, svâ sem [1]) *bjór* eðr *björg*. *á*, *í*, *ó*, *ý* þesser gjöra æinir saman mörg orð full, enn skamt mál gjöra þeir sjálfer. Ef *á* gjörir heillt orð, þá metz það svâ, sem þú nefnir *yfir*; *í* [það er fyrir innan [2]); *ó* eðr *ú* þat skiptir um orðum, svâ sem er *satt* eða *ósatt*, Menn kalla *ý* æinn vid; æ 3) þat er veinon kallað; 4) er ok *æy* eða *æi* þat er alldregi þrýtr. Hljóðstafir hafa tvenna grein, þá er optlegar skiptaz orðin með, at þeir sè *styttir* [5]) eða *dregnir*; er þvi betr dregit yfir þann staf, er sæint skal at-kveða [6]) svâ sem hèr er: *á því áre er Ari var fæddr*, [*ok èr ertuð hann* [7]), *þat er í minu minni*. Opt skipta orðaleiðingar avllu máli, hvârt hinn sami hljóðstafr er leiddr skjótt eða seint. Lofat er þat í ritzhætti at rita af límíngum [8]) helldr á-lykkju enn full *á* [9]) ok er þá svâ: ę, ǫ. I fjórða hríng eru tólf stafir svâ ritaðir: *B*, *D*, *F*, *G*, *K*, *L*, *M*, *N*, *P*, *R*, *S*, *T*, þessir stafir eru settir hverr [10]) fyrir tvâ jafna sèr í ritzhætti, þviat sum orð endaz í svâ fast atkvæði at æingi málstafr fær æinn borið: svâ sem *havll* eða

1) er björu *bæzir U. inn.*

2) *Mín lagfæring fyrir* þan sem fer innan *edr* þeim fyri innar *U. enn O. sleppir* *því.* 3) ok *O.*

4) en *ey* heiter þat land, sem sjór eþa vatn fellr umhverfis. þat er kallat *ey* eþa *æ*, er alldri þrytr *U.*

5) studdir *O.* 6) leiþa *U.* 7) *sl. U.* 8) hneigíngum *O.*

9) helldr en af lyckjo en fullt a *U.*

10) gera ecki annat, en menn vilja hafa þá fyri ritzháttar sakir, ok er settr hverr þeirra einn *U.*

*fjall*, *kross* eða *hross*, *framm* eða *hramm;* nú þarf annaðhvârt at rita tvâ málstafi eðr þenna æinn. I fimta hríng eru ritaðir þeir þrír stafir, er heita undir-stafir: ð, *z*, *x*, má þeim 1) við engan staf koma, nema þeir 2) sè eptir hljóðstaf í hverri samstöfun. Fjórði stafr er *c* 3), þat er rètt hans hljóð, at hann sè í enda samstöfu sem aðrir undirstafir. Titlar eru hèr so ritaðer sem í öðrum ritzhætti 4); hefir titull ekki

1) þessum staf má *ss.* 2) þat *ss.*
3) ok hava sumir menn þann ritzhátt at setja *c* fyrir *k*; (*aðrir lesa:* c fyrir konúng) en hitt eina er rètt ● *s. fr.*
4) *U. sleppir því öllu, sem her eptir kemr allt ad enda bókarinnar; enn hefir þarámóti eptirfylgjandi grein, sem vantar í O.*

| | a | e | i | o | u | y | æ | ö | au | ei | ey |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| b | b | b | b | | | | | | | | |
| d | d | d | d | | | | | | | | |
| f | f | f | f | | | | | | | | |
| g | g | g | g | | | | | | | | |
| k | k | k | k | | | | | | | | |
| l | l | l | l | | | | | | | | |
| m | m | m | m | | | | | | | | |
| n | n | n | n | | | | | | | | |
| p | p | p | p | | | | | | | | |
| r | r | r | r | | | | | | | | |
| s | s | s | s | | | | | | | | |
| t | t | t | t | | | | | | | | |
| | ð | | ð | | | | | | | | |
| þ | | þ | | | | | | | | | |
| | z | | z | | | | | | | | |
| v | | v | | | | | | | | | |
| | c | | c | | | | | | | | |
| h | | h | | | | | | | | | |
| | x | | x | | | | | | | | |
| q | | q | | | | | | | | | |

æinkar eðli til stafs, helldr er hann til skýringar ritz. Sól heitir *Titan*, heitir þaðan af *titulus* i látinu, er vèr köllum titul, þat er sem *litil sól;* því at svâ sem sól lýsir heim allan, svâ lýsir titull orð rètt ritin. Þessir eru fjórir höfuðstafir: þ, *v* 1), *h*, *q;* enn þessir eru sex hljóðstafir 2) óbræyttir: *a*, *e*, *i*, *o*, *u*, eru þeir ok límdir saman í ritzhætti; þá eru þessir tólf saman málstafir úbræyttir: *b*, *d*, *f*, g, *k*, *l*, *m*, *n*, *p*, *r*, *s*, *t;* þessir eru undirstafir: c, x, z, & 3), ok þeirra má missa í

---

Stafasetníng sjá sem hèr er ritod, er svâ sett til máls sem lyklar til hljóds; músíka ok reglor fylgja hljódstöfum, svâ sem þeir lyklum. Málstafir ero ritaþir med hverri reglo bæþi fyrir ok eptir, ok gera þeir mál af hendíngum þeiri (*kannske* þeim) sem þeir hava (*adrir lesa* fylgja) vid hljódstafina fyrir eþa eptir. Köllum vèr þat lykla, sem þeir ero í fastir, ok ero þeir svâ settir (hèr) í spácionne, sem lyklar í simphonie, ok skal þeim kippa eþa hrinda, ok drepa svâ reglostrengina, ok tekr þá þat hljód, sem þú villt haft hava. Þessar hendíngar ero meiri en þær, sem fyrr ero ritaþar, ok hinar minnzto þeira sem stafat sè til; því at hèr er í hendíng einn hljódstafr ok einn málstafr, ok gerir svâ margar hendíngar, sem nú er ritad áþr í stafasetníngunni. Hèr standa um þvert blad 11 hljódstafir, en um endilángt blad 20 málstafir; ero þeir svâ settir sem lyklar í simphonie, enn hljódstafir sem strengir. Málstafir ero 12 þeir sem bæþi hava hljód, hvârt sem kipt er eþa hrundit lyklinum, enn 8, þeir er síþarr ero ritaþir, hava hálft hljód vid hina. Sumer taka hljód, er þú kippir at þèr, sumer er þú hrinder frá þèr. Þessir hljódstafir standa um þvert blad: *a*, *e*, *i*, *o*, *u*, *y*, *æ*, ö, *au*, *ei*, *ey*; þessir ero 12 málstafir: *b*, *d*, *f*, *g*, *k*, *l*, *m*, *n*, *p*, *r*, *s*, *t;* þessir ero málstafir ok hava hálft hljód vid hina ð, þ, z, *v*, *c*, *h*, *x*, *q*.

*Ad línan undir i eeki nær allt nidr ígegnum, er án efa misskrifad; því meiningin er ad syna hvörnin allar einfaldar samstöfur myndast, nefnl. med at setja noekra samhljódendr framan edr aptan ~~vid~~ hljódstafina, adra einúngis fyrir aptan, og enn adra einúngis fyrir framan: enn þetta gildir um í og þá eptir fylgjandi hljódstafi öldungis eins og um á, e. Eg hefi þar fyrir ecki viljad uppfylla fleiri enn þá fyrstu 4 dálka med bókstofum þótt þeir séu allir uppfyltir i U. eptir sömu reglu. Hvör og einn getr og hægliga gjört þad sjálfr, edr ímyndad sèr þad. Hèr er þá U. öldúngis á enda; því nú fylgja nockrar linur af hègómligu leyniriti, enn þá tekr vid registrid yfir dróttqvednu háttuna, sem getid er bls. 225. athug. 1), og þá Háttalykill sjálfr.*

1) *O. hefir einnig hèr* Y.

2) *Min lagfær. fyrir* höfutstafir *O.*

3) *Min lagfær. fyrir* Y.

vâru máli ef vill: *x* er samtengdr af c ok *s* í látínu; *z* hann er samtengdr af *d* ok *s*, ok er ebreskr; & er helldr samstöfun en stafr, eru stafaðir saman *e* ok *t* í látínu.

14. Enn fyrir því nú at sumir samhljóðendr hafa sitt líkneski ok nafn ok jartein; en sumir hafa höfuðstafs líkneski ok skipat stöfum [enn sumir] í nafni ok aukit atkvæði bæði nafns ok jartein; enn sumi hallda líkneski sínu, ok er þó minnkat atkvæði nafns þeirra, ok jartein, sú er þeir skolu bera í málinu, þeirri lík, er í nafninu verðr: þá skal nú sýna leita bæði líkneski þeirra ok svâ nöfn fyrir ofan ritud; at yfir þat [1]) megi nú allt saman líta, er áðr var sundrlausliga umrætt: *a*, *á*, o, *ø*, *e*, *æ*, *i*, *í*, *u*, *ú*, *y*, *ý*,

*b*, *B*, *c*, *K*, *d*, *D*, *f*, *F*, *g*, *G*,
*bè*, *ebb*, *chè*, *ecç*, *dè*, *edd*, *ef*, *eff*, *ge*, *egg*,
*ḡ*, *h*, *H*, *l*, *L*, *m*, *M*, *n*, *N*, *p*, *P*,
*eng*, *há*, *Há*, *el*, *ell*, *em*, *emm*, *en*, *enn*, *pè*, *epp*,
*r*, *R*, *s*, *S*, *t*, *T*, *x*, [ð, *z*, *&* [2]), þ
*er*, *err*, *es*, *ess*, *tè*, *ett*, *ex*, *eð*, *zet*, *þè*
(- 7 r ʾ w 9)

Nú verðr þetta alltsaman stafrof kallat.

15. Þessir stafir gjöra allt mál, ok hendir málit ýmsa, svâ til at jafna sem hörpu strengir gjöra hljóð, eða eru læystir luklar í simphonie, eða þá er organ gengr upp ok niðr, aptr ok framm um allan gamma, þann er með sér hefir nítján lukla ok átta raddir, ok þá [3]) koma til móts þessir fimm hríngar stafanna, er áðr var umrætt: kallaz nú hvârir við aðra stafrof ok gam-

---

1) *Min lagfær. fyrir* þeim.
2) *Min getgáta fyrir:* X *ex*, z *et* œ, *sem O. hefir, enn sem ómöguligæ getr staðizt.*
3) *Mín lagfæring fyrir* þú *sem O. hefir.*

mi, ok taka nú hljóðstafir þar sín hljóð, ok raddarstafir rödd, málstafir málit ok samnaz til orðanna svâ margra, at ekki er þess mælt í heiminum, at æigi sé þessir stafir til-hafðir. Nú eru æingi þau læti eða hljóð eða raddir at æigi muni þat allt finnaz í gamm-anum. Nú tekr svâ fremi mikit [1]) um gjöraz, er orðin hefjaz upp ok hljómrenn vex ok raddirnar glymja á, nefniz ok svâ fremi söngr er þetta hefir allt til, ok nú þyss sjá flokkr framm á leikvöllinn, ok öllum-megin at stýrinu því, er túngan heitir, ok heita nú á hana til málsins ok orðanna ok songsins, at hon kveði þat allt upp, ok hon gjörir svâ: *Osanna* segir hon, þat þýðiz á vâra túngu svâ: *græð þú oss*; enn þat er á ebresku mællt, ok stack hana náttúran til þess, fyrir því at hon var fyrst, ok geck þá um allan heim, þángat til er guð skipti þeim.

16. Nú segir þar til at henni þótti hann vera stýrimaðrinn, er hann skapaði hana, ok af Krists nafni er kristnin kölluð: vèr er kristnir erum köllum hann höfuð vârt; enn vèr hans limir ok liðir; ok hans sonr er sá, er hann sendi híngat í heim; ok sá er vâr faðir, en [2]) vèr hans börn; var ok faðerinn vænligr til at stjórna sínum börnum svâ sem bezt gegndi; var þí orðit or messunni tiltekit, at hann vissi hverr lofsöngr honum þótti mestr frammfluttr þessa heims við sik sjálfan; er þar ok vâr hjálp öll í-fólgin, er um hans písl er rætt ok sár, er hann þoldi á krossinum helga, er or-rann bæði blóð ok vatn; ok í þí erum vèr skírðir, er rètt trúum á al-

1) *kannske* málit.
2) er *O.*

máttkan guð; ok þat hans holld ok blóð, er í messunni er frammflutt, er vârt farnest, þá er vèr förum af þessum heimi. Nú skal þat vân vâr at vætta þess, at svâ fremi fariz oss vel, er svâ verðr, sem hann hefir fyrirsèð, at bæði sè at hann er í för með oss ok vèr með honum, þá er vèr förum heim til föðurleifðar vârrar; ok þá er hann hefir skipt sinu liði sèr til hægri handar eptir dómsdag, þá skolum vèr hefja upp *Allelújá*, fyrir því at þat er æigi jarðneskr söngr, sýngja þetta þá aller saman tíu fylki guðz engla ok manna; þá er almáttigr guð ferr meðr sína ferð hæim í himinríkis dýrð; ok skolum þá una í sifellu, svâ at alldri skal eptir [1]) verða, með guði almáttkum, þar sem hann er æ ok æ með feðr ok syni ok helgum anda, sá er lifir ok ríkir æinn guð of allar alldir verallda. Amen.

---

## MALFRÆDINNAR GRUNDVÖLLR [2]).

17. *Hljóð* er allt þat, er um kvikendis æyru má hæyra, hljóð hefir margar kynkvíslir, ok verðr hljóð þat sem náttúruliga megu æyru greina af samkvâmu tveggja líkama: önnur hljóðsgræin er sú er heilug ritníng segei andliga luti hljóða. Líkamligt hljóð verðr annat af líflausum lutum enn annat af líflegum lutum. Hljóð þat (er) hæyriz af líflausum lutum verðr annat af ræriligum skepnum, enn annat af úhræriligum, annat af samkvâmu ræriligra luta ok úræriligra. Af ræriligum lutum verðr hljóð, sem af höfuð-skepnum: elldi, vindum, vötnum; af úhræriligum

1) *kannske endir.* 2) *Ó. hefir aungva fyrir sögn.*

um lutum verðr hljóð sem: stæinum ok málmi eða strengjum, ok verðr þesskyns hljóð jafnan af hræring nokkurs líkama lífligs eða úlifligs. Af samkvâmu ræriligra luta ok úræriligra verðr hljóð, sem þá er vindr eða vötn eða elldr slær með afli jörð eða aðra úræriliga luti. Hljóð þat, er verðr af líflausum lutum er sumt úgræiniligt, sem vindagnýr eða vatna-þytr eða reiðar-þrumur, en sumt hljoð er græiniligt eptir náttúrligri samhljóðan þeirri, er *Philosophi* köll-uðu *músicam*, ok verðr þat hljóð hið æfsta ok hið æzta af ræring ringa þeirra, er sól ok túngl ok fimm merki-stjörnur gánga í, þær sem *planete* heita, ok heitir þat *celestis armonia*. Þessar stjörnur sagði Plató hafa líf ok skyn ok vera údauðligar. Græiniligt hljóð verðr í líflausum lutum þat sem vèr köllum listuligt hljóð, sem í málmi ok strengjum ok allzkyns söng ok píp-um. I lifligum lutum verðr (hljoð) sem í viðum ok grösum, ok þó af ræring nokkurs ræriligs líkama. Af lifligum lutum, þeim er líkama hafa verðr annat hljóð, þat er rödd heitir, enn annat þat sem æigi er rödd, sem fótastapp eða handaklapp ok annat þvílíkt. Rödd er hljóð frammfært af kvikendis munni, formeraz af níu náttúruligum tólom: lúngum, barka, túngu og tveim vörrum ok tönnum fjórum. Enn Priscianus kallar rödd vera hið græiniligsta loptzins högg ok æig-inliga skiljanligt, en önnur úritanlig. Uritanlig rödd er sú, er æigi má stöfum græina: ritanlig rödd er (önnur merkilig) önnur úmerkilig. Umerkilig rödd er sú, er til engrar merkíngar er höfð, sem: *buab bligstrix*: merkilig rödd er önnur af nátturu önnur af setníng eða sjálfvilja. Merkilig rödd af náttúru er barnagrátr eða sjúkra manna stynr eða annat þvílíkt

merkilig rödd af setníng, er sú er framſæriz af sjálfvilja mannz, sem þetta nám: *maðr merkir kvikendi skynsamlig ok dauðlig.*

18. *Stafr* er hinn minnzti lutr samansettrar raddar sá sem rita má, ok er stafr kallaðr í þí sem hæyrir allre samsetníng stafligrar raddar; þvíat vèr skiptum bækr í capitula, en capitula í klausur eða vers, en clausur í málsgræinir, málsgreinir í sagnir; sagnir í samstöfur, samstöfur í stafi. Enn þó eru eigi stafir náttúruliga úskiptiligir, þvíat stafr er rödd, en rödd er lopt, eða af lopti formerat. Enn hvârt sem rödd er lopt eða af lopti formerat, þá er hon samansett af sínum pörtum sem [1]) loptið, með því at þat er líkamligt, (því) aller líkamir eru samansetter: enn jafn lutr verðr af jöfnu efni at gjöraz, sem holld af holldi. Enn svâ sem í náttúruligum líkamum eru nokkurir þeir lutir, sem kallaz æinfalldir, sem fjórar höfuðskepnur: elldr ok jörð, vötn ok lopt, ok kallaz þesser luter æigi æinfalldir af því at þeir sè uskiptiligir, helldr af þí at hverr þeirra hlutr er jafn hinu [2]) öllu, sem lítill gneisti hefir jafna náttúru hinu mesta báli; svâ eru ok stafir úskiptiligir í misjöfnu efni, eða í þá luti, sem ulíkir eru; þvíat *á* ok aðrir raddarstafir hafa stundum skamt hljóð, enn stundum lángt, ok ef þeir hafa lángt hljóð, þá hafa þeir tvâ tíma jamlánga. *Philosophi* kölluðu stafi *elementa* þat eru höfuðskepnur, af þí at svâ sem líkamir eru skapaðer af fjórum höfuðskepnum, svâ gjöra ok stafir samansettir alla staflega rödd, svâ sem nockurskonar líkama, þvíat rödd tekr æyru, ok hefir þrenna mæling, sem allt þat er líkamligt er, þat er hæð upp

1) *Mtn lagf. fyrir* sed. 2) *Man lagf. fyrir* sinu.

ok ofan, ok breidd til vinstri handar ok hægri, ok lengd fyrir ok eptir; því at rödd má öllum megin hæyraz. Samstöfur hafa hæð í hljóðagræin, en breidd í anda, lengd í tíma; þvíat hverr samstafa er annathvârt *hvöss* eða *þúng* eða *umbæygilig*: *hvöss hljóðs-græin* (er) sú, er frammfærð verðr með hölldnu hljóði, sem þessi samstafa *hvat; þúng hljóðsgræin* er (af) lít-illátu hljóði hefz, ok dregz niðr í hið lægra hljóð, sem hin fyrsta samstafa í þessu nafni *háræysti; umbæygilig hljóðsgræin* er sú er hefz af litilláta hljóði, ok þenz upp sem hvöss hljóðsgræin, sem þetta nafn *raust.* Hver samstafa hefir ok frammflutníng annathvârt *lina* eðr *snarpa*, ok er sá *andi* hèr kallaðr *færing framflutníngar samstöfu.* Með snörpum anda verðr sú samstafa frammfærð, sem hin fyrri samstafa þessa nafns *þurrum*, með linum anda flytjaz samstöf-ur þessar *lángan tíma.* Hverr samstafa er annathvârt *löng* eða *skömm*, ok (er) skömm samstafa skjótt framflutt ok hefir æina stund, sem fyrri samstafa í þessu nafni *Ari*; löng samstafa er seinliga frammflutt, ok hef-er tvær stundir, sem hin fyrri samstafa i þessu nafni . . . , ok er tími eða stund kallat dvöl, mælandi framm-flutning raddar.

19. Stafr hefir þrenn *tilfelli*: *nafn, figúru, veldi* eða *mátt. Stafanöfn* eru sextán í danskri túngu, í þá lík-íng sem Grikkir höfðu (forðum) daga, enn þó eru merkíngar þeirra mycklu fleiri. Priscianus segir at hverr raddarstafr hafi tvö eða fleiri hljóð; svâ sem á, ef þat er skamt hefir fernar hljóðsgræinir: hvassa hljóðsgræin fyrir utan áblásníng *h*, sem hèr *hafi*, en þúnga hljóðsgræin *hafandi;* lángt á hefir 6 hljóð, ef þat hefir áblásníng *h*, þá hefir þat annathvârt hvassa

hljóðsgræin eða þúnga eða umbæygiliga, sem hèr... Slikt hið sama ef hann hefir æigi áblásning; ljóðar þar sem þessi: *áre, áranna, ára.* Slikt hið sama má ok greina aðra raddarstafi: *i* ok *ú* hafa því fleiri greinir, at þeir eru stundum samhljóðendr, sem í þessum nöfnum: *jarl, vitr,* ok heitir *v.* I norænu stafrofi eru 5 hljóðsstafir svâ: ᚢ *úr,* ᚬ *óss,* ᛁ *iss,* ᛅ *ár,* ok er *iss* stundum settr fyrir *e,* ok er þá [stundum] svâ sem *aleph* eða *joth* setjaz fyrir 2 raddarstöfum í ebresku máli. ᚢ er af því fyrst sett, að þat ljóðar í vörrum; ᛅ þarnæst, hann hljóðar í munni; ᛁ stendr þar næst, ok ljóðar í ofanverðum barka sem *e,* ef hann er pontaðr; þarnæst er *á* skipat, því hann hljóðar í brjósti, *h* [1]) er tekit af ebreskum stöfum. Enn látínumenn skipuðu stöfunum gagnstaðliga, þessum sem hèr er græint: settu þeir *á* fyrst; þvíat þat er næst hinu neðsta raddartóli, er vèr köllum lúngu, ok þat má fyrst skilja í bernsligri raust. Enn ᚢ er af því fyrst skipat, at þat er fremzt ok næst sjálfu efni raddarennar, er vèr hyggjum at loptið megi kalla, ok hafa af því hvârirtveggju meistarar vel ok náttúrlega skipat stöfunum í sínu máli. Raddarstafir þessir hefjaz aller af sínu ljóði, en leggjaz í samljóðendr *reið* ok *sól.* Samhljóðendr eru 12 í rúna máli; 5 þeirt er nálægir (eru) raddarstöfum, eru kallaðir *hálf-raddarstafir* âf [ú]fróðum [2]) mönnum; þvíat þeir hafa meiri líking raddarstafa ok merkiligri hljóð enn aðrir samhljóðendr, þat er ᚱ,ᚾ,ᛘ,ᛚ,ᛋ; kalla sumir menn með þessum stöfum teljandi ... í látínu stafrofi; þvíat hann hefir sitt hljóð af raddarstaf, sem aðrir þesskyns

1) *kannske* hann er tekinn.  2) *kannske* 2 ɔ: báðum fróðum.

samhljóðendr. Priscianus segir æigi ráða mega stafsins merking, hvårt hans nafn hefz af raddarstaf eða af æiginligum, sem marka má í þessu stafrofi, ok mörgum óðrum, er náliga hefjaz allir stafir af sinu ljóði hvårtveggja raddarstafir ok samljóðendr ok hallda fullkomliga sínum merkíngum. I þessu eru 5 stafir, þeir er vèr köllum dumba stafi ᛡ*), ᚦ, ᚴ, ᛐ, ᛒ, ok eru þesser stafir æi af því dumbar kallaðir, af þeir hafi ekki hljóð, helldr af þí at þeir hafa lítið hljóð hjá raddarstöfum, í þá líking sem sá maðr er kallaðr eingisháttar af góðri ætt, er lítt er mentr hjá sinum göfgum frændum.

20. Annat tilfelli stafs er *figúra*, ok er þat mynd eða vöxtr stafanna, svâ gjörr sem hèr er ritað. Þriðja tilfelli stafs er *máttr*, ok er sjálf frammflutníng stafa ok merking þeirra: fyrir þann sama mátt stafanna eru fundin nöfn þeirra ok figúrur. Sumir meistarar kalla hið fjórða *skipanar* tilfelli stafs, enn þat kallaði Priscianus æinn part, þann er mætti stafsins hæyrir. Þessa stafi ok þeirra merkíngar compileraði minn herra Valdimar Dana-konúngr með skjótu orðtaki á þessa lund: *spréngd mannz-hök flyði twi boll*

ᛋᛔᚱᛂᚿᚴᛐ ᛘᛆᚿᚿᛋ ᛡᚯᚴ ᚠᛚᛦᚦᛁ ᛐᚠᛁ ᛒᚯᛚᛚ

Hèr er *sól* fyrst skipat fyrir *s* látínustaf, ok *z* girðzkan staf, ok köllum vèr þat *knèsól*, er svâ er gört ᛋ, enn *z* hefir náttúrliga í sér tveggja stafa hljóð *t* ok *s*, eða *d* ok *s*, ok (er) af því hvârgi stafr *x* ok *z* ritaðr í rúna máli eða í fornu látínu-stafrofi; nú eru þeir stafir af því i stafrof settir at skjótara þikkir at rita [eptir] helldr æinn staf enn tvâ. Þar næst stendr ᛒ, ok er *bjarkan* svâ, at þat stendr fyrir *b* látinustaf; ok hefir

*) *O. hefir her* Y.

sá rúna-stafr tvâ dumba stafi í sèr, þá er þat hljóðar fyrir. Enn af því eru belgir opnir gjörfir á *bjarkani*, þá er þat hljóðar fyrir *p*, at (þat) skal meir sundrloknum vörrum nefna enn *b*. Þarnæst stendr ᚱ fyrir *r* látínustaf, ok er æinn af þeim, er hálfraddarstafir eru kallaðir. Þarnæst stendr *é*, ok hljoðar fyrir tveim raddarstöfum: ᚿ ok ᛁ, ok kalla Girkir þann staf diptongum (δίφθογγος), þat er *tvíhljóðr* á norrænu, ok eru fjórir diptongi í látínu stafrofi, enn í rúnum 5. Diptongus er samanlíming tveggja raddarstafa í æinni samstofu, þeirra er báðir hallda afli sínu. Þessir eru límingarstafir í rúnum: ᚿ fyrir *ae*, ᚿᚢ fyrir *au*, ᚿ ᛁ fyrir *e* ok *i*, ok er sá diptongus ekki í látínu [æy]. ᚿ fyrir *e* ok o, ok er hinn fjórði diptongus í látínu, ok er hann ægi í rúnum. Sumir raddarstafir eru fyrirskipaðir í samlímingu, sem *a* ok *e*, en sumir eru eptirskipaðir, sem *e* ok *i*, o ok *u*; ok eru þeir raddarstafer náttúrliga fyrirskipaðir í samanlímingum, er nálægt hljóð hafa hinu innzta raddartóli mannzins, enn hinir eptir-settir, er nærri standa í ljóðsgrein raddarennar, sem *a* fyrir *a* ok *u*, enn *e* fyrir *e* ok o ok *u*, af því at þat hljóð er grannara, er nær brjóstinu stendr ok fyrr stendr, enn hitt digara, er framarr skapaz, ok meira hefir rúm; er ok hægra þat hljóð fyrir at setja í samlíming, er fyrr skapaz, enn hitt eptir er formeraz (seinna). A látínu er diptongus fyrir 3 sakir fundinn: fyrir hljóð-fegrð ok sundrgræin ok samansetníng; enn í norænu fyrir tvennar sakir: fyrir græin ok hljóðfegrð. Fyrir græinar sakir er diptongus fundinn í norrænu, sem í þessum nöfnum: *mær* ok *sær*, at græina þau frá fornöfnum *sèr* ok *mèr*, ok öðrum þílíkum; enn fyrir hljóðsfegrð er

diptongus fundinn, sem hèr: lœkr, œgr: þvíat fegra þikkir hljóða helldr en *lækr*, *ægr*. Þarnæst stendr ᛆ, ok er hon af þeim, er hálfraddarstafir heita. Þarnæst stendr ᚵ ok er þat fyrir tvâ samhljóðendr *k* og g. Þarnæst er ᛑ stúnginn, ok stendr fyrir *d* látínustaf. Að slíkum hætti eru aller rúnastafer, settir í þessum orðzkviðum, ok munum vèr þat æigi framarr græina; þvíat æigi er nauðzynligt. Því eru þessir 4 rúnastafir settir fyrir tvâ samhljóðendr, at þeir samhljóðendr hafa líkara hljóð enn aðrir, svâ sem g ok *k*, *s* ok z, *b* ok *p*, *d* ok *t*.

21. *Samstafa* er samfyllig stafasetníng með æinum anda, ok æinni hljóðsgrein, ósundrgreiniligha samansett ok frammfærð. Samstafa hefir 4 tilfelli: *staf* eðr tölu, *andi* ok *tið* ok *hljóðsgrein*; Þvíat hverr samstafa hefir skamma tölu æinn staf eða fleiri, ok hefir æingi samstafa í látínu fleiri enn 6, enn í norrænu megu æigi standa fleiri í æinni samstöfu enn 8 eða 9, sem: spannzkr ok strennzkr. I látínu standa 2 samhljóðendr hið flesta fyrir raddarstaf, enn 3 eptir; enn í norrænu megu standa þrír samhljóðendr fyrir raddarstafenn, 5 eptir, sem skilja má í þeim nöfnum, er fyrr eru ritұð. Þessar samstöfur gjöra mesta fegrð í skálldskap, ef æinn raddarstafr er í tveim samstöfum ok hinir sömu eptir-settir, sem hèr: *snarpr*, *garpr*, ok köllum vèr þat aðalhendíng, enn ef sinn raddarstafr er í hvârri samstöfu, enn aller æiner samhljóðendr eptir, sem hèr: *vaskr*, *röskr*; þat köllum vèr skothendíng. Þessar hendingar þikkja þá bezt falla, ef tvær samstöfur eru í hvârri sögn, ok hinn sami sè raddarstafr í fyrri samstöfu, ok svá samhljóðendr þeir sem

fylgia

fylgja, enn öll æin en síðarri samstafa, sem hèr: *aller*, *snialler*; ok eru hendíngum diktuð ritin í látínu skálldskap, sem þetta:

Ante chaos virginum indigeste molis
adhuc yle gravida fetu magne prolis.

Þessar sömu hendíngar eru ok settar í norrænu skálldskap í þeim hætti, er vèr köllum Rúnhendu, sem Snorri kvað:

Orms er glatt galla
með gumna-spjalla.

Látínu klerkar hafa ok þessa hendíng í versum, er þeir kalla *consonantia*, ok skal hinn sami raddarstafr vera í efstu samstöfu hvârrartveggju sagnar sem hèr: *estas*, *terras*. Þessar hendíngar er lítt geymt í norrænum skáldskap, þegar er fleirri samstöfur eru í æinni sögn en æin.

22. Annat tilfelli samstöfu er *tíð*; þvíat hverr samstafa hefir annathvârt æina tíð eðr tvær, svâ sem Priscianus segir at sumar samstöfur hafa hálfa aðra stund eða hálfa þriðju stund, en sumar 3. Skamma stund hefir sú samstafa, er raddarstafr hennar er nátturliga skammr, ok komi æigi tveir samhljódendr eptir, sem *ari*, *api*; hálfa aðra stund hefir sú samstafa, er vera má hvârt er vill laung eða skömm, sem fyrri samstafa: *hvatra*, *spakra*. Tvær stundir hefir sú samstafa, er tveirr samhljóðendr standa eptir lángan raddarstaf, sem hèr: *bjórs*, *stórs*. En þó setja núverandi klerkar í versagjörð allar samstöfur annathvârt æinnar stundar eða tveggja.

23. Þriðja tilfelli er *andi*; þvíat hverr samstafa hefir

annathvârt *linan* anda eða *snarpan*. Andi er kallat ræríng framflutníngar samstöfu. Snarpan anda hefir sú samstafa, er með digrum anda er frammflutt, sem þessar sagnir: hraustr, horskr, ok þær aðrar, er áblásníngar nóti er í upphafi skipaðr. *H* er kallaðr merkíng eðr nóti áblásníngar; þvíat hann er æingi stafr fyrir sik fullkominn, hvârki samhljóðandi nè raddarstafr. Linan anda hafa þær samstöfur, er æingi áblásníngarnóti er í upphafi settr, sem hèr: jörð ok armr. Enn þó þikkja betr sama í norrænum skálldskap at annathvârt hafi áblásníng báðir stafir ok hljóðstafr þeirra eða æingi þeirra.

24. Fjórða tilfelli samstöfu er *hljóðsgræin*, ok er hljóðsgrein hèr kölluð rækilig hljóman raddarennar ok merkiligri framfæríng. Hverr samstafa hefir, sem Priscianus segir, annathvârt *hvassa* hljóðsgrein eða *þúnga* eða *umbæygiliga*. Sú samstafa hefir hvassa hljóðsgrein, er hefz af litlu hljóði ok endiz í hvassara hljóð, sem þessar samstöfur *var*, *þar*, ok er hon svâ merkð (ʹ). Þúnga hljóðsgrein hefir sú samstafa, er hefz af litlu hljóði ok endiz í lægra hljóð, sem þessar samstöfur enar fyrri *hára*, *sára*, ok er sjá ljóðsgræin svâ nótuð (ˋ). Umbæygiliga hljóðsgræin hefir sú samstafa, er hefz af litlu hljóði ok dregz upp í hvassara ljóð, enn niðr at lyktum í lægra, sem þessar samstöfur *árs*, *sárs*, ok er sú ljóðsgræin svâ nóteruð (^). Hljóðsgræin merkir hæð stafligrar raddar, en andi digrleik hennar, sem skilja má, at hvern raddarstaf verðr at nefna meir með sundrloknum munni, ef áblásníng fylgir. Tíðar tillfelli merkir leingd samstafligrar raddar, sem fyrr var sagt. Enn með því at þesskonar greinir hæyra

lítt í noræenu skálldskap at flestra manna ætlan, þá tala ek þarum ekki fleira at sinni.

25. *Sögn* er hinn minnzti lutr samanlaðins máls, ok er hûn lutr kallaðr æinn af þí máli, er fullkomið sen hefir, en sú sögn eða sá lutr er af alþýða rúmliga kallaðr orð. Aristoteles enn spaki kallar tvâ parta málsgreinar: *nafn* ok *orð*; þvíat þeir gjöra meðal sín samtengdir fullkomna málsgræin, sem *maðr reinn*, enn meistari Priscianus telr átta parta málsgreinar: *nafn* ok *fornafn*, *orð* ok *viðrorð*, *hlutteknìng*, *samtengìng*, *fyrirsetning* ok *meðalorpning*, ok græinir hann glöggliga nátturu hvers þeirra. Nafn er lutr málsgreinar, sá er veitir æiginligan hvíligleik hverjum likama, hann er æztr allra sagna; þvíat þat er svâ sem efni eða grundvöllr allz máls. Þarnæst er orð, er skrýðer ok formerar nafnið svâ sem myndir, þat skýrir tilfelli nafns *gjörð* eða *pining*. Fornafn er sett i stað nafns sem hlæytismaðr fyrir meistara ok merkir 3 persónur, en nafn merkir æina. Viðrorð fegrir ok endir orð í þá líkíng, sem viðleggjanlig nöfn gjöra við undirstöðlig nöfn, sem hèr: *sterkr maðr berst raustlegha* Hlutteknìng er fráskilið orði í því at hon merkir föll ok kyn, sem nafn, enn í þí skilz hon frá nafni at hon merkir gjörð eða píning, ok hefir ýmsar stundir sem orð. Samtengíng knýtir saman nöfn eða aðra parta ok sjálfar málsgræinir, sem hèr er kveðit:

Hríngr ok Dagr að þíngi.

Fyrirsetníng er æiginlig til at þjóna föllum nafnsins, sem hèr: *til borgar, á skipi.* Meðalorpníng sýnir hugþocka mannz, ok er hon jafnan fráskilð öðrum pörtum, sem hèr: *vei! hai!*

# Fígúrur í ræðunni *)

26. Donatus kennir í fyrribók sinni náttúru allra parta þeirra er hafa þarf í rèttu látínumáli, ok má æingi maðr fullkomliga vel skilja ok mæla þá túngu, nema hann kunni þessa bók. Aðra bók gjörði hann um löstu málsins, þá er verða má í sögnum ok málsgreinum. Því ritaði hann um löstu málsins, at sá æinn má mæla eða yrkja fagrliga, er veit bæði lof ok löst í málinu, sem mællt er: *Malum non vitatur nisi cognitum* ɔ: Eigi má àllan löst varaz, nema hann sè fyrri kendr. I þessi bók má gjörla skilja, at öll er æin málslistin sú er rómverskir spekíngar námu í Athenisborg á Griklandi, ok snero síðan í látínumál, ok sá hljóðaháttr ok skáldskapar, er Oðin ok aðrir Asiemenn fluttu norðr híngat, þá er þeir bygðu norðrhálfu hæimsins, ok kendu mönnum þesskonar list á sína túngu, svâ sem þeir höfðu skipat ok numit í sjálfu Asíalandi, þar sem mestr var fegrð ok ríkdómr ok fróðleikr veralldarennar.

27. *Barbarismus* er kallaðr æinn lastapollr málsgreinar í alþýðumáli, en sá er í skálldskap kallaðr *Metaplasmus.* Barbarismus fèck af því nafn, at þá er rómverskir höfðíngjar höfðu unnið náliga alla verölld undir sína tign, tóku þeir únga menn af öllum þjóðum, ok fluttu þá í Róm, ok kendu þeim mæla rómverska túngu. Þá drógu margir únæmir menn látínu eptir sínu æiginligu máli, ok spilltu so túngunni, kölluðu Rómverjar þann málslöst Barbarismus, þvíat þeir nefndu allar þjóðir *barbaros* utan Girki ok

*) O. hefir hèr aungva adgreiníng nè fyrirsögn.

Látínumenn. *Barbari* voru kallaðir fyrst, af laungu skeggi ok saurgum búnaði þær þjóðir, er bygðu á háfum fjöllum ok þykkum skógum; þvíat ásjóna þeirra ok búnaðr var úfagrligr hjá hæversku og hirðbúnaði látínu spekínga. En þí villdu Rómverjar at allar þjóðir næme þeirra túngu, at þá væri kunnari þeirra tign, ok þó at ríkin skiptiz er stundir liði, mætti allt fólk vita at þeirra forellri hefði Rómverjum þjónat. Barbarismus verðr tvær leiðer í máls frammflutning ok í letri. Hann hefir 4 kynkvísler: *viðlagning* ok *aftekning*, *skipting* ok *umsnúning*. Þat má verða í æinum staf ok samstöfu ok tilferlum samstöfu: stund ok hljóðsgrein ok áblásning. Barbarismus er með öllu flýjandi í alþýðligu máli, ok í skálldskap er hann stundum læyfðr fyrir sakir skrauz eða nauzynja. Um viðrlagníng stafs verðr barbarismus, sem Egill qvað:

Erumk auðskjæfð
omun lokri
magar þóris
mærðar efni,
vinar míns;
þvíat vâlig liggja
tvenn ok þrenn
á túngu mèr.

Hèr er aftekinn hinn síðarsti stafr í tveim nöfnum fyrir fegrðar sakir; þvíat þá þikkir betr hljóða þessar samstöfur í kviðu hætti, at þær hafi umbæygiliga grein helldr en hvassa: þrjár eru samstöfur í vísuorði ok má því skilja at hèr sè Babarismus í hljóðsgræina skipti. I aftekníng samstöfu verðr Barbarismus, sem qvað Hárekr í Þjóttu.

Ráðið hefig at ríða
Rínlæygs hèðan mínum.

Þvíat ofmargar verða ella samstöfur í vísuorði. Um viðrlagníng samstöfu verðr Barbarismus, sem qvað Auðunn illskjællda:

Maðr skyldi þó molldar
megja hverr of-þegja,
kenni meiðs þó at kynni
kleppdögg hárs löggvar.

Hèr **er sett** *megja* fyrir *mega*, ok aukit æinum staf, ok gjör löng samstafa af skammre; því at ella hlaðaz æigi rètt qveðandi í vísuorði. Um viðlagning samstöfu verðr Barbarismus, sem Glúmr qvað:

En ek veit at hefir heitið
hans bróðir mèr góðu
sèr af slíkt til þeirra
seggfjöld hvaðartveggi.

Hèr er *hvaðartveggi* sett fyrir *hvârtveggi* til þess at qveðandi halldiz í vísuorði. Um stafaskipti verðr Barbarismus, sem Arnórr qvað:

Sumar hvern frekum erni

Hèr er *hvern* sett fyrir *hvert*, til þess at kveðandi halldiz, ok má hèr kalla bæði stafaskipti ok samstöfu. I stafasnúníng verðr Barbarismus, sem hèr:

Reið Brynhilldar bróðir
bort, þann er hug æi skorti.

Hèr er *bort* sett fyrir brott, og skipt stöfum at *r* stendr næst *t*, til þess at hendíngar sè jafn háfar, ok er þetta svâ í æinum sama staf ok samstöfu. Um stundar viðlagníng verðr Barbarismus, sem qvað Eilífr Guðrúnarson:

Vâru vötn ok mýrar,
verðr hitt at þau skerða,
[svell var áðr um alla]
öl torráðin [hóla].

Hann kallar *torráðin öl vötn* *) ok gjörir lánga þessa samstöfu *öl*, til þess at hendíngar sè jafnháfar. Um stundar afdrátt verðr Barbarismus sem hèr:

*) *Min lagf. fyrir* öl vönd öl.

Svanr þyrr bæint til benja
blóðs vindara róðri.

*Vindara* er sett fyrir *vind-ára* róðri, þat er *flugr*. Þessi samstafa (*ar*) er skömm gjör fyrir fegrðar sakir; þvíat þá hljóðar betr. Þar (er) ok sú skáldskapargrein, er opt þikkir vel koma ok menn kalla *ofljóst*. Um hljóðsgreinaskipti verðr Barbarismus, sem Einarr qvað:

Víst erumk hermd á hesti
hefir fljóð, ef vill, góðan.

Hèr skal annat af-ráða enn mællt er, ok er bæði bræytt með máli ok sundrtekníngum, ok hljóðsgræinum, oc skal svâ skilja: *víst erumk hermd á hesti, legg ek á jó reiði þokka góðan.* Hèr er máli skipt, ok skal svâ púncta ok sundrtaka: *legg ek á Jóreiði þokka góðan.* Hèr er seni skipt: *Hefir fljóð, ef vill* ɔ: *konu má ná.* Hèr er máli skipt: *konu Mána*; hèr er skipt ok hljóðsgræinum *má ná*; hèr er hvöss hljóðsgræin yfir báðum samstöfum, ok er hèr bæði skipt hljóðsgræinum og aftekníng hljóðsgræinar; þvíat hvöss hljóðsgræin er gjör af umbæygiligri, ok tekin svâ af þúng hljóðsgræin. Um viðrlagníng hljóðsgræinar verðr Barbarismus, sem Skrautoddr qvað:

Ef væri Bil báru
brunnins logs, sú er unnum,
(opt gjöri èk orðaskipti)
æinrænliga á bænum.

Hèr er *bænum* sett fyrir *bænum* *). **Enn** um viðrlagníng áblásníngar verðr Barbarismus, sem Starkaðr gamli qvað:

Þann hefi ek manna
mennskra fundit

*) *A ödrum stad á ad lesa* bæ-num *i eint. af* bœr, *enn á hinum* bænum *i margt. af* bæn.

hríng-heyjanda
hrammastan at afli.

Hèr er *hrammastan* sett fyrir *rammastan*, at qveðandi halldiz í Balkarlagi. Um aftekníng áblásníngar verðr Barbarismus, sem hèr:

Lofðúng gèkk at Lakkar
landherr í grá snerro.

*Lakkar* er sett fyrir *Hlakkar* at qveðandi halldiz. Enn verðr Barbarismus á fleiri vega, ok eru þær fígúrur svâ kallaðar: *Moecacismus*, *Lapdacismus*, *Jotacismus*. Þessar fígúrur verða um úfagra samansetníng stafanna, ok eigna sumir þessa lösto *Solæcismo*. Þessar fígúrur tóku nafn af æiginligu nafni *cismus*, þat er brugðníng eða spell. *Mœcacismus* er þat ef samtengíng sagna verðr af optligri samanlostníng æins stafs, sem hèr: *Gæima mærum hæimi*, ok köllum vèr þat *gjört á stál*, ef á meðal verðr hendínga. Lapdacismus er þat, ef tvav *ll* *) setjast fyrir æinu, eða æinn raddarstafr standi milli tveggja *ll* *), sem hèr:

Stendr af stála-lundi
styrr Þorræði fyrri

*Jótacismus* er þat ef æinn samhljóðandi stendr eptir raddarstaf, eða eptir annan raddarstaf, eða millum tveggja raddarstafa, sem hèr:

Hafði jarl Þar er áðan
eingi mann und ranni.

Ok sem qvað Oláfr Leggsson:

Fræyju ángann Læyjar.

Enn

*) *Min lagfær. fyrir* u *á fyrri og* v *á seinni stadnum í* Θ. *badi nafnid (sem er gr.* λαβδακισμος) *og dæmid synir þad rètta.*

Enn telr Donatus þann löst með barbarismó, ef tveir raddarstafir jamlángir standaz hið næsta í tveim samstöfum sem hèr:

þorði Iðja orða.

Þann löst kallar hann *collisiones*, ef *m* stendr (millum) tveggja raddarstafa, sem Æyvindr qvað:

Bárum Ullr um alla
ímun-lauks á hauka.

Þat kallar hann ok hinn sama löst, ef önnur samstafa í niðrlagi orðz er jöfn eða lík upphafi því er eptirkemr, sem Æinar qvað:

Harðan þýtr á hvítum
harm Sólborgar armi.

Svå ok ef tveir samhljóðendr rennaz ímóti í tveim samstöfum, sem hèr:

Hèr liggja brot beggja,
brúðr! strykvinna súða.

Ok sem þetta:

Hèr fregna nú hygnir
hjör flaug brims draugar.

Þessa lösto telr Donatus af því með barbarismó, að þeir verða í æinni samstöfu, þóat stærri sagnir spilliz af því.

28. *Solœcismus* er löstr í samansettu máli, gjörr í móti reglo rèttra málsgreina; ok verðr solœcismus í tveim pörtum eða fleirum, enn barbarismus í einni sögn, sem fyrr er ritað. Solœcismus fèkk nafn af borg þeirri, er *Solœ* var köllut, enn nú heitir *Pentapolis*. Þeirrar borgar lýðr fór til *Athenas* í Girkland at nema þat mál, oc þá spilltu þeir hvârritveggjo túngunni með vânduin orðadrætti, ok kölluðu Girkir þenna málslöst *Solœcismum* af borginni *Solœ* ok *cismos*, þat er

slita eðr sundrskorníng at våru máli; þvíat sá löstr sleit málsins parta, þá er spilltu tveim túngum. Þat er ok merkjanda, at ófróðir menn ætla jafnan barbarismum vera þat er solœcismus er að rèttu; sem þá ef nokkurr maðr segir frá konu eða karlmanni, ok kallar þar *hann* er *hón* skal vera, eða hæilsar þar æinum er fleiri eru, eða fleirum þar er æinn er, ok annat þvílíkt; þvíat hverr sem kallar *hann* þar er *hon* skal vera, þá gjörir hann löst í báðum þessum nöfnum. Slíkt hið sama hverr sem heilsar þar mörgum, er æinn er, gjörir solœcismum á millum *margfalligrar tölu* ok *æinsligrar*. Solœcismus verðr annathvårt í *málspörtum* eðr í *tilfellum* partanna, ok gjöriz þat á fjórar leiðir: *viðrlagning* ok *aftekning*, *skipting* ok *umsnúning*. Svå sem *Metaplasmus* kallaz í skálldskap sá löstr, er barbarismus heitir i alþýðligu máli, ok þikkir hann stundum fegra skálldskap; svå hið sama er Solœcismus í skálldskap settr fyrir skrúðs sakir, ok er hann þá kallaðr Scéma (σχημα). I málspörtum er Solœcismus, þá er annarr partr er settr fyrir öðrum, sem hèr er qveðit.

Hríng-lestir gekk hraustan.
hverjum kunnr at gunni

Hèr er þetta nafn: *hraustan* sett fyrir þessu viðrorði: *hraustliga*. Stundum verðr solœcismus, þá er sami partr er úviðrkæmiliga settr, sem Jarls skálld qvað:

Höfðum vèr [í þer *) Hákon!
(er að hjör–rógi drógum)
(þú raudt Sköglar-skýja-
skóð) forustu góða.

Hèr er *í* fyrirsetníng fyrir *af* sett. Atfelli parta eru 12: *hviligleikr*, *samjafnan*, *kyn*, *tala*, *mynd*, *fall*, *per-*

*) *O. hefir hèr* þá *er*, *enn* þ*ad rètta á ödrum*, *stad seinna*.

*sóna, merking, tíð, samokan, máttr, skipan.* I öllum þessum tilfellum verðr soloecismus, enn þó mân ek fá af þeim rita. Soloecismus verðr í *hviligleik* nafna, sem Snorri qvað:

Byskup hæyr á bæran
bragþátt göfugs máttar.

Her er *samæiginligt* nafn sett fyrir *eiginligu* nafni Guðmundar, I *samjamnan* verðr Soloecismus sem hèr:

Rann hræddari hranna-
hyr-brjótr frá styr ljótum.

Hèr er *samjafnanligt* nafn *hræddari* skipat fyrir *hræddr*, *settlegu* nafni. Um *kynjaskipti* veðr Soloecismus, sem í Hafliða-málum:

Rístu tvífala
farðu í búð hinnig
Þú er málfengi mikit.

Hèr er *hvârginligt* kyn sett fyrir *karlmanligu* kyni. I *talnaskipti* verðr Soloecismus, sem Arnórr qvað:

Yppa ráðumz yðru kappi
Jóta-gramr í kvæði fljótu.

Hèr er *margfallig* tala sett fyrir *æinfalldligri*. I *fallaskipti* verðr Soloecismus sem hèr:

því hefig hæitið mey mætri
mest nema hamlan bresti.

Hèr er *rægiligt* fall sett fyrir *gjæfilegu* falli, ok köllum vèr þenna löst *orðkólf*. I *tíðaskipti* verðr Soloecismus, sem Þjóðólfr qvað:

Leiðar langir [1]) dauða
limar illa mik stillis
bárut menn hinn mæra
Magnús í gröf fúsir.

I *persónaskipti* verðr Soloecismus, sem qvað Halldórr skvalldri:

---

1) *Kannske* leiðir lángar.

Orkit ála serkjar
el festiz þik mest um [1]),
ætt berr grams of grimma
gagnprúðr Sigurðr magni.

Hèr er annar fjórðúngr mælltr til annarrar persónu; ok köllum vèr þat *viðmællt*, enn annar fjórðúngr segir frá hinni þriðju persónu, ok köllum vèr þat *hliðmællt*. Að slíkum hætti verðr Soloecismus í öðrum föllum partanna.

29. Með barbarismó ok soloeeismó eru taldir tíu lestir, þeir er svâ eru kallaðir: *Acirologia*, *Cacenfaton* [2]), *Pleonasmos*, *Perisologia*, *Macrologia Tavtologia*, *Ellipsis* [3]), *Tapinósis*, *Cacosinteton*, *Amphibologia*. *Acirologia* er úæiginlig setníng orðz, sem hèr er qveðit:

Vætti ek harms nema hitta
höfuð gullz náim Fúllu.

Hèr kallar skálldit *vætt* harmsins, þess er hann kvíddi, ok er þetta orð *ek vætti* gagnstaðliga sett, þvíat þat er náttúra mannzins, at *vættu* fagnaðar, enn *kviða* við harmi. Þessi löstr hæyrir barbarismó, þvíat þat verðr í æinni sögn; enn því hæyrir hann soloecismó, at hann verðr í málsgrein milli þessa orða tveggja *væntir* ok *qviðir*. *Cacenphaton* er köllut ófögr framflutníng stafanna eða samstafna í æinu orði eða fleirum, sem áðr er ritað; þá er sú samstafa er fyrst sett í enu síðarra orði, er síðarst var áðr, eða hinn sami raddarstafr, ok svâ þeir er eptir koma í báðum stamstöfum, sem Sighvatr qvað:

Fór or Vík á vâri.

Þat hæyrir mjök þessum lesti, ef sá er niðrlagsstafr

---

1) *Gunnar P. fyrir* elfestis þik mestum. 2) *Min lagf. fyrir* Catenfaton *O. hèr og allstadar seinna.* 3) Eclípsis *O.*

i æinni sögn, er fyrstr er skipaðr í því orði er eptirkemr, sem Snorri qvað: [1])

Skjalldbraks Skylja milldum
skipreiðu mèr heiða.

Þenna löst köllum vèr *þresköllid*. Þat er Cacenphaton, ef maðr eignar úviðrkvæmiliga öðrum lut þat sem annarr á, sem hèr:

Skíð gekk framm at flæði
flóðs í hreggi óðu.

Hèr er kallat at skip gengi, enn þat er æiginligt mönnúm eða kvikendum. Sá löstr hæyrir Cacenphaton, er vèr köllum *nykrat* eða *finngálkat* [2]), ok verðr þat mest í nýgjörfíngum, sem hèr:

Hríng-tælir gaf Hálu
hlýr-sólar mèr dýra,
oss kom hrund til handa
hræ-pollz drifinn golli;
sút þá er Herjans hattar. . : .

Hèr er exin kölluð í öðrum helmíngi *tröllkona Skjalldar* eða *valkyrja*, enn (í) öðrum helmíngi *sút hjalmsins*, ok er svâ skipt líkneskjum á hinum sama lut, sem *Nykr* skiptiz á margar leiðir. *Pleonasmus* er hègómlig viðlagning orðanna, um þat fram, sem fullu máli hæyrir, sem Kolbæinn qvað:

Mundi mèr fyrir stundu
mikit orðalag þikja,
um elldgrenni unnar
æyrum slíkt at hæyra.

Þetta nafn *æyrum* þarf æigi til fullz máls; því ekki vit mannz hæyrir nema æyru. *Perisologia* er hègómlig viðrlagníng orðanna, þeirra er ekki merkíngar afl hafa með því máli sem upp er tekit:

1) *Háttalyk.* 28.  2) *Kannske rèttara* finngálknat.

þat hefi èk sagt er sjálfr vissag;
duldr fer ec hins, er drengr þegir.

Hèr þarf æigi hið síðarra mál, þvíat þat má skilja; ef maðr segir þat sem hann veit, at hann þegir yfir því er hann veit æigi. *Macrología* er köllut lángt sen, þat sem tekr únytsamlegha luti til þess máls, sem skálldit talar, er þessi fígúra víða sett í öndverðum kvæðum, sem Arnórr qvað í Magnúss drápu:

Seinkun 1) verðr þá er hlæbarðz hanka
hnika 2) ár hin ljóta bára.

Hèr segir hann frá hrakförum sínum, enn þat hæyrir ekki konúngslofi. Þessi fígúra verðr ok, ef maðr talar þörfum fleira um hinn sama lut, sem Guðbrandr qvað í Svölum:

Uppsetr mökk hinn mikkla
móðfjallz verölld alla.

*Tavtología* er þat, ef hin sama sögn er optarr tekin enn tilhæyrir, eða merkíng, sem qvað Sneglu-Halli:

Svâ lèt und sig seggja-drottinn
lönd öll lagin liðs-oddviti.

Hèr ero tvennar konúngs-kenníngar til hins sama máls, þat köllum vèr ofkent. *Ellipsis* 3) er þrot nauzunlegrar sagnar, þeirrar er hafa þarf í fullu máli, sem hèr:

Fór hvatráðr hilmi at finna
áðr siklíngr til sættar gekk.

Hèr skortir konúngsnafn eða kenníng til fullz máls. *Tapinósis* er mínkan mikils lutar í máli, þat er sem auðsýnir annat enn af skal ráða, sem Þjóðólfr qvað:

Snart við sæþrað kyrtat
sik lá blær á díki.

Hann setr *sæ* eða *haf* fyrir þau lítil vötn, sem eru

1) *Min lagf. fyrir* Seinkum. 2) Þannig *edr* hinka *O. kanneke rèttara* hvika. 3) Eclifsis *O.*

á landi. *Cacosinteton* er lastafull samansetníng sagnanna, sem qvað Guðlaugr:

Hrökk at Haugabrekku
hótz meirr en til-gátum
fyrir hyrboði hriða
Halldór í bug skjalldi.

Hèr er ófagrliga samanskipað sögnunum í þriðja vísu orði. *Amphibologia* er efanleikr sagnarennar ok verðr þat á margar leiðir: stundum um rægilig föll sem hèr:

Hermenn gátum hinnig
hugstinnan gram vinna.

Hèr er efanligt, hvârt hermenn vinna konúng eða konúngr hermenn, ok skiptir þí samanhlaðníng orðanna. Stundum verðr þessi fígúra um sundrtekníng orðanna sem hèr:

þat er ussörgum æigi
alldr-bót konúngs skálldi.

Hèr skiptir þat málinu, hvârt æigi er skipað til þess máls, er fyrir ferr, eða hæyrir þat þæim orðum, er eptir koma. Stundum verðr sjá fígúra svâ at æitt orð hefir fleiri merkíngar, sem qvað Olafr:

Kænn njóti vel vænnar
vinr minn konu sinnar,
vist er að dapr af drósar
drengr ok æigi lengi.

Hèr er úvíst um þessa sögn *æigi*, hvârt þat er viðrorð úæiginligt eða orð æiginligt. Af slíkum hætti er víða sett í skálldskap þat orð er ýmsar hefer merkíngar ok fólgið svâ málit, sem qvað Hallarsteinn:

Hólmleggjar viðr hilmir
hríng-Sköglar mik þöglan,

Hèr kallar hann dverg *lit*, ok svâ *fegrð* konunnar, *Alleothera* er þat, ef skipt er tölum eða föllum eða

kynjum, sem fyrr er ritað i Solœcismó. Þessar fígúrur flestar fylgja meirr Solœcismó enn Barbarismó; þvíat þær verða meirr í máli enn í æinni sögn.

30. *Metaplasmus* er fráskapari *) nokkurrar rèttrar ræðu í aðra mynd fyrir nauzynja sakir eða fegrðar, hann hefir 14 kynqvísler. *Prothesis* er viðlagníng stafs eða samstöfu í upphafi orðz, sem Eigill qvað:

vröngo varar gúngnis
várar lúngs of stúnginn.

Hèr er viðlagt *v* í þessu nafni vröngu til þess at rètt-ir sè stuðlar í dróttqvæðum hætti. Um viðlagning samstöfu verðr prothesis, sem hèr:

Ut rèð Ingólfr leita
öngreifr með Oleifi.

Hèr er samstafa lögð við þetta nafn *Leifr*, ok lengt nafn-ið fyrir atburðar sakir hræysti hans. *Avferesis* er gagn-staðlig Prothesi, hon tekr af staf eða samstöfu í upp-hafi orðz, sem at *v* sè aftekit í þessu nafni ok mörg-um öðrum, ok þat hyggjum vèr fornt mál vera; en nú er þat kallat *vindandin forna* í skálldskap; því at þat er nú ekki haft í norænu máli. *Sincopa* tekr á braut staf eða samstöfu or miðju orði, sem qvað Bragi gamli:

þars er lofðar lita
lúng vavaðar gúngnis.

Hèr er æin samstafa gjörr af tveim, ok tekinn or e-raddarstafr, ok sett svá *þars* fyrir *þar er*, þetta köll-um vèr *bragar-mál* í skálldskap. *Epentesis* er gagn-staðlig Sincope; þvíat hon leggr við staf eða samstöfu í miðju orði, sem Kórmakr qvað:

þvíat

*) *Kannske* forskapari.

þvíat málvinu minnar
milldr þorketill vildi.

Hèr er *þorketill* *) settr fyrir *þorkell* ok aukit tveim stöfum nafnit, en æinni samstöfu till þess at kveðandi halldiz. *Paragoge* leggr við staf eða samstöfu í enda orðz, sem Arnórr qvað:

Klífa læt ek í kofur drífu.
knarra minn við borðin stinnu.

Hèr er viðlagt æinn stafr eða samstafa í þessu orði *knarra* at kveðandi halld z. *Apocope* er gagnstaðlig þessi fígúru, hon tekr or æinn staf eða samstöfu í enda orðz, sem hèr:

því hefig heitið mæy mætri.

þat köllum vèr *orð-kólf* í skálldskap. *Sistola* gjörir lánga samstöfu skamma, sem fyrr er ritat: *Blóðs vindara róðri*. *Epitasis* er gagnstaðlig Sistole, hon gjörir skamma samstöfu lánga, sem hèr: *öl torráðin hóla*. þessi fígúra hefir margar kynkvisler í versum enn í skálldskap finnz hon sjalldan nema ofljóst sè ort. *Dieresis* [2]) gjörir tvær samstöfur af æinni, sem Björn qvað:

Nú læt ek at þèr þrjóti
þorröðr vinum ora

Hèr eru tvær samstöfur gjörfar af æinni *þórðr* til þess at qveðandi halldiz. *Sineresis* er gagnstaðlig Dieresi [3]), ok gjörir æina samstöfu af tveim, sem Sigvatr qvað:

Vask ek til Róms í háska.

Hèr er *vask* fyrir *var ek*, at hendingar sè jafnháfar *Sinalimphe* [4]) tekr or annan raddarstaf, ef tveir standaz hið næsta í tveim samstöfum, sem hèr:

Hves ef ek hlæyp at krúsi.

30

*) *Min lagf. fyrir* þortekill *á bádum stödum.* 2) *Min lagf. fyrir* Bietesis. 3) *O. hefir hèr* Dietesis. 4) *Kannskè* Sina loiphe.

Hèr er ortekit annat *e* í þessi sögn *hves*, ok gjör æin samstafa af tveim, til þess at skothendíngar sè jamháfar. Sinalimphe (verðr) af tveim pörtum orði ok viðrorði ok er þat solœcismus. *Elisio* [1]) tekr or *m*, ef þat stendr síðarst í orði, svâ at raddarstafr komi eptir, ok (er) sú fígúra mjök í versum, en ekki finnum vèr hana í norrænum skálldskap. *Antithesis* setr annan staf fyrir öðrum, sem Sighvatr qvað:

Danar drottin mínum
dögu of sent at hendi.

Hèr er sett *v* fyrir *r* í þessu nafni *dögu*. *Metathesis* skiptir stöfum, sem fyrr er ritat í þeim orðum:

Bort sá er hug nè skorti.

31. *Scéma lexeós* hæyrir svâ til solœcismum sem Metaplasmus barbarismum í þí öllu er til lasta veit, en þó er Scéma micklu meirr í læyfi sett [2]); þvíat hon þikkir fegra skálldskap. *Scéma* heitir á girzku en *Skrúð* á Norrænu, *lèxéos* ær *ræða*, ok er *Scéma lexeós* nefnd svâ sem *skrúð máls* eða *ræðu*. Scéma hefr 18 kynkvíslir: *Prolemsis* er uppnumníng margfalldlegra luta, þeirra er síðarr eru æinfalldlega greindir, sem hèr:

Flugu hrafnar tveir
af Hnikars öxlum:
Huginn til hánga,
enn á hræ Muninn.

Hèr er þetta orð *flugū* margfalliga sett í hinum fyrrum vísuorðum, en þat [3]) ríkir tvav æinslig nöfn í hinum síðarrum vísuorðum, ok skal svâ upptaka málit. *Tveir hrafnar flugu af öxlum Hnikar: Huginn flaug til hánga, enn Muninn til hræs. Zeuma* er þat, er æitt orð styrir mörgum nöfnum, sem hèr:

Krossfestum sè Kristi
kunnr vegr ok lof unnið

1) Eclipsis *O.* 2) settr *O.* 3) þar *O.*

megn ok máttr sem tignir
mest valld þat er fremzt alldri.

*Silemsis* bindr újafnar klausur saman með einu orði, sem hèr:

Jarls hefir hann ágjæti konúngs kappgirni
enn öðlíngs kosti kynni landreka.

Þat er ok hin sama fígúra, ef margfalligt orð stýrir æinsligu nafni, þat er *samansafnanligt* er kallat, sem hèr:

Herr búaz hvárir til snerru,

Herr eru margir menn, þeir er til orrosto búaz. Þessi fígúra finnz sjalldan í norrænum kveðskap. Þat er ok Silemsis, ef æinn lutr hins sama kyns setz fyrir mörgum lutum, sem qvað Glúmr:

Brandr fær logs og landa
landz Eiríki banda.

Hèr er *brandr* settr fyrir mörgum sverðum, þeim er konúngi fengu ríki ok fè. *Ypozevsis* gefr mörg orð æinni persónu, sem hèr:

Halldi hríngtöpuðr styrk ok staðfesti
hæfi ok varðveiti stýrir himinríkis.

*Anadiplósis* er tvífalldan eins orðz, sem þá er vers eða vísa hefz með þeirri sögn, sem fyrirfaranda vers eða vísa legz, sem Snorri qvað: [1])

Stórt ræðr hann en hjarta
hvetr buðlúnga setri.
Setr of vísa vitran,

Þetta köllum vèr *drögur*. *Anafora* gefr hið sama nafn ok upphaf mörgum klausum ok málsgreinum, sem hèr: [2])

Hverr fremr hilldi barra,
hverr er mælíngum færri,
hverr á höpp að stærri,
hverr kann auð at þverra?

---

1) *Háttal.* 15. 2) *Háttal.* 40.

*Epanalénsis* gjörir allt æitt upphaf ok niðrlag vers ok vísu sem hèr:

Konúngr kappgjarn
kostum betri
allri þjóð alframr . . . [1])

*Epizevsis* er tvífalldan æins orðz samansett sem hèr:

Helldr vill hilmir
herja enn erja.

Þetta köllum vèr aðalhendíngar í skálldskap, ok tóku af þessi fígúru upphaf þeir hættir, er með hendíngum eru samansettir, ok bræytiz þat á marga vega, sem finnaz má í þí háttatali er Snorri hefir ort. *Paromeion* [2]) er þat er mörg orð hafa æinn upphafs-staf, sem hèr:

Sterkum stilli
styrjar væni.

Þessi fígúra er mjök höfð í málsnilldarlist, er *Rhetorika* heitir, ok er hon upphaf til þeirrar kveðendi, er samanhelldr norrænum kveðskap, sem naglar skipi, er smiðr gjörir, ok ferr sundrlaust ella borð frá borði svâ helldr ok þessi fígúra saman kveðandi í skálldskap med stöfum þeim er stuðlar heita ok höfuðstafir. Hin fyrri fígúra gjörir fegrð með hljóðsgreinum í skálldskap, svâ sem fellíng skipsborða, en þó eru fastir viðir samanngeldir at æigi sè felldir, sem qveðendi helldz í hendíngarlausum háttum. *Seesisonomaton* gjörir margar clausur með újöfnum föllum samanhlaðnar, sem hèr:

Hlíf gnast við hlíf,
hjör við mæki,
egg lèk við egg,
þar er jöfurr barðiz.

---

1) *Kannske*: allri þjód alframr konúngr. 2) *Min lagf. fyrir* Paranomeon.

*Omocopton* helldr saman alla clausu með hinu sama falli, sem hèr:

Harða hvatfæra,
hrausta, vígtama,
snarpa, snarráða,
sá gat frið ræsir

*Omolemiton* helldr saman margar raddir undir enu sama sem hèr:

Band gaf oss með endum
ilmr lýskála bála.

Þat köllum vèr *riðhendan hátt.* Hin sama figúra er í þessum hætti, sem Snorri qvað: [1])

Ræsir glæsir
rökkva dökkva.

*Sintiton* [2]) er sundrdregin clausa um ýmislig föll hins sama nafns, sem Hallfröðr qvað:

Eitt er sverð þat er sverða
sverðauðgan mik gjörði.

*Irismos* [3]) gjörir lánga samanblandníng orðanna í æinni málsgrein, sem Egill qvað: [4])

Þat er órètt,
er orpit hefr
á má-skeið
mörgu gagni
rá ok riðin
Rökkva-stóði
vell-vönuðr,
því er veitti mèr.

Hèr er gengr æitt mál um alla vísuna. *Polisindeton* [5]) helldr mörgum orðum saman með hinni sömu samtengíng, sem qveðit er í Grímnismálum.

Saðr ok Svipall
ok Sann-getall.

*Dialiton* samlagar mörg nöfn utan samtengíng [6])

Ekkill, Eitill, Skekkill,
Emmir, Gestill, Remmir,

---

1) *Háttal.* 73. 2) *Kannske* Poliptoton. 3) *Kannske* irmos o: εἱρμος. 4) *Sjá Arinbjarnardr.* 13 *erindi í Eiglu.* 4) *Min lagf. fyrir* Polinsiteton. 6) *Sjá Skáldu* 75.

Heiti, Hækíngr, Meiti,
Heimi, Mýsíngr, Reimi,
Randórr, Róði, Mundill,
Rökkvi, Sölse, Nökkvi,
Hemíngr, Hagbarðr Glummi,
Haki, Beimuni, Rakni.

Hèr eru mörg nöfn, enn ekki *ok* í milli. Hin sama fígúra er þat er *klauf* er kallat, ef tvær samkenníngar [1]) hæfa æinum lut, svâ at æigi sè *ok* í millum sett, sem Máni qvað:

Hvat muntu hafs á otri
heringiligr með drengjum
karl, þvíat kraptr þinn förlaz,
kinngrár mega vinna.

Þat köllum vèr *sviðu* [2]), ef fleiri samkenníngar hæfa æinum lut, sem hèr:

Aðr djúp-hugaðr dræpi
dólga rammr með hamri,
gegn á græðis vagna
gagnsæll faðir Magna.

32. *Tropus* er framfæríng sagnar af æiginligri merkíng til óeiginligrar merkingar, með nokkurri líkíng fyrir fegrðar sakir eða nauzynja. Um þessa tropa greindu spekíngar sinar ræður fyrir alþýðu orðtaki. Tropus er skiptr í 8 kynqvísler, þær er svâ heira. *Metaphora, catachrésis, Metonimia, Antonomia* [3]), *Epitrepon, Sinecdocé, Onomatopeion, Periprasis, Yperbaton, Yperbola, Allégoria, Omozevssis.* Sú er grein með þeim fígúrum er Donatus hefir sett: Barbarismus ok Metaplasmus verðr í æinni sögn um stafaskipti eðr samstafna, ok þeirra tilfelli. Scéma hefir ýmsar myndir

1) *Kannske rèttara* sannkenníngar, þ. e. *epitheta.* 2) *edr* sin dr. snidu. 3) *Kannske* Antonomasia.

orða ok skilnínga, þat er leiðendi tók í brott, ok skyrra [1]) málit. En trópar þesser eru frammfæríng, náttúruligra sagna ok sena, er varðveita ýmisligt yfirbragð pentaðra málsgreina. I trópum skal þrjá luti hugsa ok varðveita: fyrst frammfæríng sagnarennar til annarligrar merkíngar, þar næst úæiginlig samjafnan tveggja luta, enn í þriðja stað skal hugsa nauzun eða fegrð er trópinn gjörer.

*Metaphora* er frammfæríng orða eða luta í aðra merkíng, hon verðr á 4 leiðer. Af andligum lut til andligs lutar, sem hèr:

Enn skinnbjarta skortir
skapið kannaz mèr svanna
dýr er hon hætt at hváru
halm æin njórun steina.

Hèr er *dýr* köllut konan, er þat framfæríng úeiginligs lutar, konunnar, í annarliga merkíng, sem dýrið er Uæiginlig líkíng er þat míllum dýrs ok konu; þvíat dýrit er skynlaust kvikendi, enn maðrinn skýnsamligt: fyrir fegrðar sakir þótti skálldinu betr fara málið, ok úberari verða löstrinn, at kalla margláta konu helldr dýr enn greina sèrhvern lut, þann er hon gjörði úmannlegha. Með þeim hætti eru þær kenníngar, er vèr köllum sannkenníngar í skálldskap at kalla manninn ása heitum, ok kenna svâ til vâpna eða skipa, eðr nokkurn ása annars nafni, ok kenna þá við æign sína nokkura, sem Æyvindr qvað: [2])

Farma-týs
fjörvi næmdu
jarðráðendr
á Oglóe,

---

1) *Hèr þykir vanta* kunni *e. þv.* 2) *Snorra Har. gráf. 6. Kap.*

Hèr er *farmatýr* Oðinn kallaðr. Svâ eru ok jötnar ok dvergar kallaðir menn eðr konúngar bjarga eðr steina, sem Skrautoddr qvað:

Böls mun-at bör at dylja
berg þórs nösum orum.

Þessi er optaz svâ sett í norrænum skálldskap, at þeir lutir er frammfæraz eru kendir við nokkur tilfelli sín. Enn þá finnz hvârtveggja, sem þar er hverr konúngr er kallaðr *Yngvi* eðr *Þengill* ok annat þvílíkt fyrir tignar sakir fornkonúnga, enn í látínu er metaphora svâ optaz sett at framfærðir lutir eru úkendir, enn þó finnz hvârtveggja, sem Ovídius segir:

*Tiphis et Avtomedón diçar amoris ego.*

Hann kallar *kerrugjæti* eðr stýrimann ástar. Af andligum lut til úandligs verðr Metaphora, sem at kalla hest eða dýr sævar eðr skipareiða, ok annat þvílíkt sem Markús qvað:

Björn óð fram á fornar
flóðs hafskipa glóþir [1])

Hér er *sævar-björn* skipit kallat. Af úandlegum lutum til andligs verðr Metaphora, sem þá er skip er kallat skíð sævar eða vatna, enn sverð beðja eða gata heinar:

Einstígi mèr heinar.

Af úandligum lut til andligs verðr Mataphnra, sem at kalla konu skorðu eða þóptu gullz eða gjörsima, ok annat þvílíkt, sem Ormr Steinþórsson qvað:

Skorða var í föt færð
fjarð-beins anar teins. 3)

Með þessum fígúrum eru samansettar allar kenníngar í norrænum skálldskap, ok hon er mjög svâ upphaf

1) *Kannske* slóðir  2) afar hrein *Gunn. P.*

haf til skálldskaparmáls. Metaphora er stundum aptrbeiðilig en stundum æigi: þá er metaphora aptrbeiðilig ef hvern lut má færa til annars, þat er líking er ámilli, sem at kalla sjóenn jörð skipa eða fiska eða sækonúnga, sem Þjóðólfr qvað:

Höfuðbaðm
þar er heiðsæi
[á fjörnis
fjöllum drýgði 1).

En kalla jörð *sæ dýra*, sem Markús qvað:

Hjartfærra væit 2) harri
hrein-vazta sik baztan.

Hèr er jörð köllut *vaztir*, enn í fyrri vísu var hafit kallat fjöll sækonúngs. *Catachresis* er köllut umdráttr annarligs nafns sem hèr:

Sótti reiðr at ráðum
rann æingi því manna
þrályndi fèkz þrændum
þrænskr jarl konúng sænkan.

Af atburð verðr *epit(heton)* sem hèr 3):

í herská
hilmis ríki.

I öllum þessum háttum er eiginlig líking millum viðleggjanligs nafns ok undirstöðuligs ok þikkir sú fígúra mest prýða skáldskap, þat köllum vèr sannkening. *Sinecdoché* er sú merking eða tropus, er má fylla skilníng, þótt hon merki minnr eða meirr. Stundum setr hon allt þar sem hlut skal merkja af þi öllu, sem Leiðólfr qvað:

Mörðr bar gull or garði
grams þess, er verðúng framdi.

30

1) oc med fjörnis fálu fór Þorketill leira *Bartholin ur Jomsvíkinga-drápu.* 2) *Edr* vætt.. 3) *Arinbjarnardr.* 11 *er.* í *Eiglu.*

Hèr er *gull* sett fyrir hríngi, þeim er konúngr gaf honum. Stundum setr Sinecdoche lut fyrir öllu, því er hon vill merkja, sem hèr:

Kjölr brunn klöckr á fölvar
krapt hár meginbárur.

Hèr er *kjölr* settr fyrir öllu skipi. I hvârumtveggja hætti þessum er úeiginlig líking; þvíat allt er jafnan sett saman af sínum lut, þat er skipta má. *Onomatopejon* [1]) er nafn sem gjört (er) af hljóði, sem hèr:

Fram þraukuðu fákar
fjórir senn undir henni
þó gat þeim hin þúnga
þrumgavll hlaðit öllum.

Hèr er framfæring af hljóði til málsins, ok úæiginlig líking milli klukku ok hljóðs. *Periprasis* er umkríngíngarmál, þat er verðr fyrir skrautz sakir í loflígri ræðu, en lastmæli til þess at orðtak sè makligra, sem Egill qvað:

| | |
|---|---|
| Vark árvakr, | hljóð ek lofköst |
| bark orð saman | þann er lengi stendr |
| með málþjóns | óblotgjarn [2]) |
| meginverkum. | í bragar túni. |

Hann kallar *málþjón* túnguna. Hèr er úeiginlig líking millum þjóns ok túngu; þvíat hon er lutr mannzins. *Yperbola* er yfir gánga sannleiks um þat framm, sem truanligt er, sem hèr: [3])

Hrauð í himin upp glóðum
hafs gekk sær af afli
borð hygg ek at ský skerði
skaut Rínar vegr [4]) Mána.

Hèr er úeiginlig líking milli möru elldz ok nátúrligs loga.

---

1) *Mín logf. fyrir* Omotopeion. *O.* 2) óbrotgjarn *Eígla í Arinbjarnarár.* 3) *Sjá Skáldu* 61. *bls*, 185.
4) vefr *vildi Gunnar P. sem útleggr*; involvit Ran sínu lunam.

*Yperbaton* er nokkur yfirstigníng orðanna, sú er hætti bregðr, hon hefir 5 kynqvíslir: *Isterologia*, *Anastrophi*, *Parenthesis*, *Tmesis* [1], *Sineresis*. *Isterologia* er skipt í skiling orðanna ok svá skilníng þeirra, sem hèr:

Bríann fèll ok hèllt velli

Hèr er skipt málsgreinum, ok sett sá fyrri er síðarr skal vera, ok verðr frammfæríng í milli þeirra ok újöfn líking milli parta ok málsgreina. *Sintesis* er alla leið samansteypð, sem hèr:

Fremì oss hinn er himna
heimstýrir skóp dýra.

Hèr er þat mál fyrr er síðarr skal vera; þvíat sá heimstýrir, er himna skapaði, fremr oss nú hversdaglegha. *Tmésis* slítr í sundr æitt orð, ok setr annan part, sem hèr:

Ekl vara ógn á Stiklar
óblíð stöðum síðan.

*Anatropa* er umsnúin orða skipan, sem Sighvatr qvað:

Hèt þat er aller ætla
áðr skal við því ráða,
harir mèr en ek hæyri
hót skjölldúngi móti.

Hann setr þessa fyrirsetníng *móti* eptir þat fall er hon skal fyrir standa. *Parentesis* er meðalsett málsgrein at skiptu seni, sem Æinar qvað [2]:

Eins má orð ok bænir
allz kjósanda hins ljósa
mjök er fróðr sá er getr góða
guðs þrenníng mèr kenna.

Hèr er annat mál milli sett, ok til leiðar fyrr, en síðan lyktað hinu fyrra máli. Þessi fígúra er jafnan sett í þeim hætti, er vèr köllum stællt eða álagshátt. *All-*

---

1) Themesis *O. x.* 2) *Geisli 1 erindi.*

*egoria* er trópr sá er annat merkir en mællt er, sem Sveinn qvað:

Þar kemr lángs að löngum
lind vandi mik strindar
leika læyni síka
lævi á til sævar.

Þat skal svâ skilja, at hann lyktar svâ þí efni, er hann villdi í kvæðinu hafa, sem áin kemr til sævar. Þat er úeigin(lig) líkíng milli árinnar ok kvæðissins. *Allègoria* hefir 7 kynqvísler: *Iróniam*, *Antifrasim*, *Karientismos*, *Enigmam*, *Parnomiam*, *Sacrasmos*; *Antismos*. *Ironia* gjörir gagnstaðligt mál þat er hon vill merkja, sem í Kúgadrápu:

Megin reddirro menn við Kuga
meirri ertu hverjum þeirra.

Hèr er úæiginlig framfæríng ok líkíng; þvíat lof er með háði sett. Þessi fígura er opt sett í skálldskap. *Antifrasis* er svâ sem Irónia í einu orði; þvíat hon dregr nafn af gagnstaðligum lut, sem Sveinn qvað:

Hlês dættr á við blèsu.

Hèr er sjór kallaðr Hlèr því at hann hlýr allra minnz [1]). *Enigma* er myrkt sen um læynda líkíng lutanna, sem hèr er qveðit:

Fara ek sá
folldar molldbúa [2])
oc sat naðr á ná [3]).

Þesskonar fígúru köllum vèr *gátu*, ok er hon jafnan sett í skálldskap. *Karientismos* er þat ef úfögr nöfn talaz granlega, sem Egill qvað:

Vals hefi èk vafur helsis
valfallz enn ek kalla

1) minniz *O.* 2) *Ur Getspeki Heidreks* 21. *adrir* ek sák *og í næstu l.* moldauka. 3) nár á nái *Hervars.*

blautr em ek bergis fótar
berr enn hlust er þórrin.

*Paranomia er orzqviðr*, sá er vel þikkir sama hlutum ok tíma, sem hèr: "Er-a hlums [1]) vant, sögðu refar, drógu hörpu á ísi." Þat er mællt til þeirra manna er láta stórliga, enn megu lítið; þar er framfæríng ok úæiginlig líkíng milli mannz ok hörpu. *Sarcasmos* er hatrs-full ok úvinulig spottan, sem hèr:

Að kom gángandi,
þar er jöfrar börðuz
hèllt hann upp höfði
hèr er þèr skattr sulltan.

Sarcasmos gjörir annat yfirbragð máls enn í merkíng. *Atismos* má allt mál heita, þat er þermlaz alþýðu orðtaki ok er okrýtt hirðligri málsnilld, sem Egill qvað:

þat er úrètt
er orpit hefir
á má-skeið
mörgu gagni.

Hann kallar þvílikt sem á sæ sè kastat fènu, er hann launar æi með góðvilja sínum. Þat er frammfæríng ok óeiginlig líkíng milli mannz ok sjófar. *Omazevsis* er auðsýníng æins lutar ok um líkíng annars lutar þess er meirr er kunnigr, hon hefir 3 kynqvísler: *Icon*, *Parabola, Paradigma*. *Icon* er samjafnan tveggja persóna eða þeirra tilfella, sem Snorri qvað:

Herfánga bauð hríngi
hjalldr em sköpuðr galldra
Gautr hvatti þó þrautar
þann ok Hilldi tannar:
oflengi velldr Yngva
úsætt, enn' vel mætti

---

1) *Annars* hlunns.

her-stefnandi hafna
hans dómr völundr rómu.

Hèr er úeiginlig líkíng milli Oðins ok nokkurs illgjarns manz. *Parabola* er samjafnan tveggja luta í újöfnu kyni, sem qvað Nikoláss ábóti:

Tveirr hygg ek at ber bæri
beit nárúngar heitin
stund er-a lífs á landi
löng medal sín á stöngu;
Þat kníðu ber báðir
bergr oss trúa á krossi
svâ hefir alldin guð golldit
gyðíngr ok heiðíngi.

Hèr er vârum herra Ihesú kristó jafnat til vínbers þess, er sendimenn gyðínga af [1]), Jórsalandi fundu, þá er þeir voru á Eyðimörk, enn krossinum til stángar þeirrar, er þeir báru á berit. Hèr er framfæríng ok úeiginligh líkíng millum tveggja luta með misjöfnu efni guðs sonar ok vínbers: enn svâ sem vinberit gefr hinn hæsta drykk til viðrlífis mönnum, svâ gefr guðs son andaligt líf öllum þeim er rètttrúaðir eru, í úthellíng síns blóðs, þess er snýz or vatni ok víni at hverri rèttsúnginni messo. Tveir menn, þeir er berit bâru, merkja tvennar þjóðir er at-voru píníngu guðs sonar gyðíngar ok heiðnir menn, ok er þar ok kona millum jafnra kynja. *Paradigma* samjafnar fyrst nokkura luti, ok síðan greinir hon þá líkíng, sem hèr:

Vöndr er María myndut
meins sem eplit hreina
endr at Jessi kindar
allz græðari kallaz.

Hèr er greind sú samjafnan, sem áðr er upptekin

1) *Kannske* að *eðr* á.

milli þess vandar, er Aaron bar, ok laufgaðiz með ávexti, ok Máriu drotníngar, er fæddi guðs son umfram mannligt eðli. Hnotin merkir guðs son, ok gjörir þar fagrar greinir. Þessi fígúra er mjök í skálldskap ok spakmæli, þau er vitrir menn hafva forðum samansett. *Protheséos Paralogé* verðr þá er önnur *prepositio* stendr þar er önnur ætti viðrkjæmiliga at vera, sem Þorleifr qvað:

Höfðu vèr í þèr, Hákon!
er at hjörþ'ngi gengum,
(þú raudt Sköglar skýja
skóð) forostu góða.

Hèr er *í* sett (ú)viðkæmliga, svâ sem hefði *í* Hákoni forostu góða, þá sem þeir höfðu *af* honum, verðr ok þessi fígúra hvervitna þar, sem um fyrirsetníng er skipt. *Liptola* [1]) verðr á 3 leiðir stundum merkir hon framarr en skilníng orðanna stendr til, sem Eiríkr við sjá qvað:

Styrr lèt snart ok Snorri
sverþíng háið verða,
þar er geirviðir gjörðu
Gislúngum lut þúngan:
enn var æigi minna
ættskarð, þat er hjó Barði.

Ok skal svâ skilja, at þat ættskarð, er Barði gjörði, var meira enn hitt, er áðr er greint. Stundum er Liptola útþanníng orðanna sú er allt merkir, þar er sumt er talit, sem hèr:

Sprúngu æigi öngar
út or bæum sútir
þv'at hvrr á hauvi
heitr gekk fíra sveiti.

---

1) *Kannske* Li to tes.

Hèr er sagt, at *æigi öngir* menn rynni af bæum þar sem *allir* runnu. Sumstaðar merkir *æigi eingi* nokkura eða mikinn, sem hèr:

Fingr vann æigi engan
æins með vatni hreinu
guðz á virðum víða
vinníng at því sinni.

Hèr er *æigi æingi* settr fyrri nokkurum eða micklum vinníngi. Stundum standa tvær neitíngar fyrir einni játan, sem hèr:

Ek veit at ní neitar
nytju lögs, því er flytja,
meiðar geirþíngs (glaðir)
gunnr fjarðloga runni.

Hèr segir skáldit at konan sú er manni játaðiz fyrir flutníng förunauta sinna neitaði ní.

33. *Topographia* er þat, ef skálldit segir frá stað þeim er tíðindin gjörðuz, þau er hann vill frá segja, sem hèr:

Fríð stóð í bygð bréðri
borg patera sorgum
mest áðr lýðr frá losta
lutgættr í bý fættiz.

Hennar fóstsystir er *Bethgraphia*, er frá húsi er sagt:

Leygs svelgr, enn etr æigi
jugtanni lið manna,
gánga menn or munni
margreptum fletvargi.

Hèr talar skálldit af smíð hússins. *Cosmographia* er þat er skálldit segir frá heimsins skipan, skapan, stöðu eða hætti eða setníngu, sem hèr:

Allr lýtr heimr undr hylli
heilags friðar deilis.

*Cronographia* er þat ef sagt er á hverjum tíma tíðindin gjörðuz, þau er hann vill frásegja sem:

Sjálfráði dó síðar sá er hèkk, en dagh dökti
sólar-fróns at nóni döglingr á járn-nöglum.

Svá er ok hin sama figúra, þó at skálldit segi hvat samtíða er eða hverèr höfðingjar löndum stýra, sem hèr:

Hákon rèð fyrir hauðri laust með elldíng æstri
handsterkr, þar er guð merkti allvirkr höfut kirkju
refsti þátt hinn rjetta himnagarðz ok hjörðum
rángri þjóð af ángri: hirðir glæpsku firðum

34. *Ypallage* verðr þat, er sá er kallaðr *þolandi*, sem at rèttu er *gjörandi*, eða sá gjörandi, sem at rèttu er þolandi, sem hèr [1]):

Framan unnu gram gunnar lofag sjalldan hof halldit
grafins seiðs framir meiðar hataz dygð hratas lygðir
biðu Jótar lið ljótan tregs hallda vegs valldar
laga gángs daga strángra: veginn arf megin djarfir.

Hèr er arfrenn veginn kallaðr, sá er maðrinn var frá-veginu, sá er med rèttu hèllt, er þeir tóku er hann drápu, ok í öðrum stader sama fígúra:

Mari sendu vers vinda
veitendr góins-leita.

Hèr er sagt att vindarnir væri sendir skipinu þar sem at rèttu var skipit sent vindunum, þat er at skilja útsætt i þeirra valld eða stjórn, ok í öðrum stað segiz svâ:

Blès um hvâpta hása
höfut skrípa mannz pípa.

Hèr er pípan köllut blása, sú sem í var blásit, ok þikkir hon jafnan ljót fígúra, þó at hon finniz í skálldskap sett fyrir sakir skrúðz eða nauzynja.

1) *Sjá Olafss.* bls. 61.

35. *Prosopopeia* er í setníng nýrar persónu, ok verðr á 3 leiðir. Sú er hin fyrsta, ef skálldit . . . at lífligr lutr tali til lífláuss lutar, sem hèr:

Grund taktu bölvi blandin
bót fyrir glæpsku ljóta,
þèr innum óhlyðni æren,
Island! búa p'slir;
þú mátt úfrið óttaz
óþýðr nema vel hlýðit
folld þeim er sverðum sjalldan
síðir breytiz her neyta.

Hèr talar skálldit nefndri figúrú, eggjandi undirmenn at hlýða vel forstjórum sínum, ok nefnir landit í stað þeirra er þat byggja. Frá líflausum til lífligs lutar, sem hèr:

Vatn kalla mik,
vil ek efla þik
hodd veitir frams
hauðr fjörnis grams:
ek hreinsi allt
ek vermi kallt
ek birti sjón
ek bæti tjón.

Hèr er sagt at ólmusugjöfinn kalli sik vatn kristz, ok telr upp dygðir sínar, eggjandi manninn til mílldinnar; því at svâ sem vatnit slökvir likamlegan elld, slíkt hið sama slökkvir ölmosan synda bruna ok þvær á þá leið sál sem vatnit búkinn. Fra líflausum lut verðr prosópopeia till líflauss lutar, sem segir í Barúk at sjór ok skógr bjugguzt í grend ok villdi hvâr annan upptaka, af þí ljóp sandr í sjóinn, ok eyddi svâ hans yfirgáng, enn logi trendi upp allan skógum, hèr er svâ umqveðit:

Grænn kvað viðr á víði
varð skrjúpr í því djúpan
út mân ok ryma reyti
ríkis míns af þínu:
betr samir bolr með skrauti
blóms, enn unnir tímar
skóg mân ek upp yfir ægi
águrlestan rót festa.

Vâtr qvað marr á móti
mân ek valld yfir þèr hallda
skal hrís um lög ljóran
lamit rot er þá fljóta:
sandr luktaði sundum
sjór fèkk af stað ekki
enn sterk um böl bjarkar
bani hvers víðar gandi.

Skógr merkir *Júða*, en sjór *Calldeos*, þjóðir þær sem eyddu ríki Chaldeorum merkja saud, en guðzpjallið elldinn, sú er í stað kom lögmáls Júða.

36. *Apostropha* er sú fígúra ef maðr talar til frá veranda mannz svo sem hjáveranda mann ok setr sitt nafn í fyrstu skilníngu atrèttu, en þess í annarri, er hann talar til: en þo finnz ödrum víss gort sem Snorri qvad:

Eyjólfi ber þó elfar
úlf seðjandi qveðju
heim þá er honom sómi
heyra bezt með eyrum:
því at skilmilldra skálda
skörung-mann lofag örfan
hann lifi sælstr und sólu
sannanðigra manna.

Þessi Eyólfr var Brunason, skálld einkargott, ok búþègn góðr, enn æigi fèríkr. Sama fígúra er ok ef maðr talar til heilagra manna, sem Olafr qvað:

þèr fremiz þí með tíri
þú ert næst guði hæstum

Ok í öðrum stað:

Teitr gefr Thómas ytum
trúarbót fyrir sið ljótan.

Er þessi fígúra jafnan sett í brèfum er menn sendust í millum eða þeim prologis boka, er einhverjum eru ætlaðar til rèttíngar eða frambúrðar.

37: *Endiadys* er sú fígúra, er 2 sundrlausis lutir eru merktir fyrir einn úskiptiligan lut, eðr einn úskiptiligr lutr er settr fyrir 2 skiptiligum lutinn, ok er hon undir dregin samfestíng lausa lúta ok leysíng fastra luta, sem hèr:

Skálm vann ef hjellt hilmi
hodd beiðundum reiðan.

Hèr er úskiptiligr lutr *sverðit* merkt fyrir skálm ok hjallt sundrlausa luti, ok enn segir svâ:

þýddiz karlinn klædda
kona mín ok þörf sína
ek sú karl ok klæði
koma inn í því siuni.

Hèr er klæddr maðr settr fyrir sjálfum sèr ok þeim klæðum er hann gaf konunni, at fá sín vilja, ok í annat sinn er sagt at sier hvârt kom inn karl ok klæði, þar sem klæddr maðr kom inn, ok heitir sú *Endiadis sundrlaus*, er fastir lutir eru settir í stað laussa luta; en sú *Endiadis* heitir *samföst*, er lausir lutir eru settir í stað fastra luta, svâ sem hèr má skilja á þessum dæmum, èr hèr standa áðr ritin.

38. *Ebasis* *) er afgánga efnisins, þá er skâlldit reikar afvegis, sem Bragi skálld gjörði, þá er hann setti í þá drápu er hann orti um fall Sörla ok Handis sona Jónakrs konúngs ok Guðrunar Gjúkadóttur, er þeir fèllu fyrir mönnum Erminreks konúngs, ok er sjá visa ein af þeim [2]):

Knatt örr við íllan
Erminrekr at vakna
með dreyrfár dróttir
draum í sverða flaumi
rósta varð í ranni
Randves höfutniðja
þá er hrafnblám hefndu
harma Erps ok harma.

Stundum verðr Ebasis, þá er skálldit tekr stef af öðru efni enn kvæðit er, sem Nikolássdrápu, er stefit er af guðligri þrenníngu, sem hèr:

Avll þíng bóða engla
einíng í þrenníngu
órofnuðu jafnan
allz grams lofi framda.

Stundum verðr Ebasis af þi at skálldit tekr dæm þeim lutum, sem hann vill frægja eða úfrægju af öðrum frá sögnum. Svâ er ok í sama kvæði Nicholaó dæmi tekin af hinum sæla Jóhanne Baptista að auka hans virðíng, sem í þessi visu:

Jón laut í höll hreinum
hjarta sals hins bjarta
meyjar mannviz frægrar
milldíngi bragninga.

Ok leiðir skálldit þar lof Jóhannis svâ til enda at

*) ɔ: Ecbasis.   2) *Sjá Skáldu* 48 *bls.* 145.

þaðan af aukiz lof heilags Nicholai. Slíkt hit sama má ok þessi fígúra vera í lastmælum at illr maðr er kallaðr annarr Júðas, eða dæmi tekin till nokkurs ills mannz at auka hans nið. Eru þesser luter eða hættir. Ebasis sá er Bragi lofaði frændr Aslaugar í Ragnarsdrápu, at hans virðing sýndiz meiri enn áðr var hon, ok hin at setja stef i jarteina kvæði heilagra manna af sjálfum guði til þess at sýna vinnara allra tákna ok samvinnara sinna vina, svâ ok at birta annan helgan mann með annars dæmum eða lasta annan illan mann með annars illri endrminning fyrir nauzun eða skynsemi skrauz eða lastmælis vel leyfiligra, en ónýtar efnis afgöngur eru með öllu flýjandi.

39. *Emphasis* setr undirstaðligan lut fyrir hræriligum lut, sem þá er vèr merkjum nokkut tilfelli mannzens fyrir sjálfum honum, sem at nefna glæpinn fyrir glæpamanninum, eða vizkuna fyrir vitringinum, ok gengr þessi fígúra um alla þessa vísu:

Píndr er stuldr þar er standa
stafn-reidar hímleiða
víða vínga meiðar
viðir hjá torgi miðju:
morð eru hjólum hörðum
hegnd þau er illa gegndu
þar er rèttvísar ræsir
róm sæl skipuu dóma.

Hèr er stuldrinn kallaðr píndr, ok morðin hegnd, þar sem morðinginn er hegndr ok þjófrinn Sumr menn kalla Emphasem þat, er vâpn er kallat með því verki, sem af þí gjöriz, sem Þorleifr qvað [1]:

Hefvir í hendi
til höfuðs gjörva
beinbrot Búa
ból Sigvallda
vâ víkinga
vörn Hákonar;
sjá skal verða,
ef vèr lifum,
eiki kylfan
oþörf Dönum.

---

1) *Jómsvíkingas. Einnig Olafs Tryggvass. Skálh.* 1689. *Kap.* 152.

Hér er kylfan kend yðr merkt með þeim tilfellum sem af henni máttu gjöraz, ok hefir ýmfar líkíngar einni vísu, ok kallar Oláfr þat *finngálpnat* [1]) er líkun [2]) er skipt á einum lut í einni sömu visu, ok berr bezt at hinn sami háttr sè halldinn um alla vísu, allra helldz einstaka vísum enn æigi hæfir sá háttr í stórkvæðum. *Exflexigesis* [3]) er skýríng eða glöggvari greiníng fyrirfarandi luta, sem Eylifr qvað:

Báru mæt ámóti
málmþíngs viðir pálma
sveit hrauð seggja bæti
sorg er hann kom til borgar:
svâ laðar siklíngr skýja
síns hjarta til bjartir
þeir er fyrða gram færa
fögr verk með trú sterki.

En þessi fígúra köllut af alþýðu *glósa*, ok er sú grein þar í millum, at þessi fígúra Exflexigesis glósar eða skýrir sanna frásögn, svâ sem hinn ágæti Salomon merkir vârn herra, en musterið heilaga kristni. Enn Icoria setr framm tvâ luti af líku efni. Enn Parabola setr framm úlika luti, svâ sem þat at kalla þenna heim *akr*, *þyrn* auðæfin, *fugluna* djöfla með líking enn ei með sannleik Paradígma dregr saman lík dæmi ok skýrir hon sjálf þat er hon talar áðr með fígúru ok eiginligri undirstöðu. Exflexegesis hefir fleiri kynqvislir í látínu; þviat hon skýrir æigi at æins umliðna luti, helldr ok eptirkomandi luti, sem í bók *Bóetii*, enn eigi finn ek þat í Norrænu skálldskap.

40. *Evphónia* er gagnstaðlig Cacenphaton, ok verðr hon á margar leiðir; þvíat hvervitna þar sem Cacenphaton er flýtt fyrir skynsemi at forðaz ljótt atkvæði, þá gengr þar inn Evphónia, ok standa þær

1) *Kannske rèttara* fingálknat.
2) *Mín lagf. fyrir* líkum.
3) *Kannske* epexégesis.

greinir full . . . rammi, þar sem fyrr nefnd figúra er frammsett. Olafr segir ok, Evphónia verðr þá sem [nú] línúngarstafir eru skiptir í þá stafi, sem fegra hljóða, sem í þessum nöfnum *lækr* ok *ægr* þvíat æ þikkir hvar vitna lýta mál, nema þar sem skynsemi má fyrirgjallda, att þau orð sem þat stendr í dreifaz af þeim orþum, sem á stendr í, sem hèr segir:

því velldr ár at ærir
akr búmanna spakra
æra verðr með árum
undan dólga fundi;
ræða gengr af ráða
rúna systr ólystug
órar dregr af ærum
ýtum skemda flytir.

ok enn segir svâ:

Œle telz þat er ólu
ósnotran mann gotnar
æler vatn þat er álar
allstrángir framhallaz:
heitir lær á læru
læríngar kenníngar
kallaz mær á mæri
mæríng ef gjöf tæriz.
Hætta verðr á hættu
hætíng ef böl rætir
ást er nær at næra
nú er vær konan færi
skemd tekr æðr enn æðaz
æðr deyr þá er br(æðaz).

41. *Lepos* er þat ef rík persóna er merkt margfelldri tölu, ok er þat þá kurteisi, ef sá hefvir ráðuneyti, er till er talat, sem Arnórr qvað:

Yppa ráðum yðra kappi
Jótagramr í kvæði fljótu.

Hèr er konúngsins persóna margföldut, enn ekki heyrir þat at tala svâ til úbreyttra manna, ok er öðruvíss er gört, þá verðr þat solæcismus, sem fyrr segir. Antitósis er umskipti talna eða falla ok tíma með settu endimarki um fullaskipti, sem hèr:

þá er ek leyfi mey mjófa
mær er þín fyrir villd sína,
horn mælti þat horna
hjör-þíngs við börkrínginn.

Hèr er rægiligt fall sett fyrir nefniliga falli. Um talna skipti verðr Antitósis sem hèr:

Sveif fylla ein alla
allz framm jóa glamma.

Hèr stendr þetta nafn *sveit* sem margfallt nafn stýrt af margföldu orði fylla. Um tímaskipti stunda nóg dæmi í Solœcismó, enn ekki er nýjum skálldum fallit at likja eptir slíkum lutum, er til þess eru at eins sett; at skilja fornskállda verka.

42. *Antiteton* verðr ef hin sídaztr orð svara hinum fyrstum, ok verðr hûn á svâ margar leiðir, sem orðum fær skipti vísu, sva at regla sè halldin undir rèttri kveðandi ok standa þesser hættir mest í því sem *stællt* er kveðit eða *Lángbokum*, sem hèr: 1)

Hákon ræðr með heiðan (rógleiks náir ríki
[hefvir drengja vinr fengit remmi-týr at stýra)
(lönd verr buðlúngr brandi (ölld fagnar þí) eignum
breiðfelld) mikit velldi]: orðróm konúngdómi.

Hèr gegnir þessi orð saman: *Hákon ræðr konúngdómi*, er fyrst standa ok síðazt, ok er þessi regla lèttuz af fyrr sagðri figúru, er *Antiteton* heitir. Sú er önnur hennar species ef máli lýkr á þenna hátt í vísu-helmíngi, ok sè tvav mál i vísuorði, sem hèr: 2)

Hákon velldr ok havlldum valld á víðrar folldrar
(harðráðum guð jarðar (vindræfrs-jöfur gjæfu
tiggja lèr með tíri), öðlíngi skóp úngum)
leitr þjóðkonúngs heitit: örlyndi skati gjörla.

Þetta heitir stællt ok er þat hinn feyrsti háttr. Sú er hin þriðja *Species*, er fleiri mál gánga um eina visu enn tvau ok lýkz í síðaztum orðum sem hèr er qveðit:

Olafr kunni blóthús brenna
bráðan hitti Magnúss váða
Haralld frègum vèr hjörleiks milldan

1) *Háttal.* 15. 2) *Háttal.* 12.

hans arfi tók nú við starfa:
dróttar vinr fèkk helverk hættan
hníga rètt á enskri slèttu
sóttum píndr þá er örlög áttjuz
ágjætt fall sá er hlaut til rallar.

Hèr er hið fjórða ok hið fimta vísuord sèr um mál, ok eru fjögur heil mál í þessi visu, sem nú var talt. Sú er hin fjórða species hinnar sömu fígúru, ef tvav mál gánga jamframm um vísu, ok lýkz mál i helmíngi, en þó eitt efni um alla með hinum sömum tveim málum, sem hèr:

| | |
|---|---|
| Haki kraki | veitir neitir |
| boddum broddum | vella pella |
| særði mærði | báli stáli |
| seggi leggi | beittiz heittiz. |

Hèr er hið fyrsta ok hið síðazta orð fjórðúngi saman, ok annat ok hið þriðja; enn mál öll lúkaz i helmíngum, þessa vísu má ok kalla Ana-*tekor*, er fjögur mál gánga um alla vísu ok (eru um) mál saman hin fyrstu vísuorð i báðum helmíngum ok önnur slík ok hin þriðju ok með æinum hætti hin fjórðu:

| | |
|---|---|
| Mætr Hákon vann | lángfeðra láð |
| en Magnúss fann | laug vizku ráð |
| hjörr Eireks hèkk | á rítar slóð |
| hans bróðer gèkk | að refsa þjóð. |

Þessa vísu þarf skamt at færa til hins fyrra háttar:

| | |
|---|---|
| Mætr Hákon vann | Haki Kraki |
| en Magnús fann | Hamdi framdi |
| hjör Eiriks hèkk | geirum eirum |
| hans bróðir gèkk; | gotna flotna |
| at refsa þjóð | breytir neytir |
| à rítar slóð | bodda brodda |
| lög vizku lund | brendiz endiz |
| láng feðra grund. | báli stáli. |

*Antipofora* [1]) er þat, ef maðr svarar þeim lutum sem maðr býzt at kjæra á hann á þingi ok stendr upp búinn að segja framm sökina, enn segir æigi:

þèr get ek, karl! ef þú kiærir
krönk orð búin forðum
fat er vârkunnar vinnur
verðu kyrr ok sit fyrri:
sakir áttu á mèr micklar
munu nær vera hæri
þær sem þ'na aura
þat er hættiligt fætta.

44. *Aclacassis* [2]) er þat, ef maðr setr tvenna; skilnínga gagnstaðliga með einum ordum, sem her:

Mætum stend ek at móti
mansveigjanda æigi
rís ek við Ráuar eisu
runni flærðar kunnum:
því heit ek vist at veita
v'gs drengiligt gengi
þèr heit ek mest at móti
meginstrángliga at gánga.

Hèr er þessi fígúra tvítekin ok sýnd í báðum vísu-helmíngum.

45. *Antimechisa* [3]) verðr ef maðr snýr svâ sem med ordum myrkrar skílníngar, sem hèr er ritat:

Sveit lifrir ill til átu
annlaust þokamanna
er klaustrsbúi kristinn
kallz at lífit halldiz.

þokumenn eru þeir kallaðir er alla penninga sína neyta upp í ofáti ok ofdryckju, ok bera þeir þat nafn, sakir snápskapar síns; þviat þeir sjá æigi sattljós rèttrar framferðar ok lifa at eins til þess at eta, sem í sitjandi myrqvastofn. þokn. Enn síðlátir menn eta

1) *Kanske* αντεπιφορα.
2) *Kannske* αντιτασις.
3) *Kannske* αντιμαχησις.

æigi meira enn svå mikit, at þeir láti æigi af at lífa ok þikkir þessi fígúra mjök skaðsamlig.

46. *Aposiópesis* er viljanlig þrotnan máls sakir hrygðar eða úþykkju, sem hèr er qveðit:

Æigi er vân at ek vâga
viljag byrjar þilju
eigi orða gnóga
em ek reiðr konu leiðaz:
þar er mèr enn frá færum
forðum bænar orðum
sitja verðr ok sýta
sik brúðr hin óprúða.

Hèr eru viljanlíga or vísunni þessi *) orð: *sakir reiðt þokka. Ek vil*, ok í öðrum stað: *kastaði*, ok skal svâ upptaka: *Æigi er vân at ek vilja; þviat ek em reiðr, eiða þá konu orðmaiða, er mér kastaði, þá er ek bað hennar: leiþaz vil ek hana, þo at nú vili hon eiða mik fiti hon ok sýti at skilja sina heimsku.* Þessi fígúra stendr í guðs orðum þeim er hann tular til Júða fyrir fígúru, undir nafni Hjerúsalem-borgar. Evphemismos er gott umskipti stafa í orðinu, sem Davíd setti *exaltat*, sem stendr í þessi vísu:

þat son ok í gröf genginn
grundu huldr til stundar
enn með iðran sannri
öðlíngr til refsíngar
hugþekka mun hlakka
hróðrslúng loftúnga
manna valld hinn milldi
mín rèttvísi þína.

Hèr er sagt at túngan hlakki yfir rèttvísi guðs, þar sem hitt væri alþýðligra at segja at hann hæfi upp guðs oð með túngunni, enn þetta umskipti var gört till þess at setja þat orð er meira þótti vert i stad hins minna.

47. *Sineptesis* er úskaplikt umskipti talna eða skilnínga, sem hèr er qveðit:

Umgarðr hafði . . egefn orðit
undavargs sú er nú eru margir

*) *Min lagf. fyrir* þessor.

neytir skilì þann krók með kjæti
kvensku h . . ft ok lúti eptir:
fyrðum dugir at ósiðr orða
(os vægðu guð) jafnan lægðiz
var-a þó hann í vatni skíru
verka sekt ok píslar merki.

Hèr er bæði skipt tölum ok skilníngum, ok er þessi fígúra með öllu ekki í vana dragandi, þó at persónúm finniz skipt í Salltara ok öðrum heilögum bókum.

48. *Onopomenon* segir eða l . . fir storar sögur með fám orðum sem hèr:

Beraz lèt frá mey mætri
mætr folld-sula-gjætir
umsniðníng tók andnu
einn veitandi hreinnar:
áðr skatna vanr vatni
vatnskírn jöfurs batnat
fastandi bar freistri
friðar-kennari þrenna.

Píndr reis upp með anda
ángrleystu herfángi
hlýrna gramr til himna
heimsótti guð drottinn
sendi ástar-anda
allzhirðandi virðum
svá kemr drótt at dæma
dauða lífs á á hauðri.

Hèr er ávarp Theologie fært í tvær dróttkvæðar vísur. Þessi sama fígúra kallaz öðru (nafni) *Barchilogia* ok hefvir (sömu) upprás nafns ok hin fyrri. Sumir meistarar segja at *climax* sè hennar species, sú er um jafnar gráður leiðir hverja málsgrein af annari sem hèr:

Hugsan flýtir lystíng ljóta
lystíng fæðir samþykt skjæða
samþykt fæðir synd ok nauðir
synd spenr á sik illa venju,

ill venja dregr nauzun nóga
nauðsyn leiðir sál í dauða
dauði spillir æði öllu
andar lífs með beisku grandi.

49. *Emophasis* glósar myrkan lut með öðrum jammyrkum lut eðr myrkara, sem hèr:

Sæll er senn í milli
siðvendis kvíkenda
mána ranuz af mönnum
milldíngr sá er burst híngat:

eðr þá er djúp at djúpi
dorgtúns niða borgar
um hljóð raufar háfar
hátt samþyckit ràtta.

Hèr eru orð Abbacuch spámannz þar er hann segir guð drottin sienn milli siðvendis kvikenda, ok í þenna heim komanda, sett í hinn fyrra visu-helmíng, en glósa yfir sett sú er Davið segir undirdjúp vatnanna kalla á annat undirdjúp um þær himinbárur sem katarakte kallaz, ok öpnuðuz er Nóaflóð drekti öllum heimi utan þeim mönnum, sem i örkinni voru. En till þess at þenna myrkleik megi skilja, segir Avgustínus at spámaðrinn sá fyrir at guð mundi holldgaz, ok var sienn milli tveggja kvikenda uxa ok asna er merkja Júða ok heiðingja í milli Móysi ok Helie í mynd skiptingar vârs herra á fjallinu, ok milli tveggju *latróna* með sèr krossfestum, ok at lyktum milli tveggju lögmala: ok þessi tvav lögmál eð forna ok hið nýja kallar Leó pávi hinn málsnjalli tvenn vatnadjúp, þau er annat er yfir himnum enn annat undir himnum, ok Davið segir at ákallaz med röddum Cataractarum; þat er himinraufanna þeirra, sem vötnin sendu til jarðar í floðinu Nóa, ok merki þær höfuðfeðr ok spámenn postola ok predikara, þá er himnesk vötn heilagrar prèdicanar senda á jörðina, til þess at fyrirkoma guðs úvinum, þat er löstum ok lýtum, ok at döggva hjörtu rjettrúaðra manna með regni heilasamrar kenníngar, ok er sá at sönnu sienn sjálfr sannleikrinn, þat er sjálfr guð milli kvikenda siðvendis er hið forna lögmál framsagt forðum af þeim feðrum, sem voru fyrir híngatburð guðs sonar svâ sem af himni runnin vötn, er fram eru borin milli manna þeirra sem siðvörd kvikendi ætti at vera í heilagri kirkju ok samþykkjanda nýju lögmáli fagrliga framflutt ok útkýrð með guðzpjallegri kening ok af posto-

ligum röksemdum fyrir prèdicara nýss lögmáls. Birtiz þá fullkomit samþykki lögmálanna, þat er þau hafa sín ámilli ef fram eru bornar spásögur heilagra feðra um getnað ok híngat burð, prèdican pínsl ok dauða, upprisu, uppstígníng vârs herra ok ástgjöf heilags anda, ok hinn efzta dóm ok eylíft líf, er í móti beraz vitni af nýju lögmáli, ok nær öll þessi stórmerki eru frammkomin, en þau sem uorðin eru munu án áfa frammkoma.

50. *Epimanon* er sú fígúra, er hit sama orð er optari enn um sinn sett, annat tveggja till þess, at úruggligarr megi skiljaz þat sem flutt er, sem viða má finna í theologia, ella er hið samma orð fyrir fegrðar sakir aptarr sett, sem í dunhendu eðr i ðurmælltum hætti verðr þat stundum í upphafi, sem í greppaminni, en stundum í miðju eða í enda, ok má þat kalla háttaföll eptir fornum skálldskapar hætti, en sama nýta, er vill ok likja en hin únýta er þat vill.

I upphafi sem hèr:

Ek em synda bót ek birti sál
ok sæmdar hót ek bæti mál.

I miðju sem hèr:

þar er ekki illt fæz ekki öngt
ok ekki villt ekki þröngt.

I enda sem hèr:

þar er úmællt valld þar er allgjört valld
ok ágjætt valld, ok eylíft valld.

þessi fígúra sýniz í upphafi ok í enda sem hèr:

Ek bleza þik, ek fæ fyrir þik
ek bið fyrir þik ek frelsa þik.

51. *Antopazia* er sú fígúra, ef 2 lutir eru sva bunnir ok samþykkir, at þat megi segjaz, annarr gjöra sem

annar gjörir, á þá lund sem túnga er köllut samþykk hjarta.

Máni skínn af mæri [1])
molldar hofs um folldir
alla stund meðan endiz
æfi landz ok sævar:
veit ek fèlaga fljótum
fróns prýði vel þióna,
þeim vitn æigi ýtar
auðit lífs nè dauða.

Hèr er túnglinu kent embætti sólarennar at skina jafnliga á jörðina, fyrir þí er þat hefir ekki ljós af sèr, helldr af sólinni, ok er dökt þeim megin, sem frá henni horfer; enn þá syniz þat hálft bjart er þat hefrir svâ lángt gengit frá sólinni eða á svá lángt til hennar, at þat sè þá í suðri, eða norðri, er hon er í austri eða vestri.

52. *Antrópus patos* er sú fígúra, er þat er kent guddóminum, sem manndómsins er, sem þat at hann standi, siti, gángi, reiðiz, gleðiz, elski, sýti, sem hèr er qveiðit:

Adam sá þann allt í heimi
orði skóp í göngu forðum
þenna kendi Stephanus standa
stórum vitr ok Spámenn sitja
reiði tala hans bækr sem blíðu
brögnum jafnt sem hrygð ok fögnuð
ástargnótt með öðrum háttum
ýtakyns þeim er guddóm lýta.

En staðligar hræringar ok líkamligt tilfelli meyn með fígúru, enn æigi með sann leik til guðs talaz ok er þá sem guð gángi frá oss ef vèr göngum frá hönum fyrir afbrigð hans boðorða; enn til vâr þá er vèr krjúpum til hans með iðran undir hans miskunn. Staða hans er vâr staða í góðu eða búið fullting í nauzynjum Seta hans er dæming um fólksins verð-

1) *Lagf. Gunnars O. S. fyrir* mædu *O.*

leika, þvíat dómarans er at sitja. Reiði hans er refsíng sú er hann leggr (á) illvirki mannfólksins. Gleði hans er gjæzka vâr. Svefn hans er kallaðr þat er vèr sofum með svefni dauðligra synda, ok vaknan hans er þat, er vèr vöknum við sjálfu oss. Sýtíng hans er þat, ef hann gefr oss at elska sik; svâ at þarfyrir gefi hann oss þá giptu, at vèr hjálpimz fyrir hans miskunn. Hefvir sjá fígúra nafn tekit af *Antropos* gærzku nafni þi, sem *maðr* er á vâra túnga yk *pasis*, þat er setníng, svâ sem vèr setjum guði mannliga reglu um hræríng ok aðra luti, svâ sem þeir villumenn er *Antropoformite* heita, er guði ætla mannliga limu, sakir einnfelldi eða fátækleiks eiginligs skilníngs, ok skilja æigi at guð er óskiptiligr ok óbrugðligr, hvervitna nálægr, æigi með staðligri, nálægð helðr með almætti einum saman.

53 *Simatrismos* er sú fígúra, er lof eða lestir eru samanlesnir í einum kapituló ok klausa eða versi í látínu, en með einni vísu eða með fleirum i Norrænu, sem hèr:

Âbels lofar æfi
ómeinsemi hreina
ölld lofar Enoch milldan
einkend siða vendin
Nóe lofaz öflugs æfvi
ágjætu hreinfæti
Seem lofar fært til fremdar
fornar halld um alldir.

Trúa

Trúa lofar Abrams ærvi
Ysach lofar vísan
vân lofar Jacobs æinum
ástsemd hugar fremdum:
skýrr lofar Jósephs æfvi
úrskurðr fyrirburðar,
guðs lofar ætt ok æfi
Aarons göfug þjónan.

Móysen lofar ljósan
lagamál hið brennfagra,
þik lofar allr með öllu
allz heims jöfurr heima.

Slíkt er þessi fígúra samanlestr lasta.

54. *Therethema* er sú fígúra, er opt er spurt af hinum sama lut ok andsvarat eptir sama hætti, sem hèr:

Hverr deyr? hjarðar stýrir!
hví? fyrir sauða lífi!
hversu? hèck á krossi!
hvar? þar er Lazarus jarðaz!
hvenær? helldz at nóni,
hverir knúðu að? Júðar;
hver nýtr? heiðni bötnuð.
hvat gelldr? djöfuls velldi.

Hèr eru mál í vísu, ok er jafnan spurt ok svarat í vísu orði. Má ok þessi fígúra vera með minnr þröngdum spurníngum.

Hverr fèll? Hörða stiller
hvar? þar er karlfólk barðiz
hvenær? hneig at nóni
hverr var sök? öfund vöknuð
hverr vâ? hèllt Kálfr darri.
hver èr bendu slíks? þrændir
hvat nýtr? heilsa bötnut
hvat sýtir? fíra lýti.

## VIÐBÆTIR ÚTGEFARANS.

### 1. *Um Brísinga-men.*

(*Ur Olafs Tryggvasonar sögu 2:umparti,* 17. *Kap.*)

Fyrir austan Vanakvísl í Asía var kallat Asaland eða Asaheimr, enn þat fólk var kallat Æsir, er þar bygðo, en Höfuðborgina kölluðu þeir Asgarð. Oðinn var þar nemndr konúngr yfir, var þar blótstaðr mikill. Njörð ok Frey setti Oðinn blótgoða, dóttir Njarðar hèt Freyja, hûn fylgdi Odni oc var fridla hans. Menn þeir voru í Asía, er einn hèt Alfrig, annar Dvalinn, þriði Berlingr, fjórði Grèr þeir áttu heima skamt frá konúngs höll, þeir voru menn svâ hagir at þeir lögðu alt á geörva hönd; þesshàttar menn sem þeir voru, kölluðu menn dverga. þeir bygðo stein einn, þeir blönduðust þá meirra við mannfólk enn nú. Oðinn unni mikit Freyju, enda var hûn allra kvenna fríðust í þann tíma. Hûn átti sèr eina skemmu, er var bæði fögr oc sterk, svâ at þat segja menn, ef hurðin var læst, at eingi mátti komast í skemmuna án vilja Freyjo. þat var einn dag er Freyju varð geingit til steinsins, hann var þá opinn, oc voru dvergarnir at smíða eitt gullmen, þat var þá mjök fullgört. Freyju leizt vel á menit, dvergunum leizt oc vel á Freyju, hûn falaði menit

at dvergunum, bauð í móti gull oc silfur oc aðra góða gripi, þeir kváðust ecki fèþurfi, sagðist hvör vilja seálfr sinn part selea í meninu, oc ecki annat fyrir hafa, enn hûn lægi sína nótt hjá hvörjum þeirra; oc hvört sem hûn lèt at þessu komast betr eða verr, þá keypto þau þessu, ok at liðnum fjórum nóttum oc endtum öllum skildaga, afhendtu þeir Freyju menit, fer hûn heim í skemmu sína, oc lèt kyrt yfir sèr, sem ecki hefði í-orðit.

Maðr hèt Farbauti, hann var karl einn, oc átt sèr kerlíng, þá er Laufey er nemnd, hûn var bæði mjó oc auðþreiflig, því var hûn Nál kölluð, þau átto einn sun barna; sjá var Loki nemndr, hann var ecki mikill vöxtum, orðskár var hann snimma oc skeótligr, í bragði. Hann hafði frammyfir alla menn vizko þá er slægð heitir, hann var mjök kyndugr þegar á únga aldri; því var hann kallaðr Loki læ-víss. Hann rèðst til Oðins í Asgarði oc görðist hans maðr, Oðinn mælti hvervetna eptir honum hvað sem hann tók til, enda lagði hann opt stórar þrautir fyrir hann, oc leysti hann þær allar vânom betr af hendi, hann varð oc náliga alls víss þess er viðbar, sagði hann oc alt Oðni, er hann vissi. Þat er sagt at Loki varð víss er Freyja hafði fengit menit, oc svâ hvat er hûn hafði ímóti gefit, sagði hann þetta Oðni, enn er Oðinn var þessa víss, sagði hann at Loki skyldi ná menino oc fá sèr. Loki kvað þat úvænligt sakir þess at engi maðr má kvamast í skemmuna fyrir utan vilea Freyjo. Oðinn sagði at hann skyldi fara verða, oc ei aptr kvama, fyrr enn hann

hefði náð menino. Loki sneri þá í brott æpandi, flestir vurðo við þat kátir at Loka gèck lítt *) til. Hann geingr til skemmo Freyjo, oc var hûn læst, hann leitaði við inn at kvamast oc gat ei. Kulda veðr var úti mikit oc tók hânom fast at kólna; hann varð þá at einni flugu, hann flöckti þá um alla lása, oc með öllom fellom, oc gat hvörgi lopt fundit, svâ at hann mætti inn kvamast. Uppi alt heá bustinni, oc þó ei meiri boru fann hann, enn sem stíng a mætti í nál, þá bóru bograr hann inn, enn er hann kvam inn varð hann flenneygðr mjök, oc hugði at ef nockrir vekti, enn hann gat þat sèð at alt svaf í skemmunni. Hann sèr þá innar at sænginni Freyjo, oc skynear þá at hûn hefr menit á hálsi sèr, oc at nistin horfði niðr á Loki verðr þá at einni fló, hann sezt á kinn Freyjo, oc höggr svâ at hûn vaknar oc snerist við oc sofnar aptr. Þá dregr Loki af sèr flóar haminn, oc lockar **) af henni menit, lýkr þá upp skemmunni fer burt oc færir Oðni. Freyja vaknar um morguninn, ok sèr at opnar eru dyrnar, enn ecki brotnar enn menit var í brott hið góða, hûn þykist nú vita hvör brögð muni í vera, geingr nú inn í höllína þegar hûn er klædd, ok at Oðni konúngi, ok talar um at hann hafi illa látit göra, at stela frá henni góðgrip hennar, oc biðr hann fá sèr aptr góðgrip sinn. Oðinn segir at hûn skyli þat aldrei fá, því svâ at eins hafi hûn at því komizt "nema þú orkir því, at þeir kóngar 2, at 20 kóngar þjóni hvörjum, verði missáttir oc berist með þeim álögum oc at-

*) *Kannske* illt.    **) *Kannske rettara* leysir.

kvæðum at þeir skulu jamnskjótt uppstanda oc berjast sem þeir áðr falla, utan nockur maðr kristinn verði svâ röskr oc hânom fylgi svâ mikil-gipta síns lánardrottins, at hann þori at gánga til bardaga þessa oc vega með vâpnum þessa menn: þá skal hið fyrsta þeirra þraut lyktast, hvörjum höfðíngja sem þat verðr lagit at leysa þá svâ or ánauð oc erfiði sinna fárligra framferða. Freyja játti því oc tók við menino.

*Hèr eptir kemr sagan um þá Heðin og Högna, (sjá bls. 163.) og hvörnig þeir börðust allt þar til Ivar ljómi liðsmaðr Olafs Tryggvasonar kom til, og drap þá alla. Ecki kemr þó þessi saga fullkomliga saman við Eddu og Skáldu, því þar segist Heimdallr hafa sókt menit aptr (bls. 105) enn Hjaðningar segjast skulu bíða Ragnaröckurs (bls. 163). Þar sèst ecki heldr neitt samheingi á meðal þessara sagna.*

---

## 2. UM FORNJÓT OG HANS ÆTT.

*(Utskrifað úr Flateyjarbókinni í Kaupmannahöfn skrifað 1387.)*

### *Hversu Noregr byggðiz.*

Nú skal segja dæmi til hversu Noregr byggðiz í fyrstu, eðr hversu Konúnga ættir höfuz þar eðr í öðrum lavnd–

um, eðr hví þeirheita skjöldúngar, buðlúngar, bragnní-gar, öðlíngar, vavlsúngar, eðr niflúngar sem Konúnga ættirnar eru afkomnar. Fornjótr hèt maðr. hann átti 3 sonu: var einn Hlèr, annar Logi, þriði Kári, hann rèð fyrir vindum, enn Logi fyrir elldi, Hljer fyrir sjó. Kári var faðir Jökuls favður Snærs konúngs, enn baurn Snærs konúngs voro þau þorri, Favnn, Drífa ok Mjöll. þorri var konúngr ágætr, hann rèð fyrir Gottlandi *), ok Finnlandi, hann blótuðu köner [1]) til þess at snjófa gerði oc væri skíðfæri gott; þat er ár þeirra. þat blót skylldi vera á miðjum vetri, oc var þaðan af kallaðr þorra-mánaðr. þorri konúngr átti 3 börn: synir hans hètu: Norr ok Gorr, enn Gói dóttir. Gói hvarf á brott ok gerði þorri blót mánaði síðarr enn hann var vanr at blóta, ok kavlluðu þeir síðan þann mánað er þá hófz gói. þeir Norr ok Gorr leituðu systur sinnar: Norr átti bardaga stóra, fyrir vestan kjölu, ok fèllu fyrir hönum þeir konúngar er svâ heita: Vee ok Vei, Hundíngr og Hemíngr, ok lagði Norr þat land undir sik allt til sjófar. þeir bræðr funduz í þeim firði er nú er kallaðr Nora-fjörðr. Norr fór þaðan uppá Kjölu, ok kom þar sem heita Ulfa-móar, þaðan fór hann um Eystri-dali ok síþan í Vermaland, ok með vatni því er Vænir heitir, ok svâ til sjófar. þetta land allt lagði Norr undir sik allt fyrir vestan þessi takmörk. þetta land er nú kallaðr Noregr. at miðjum vetri komu þeir í Heiðmörk, þar var sá konúngr fyrir, er

---

*) Könlandi 1) þ. e. Qvenland, Qvenir, *þer bjuggu ádr þar sem nú heitir Helsingjaland, edr Nordrlönd i Síaríki.*

Rólfr í bergi hèt, hann var sun Svaða Jötuns norðan af Dofrum ok Ashilldar dóttur Eystins konúngs, er leingi hafði ráðit fyrir (Heiðmörk). Rólfr í bergi hafði tekit Gói ok gèngit at eiga hana; enn er hon spurði til Nors bróþur síns, þá fór hon ímot honum ok þau Rólfr, ok gaf hann sik upp í valld Nors, ok gerðizt hans maðr, eptir þat fór Norr til veizlu til mágs síns ok fèkk Norr Hödda dóttur Svaða Jötuns, systur Rólfs, Eptir þat fór Norr konúngr vestr aptr til sjófar ok þá hitti hann Gor bróður sinn, hann var þá kominn norðan or dauða hafi [1]) ok hafði unnit eyjar allar á þeirri leið bæði bygðar ok úbygðar. Þá skiptu þeir bræðr ríkinu með sèr svâ at Norr skylldi hafa meginland allt norðan frá Jötunheimum ok suðr til Alfheima. Þat heitir nú Noregr, enn Gorr skylldi hafa eyjar allar, þær er lágu á bak-borða elliða, þess er hann færði norðan með landi. Þeir voro synir Gors sækonúngs Beiti ok Heiti, Meitir ok Geitir. Beitir sækonúngr fór með elliða inn í Þrándheim ok inn í beitsjó [2]), hann lèt gera skipsleða undir elliðann, enn snjór var mikill ok sleðfæri gott. Þá settiz Beitir í lyptíng, ok lagði stýri í lag, ok lèt draga upp segl, ok lèt menn sína draga elliðann norðr um Elliða-eið til Naumudals, ok eignaði sèr land allt, þat er lá á bakborða. Beiti sækonúngr var faðir Heita sækonúngs, favður Svaða, enn Geitir var faðir Glamra ok Gylfa. Meiti sækonúngr var faðir Mæfils ok Myndels,

1) *Nær því afmád, enn finnst í ödrum godum afskriftum, rèttara mun þó* Dumbshaf. 2) Bejtis-sjó (?).

Myndill var faðir Eckils ok Skeckils. Norr var faðir þessarra manna, enn Hödd dóttir Svaða móðir Þrándar ok Garðz er kallaðr var agðe: enn er þeir skiptu arfi þá hlaut Þrándr Þrándheim, ok heitir því svâ. Garðr agðe var faðir þeirra er svâ heita: Hörðr, Rugálfr, Þrymr, Vegarðr, Freygarðr, Þórgarðr ok Grjótgarðr. Hörðr laut Hörðaland or skipti, hans son var Jöfurr eðr Josurr faðir Hjörs konúngs, föður Hjörleifs hins kvennsama. Rugálfr átti Rogaland, hans son var Rögnvaldr faþir Avgvalldz konúngs. Þrymr átti Agðir, hans son var Agði ok Agnar faðir Ketils Þryms, er bú átti í Þrumu. Vegarðr átti Sygnafylki, hann var faðir Veðrorms, favður Vemundar hins gamla, er Sygne trauste kallaðiz. Freygarðr átte Fjörðu ok Fjaler; hans synir voro þeir Freysteinn gamli, er bú átti á Gaulum, ok Freybjörn faðir Auðbjarnar favður Arinbjarnar fyrða Jarls, Þórgarðr átti Sundmæri, hans sun var Þorviðr faðir Arnviðar treserkja bana [1]) fauður þeirra Slæviðar ok Bráviðar. Grjótgarðr átti Norðmæri, hans sonr var Salgarðr faðir Grjótgarðz föður Sölfa föður Högna í Njarðey, favður Sölfa víkings ok Hilldar hinnar mjófu, er átti Hjörleifr hinn Kvennsami. Kálfr berserkr var þeirra son, annar son Grjótgarðz var Sigarr faðir Sygnyjar, er átti Haralldr naumdæla Jarl, faðir Herlaugs, favður Grjótgarðz, favður Hákonar Jarls, favður Sigurðar Jarls, favður Hákonar Hlaða-jarls. Raumr sonr Nors konúngs tók

1) *Kannske* berserkjabana.

tók ríki eftir feðr sinn, hann átti Alfheima ok svo vítt ríki sem ár þær falla, er þar spretta upp, þaðan fellr Lögrinn austan um dal í Mjórs enn þaðan Vermá í Raum-elfvi enn hon til sjófar, af Vermá fellr Raumá ofan eftir Raumsdal, af Vermá fellr Eystri-elfr um Eystridali, ok í Væni enn þaðan Gautelfr til sjófar. Raumr konúngr átti samdryckju um jól við Bergfinn, son Þryms Jötuns af Verm-á ok geck þá í reckju Bergdýsar systur hans, ok eptir þat gat hon 3 sonu: Björn [1], Brand ok Álf, hann fóstraði Bergfinnr, ok var kallaðr Finnálfr. Björn var með móður sinni ok var kallaðr Jötunbjörn, Brand sendi hon Rauma favður hans, enn hann gaf hann guðunum, ok var hann kallaðr Guðbrandr. Honum gaf Raumr konúngr dali þá er Guðbrandzdalir heita, Jötunbyrni gaf hann Raumsdal, enn Alfi Eystri-dali. ok allt fyrir norðan Væni, ok frá Gautelfi ok norðr til Raumelfar, þar voro þá kallaðir Alfheimar. Guðbrandr dala-konúngr var faðir Auðleifs föður Guðmundar konúngs; hans sonr var Guðbrandr, er ei villdi láta kalla sik konúng ok lèt gefa sèr jarlsnafn fyrir því at hann villdi vera ríkazstr jarl á norðrlaundum, hans sun var Geirmundr jarl faðir Róðgeirs jarls favður Guðbrandz, er ej villdi vera konúngr nè jarl, ok lèt gefa sèr hersis nafn ok rèð þó lavndum sem konúngr, ok at eingu var hann óríkari, hans allir ættmenn voro síþan hersar. Jöt-



---

1) Alfbjörn *stendr ad sönnu í Flateyjar bókinni þá er Alf med seinnihendi og mun þat efalaust rángt.*

unbjörn hinn gamli var faðir Raums konúngs, föður Hrossbjarnar, favður Orms skiljamola, favður Knattar, föður þeirra þórólfs hálma 1) ok Ketils Raums. Synir þórólfs voro þeir Helgi faðir Bersa, favður þormóðs, favður þorlaugar, móður Túnguoddz. Finnálfr hinn gamli fèck Svanhilldar er kölluð var Gullfjöðr, hon var dóttir Dags Dellíngs sunar ok Sólar, dottur Mundilfara, 2) sonr þeirra var Suanr hinn rauði faðir, Sæfara, fauður Ulfs, fauður Álfs 3), favður þeirra Ingimundar ok Eysteins. Raumr hinn gamli fèck síðan dóttur Guðrauðar hins gamla, sonar Sölva konúngs, er fyrstr ruddi þar sem nú heita Sóleyjar, enn synir hans voro þeir Guðröðr, Haukr 4), Haddíngr ok Hríngr. Guðröðr var konúngr eftir feðr sinn, ok konúngar voro allir hans ættmenn: Eysteinn illráði var hans sonr, hann setti Innþrændum hund sinn fyrir konúng er Saurr hèt, fyrir þat er þeir höfðu drepit Avnund son hans, er hann hafði þar sett til landzgæszlu.

## *Ættartala frá Hauðe.*

Hauðr átti þar ríki er kallat er Haðaland, hans sun var Hoddbroddr faðir Rólfs, favður Rómunðar berserks, favður þeirra Hamundar, Haka ok Gunhladar, móður þeirra Útsteins ok Innsteins. Hámundr var Hörda-jarl, hann var faðir Hróks hins svarta ok Hróks hins huíta. Haki var faðir Hróðgeirs favður Hróðmars, favður Haka berserks. Gunnlavð var

---

1) *máske* Stalma. *Finnr Magnússon* 2) *En exemplum historiæ fabulis mythologicis mixtæ, sic in cæteris Finnr M.*
3) *Sjá Hyndluljód* 12. 4) *á ok vera Haufłr, F. M.*

dóttir Hróks hins svarta enn móðir Hrómundar Grips sunar. — Haddíngr sun Rauma átti Haddíngjadal ok þelamörk, hans sun var Haddingr, faðir Haddíngs, faðir högna ens rauða; eftir hann tóko riki Haddíngjar 5, ok var hver þeirra eftir annann Helgi Haddíngja-skati var meðr einum þeirra. Hríngr konúngr sun Rauma átti Hrínga-Ríki ok Valldres, hann fèck dóttur Vifils sækonúngs. þeirra sun var Hálfðan gamli *), ok þá er hann tók konúngdóm gerði hann blót mikit at miðjum vetri, ok blótaði til þess at hann skylldi mega lifa 500 vetra í konúngdómi sínum, sem sagt var at lifat hefði Snærr hinn gamli: enn frèttin sagði honum svâ at hann mundi lifa ecki meirr enn einn mannz alldr, enn þat mundi vera 500 vetra [1]) at eingi mundi vera útígin maðr í hans ætt ok eingi kona. Hann var hermaðr mikill ok herjaði viða um Austrveg. þar drap hann þann konúng er Sigtryggr hèt, í einvígi, hann geck at eiga Álfnýju dóttur Eymundar konúngs or Hólmgarði. þau áttu 9 sonu, hèt einn þeingill er kallaðr var manna-þeingill [2]), Ræsir, Gramr, Gylfi, Hilmir, Jöfur, Tiggi, Skyli ok Harri: þessir 9 er sagt at allir væri jafngamlir ok urðu svâ ágæter at í öllum fræðum eru þeirra nöfn höfð fyrir tignar navfn ok konúnga nöfn. Svâ er sagt at engi þeirra átti börn, ok fèllu allir sen [3]) í orrosto. Enn áttu þau adra 9 sonu: hètu þeir Hilldir, Næfill, Auði, Skelfir, Dagr, Bragi, Buðli, Lofði, Sigarr. Hilldir, Sigarr ok Lofði voro

---

*) *Sjá Skáldu 64 bls.* 190. 1) *Hèr hefi èg útstrikad* ok, *sem mundi spilla meiningunni.* 2) *Min lagf. fyrir* Mardengill.
3) *Kannske* saman.

allir herkonúngar, Auði, Budle ok Næfill voro sæ-konúngar, Dagr, Skelfir ok Bragi sátu at lavndum. Dagr [1]) átti Þóru dreingja-móður, ok áttu þau 9 sonu: hèt einn Ali, annarr ámr, 3 Jöfur, fjórði Arngrímr. Ali var faðir Dags favður Oleifs, favður Hríngs, favður Oláfs, favður Helga, favður Sigurðar hjartar, favður Ragnhilldar, móður Haralldz hins hárfagra, sú ætt Haralldz var kölluð Döglíngar. Arngrímr átti Eyfuru, þeirra sun var Angantýr berserkr. Bragi gamli var konúngr a Valldresi, hann var faðir Agnars, favður Alfs, favður Eireks, favður Hilldar, móður Hálfdanar ens millda, favður Gudravðar, favður Hálfdanar svárta, favður Haralldz hins hárfagra, þessi ætt Haralldz heita bragníngar. Skelfir var konúngr á Vavrs, hanns sun var Skjölldr, faðir Eireks favðr álfreks, favður Eireks hins málspaka, favður Alreks hins frækna, favður Vikars, favður Vatnars, favður þeirra Imalldz ok Eireks, favður Gyðu er átti Haralldr hinn hárfagri, þat heitir Skilfínga ætt eðr Skjölldúnga ætt. Hilldir var hinn 5 sun Dags, hann var faðir Hilldibrandz, favður Vígbrandz, favður Hilldis ok Herbrandz, favður Haralldz ens grænska favður Asu hinnar stórráðu, móður Hálfdanar svarta, favður Haralldz hins hárfagra. Sigarr var faðir Siggeirs, er átti Signýju dóttur Vaulsúngs konúngs. Sigarr var ok faðir Sigmundar er átti Hilldi dóttur Grjótgarðz konúngs af Mæri, hanns sun hèt Sigarr faðir Signýjar, hann lèt heingja Hagbarð, þat heitir

1) *Sjá Hyndluljóð.*

Siklínga ætt. Lofði var konúngr mikill, þat herlið er honum fylgði eru Lofðar kallaðir. Hann heriaði á Reiðgotaland, ok varð þar konúngr, hans synir voro þeir Skeckill sækonúngr ok Skyli, faðir Egðis; favður Hjálmþiers, favður Eylíma, favður Hjördisar, móður Sigurðar Fáfnisbana, favður Aslaugar móður Sigurðar orms-í-auga, favður Aslaugar, móður Sigurðar hjartar, favður Ragnhilldar, móður Haralldz hins hárfagra, þessir ættmenn Haralldz eru kallaðir Lofðúngar. Auði ok Buðli voro sækonúngar, ok fóro báðir saman meðr her sinn. Þeir komu meðr liði sinu til Saxlandz, ok herjudu þar viða, lögðu undir sik Valland ok Saxland, settuz þar at lavndom. Auði hafði Valland, ok var faðir Fróða favður Kárs favdur Avðrúnar [1]), þeir eru kallaðir Avðlíngar. Buðli hafði Saxland, hann var faðir Attils, favður Vífils, favður Læfua, favður Buðla, favður Savrla eðr Serla, ok Atla ok Brynhilldar, móður Aslaugar, ok er sú ætt Haralldz hins hárfagra kölluð Buðlúngar. — Næfuill konúngr var faðir Heimars, favður Eynefs, favður Rakn, favður Gjúka, favður þeirra Gunnars ok Havgna, Guðrúnar, Guðnýjar ok Gullrandar, ok er þat kavlluð Niflúnga ætt. Nú eru taldar konur, þær er fyst komu í ætt Hálfdanar gamla, enn þá er hin fysta kona kom í ættina var liðit ccc vetra frá blótinu, er Hálfdan blótaði til alldrs sèr ok ríkis.

## *Ættartala.*

Alfr konúngr hinn gamli rèð fyrir Alfheimum

---

1) *Sjá Völundarq.* 4, 15.

hann var faðir Alfgeirs, favður Gandálfs, favður Alfhilldar. Alfhilldr var móðir Ragnars loðbrókar, favður Sigurðar orms-í-auga, favður Aslaugar, móður Sigurðar hjartar, favður Ragnhilldar, móður Haralldz hins hárfagra. Haralldr hinn gamli sun Valldars hins millda Hróars sunar atti Heruavru Heiðreks dóttur konúngs, þeirra sun var Hálfdan snjalli faðir Iuars víðtaðma, favður Auðar innar djúpauðgu, hana átti Hrærekr slaunguanbaugi, þeirra sun var Haralldr hilldítavnn, síðarr átti Auði Ráðbarðr konúngr, þeirra sun var Randuer, faðir Sigurðar Ríngs, faðir Ragnars loðbrókar, favður Sigurðar, favður Aslaugar, móður Sigurðar, favður Ragnhilldar, móður Haralldz hins hárfagra, er fystr var einvalldz konúngr yfir noregi.

## *Ættartala Haralldz frá Odni.*

Borri hefir konúngur heitið, er réð fyrir Tyrklandi, hanns sun var Burr, er var faðir Oðins, ásakonúngs, favður Freyrs, favður Njarðar, favður Freyrs, favður Fjölnis, favður Sueigðis, favður Vandlanda, favður Visburs, favður Dómallda, favður Dómars, favður Dygua, er vèr köllum Tryggua, favður Dags, favður Agna skjálfarbónda, favður Alreks, favður Yngva, favður Jormunfróða, er vèr köllum Jörund, favður Ana ens gamla, er vèr kavllum Avn, er 9 vetr drack horn fyrir elli sakir, áðr hann dó. Avn var faðir Eigils Tunnadólgs, favður Ottars vandilskráku, favður Adils at Uppsölum, favður Eysteins, favður Ynguars hins hára, favður Brautavnundar,

favður Ingjalldz ens illráda, favður Olafs trètelgju, favður Hálfdanar hvítbeins, favður Eysteins, favður Hálfdanar ens millda ok matarilla, favður Guðravðar veiði-konúngs, favður Hálldanar svarta, favður Haralldz hins hárfagra.

## *Ættartal.*

Skjölldr hèt sun Oðins ása-konúngs. Hann var faðir Friðleifs, favður frið-Fróða, favður Friðleifs, favður Háuardz ens handramma, favður Fróða, favður Vermundar ens vitra, favður Olafs ens lítilláta, favður Dans ens mikilláta, favður Fróða ens friðsama, favður Friðleifs, favður Fróða ens frækna, favður Ingjalldz Starkaðar-fóstra, favður Hræreks hnavguanbauga, favður Hálfdanar, favður Hræreks slaunguanbauga, favður Haralldz hilditannar, bróðir Haralldz var Randuer faðir Sigurðar hríngs, er þá slík ættartala til Haralldz konúngs hárfagra sem fyrr segir.

## *Ætt Haralldz frá Adami.*

Adam skapaði guð fyrst allra manna, Seth var sun hanns, hanns sun Enós, hanns sun Kaynán, hanns sun Malaleel, hanns sun Phareth, hanns sun Enoch, hanns sun Mathúsalem hinn gamle, hanns sun Lámech, þá var úti enn fysti heimsalldr, hanns sun var Nóe er avrkina smiðaði, hanns sun Japhet, hanns sun Japhan, hanns sun Zechun, hanns sun Cíprus, hanns sun Cretus edr Telius, hanns sun Saturnus í Krít, hans sun Júpiter, hanns sun Daríus, hans sun Erithonius, hanns sun Tróes, hanns sun Ilus, hanns sun Lamidón,

hanns sun Príamus höfuð-konúngr. Munnon edr Mennon hèt konúngr í Trójo, han átti Tróánam dóttur Príami konúngs, hanns sun hèt Tror er vèr köllum þór, hanns sun var Loricha, er vèr köllom Hlorída, hanns Eredeí, er vèr köllum Eindriða, hanns sun Vingiþórr, hanns sun Vinginer, hanns sun Móði, hanns sun Mági er vèr köllum Magna, hanns sun Seseph, hanns sun Bedui, hanns sun Atra, hanns sun Trinán, hanns sun Heremoth, er vèr köllum Hermóð, hanns sun Skjalldin er vèr köllum Skjölld, hanns sun Beaf, er vèr köllum Biar, hanns sun Godólfr, hanns sun Burri, er vèr köllum Finn, hans sun Frjáláfr, er vèr köllum Bors, hanns sun Vóden, er vèr köllum Oðinn, hann var tyrkja-konúngr, hanns sun Skjölldr, hanns sun Friðleifr, hanns sun Friðfróði, hanns sun Herleifr [1]) hanns sun Hávar enn handrammi hanns sun Fróði, hanns sun Vemundr enn vitri, hanns dóttir Olöf, hon var móðir Fróða ens friðsama, hanns sun Friðleifr, hanns sun Fróði enn frækni, hanns sun Hálfdan, hanns sun Hróar, hanns sun Valldar enn milldi, hanns sun Haralldr gamli, hans sun Hálfdan snjalli, hanns sun Iuar víðfaðmi, hanns dóttir Auðr enn djúpauðga, hennar sun Randver, hanns sun Sigurðr hríngr, hanns sun Ragnar loðbrók, hanns sun Sigurðr ormr-í-auga, hanns dóttir Aslaug, hennar sun Sigurðr hjörtr, hanns dóttir Ragnhilldr, hennar sun Haralldr konongur hinn hárfagri. verðr þessi tala

1) Frid *ok* Her *er i þessum tveine nöfnum skrifad yfu linuna þó, eptir utliti med sömu edr annan jafngamallri höndi.*

la einum manni fátt í sjavtughu at meðr-tavldum bæði Aðam ok Haralldi.

## Fundinn Noregr.

Fornjótr hefir konúngr hæitit: hann reð fyrir Jótlandi [1]), er kallat er Finnland ok Kvenland, þat er fyrir austan Hafs-bottnn, þann er geingr fyrir motz vit Gandvík, þat köllum vèr Helsíngjabotn. Fornjotr átti 3 syne, hèt æinn Hler, er vèr köllum Ægi, annar Logi, þridje Kári; hann var faðir Frosta, favður Snærs hins gamla, hanns son hèt þorri, hann átti 2 syne, hèt annar Nor enn annar Gor, dóttir hanns hèt Gói. þorri var blótmaðr mikill, hann hafðe blót á hverju áre at miðjum vetri, þat kölluðu þeir þorrablót, af þvi tók mánaðrinn hæiti. þat var tiðenda æinn vetr at þorra blóti at Gói huarf í brott, ok var hennar læita farit, ok finzst hon æigi, ok er sá mánaðr leið, lèt þorri fá at blóti, ok blóta til þess, er þeir yrðe vísir hvar Gói væri niðrkomin þat kölluðu þeir Gói blót, æinskis urdu þeir vísir um hana at helldr. 3 vetrum siðarr streingdu þeir bræður heit at þeir skylldu hennar leita ok skipta svâ leitinne at Norr skyllde leita um löndinn, enn Gor skyllde leita um útsker ok eyjar ok fór [2]) hann á skipum. Hvârtveggi þeirra bræðra var fjölmennr, hèllt Gor skipum út eptir hafsbotnum, ok suà í Allanz haf. siðan kannar hann viða Svía-sker ok allar

34

---

1) *Mun eiga ad vera Jötunlandi.* 2) *Min lagf. fyrirr* fori.

eyjar er liggja í Eystra sallti, eptir þat í Gautasker ok þaðan til Danmerkr ok kannar þar allar eyiar, hann fann þar frændr sína, þá er komnir voro af Hle hinum gamla or Hlessey ok hèllt hann þá enn fram ferðinne ok spyrr ekki til systur sinnar, enn Norr bróðir hanns beið þess er Snjó lagðe á heiðar, ok skíðfæri gerðe gott; eptir þat for hann af Kvenlandi ok fyrir innan hafsbotninn, ok kuomu þar er þeir menn voro er Lappir heita, þat er ábak Finnmörk, enn Lappir villdu banna þeim yfirför, ok tókzst þar bardagi, ok sá kraptr ok fjölkýnge fylgde þeim Nor at úvinir þeirra urðu at gjallti, þegar þeir heyrðu heróp ok sá vopnum brugðit, ok lögðu Lappir á flótta, en Nor fór þaðan vestr á Kjölu ok var leingi úti, ok svâ at þeir vissu ekki til manna, ok skutu dýr ok fugla til matar sèr, fóro þar til er vötn hnigu til vestrs, austan af fjöllum, þá fara þeir með vötnunum, ok kvomu at sjá, þar var fyrir þeim fjörðr mikill, sem hafsbotn væri, þar voro bygðir miklar ok dalir storir geingu at fyrðinum, þar var safnaðr fyrir þeim, ok rèðu þeir þegar til bardaga við Norr, ok fór þeirra skipti eptir vana, allt fólk fèll þar eða flýðe, enn Nor ok hanns menn geingu yfir sem log [1]) yfir akra, fór Norr um allan fjörðinn ok lagði undir sig, ok geörðizst konúngr yfir þeim hèruðum er þar lágu innann fjarðar. Norr dualdizst þar um sumarit þar til er snjáfaðe á heiðar, þá stefnde hann upp efter dalnum þeim er suðr geingr af firðenum sa fjörðr er nú kallaðr þrándheimr. Suma menn sína lætr hann.

1) *Min lagf. fyrir* lok.

fara hit fremra um Mærina, hann lagðe under sig huar sem hann fór, ok þá er hann kemr suðr yfer fjallit, þat er var fyrir sunnan dalsbotninn, sótti hann suðr eptir dölunum, þar til er hann kom at vatne myklu, er þeir kölluðu Mjörs. Þá snýr hann enn vestr á fjallit þvíat honum var sagt at menn hanns höfðu farit úsigr fyrir konúngi þeim er Sokni hèt, þá kvomu þeir í þat hèrat, er þeir kölluðu Valldres, þaðan fóro þeir til sjófar, ok kvomu í lángan fjörð ok mjófan, er nú heitir Sogn, þar var fundr þeirra Sokna, ok áttu þeir þar orrostu mykla, þvíat Sokna brá ekki við fjölkýngi þeirra, Nor geck fram hart, ok skiptuzst þeir Sokni högum við, þar fèll Sokni ok mart lið hanns.

## *Ferð Nors eptir Noregi at leita systur(sinnar).*

Eptir þat fór Nor í fjörð þann er norðr geingr af Sogne, þar kafðe Sokne fyrir ráðit, er nú heitir Soknadalr, þar dvaldizst Nor leingi, ok heitir þar nú Norafjörðr, þar kom til mótz uið hann Gor bróðir hannz, ok hafðe þá hvorgi þeirra spurt til Gói, Gor hafðe ok undir sig lagt land allt et ytra, er hann hafði sunnan farit, ok þá skiptu þeir löndum með sèr bræðr: hafði Nor meginland allt, ok Gor skal hafva eyjar þær allar er hann fer stjórnföstu skipi mille ok meginnlendz, ok eptir þat fer Nor til Upplanda, ok kom þar sem nú heitir Heiðmörk, þar rèð sá konúngr fyrir, er hèt Hrólfr or bjargi hann var sun Suaða Jötuns norðan af Dofrum. Hrólfr hafðe

numit á brott af Kuenlandi Gói þorra dóttur, hann fór þegar til mótz við Nor ok bauð honum til einuígis. þeir börðuzst leingi, ok varð hvorgi sárr; eptir þat sættuzst þeir, ok fèck Norr systur Hrólfs, enn Hrólfr fèck Gói þaðan sneri Norr aptr norðr til ríkis, þess er hann hafðe undir sig lagt, þat kallaðe hann Norueg rèð hann því ríki meðan hann lifðe, enn synir hanns eptir hann, ok skipta þeir lande með sèr, ok tóku svâ ríki at smæckazst, sem konúngar tóku fjölgazst, ok greinduzst svâ í fylki.

## *Beitir fèck Noregh.*

Gor [1]) hefr ok verit kalladr sækonúngr, hanns synir voro þeir Heiti ok Beiti, þeir voro sækonúngar ok ofstopamenn myklir, þeir geingu mjög á ríki sona Nors, ok áttu þeir margar orrostur ok sigroðuzst ýmsir Beitir lagðe inn í þrándheim ok herjaðe þar, hann lá þar er nu heitir Beitissár, eða Bactisstöd innanuerde ok norðr yfir Æskrueið, þar gánga Naumudalir at norðan, hann settizst í lypting ok hèllt um hjalmvöl [2]) ok eignaðizst land allt þat er var á bakborða ok eru þar margar bygðir. Heitir sun Gors var faðir Sveiða sækonúngs, föður Hálfdanar hins gamla, föður Iuars Upplendinga-jalls, favður Æysteins glumru, föður Rögnvalldz jalls hins ríka ok hins ráðsuinna.

---

1) Nor *i siálfri bokinni er augsyniliga ràngt F. M.*
2) *les* hjálmunvöl.

# Registur

yfir

## *Einkarnöfnin i Snorra-Eddu og Skáldu.*

Guþr-

---

## P. S.

*B. L. Cum Cel. Professori Rask donec librum, quem quantocyus videndum curavimus, typis expressum videret, Holmiæ morari non licuisset, textum, inde a pag. 305, secundum avtographa ejus, ad calcem perducere, amicitia promisit operisque absolvendi cupido. Quod vero ad indicem huncce adtinet, primas tantum ipse, proficiscens, reliquit lineas, quas, coeptis inhaerentes, & quemadmodum Indicem Eddæ Sæmundianæ exaratum videsis, explere conati sumus. Hæc observata voluimus, ne menda, quæ, vel in hac vel in illa parte, animadverteris, Cel. Editori tribuas.*

---

